14 Og Drottenn sagde til Abram/
epter þad Lot var skilenn vid hann: Kiæ-
re/ upplypt þijnum augum/ og lijt þu
fra þeim stad/ hvar þu ert/ moot nord
re/ og moot sudre / og moot austre/
og moot vestre.
15. Þvi allt þad land/ sem þu sier/
þad vil eg gefa þier / og * þijnu af-
spreinge / æfenlega. * C. 12. /7.
C. 15/ 18. C. 17/ 8. C. 24/ 7. C. 26/ 3/ 4.
P. G. 7/ 5.
16. Og eg vil giøra þitt afkvæme
sem dupt a Jørdu/ Kunne nockur telia
dupted a Jørdunne / þa skal og so þitt
afkvæme * teliast. * C. 15/ 5.
1. Kong. 4/ 20.
17. Statt upp/ far i giegnum land
ed/ i þess leingd / og i þess breidd/ þvi
eg vil gefa þier þad.
18. So reyste Abram tialldbwd/ og
kom og bioo i * Mamre lunde / sem er
i Hebron / og bygde þar Drottne eitt
altare. * C. 18/ 1.

## XIV. Capitule.

Abram frelsar Lot / verdur blessadur af Melchisedech.



g þad skiede a þeim døg
um / þegar Amraphel
var konungur i Sinear/
Arioch konungur i Klass
ar / Kedorlaomer kon-
ungur i Elam/ og Thi
deal heidingianna konungur.
2. Ad þeir færdu strijd i moote Be
ra konungenum af Sodoma/ og i moot
Birsa konungenum af Gomorra /
Sineab konungenum af Adma / og
Semeeber konungenum af Zeboim / og
konungenum af Bela/ þad er * Zoar.
* C. 19 / 22.
3. Þesser komu aller til samans til
þeirra Sidders dals/ þad er þad sallta
haf.
4. Tolf ær høfdu þeir þient Ke-
dorlaomer / og þad þrettanda ær voru
þeir frafallner.
5. Og a þvi fioortanda ære kom
Kedorlaomer / og þeir konungar/ sem
voru med honum/ og sloou þa Repha-
ita i Astaroth Karnaim/ og þa Susi-
ta i Am/ og þa Emita i Sauch-Kir-
iathaim /
6. Og Horitana a þeirra fialle /
Seir/ allt til Parans sliettlendes/ sem
er hia eydemørkenne.
7. Þar epter sneru þr/ aptur z ko-
mu til þeirrar uppsprettu Mispat /
þad er Kades/ og sloou þad allt Ama-
lekita land/ og þa Amorita og so/ sem
bioggu i Hazezon Tamar.
8. Þa droo konungurenn af Sodo-
ma wt / og konungurenn af Gomorra/
og konungurenn af Adma / og konung-
urenn af Zeboim / og konungurenn af
Bela/ þad er Zoar/ og hertijgiudu sig
i moot þeim til strijds i þeirra Sidd-
ers dal.
9. J moote Kedorlaomer konungen
um af Elam / og Tideal heidingianna
konunge/ og Amraphel konungenum af
Sinear / og Arioch konungenum af
Klassar: fioorer konungar i moote
fimm.
10. Og Þra Sidders dalur var fullr
af lijm-grøfum/ og konungurenn af So
doma og Gomorra flijdu/ og þeir fiellu
þar/ og þeir sem voru epter/ flijdu upp
a fialled.
11. Og þeir tooku allt þad gots /
sem var i Sodoma og Gomorra / og
allar þeirra vister / og fooru þadann
fra.
12. Og þeir tooku Lot og hanns go-
ts / Abrams brooders son / og fooru
burt/ og hann bioo i Sodoma.
13. Þa kom einn/ sem komst undann/
og kunngiorde Abram * þeim Ebræ-
ska þad/ og hann bioo i Mamre / þeim
Amorita / Escols brooders og Aners
brooders lunde/ og þesser voru i satt-
maala bande vid Abram. * C. 17 / 8.
C. 35/ 37. Ebr. 11/ 13.
14. Þegar Abram * heyrde / ad
hanns brooder var fangenn / þa vopn-
ade

ade han̄ sijna þriu Hundrud og atian sveina/sem voru ablader i hans hwse/ og ellte þa til Dan.

* 1. Sam. 30/ 9. etc.

15. Þar skiptest han̄ yfer þa um̄ nooktena/han̄ og hans sveinar/og sloo þa / og ellte þa til Hoba / sem liggur a þa vinstre sijdu/ vid Damascum.

16. Og færde allt gotzed til baka/ og þar med Lot sin̄ broodur / og hans gotz færde han̄ til baka / og lijka eirnen̄ kvin̄urnar og foolked.

17. Og konunguren̄ af Sodoma gieck wt i moote hønum / epter þad han̄ var komen̄ til baka fra þeim bardaga i moote Kedorlaomer / og þeim konungunum / sem voru med hønum til Save dals / sa er konungsens dalur.

18. Og * Melchisedech/ konungur en̄ af Salem/ wtfærde braud og vijn/ og han̄ var þess hædsta Guds prestur.

* Ps. 110/ 4. Ebr. 7/ 1.

19. Og * blessade han̄/ og sagde: blessadur vere Abram fyrer þeim hædsta Gude sem a Himen og Jørd.

* Ebr. 7/ 6.

20. Og blessadur vere sa hædste Gud / sem gaf þijna fiandmen̄ i þijna hond/ Og han̄ gaf hønum * tijunder af øllu. * Ebr. 7/ 2/ 4/ 6.

21. Og konunguren̄ af Sodoma sagde til Abrams: gief mier foolked/ og tak gotsed til þijn.

22. Og Abram sagde til konungsens af Sodoma: eg hefe upplyft min̄e * hende til Drottens þess hædsta Guds/sem a Himen og ** Jørd.

* 5. Mos. 32/ 40. Openb. 10/ 5/ 6.
** 5. Mos. 10/ 14.

23. Ad eg vil ecke taka so myked sem eirn þrad / edur skoo-þveing af øllu þvi / sem þier heyrer til / ad þu skuler ecke seigia: eg hefe giort Abram rijkan̄.

24. Fyrer utan̄ þad alleinasta/sem þeir ungu men̄ / hafa eydt / og þeirra man̄a hlutdeild / sem geingu med mier/ Aner/ Eskol og Mamre/ þeir meiga taka þeirra hlutskipte.

## XV. Capitule.

Abrams Trw verdur hrosad / Cana an fyrerheited Abram / og hans Afkvæme.



Epter þad þetta var skied / skiede Drottens ord til Abrams i syn/ og sagde: * ottast ecke Abram/ eg er þin̄ skiolldur / og þijn ** miøg stoor laun.

* Es. 41 / 10. ** Spek. 5/ 16.

2. Og Abram sagde: Drotten̄ / Drotten̄/ hvad villt þu giefa mier / sem fer hiedan̄ fyrer utan̄ børn? Og * sa þar stendur fyrer mijnu hwsi/ er sa Elieasar af Damasco. * 1. 24 / 2.

3. Og Abram sagde (framveiges:) sia/ mier hefur þu eckert afkvæme giefed/ og sia/ mijns hwss þioon erfer mig.

4. Og sia / Drottens ord skiede til hans / og sagde: þesse / han̄ skal ecke erfa þig / en̄ sa / sem skal wtkoma af þijnu lijfe/ han̄ skal erfa þig.

5. Og han̄ færde han̄ wt/ og sagde: kiære / lijt til Himensens / og tel stiørnurnar/ ef þu kant * telia þær / og han̄ sagde til hans: so skal þitt afkvæme verda. * 1. 13 /16. c. 17 / 2.
2. Mos. 32/ 13. 5. Mos. 10/ 22.

6. Og han̄ * trwde a Drotten̄ / og þad tilreiknade han̄ hønum til riettlætes.

* Gal. 3 / 6. Rom. 4 / 3.

7. Og han̄ sagde til hans: eg er Drotten̄ / sem wtfærde þig fra Ur i Chaldæa/ ad giefa þier þetta land ad eiga þad.

8. Þa sagde han̄: Drotten̄ / Drotten̄ / hvar af skal eg þeckia / ad eg skule eiga þad?

9. Og han̄ sagde til hans: tak mier eina þriggia ara gamla kvijgu / og eina þriggia ara gamla geit/ og eirn þriggia ara gamlan̄ hrwt/og eina turtilldwfu/og eirn dwfu unga.

10. Og hañ took allt þetta/ og skipte þvi midt i tvent / og lagde eirn part / hvert yfer fra hinum ødrum/ eñ fuglun um skipte hañ ecke.

11. Og þar settust fuglar a hræñ / og Abram rak þa þar fra.

12. Og þad skiede / þegar sooleñ var nidurgeingeñ / fiell eirn diwpur svefn a Abram / og sia / þar kom otte / stoort myrkur yfer hañ.

13. Þa sagde hañ til Abrams: þad skalltu endelega vita / ad þitt afkvæme skal vera framande i einu lande/ sem ecke er þeirra/ og þeir skulu þioona þeim/ og plaga þa * fiøgur hundrud ær.
* 2. Mos. 12/ 40. P. G. 7/ 6.

14. Eñ eg vil og so dæma þad foolk/ sem þeir skulu þiona / og þar epter skulu þeir wtganga med * myked gotz.
* 2. Mos. 3/ 21. C. 11/ 2. C. 12/ 35/ 36.

15. Eñ þu skallt fara til þiña fedra med fride / og þu skallt verda grefstradur i eirne goodre * elle. * C. 25 / 8.

16. Og i þeirre fioordu ættkvijsl / skulu þeir koma hijngad aptur / þvi Amoritaña vondska er ecke eñ nu fullkomeñ.

17. Og þad skiede / þegar sooleñ var nidurgeingeñ / og þar var myrkt / og sia / þar var reykur af einum ofne / og eirn ellds loge/ sem foor þangad yfer * þau styckeñ. * Jer. 34/ 18.

18. A þeim deige giørde Drotteñ * eirn sattmaala vid Abram/ og sagde: þijnu afkvæme hefe eg gefed þetta land/ fra Egyptalands vatnsfalle / allt til þess stoora vatnsfalls / þess vatnsfall sens Phrat. * C. 12 / 7. etc.

19. Þa * Kenita og Kenisita / og Kadmonita/ * 5. Mos. 7/ 1. Jos. 24/ 11.

20. Og Nethita / og Pheresita / og Rephaita/

21. Amorita/ og Cananita/ og Girgasita/ og Jebusita.

## XVI. Capitule.

Agar verdur þungud og fæder Ismael.

g Sarai / Abrams hustru/ fædde honum ecke (børn/) eñ hun hafde eina Egyptiska stulku / og heñar nafn var Nagar.

2. Og Sarai sagde til Abrams: sia nu / Drotteñ hefur tillukt mig/ ad eg ecke kañ fæda/ Kiære / gack iñ til miñar * stulku / ma skie / eg kuñe ad byggiast af heñe / Og Abram hlijdde Sarai raust. * C. 30/ 3. 9.

3. So took Sarai / Abrams hustru / Nagar sijna þa Egyptsku stulku/ þegar tiju ær voru lideñ/ ad Abram hafde bwed i Canaans lande / og hun gaf Abram sijnum make hana til hustrur.

4. Og hañ gieck iñ til Nagar / og hun vard olett / þegar hun sa/ ad hun hafde feinged gietnad / þa vard heñar hustru lijtels ocktud af heñe.

5. Þa sagde Sarai til Abrams: sa orietttur sem mig skier / kome yfer þig / eg lagde mijna stulku a þiñ arm/ og hun sier ad hun hefur gietnad feinged / og eg er forocktud af heñe: * Drotteñ dæme i millum mijn og i millum þijn.

* C. 31/ 53. Dom. 11/ 27. 1. Sam. 24/ 16.

6. Þa sagde Abram til Sarai: sia/ þijn stwlka er i þiñe hende/ gior vid hana sem þier gott synest/ Og Sarai plagade hana / og hun flijde fra heñe.

7. Eñ Drottens eingell fañ hana hia eirnre vatns uppsprettu i eydemørkeñe / hia þeirre uppsprettu a veigenum til Sur.

8. Og hañ sagde: Nagar / Sarai stulka/ * hvadañ kiemur þu? og hvørt geingur þu? og hun sagde: eg flij fra miñe hustru Sarai. * Dom. 19/ 17.

9. Og Drottens eingell sagde til heñar: far þu aptur til þiñar hustrur / og audmijk þig under heñar hendur.

10. Og Drottens eingell sagde til heñar: eg vil giøra þitt afkvæme miøg margfalldt/ ad þad skal ecke teliast fyrer margfiølda.

11. Og Drottens eingell sagde til heñar/

hesiar: sia/ * þu ert veikleg / og skallt
fæda eirn son / og þu skallt kalla hans
nafn Ismael / þvi Drottenn hefur heyrt
þinn mootgang. * Dom. 13 / 5.

12. Og hann mun verda ein villemann
eskia / hanns hønd mun vera i moot sier.
Hvorium/og sierhvors hønd i meote hon
um/ Og hann mun bwa i allra sinna bræd
ra augsyni.

13. Og hun kallade Drottens nafn/
sem talade vid hana: þu ert Gud / sem
sier mig / þvi hun sagde: hefe eg (ecke)
og so hier sied epter hønum sem mig
sier?

14. Þar fyrer kallar madur þa upp-
sprettu * þess lifanda uppsprettu / sem
hefur sied mig / sia / hun er i millum
Kades og Bered. * c. 24 / 62.
C. 25/ 11.

15. Og Hagar fædde Abram eirn son/
og Abram kallade sijns sonar nafn/ sem
Hagar fædde/ Ismael.

16. Og Abram var sex og attatijg-
er ara gamall / þegar Hagar fædde A-
bram Ismael.

XVII. Capitule.

Abram nefnest Abraham. Vmskurn-
arennar Innsetning. Isaaks Fyrerheit.
Vmskurnarennar Handtieran.



Og Abram var niju ara
og nijutijger ara gamall/
og Drottenn openberadest
Abram/ og sagde til ha-
nns: eg er sa almattugaste
Gud/ * gack fyrer mij-
nu auglite / og vert fullkomenn.
* C. 24/ 40. Jos. 22/ 5. 1. Kong. 2/ 3.

2. * Og eg vil giora eitt sattmala
i millum mijn / og i millum þijn / og au-
ka þig harla miøg. * Syr. 44 / 21.
Rom. 4/ 17.

3. Þa fiell Abram a sijna asioonu /
og Gud talade vid hann / og sagde:

4. Eg (er hann) sia / mitt sattmale
er vid þig/ og þu skallt verda ad margra
þiooda fødur.

5. Og þitt nafn skal ecke framar
meir kallast * Abram / helldur skal þitt
nafn vera Abraham. * Nehem. 9/ 7.

6. Þvi eg hefe giort þig ad * marg
ra þiooda fødur/ og eg vil avaxtarsam-
ann giora þig harla miøg / og giora þig
ad þiood/ z konungar skulu koma af þier.
* Es. 51/ 2. Syr. 44/ 20. Rom. 4/ 11.

7. Og eg vil uppreisa mitt sattmaa-
la i millum mijn og i millum þijn / og i
millum þijns afkvæmes epter þig/i þeir-
ra attkvijslum / til eins eilijfs sattmaa-
la / til ad vera þier ad einum Gude/ og
þijnu afkvæme epter þig.

8. Og eg vil giefa þier og þijnu af-
kvæme epter þig * eitt land/ sem þu ert
** framande i/ allt Canaans land til
eins æfenlegs eigendooms/ og eg vil vera
þeim ad einum Gude. * c. 12/ 7. etc.
** C. 14/ 13. C. 35/ 27. Ebr. 11/ 13.

9. Og Gud sagde til Abrahams:
og þu skallt hallda mitt sattmala/ þu og
þitt afkvæme epter þig hia þeirra epter-
komendum.

10. * Þesse er mitt sattmale / sem
þier skulud hallda i millum mijn og i
millum ydar/ og i millum þijns afkvæm-
es epter þig/ ad allt karlkyn skal umskier-
ast ydur. * 3. Mos. 12 / 3.
Luc. 2/ 21. Joh. 7/ 22. P. G. 7/ 8.
Rom. 4/ 11.

11. Og þier skulud umskiera ydar for
hwdar holld / og þad skal vera til eins
sattmaala teikns i millum mijn og i mill-
um ydar.

12. Og hvert svein barn/ nær þad er
atta daga gamallt / skal umskierast yd-
ur / hia ydar epterkomurum / eitt heima
fædt og keypt fyrer peninga/ lijka og sier
hvor þess framanda sonur / sem ecke er
sialfur af þijnu afkvæme.

13. Endelega skal þitt heima fædd-
ur og keyptur fyrer peninga umskierast/
og mitt sattmale skal vera a ydar holl-
de til eins eilijfs sattmaala.

14. Og sie þar eitt svein barn / sem
hefr forhwd/z hns forhwdar holld ecke
er umskored / þa skal su sama persoo-
na afmaadst fra sijnu foolke/ (þvi) hann
braut mitt sattmaala.

15. Og

15. Og Gud sagde til Abrahams:
þad vidvijkur Sarai þiñe hustru / þu
skallt ecke kalla heñar nafn Sarai / þvi
Sara er heñar nafn.
16. Og eg vil blessa hana / og af
heñe vil eg og so gefa þier eiñ son / og
eg vil blessa hana / og hun skal verda
ad þiood/ þiood=konungar skulu verda af
heñe.
17. Og Abraham fiell a sijna asioo=
nu og * hloo / og sagde i sijnu hiarta:
skyllde mier ablast ( eitt barn/ ) sem er
** hundrad ára gamall ? og skyllde
Sara / sem er nijutijger ára gomul /
fæda ? * C. 18/12.
** Luc. 1/18.
18. Og Abraham sagde til Guds:
eg villde Jsmael mætte lifa fyrer þier.
19. Og Gud sagde: sañlega / Sara
þijn hustru skal fæda þier * eiñ son/ og
þu skallt kalla hañs nafn Jsaak / og eg
vil uppreisa miñ sattmála til eins ei=
lijfs sattmála vid hañ/ fyrer hañs af=
kvæme epter hañ. * C. 18/10.
C. 21/3.
20. Og um Jsmael hefe eg heyrt
þig / sia / eg hefe blessad hañ / og vil
auka hañ / og giora hañ harla miog
margfalldañ/ Hañ skal afla * tolf
hofdingia / og eg vil giora hañ ad eiñe
stoorre þiood. * C. 25/16.
21. Eñ miñ sattmála vil eg stadfesta
vid Jsaak / * sem Sara skal fæda þier
a þeirre ásettu tijd / a þvi ødru áre.
* Rm. 9/9.
22. So liet hañ af ad tala vid hañ/
og Gud * foor upp frá Abraham.
* Dom. 13/20.
23. So took Abraham Jsmael siñ
son/ og alla fædda i hañs hwse/ og alla
keypta fyrer hañs peninga a medal foolk
sens / allt kall kyn i Abrahams hwse/
og hañ umskar þeirra forhwdar holld /
a þeim hinum sama dege/ lijka sem Gud
hafde talad vid hañ.
24. Og Abraham var niju og niju=
tijger ára gamall / þegar hañs forhwd
ar holld var umskored.
25. Og Jsmael hañs sonur var þrett
an ára gamall / þegar hañs forhwdar
holld var umskored.
26. A þeim sama dege var Abra=
ham og Jsmael hañs sonur umskoreñ.
27. Og aller meñ i hañs hwse / sa
heima fædde / og keypte fyrer peninga/
so vel sem þess framanda sonur voru
umskorner med honum.

## XVIII. Capitule.

Abraham verdur heyreñ Jsaak / bodast Sodomæ Eydelegging.



g Drottiñ openberadest
fyrer Abraham i *
Mamre lunde/ og hañ sat
i(sijnum)tialldbwdar=dyr=
um / þegar dagureñ var
heitur. * C. 13/18.
2. Og hañ upplypte sijnum augum
og sa/ og sia/ þrijr meñ stoodu hia hon
um / og þegar hañ sa þa / hlioop hañ
moote þeim / fra ( sijnum ) tialldbwdar=
dyrum/ og * beigde sig nidur til Jardar.
* C. 19/1.
3. Og sagde: miñ Herra/ kiære/ hafe
eg funded * nád fyrer þijnum augum/
þa ** gack ecke þijnum þienara frañ
hia. * C. 6/8. C. 19/19.
Luc. 1/30. ** Ebr. 13/2.
4. Kiære / latum sækiast lijted vatn/
og þvoed ydar * fætur / og hvijled ydur
under þvi tre. * C. 19/2.
C. 43/23.
5. Og eg vil sækia eirn muñ bita brau
ds / og endurnæred ydar hiarta / sijdañ
kuñed þier ganga leingra/ þvi þess veg=
na geingu þier yfer til ydar þienara /
og þeir sogdu: gior so sem þu hefur
sagt.
6. Og Abraham flytte sier iñ i tialld
bwdena til Saru / og sagde: tak fliool=
lega þriu mæler hveite=miøls/ elltu/og
baka kokur.
7. Og Abraham hlioop til þienad=
arens / og sookte eirn ungañ og goodañ
kalf / og fieck þienaranum / og hañ
flijtte sier ad tilreida hañ.
8. Og hañ took smior og mioolk /

og kalfeñ/ sem hañ hafde tilreidt/ og sette fyrer þa/ og hañ stood hia þeim under trenu/ og þeir aatu.

9. Og þeir søgdu til hañs: hvar er Sara þijn hustru? og hañ svarade: sia/ i tialldbwdeñe.

10. Og hañ sagde: eg * vil visselega koma til þijn aptur / ad mier lifanda/ og sia/ þa skal Sara þijn hustru hafa eirn son/ Og Sara heyrde þad i tialldbwdar dyrunum/ og þar voru a bake hañs. * C. 17 / 19. C. 21 / 1. Rom. 9/ 9.

11. Og Abraham og Sara voru gømul/ vel vid alldur/ so þad gieck ecke framar Saru epter kveña hætte.

12. Og Sara * hloo med sier sialfre/ og sagde: skyllda eg læta mig lysta/ med þvi eg er ordeñ gømul / og ** miñ herra er gamall. * C. 17/ 17. ** 1. Pet. 3/ 6.

13. Þa sagde Drottiñ til Abrahams: hvad er þad / sem Sara hloo ad/ og sagde: mun eg eiga vissulega ad fæda / med þvi eg er gømul.

14. Skyllde þar nockur hlutur vera Drottne omøgulegur? * a þeim ætsetta tijma vil eg koma til þijn aptur/ ad mier lifanda/ og Sara skal hafa eiñ son. * Rom. 9 / 9.

15. Og Sara neitade/ og sagde: eg hloo ecke / þvi hun hræddest / eñ hañ sagde: nei / þvi þu hloost.

16. So stoodu meñerner upp þadañ fra/ og litu til Sodoma/ og Abraham gieck med þm/ til ad leidseigia þm.

17. Þa sagde Drottiñ: kañ eg ad dylia fyrer Abraham / þad eg giøre.

18. Med þvi Abraham skal vissulega verda ad eirne stoorre og sterkre þiood / og allt foolk a Jørduñe skal blessast i hønum.

19. Þvi eg þecke hañ / af þvi hañ mun biooda * sijnum børnum / og sijnu hwse/ epter sig/ ad þeir skule vardveita Drottiñs veg/ til ad giøra riett læte og doom / uppa þad ad Drottiñ skule læta þ koma yfer Abraham/ sem hañ hefur talad um hañ. * 5. Mos. 5/ 7.

20. Og Drottiñ sagde: Med þvi þar er uppkomed eitt hroop af Sodoma og Gomorra/ sem er stoort/ og med þvi * þeirra synd er miøg þung. * C. 13/ 13. Ezech. 16 / 49 / 50.

21. (Þar fyrer) vil eg nu fara * ofañ / og sia / hvort þeir hafa giørt fullkomlega epter þvi hroope / sem er komed fyrer mig / ellegar ef ecke / ad eg meige þad vita. * C. 11/ 5.

22. Og meñerner sneru (þeirra andlite) þar fra/ og geingu til Sodoma / eñ Abraham var eñ nu standande fyrer Drottens augsyn.

23. Og Abraham gieck fram / og sagde: villt þu eydeleggia þañ riettlæta med þeim ogudlega?

24. Þar kyñu eñ ad vera fimtijger riettferduger i stadnum / Villt þu og eydeleggia/ og ei þirma þeim stad fyrer þeirra fimtijger riettferdugu skulld/ sem (kyñu vera) þar iñe?

25. Þad vere langt fra þier/ ad þu skuler giøra epter þessum hætte / ad i hel slaa þañ riettlæta med þeim ogudlega / ad sa riettlæte skule vera lijka sm sa ogudlege/ þ sie langt fra þier/ sa sem dæmer þa * giørvalla Jørd/ skyllde ** hañ ecke giøra doom? * Ps. 7/ 9. ** Rom. 3/ 6. Joh. 5/ 27.

26. Þa sagde Drottiñ: fiñe eg * fimtijger riettlæta i Sodoma stad/ þa vil eg þirma þeim øllum stad fyrer þeirra skulld. * Amos. 7/ 3.

27. Og Abraham svarade og sagde: sia nu/ eg hefe byriad ad tala vid miñ Drottiñ/ jafnvel þo eg sie * duft og aska. * Job. 30 / 19. Syr. 10/ 9. C. 17/ 31.

28. Þar kyñe eñ mega skie/ vanta fim uppa þa fimtijger riettlætu/ villder þu þa eydeleggia allañ stadeñ fyrer þeirra fim skulld? Og hañ sagde: eg vil ecke

ecke eydeleggia þa/ ef eg fiñ fim̃ og fiø-
rutÿger þar.

29. Og hañ hiellt eñ nu æfram̃ ad
tala vid hañ/og sagde: kyñe eñ fiñast
þar/mæ skie/fiørutÿger/Og hañ sag-
de: eg vil ecke giora þad fyrer þeirra
fiørutÿger skulld.

30. Og hañ sagde: nu miñ Drott
eñ * villde ecke styggiast/ad eg eñ nu ta
la/ mæ skie / þar kuñe fiñast þriæ-
tÿger. Og hañ sagde: eg vil ecke giø-
ra þad / ef eg fiñ þar þriatÿger.
* Dom. 6/ 39.

31. Og hañ sagde: sia nu/eg hefe
byriad ad tala vid miñ Drotteñ / eñ
ef þar kuña ad fiñast/ mæ skie/ tutt-
ugu/Og hañ sagde: eg vil ecke fordiar
fa þa fyrer þa tuttugu þeirra skulld.

32. Og hañ sagde: miñ Drotteñ/
verdu ecke reidur/ ad eg tale alleinasta
i þetta siñ/ef þar mæ skie kyñe ad fiñ
ast tÿu/ Og hañ sagde: eg vil ecke for
diarfa þa fyrer þa tÿu þeirra skulld.

33. Og Drotteñ gieck burt / þegar
hañ hafde wt talad vid Abraham/ og
Abraham snere aptur til sÿns stadar.

## XIX. Capitule.

Lot verdur undervÿsad um̃ Sodomæ
Eydelegging/frelsast/eñ syndgar.



g þeir tveir einglar ko-
mu til Sodoma / um̃
kvøllded / eñ Lot sat i
Sodomæ borgar porte/
Og þegar Lot sæ þa /
þa stood hañ upp ad
ganga i moote þeim / og * beigde sitt
andlit nidur til Jardar. * C. 18/ 2.

2. Og sagde : sia nu mÿner *
Herrar / komed þo iñ i ydar þienara
hws / og vered hier i nott / og læted
** þvo ydar fætur / so meiged þier
standa ærla upp a morgun/ og ganga
ydar veg/ Og þeir søgdu: ney/ helld-
ur vilium vid vera a gøtuñe i nott.
* Ebr. 13 / 2. ** 1. Mos. 18/ 4.

3. Þa neydde hañ þa hardlega/ og
þeir geingu iñ til hañs/ og komu i ha
ñs hws/og hañ giørde þeim eitt giesta
bod/ og bakade osÿrt (braud/) og þeir
ætu.

4. Eñ fyrr eñ þeir løgdu sig / þa
um̃kryngdu * meñerner af stadnum /
meñerner af Sodoma/hwsed/bæde ung
er og gamler / þad allt foolk allstadar
fra. * Dom. 19/ 22.

5. Og þeir kølludu a Lot/ og søg-
du til hañs: hvar eru þeir meñ / sem
komu til þÿn i nott ? leid þa wt
til vor / ad vier meigum kieña þeirra.

6. So gieck Lot wt til þeirra ad
dyrunum / og lukte dyrnar epter sier /
og sagde:

7. Mÿner * brædur/ kiæru/ giør-
ed ecke illt. Dom. 19 / 22.

8. Sia nu / eg hefe tvær dætur /
sem ecke hafa kiendt mañ / eg vil nu
leida þær wt til ydar / og giøred vid
þær/ hvad ydur gott sÿnest/ alleinasta
giøred þessum møñum eckert/ þvi þar
fyrer eru þeir komner under mÿns
þaks skugga.

9. Og þeir søgdu : gack hÿngad
betur/og þeir søgdu: þesse eine er komeñ
til ad vera eim̃ framande / og vill ende
lega dæma/Vel/vier vilium plaga þig
meir eñ þa: so * þreingdust þeir hart
iñ a mañeñ/ a Lot/og hlupu til ad brio
ta dyrnar upp. * 2. Pet. 2/ 7.

10. Þa rietku meñerner þeirra hønd
wt / og tooku Lot iñ til sÿn i hwsed /
og luktu dyrnar.

11. Og þeir meñ sem voru fyrer
hwss dyrunum / slogu þa * med blin
dne/bæde smæa og stoora/og þeir leit-
udu med mædu ad fiña dyrnar.

* Spek. 19/ 16. 2. Kong. 6/ 18.

12. Þa søgdu þeir meñ til Lots :
hafer þu eñ hier nockurn mag / eda
þÿna syne/eda þÿnar dætur/eda nockud
sem þier heyrer til i stadnum / fær þa
wt af þessum stad.

13. Þvi vid skulum fordiarfa þeña
stad / af þvi þeirra * hroop er orded
stoort

skoort fyrer Drottens augsyn / og Drottenn sende ockur hyngad til ad fordiarfa hann. * c. 18 / 20.

Ezech. 16/ 49/ 50. Openb. 18/ 5.

14. Og Lot gieck wt og talade vid sijna maga/sem skyllde taka hanns dætur/og sagde: standed upp / ganged wt af þessum stad/ þvi Drottenn vill fordiarfa stadenn / Enn hann virdtest fyrer hanns maga augum * sem hann gantkade sig. * 2. Kron. 30/ 10.

15. Þa ed took ad daga/þa * neyddu einglarner Lot/ og søgdu : statt þu upp / tak þijna hustru og þijnar tvær dætur/sem eru til stadar/ad þu ecke og farest i stadarens misgiørningum.

* Spek. 10/ 6. 2. Pet. 2/ 6/ 7.

16. Þegar hann seinkade / þa tooku mennerner hann vid hønd/og hanns hustru vid hønd/og hanns tvær dætur vid hønd/ þvi Drottenn villde spara hann/og þeir leiddu hann wt / og lietu hann wt fyrer stadenn.

17. Og þad skiede/þegar þeir høfdu wtleidt þau þadann wt / þa sagde eirn : frelsa þitt lijf / lijt ecke bak þier / og vertu ecke a øllu þessu slettlende/ forda þier uppa fiallenu / ad þu ecke farest.

18. Þa sagde Lot til hanns: æ ney/ mijner herrar.

19. Siaa / nu þinn þienare hefur funded * naad fyrer þijnum augum/og þu hefur læted þijna myskunseme vera stoora/ sem þu hefur audsyndt mier / ad þu villder læta mig lifa / og eg kann ecke forda mier a fiallenu / mier kynne ad falla nockud vondt til / ad eg deyde. * c. 6/ 8.

20. Siaa nu / þar er sa stadur hart nærre / sem eg kynne ad flya til / og er lijtill / þar vil eg nu forda mier/ Er hann ecke lijtell/ ad eg kunne ad vera a lijfe ?

21. Þa sagde hann til hanns : siaa / eg hefe og bænheyrt þig i þessum hlut/ad eg vil ecke fordiarfa þann stad/ sem þu hefur talad umm.

22. Flijttu þier / frelsa þig þar / þvi eg kann eckert giøra fyrr enn þu kiemur þangad/ Þar af kallast þess stadar nafn Zoar.

23. Soolenn var upprunnenn yfer Jørdena/ og Lot kom inn i Zoar.

24. Og * Drottenn liet rigna yfer Sodoma og yfer Gomorra brennesteine/ og ellde fra Drottne af Himnenum.

* 5. Mos. 29/ 23. Ps. 11/ 6. Es. 13/ 19. Jer. 50/ 40. Os. 11/ 8. Amos. 4 / 11. Luc. 17/ 29. 2. Pet. 2/ 6. Pist. Jud. v. 7.

25. Og eydelagde þa stade og þeirra giørvalla eign / og alla innbyggiara i stødunum / og Jardarennar grooda.

26. Þa * leit hanns ** hustru til baka hønum/og vard eirn sallt-stoolpe.

* Luc. 9/ 62. ** Spek. 10/ 7. Luc. 17/ 32.

27. Og Abraham flijtte sier ærla upp umm morgunenn til stadarens / þar sem hann hafde staded a fyrer Drottens augsyn.

28. Og leit til Sodoma og Gomorra / og til alls þess slietta i landenu / og saa/ og siaa/ þa uppgieck eirn reikur af landenu/sem reikur af einum ofne.

29. Og þad skiede/þegar Gud fordiarfade þa stade a þvi slietklende/ þa minntest Gud a Abraham/ og liet leida Lot wt midt af eydeleggingunne/ þegar hn eydelagde þa stade/þar Lot bioo i.

30. Og Lot gieck upp fra Zoar/og var a fiallenu / og bædar hanns dætur med hønum/ þvi hann ottadest ad vera i Zoar / og hann var i heller / hann og bædar hanns dætur.

31. Þa sagde su elldre til þeirrar yngre: ockar fader er gamall / og hier er ecke einn madur a Jørdunne/ sem kann ad koma til ockar/epter allrar verallldarennar hætte.

32. Kom þar fyrer / lætum ockur gefa ockar fødur vijn ad drecka/ og ligg ia * hia hønum/ad vid uppehölldum afkvæme af ockar fødur.

* 3. Mos. 18 / 7.

33. So gáfu þær þeirra fødur výn ad drecka þa sømu noott. Og su frumgietna gieck iñ/og lagde sig hia sýnum fødur / og hañ formerkte ecke nær hun lagde sig / eda nær hun stood upp.

34. Og þad skiede a ødrum dege / þa sagde su frumgietna vid þa yngre: sia / i fyrre noott laa eg hia mýnum fødur / laatum ockur og so a þessare noottu gefa hønum výn ad drecka / og gack þu iñ / ligg hia hønum / ad vid uppehølldum afkvæme af ockar fødur.

25. So gáfu þær þeirra fødur og so a þeirre noottu výn ad drecka. So gieck hin yngre og laa hia honum / og hañ formerkte ecke nær hun lagde sig/ eda nær hun uppstood.

36. So feingu baadar Lots dætur gietnad af þeirra fødur.

37. Og su frumgietna fædde eiñ son/ og hun kallade hañs nafn Moab / hañ er þeirra Moabita fader iñ til þessa dags.

38. Og su yngre hun fædde og so eiñ son / og kallade hañs nafn Ben Ammi/ Hañ er Ammons barna fader iñ til þessa dags.

## XX. Capitule.

Abimelech tekur Saru fra Abraham/ sem fær hana aptur okreinkta.



g Abraham * foor þad añ i landed suñañ verdt/ og bio i millum Kades og Sur / og var framande i Gerar.

* C. 12/9.

2. Og Abraham sagde uñ Saru sýna hustru: * hun er mýn syster / so wtsende ** Abimelech / konungur af Gerar/ og took Saru. * c. 12/13. C. 26/7. ** C. 26/1.

3. Og Gud kom til Abimelechs i einum draume / uñ noottena/ og sagde til hañs: sia/ þu skollt deya vegna þeirrar kviñu sem þu hefur teked/ þvi hun er eins mañs egta-hustru.

4. Og Abimelech hafde ecke halldet sig til heñar / og sagde : Drottenñ/ villtu og slaa riettlaatt foolk i hel ?

5. Hefur hañ ei sialfur sagt til mýn: hun er mýn syster ? og hun hefur og so sialf sagt: hañ er miñ brooder / J mýns hiarta froomleika og med saklausum høndum giørda eg þetta.

6. Og Gud sagde til hañs i draume: eg veit og so/ ad þu giørder þetta af einu froomu hiarta/ þar fyrer hefe eg og so hamlad þier/ ad þu skylldet ecke syndga fyrer mier / þar fyrer hefe eg ecke leyft þier / ad hræra vid heñe.

7. Og laat nu mañeñ faa sýna hustru aptur/ þvi hañ er eirn * spaamadur/ ** og hañ skal bidia fyrer þier / og þu skallt lifa / Eñ laater þu hana ecke koma aptur / þa vit/ ad þu skallt vissulega deya / þu og allt þad/ þier heyrer til. * c. 26/11. Ps. 105/15.

** Job. 42/8.

8. Þa stood Abimelech aarla upp uñ morguneñ / og kallade a alla sýna þienara / og sagde øll þesse ord fyrer þeirra eyrum / og meñerner ottudust miøg.

9. Og Abimelech kallade a Abraham og sagde til hañs: * hvad hefur þu giørt oss ? og hvad hefe eg syndgad i moote þier / ad þu hefur fært so stoora eina synd yfer mig / og yfer mitt rýke ? þu hefur giørt i moot mier þa hlute / sem ecke bar ad skie.

* C. 12/18. C. 26/10. Luc. 2/48.

10. Og Abimelech sagde til Abrahams: hvad saast þu / ad þu giørder þeñañ hlut ?

11. Og Abraham sagde: eg þeinkte / * hier er ølldunges eingeñ Guds otte i þessum stad / og þeir munu slaa mig i hel fyrer miñar hustrur skulld.

* Ps. 36/2.

12. Nu er þo og so i sañleika mýn syster / mýns fødurs doottter / eñ ecke

miñar

miñar moodur dootter/ og hun er ord-
eñ mijn hustru.

13. Og þad skiede / þañ tijma / Gud liet mig fara hijngad og þangad af mijns fødurs hwse / sagde eg til heñar: þesse er þijn myskunseme/ sem þu skallt giøra vid mig / hvar hellst sem vid komum fram / þa seig um mig: hñ er miñ brooder.

14. So took Abimelech saude og fienad / og þioona og þioonustu stulk-ur/ og gaf Abraham / og * fieck hon-um Saru sijna hustru aptur.

* C. 12/ 19.

15. Og Abimelech sagde: siaa/ mitt land er oped fyrer þier / þu maatt bwa/ hvar þier gott syñest.

16. Og hañ sagde til Saru: siaa / eg hefe giefed þijnum broodur þusund silfur peninga/ Siaa/ hañ er þier skij-la fyrer augunum fyrer øllum þeim / sem eru hia þier/ og fyrer øllum (ød-rum/) og hun vard vijs (þar af.)

17. So bad Abraham til Guds / og Gud læknade Abimelech og hañs hust-ru / og hañs þioonustu kvinur / og þær fæddu.

18. Þvi Drotteñ hafde aldeil-es til-luckt hvort lijf i Abimelechs hwse / fyrer Saru Abrahams hustrur skulld.

## XXI. Capitule.

Isaak fædest / Ismael verdur wt-rekeñ / Abraham giører Sattmaala vid Abimelech.



Og Drotteñ vitjade Saru/ so sem hañ hafde sagt / og Drotteñ giørde Saru epter þvi sem * hañ haf-de talad. * C. 17/ 19. C. 18/ 10.

2. Og Sara vard olett/ og * fædde Abraham eitt son i hañs elle a þeim æ-setta tijma/ sem Gud hafde sagt honum.

* C. 25/ 19. 1. Kron. 1/ 34. Matth. 1/ 2. Luc. 3/ 34. P. G. 7/ 8. Gal. 4/ 22. Ebr. 11 / 11.

3. Og Abraham kallade sijns sonar nafn/ þess sem honum var fæddur / sem Sara hafde fædt honum / * Isaak.

* C. 17/ 19.

4. Og Abraham umskar Isaak siñ son/ þegar hañ var ætta daga gamall / so sem * Gud hafde boded honum.

* C. 17/ 11/ 12.

5. Og Abraham var hundrad æra gamall/ þegar hañs son Isaak var hon-um fæddur.

6. Þa sagde Sara: Gud hefur giø-rt mier eitt * hlatur/ hvør sa sem þetta heyrer / mun hlæa ad mier.

* C. 17 / 17. C. 18 / 12.

7. Og hun sagde: Hvør skyllde hafa sagt til Abrahams: Sara hefur giefed bornum ad siwga? þvi eg hefe fædt eitt son i hañs elle.

8. Og barned vox upp og vard af-vaned/ og Abraham giørde eitt stoort gie-stabod þañ dag / Isaak var afvaneñ.

9. Og Sara saa Hagars þeirrar Æ-gyptsku son/ sem hun hafde fædt Abra-ham/ ad hañ spottade.

10. Og hun sagde til Abrahams: * rek wt þessa þioonustu kviñu og heñ-ar son / þvi þesse ** þioonustu kviñu sonur skal ecke erfa med mijnum syne Isaak. * Gal. 4 / 29.

** Dom. 11 / 2.

11. Og þad ord þocknadest Abraham miøg illa fyrer sijns sonar skulld.

12. Eñ Gud sagde til Abrahams: læt þier þad ecke illa lijka vegna svein-sens / og vegna þiñar þioonustu kviñu / i hvøriu sem hellst Sara mun seigia þi-er/ hlyd heñar raust/ þvi * i Isaak skal sæded kallast þier. * C. 17 / 21. Rom. 9/ 7. Gal. 4/ 28. Ebr. 11/ 18.

13. Eg * vil og giøra þioonustu kviñ-unar son ad þiood/ þvi hañ er þitt sæde.

* C. 16/ 10. C. 17/ 20. C. 25/ 16.

14. Þa stood Abraham ærla upp / um morguneñ / og took braud og eina flosku vatns / og gaf Hagar og lagde uppa heñar herdar/ og sveineñ / og liet hana fara/ Þa foor hun þadañ/ og villt-est i Berseba eydemerku.

15. Þegar vatned var drucked af flöskunne / kastade hun sveinenum under eina af eykunum.

16. Og gieck burt / og sette sig þar gagnvart / epter ad hun var geingen eitt örskot þar fra / þvi hun sagde: eg giet ecke sied uppa sveinsens dauda. So sette hun sig gagnvart / og upphoof sijna raust / og griet.

17. Þa heyrde Gud sveinsens raust / og Guds eingell hroopade til Hagar af Himne / og sagde til hennar: hvad skadar þig Hagar? hrædstu eckert / þvi Gud heyrde sveinsens raust / þar sem hann liggur.

18. Statttu upp / tak sveinenn / og leid hann vid þijna hönd / þvi eg * vil giora hann ad stoorre þiood. * c. 17 / 20.

19. Og Gud upplauk hennar augum / ad hun sa eina vatns uppsprettu / so gieck hun og fyllte sijna flösku med vatn / og gaf sveinenum ad drecka.

20. Og Gud var med sveinenum / og hann vox upp / og bio i eydemörku / og vard eirn skotmadur med boga /

21. Og bioo i þeirre eydemörku Paran. Og hanns mooder took hönum eina hustru af Egyptalande.

22. Og þad skiede a þeim soma tijma / þa talade * Abimelech og Picol hanns stryds-höfuds-madur til Abrahams og sagde: Gud er med þier i öllu þvi þu giorer. * c. 26 / 26.

23. So sver mier nu vid Gud / Sia / þar sem þu liggur fyrer mier og mijnum synе / og fyrer mijnum sonar syne / Epter þeirre myskunseme / sem eg hefe giort vid þig / skalltu giora vid mig og vid landed / i hvöriu þu hefur vered framande.

24. Þa sagde Abraham: eg vil sveria.

25. Og Abraham ávijtade Abimelech * fyrer þess vatns-brunns saker / sem Abimelechs þienarar höfdu burt teked med ofrijke. * c. 26 / 15 / 18.

26. Þa svarade Abimelech: eg visse ecke hvör þad giorde / þu hefur ecke helldur sagt mier þad / eg hefe ei helldur heyrt þad fyrr enn i dag.

27. Þa took Abraham saude og fienad / og gaf Abimelech / og þeir giordu bäder eirn sattmala.

28. Og Abraham liet sio lömb af hiördenne wt af fyrer sig.

29. Þa sagde Abimelech til Abrahams: hvad skulu þesse sömu sio lömb / sem þu lietst sier i lage?

30. Og hann svarade: þu skallt taka þau sio lömb af mijnne hende / og þad skal vera mier til eins vitnesburdar / ad eg hafe grafed þenann brunn.

31. Þar fyrer kallade hann þann sama stad * Bersaba / þvi þar sooru þeir bäder. * c. 26 / 33.

32. Og þeir giordu sattmala i Bersaba / Þa stood Abimelech upp / og Picol hanns stryds-höfuds-madur / og fooru aftur i Philisteanna land.

33. Og hann plantade trie i Bersaba / og akallade þar i Drottens * þess eilijfa Guds nafne. * Es. 57 / 15.

34. Og Abraham var framande i Philisteanna lande / i langa tijd.

## XXII. Capitule.

Isaak attе ad offrast / enn frijast / og Messias verdur fyrerheitenn. Nachors Börn.



Og þad skiede þar epter / ad Gud * freistade Abrahams / og sagde til hanns: Abraham / og hann sagde: sia / hier er eg.

* Judith. 8 / 18 / 19. 1. Macc. 2 / 52. Ebr. 11 / 17.

2. Og hann sagde: tak nu þinn son / þann einasta / sem þu hefur kærann / Isaak / og gack til Moria lands / og offra hönum þar til eirnrar brenne-foornar / a einu af fiöllunum / sem eg vil segia þier.

3. Þa stood Abraham arla upp um morgunenn / og lagde a sinn asna / og took tvo af sijnum sveinum med sier / og Isaak sinn son / og klauf videnn til brenne-offursens / og took sig upp / og gieck burt til

stadarens /

stadarens/ sem Gud hafde sagt hønum.

4. A þeim þridia deige / þa upplypte Abraham sijnum augum/ og sa stadenn aleingdar.

5. Þa sagde Abraham til sinna sveina : vered hier fyrer ydur med asnann / og eg og sveirnenn vid villium ganga þangad og tilbidia / og koma til ydar aptur.

6. Og Abraham took videnn til brenne offursens/ og lagde uppa Isaak sinn son/ enn hann took elldenn og knijfenn i sijna hønd/ og þeir geingu baader til samans.

7. Þa talade Isaak til Abrahams sijns fødurs / og sagde : minn fader / og hann sagde : sia / hier er eg / minn son / og hann sagde : sia elldenn og videnn / enn hvar er lambed til brenne-offursens ?

8. Og Abraham sagde : Gud mun sia sier fyrer umm lambed til brenne-offursens / minn son / so geingu þeir baader afram til samans.

9. Og þegar þeir komu til þess stadar sem Gud hafde sagt honum / þa byggde Abraham þar eitt altare/ og lagde ad videnn / og batt Isaak sinn son/ og lagde hann uppa altared ofann a videnn.

10. Og Abraham rietti sijna hønd wt / og greip knijfenn / ad slatra sijnum syne.

11. Þa hroopade Drottens eingell af Himne til hans / og sagde : Abraham / Abraham/ og hann sagde : sia / hier er eg.

12. Og hann sagde : legg ecke þijna hønd a sveinenn/og gior hønum eckert/ þvi nu þecke eg / ad þu ottast Gud/ og hefur ei * sparad/þinn son/þann einasta fyrer mig. * Rom. 8 / 32.

13. Þa upplypte Abraham sijnum augum / og sa / og sia / eirn hrwtur hieck a baked i buskenum a sijnum hornum/ og Abraham gieck og took hrwtenn/ og offrade hønum til brenne-offurs i sijns sonar stad.

14. So kallade Abraham þess sama stadar nafn : Drottenn skal sia/ Þad sem skal seigiast a þeim deige/ a einu fialle/ (sem heiter :) Drottenn skal siast.

15. Og Drottens eingell hroopade til Abrahams annad sinn af Himne/

16. Og sagde : * eg hefe svared vid mig/ seiger Drottenn / af þvi þu giorder þennann hlut / og sparader ecke þinn son / þann einasta/ * c. 12/7. c. 13/15/16. C. 15/5. 2. Mos. 34/13. Luc. 1/73. Ebr. 6/13.

17. Ad eg vil mykelega blessa þig / og mieg margfalldt giora þitt sæde/sem stiornur a Himnenum/ og sem sand þar er a siafar strøndenne / og þitt sæde skal eiga sinna fiandmanna port.

18. Og i þijnu sæde/ skulu allar þioder a Jordunne blessast/þvi ad þu hlydder minne raust.

19. So gieck Abraham til baka til sinna sveina / og þeir biuggu sig (af stad) og fooru til samans til Bersaba/ og Abraham bioo i Bersaba.

20. Og þad skiede þar epter / ad þad var Abraham kunngiort/soleides : sia/* Milka hun hefur og so fædt þijnum broodur Nachor syne / sem eru : * C. 11/29.

21. Uz hans * frumgietne/ og Bus hans brooder / og Kemuel/ Arams fader. * Job. 1/ 1. c. 32/ 2.

22. Og Cesed/ og Chaso/og Pildas/ og Jidlaph/ og Betuel.

23. Enn * Betuel ablade Rebekku: þessa atta fædde Milka Nachor / Abrahams broodur. * c. 24/ 15.

24. Og hans hiakona/ og hennar nafn / var Reuma / og hun fædde og so Thebach / og Gacham / og Tachash / og Maaka.

## XXIII. Capitule.

### Saru Daude / og Grepkrunar Stadur.



g Sara lifde hundrad og sio og tuttugu aar / þesse voru Saru lijfs aar.

2. Og Sara deyde i Kiriatarba / þad er Hebron i Canaans lande / þa kom Abraham / ad syrgia fyrer Saru/ og ad grata hana.

3. Sijdann

3. Sijdan stood Abraham upp fra sijns dauda lijke/ og talade til Hets barna/ og sagde:

4. Eg er * eiñ framande og iñbyggiare hia ydur/ gefed mier eiñ eigendoom til eiñar greftrunar hia ydur / ad eg kunne ad grefftra miñ dauda fyrer mier.
* p. G. 7/3.

5. Pa svorudu Hets born Abraham/ og sogdu:

6. Heyr oss / miñ herra / pu ert eiñ Guds hofdinge midt a medal vor/ grefftra piñ dauda i vorum frijdustu grofum/ eingeñ af oss skal meina pier sijna grof/ ad pu ei meiger jarda piñ dauda.

7. Pa stood Abraham upp/og hneygde sig fyrer foolkenu i landenu / fyrer Hets bornum/

8. Og talade vid pa / og sagde: sie pad med ydar goodum vilia/ ad eg meige grafa miñ dauda sem (hier liggur) fyrer mier / pa heyred mig / og bidied fyrer mig til Ephron Zocharssonar/

9. Ad hañ vilie uña mier pess tvofallda hellers / sem hañ hefur i endanũ a sijnum akre/ Hañ uñe mier hañs fyrer fullt verd / midt a medal ydar / til eins greftrunar eigendooms.

10. Pvi Ephron bioo a medal Hets barna / Pa svarade Ephron sa Hetite Abraham/ ad Hets born heyrdu par a/ fyrer ollum peim / sem geingu iñ ad hañs stadar porte / og sagde:

11. Ney / miñ herra / helldur heyr mig / Eg * gief pier pañ akur og hellter / sem er par i / og eg gief pier hañ / fyrer mijns foolks barna augum/ eg gief pier hañ / grefftra piñ dauda.
* 2. Sam. 24/22.

12. Pa hneigde Abraham sig fyrer foolkenu i landenu.

13. Og talade vid Ephron i foolksens aheyrn i landenu / og sagde: allleinasta ef pu villt / pa kiære heyr mig / so gief eg pier silfur fyrer akureñ / tak pad af mier / og eg vil jarda miñ dauda par.

14. Pa svarade Ephron Abraham/ og sagde til hañs:

15. Miñ herra heyr mig / su Jord er fiogur hundrud sekla silfurs verd / i millum mijn og i millum pijn / hvad er petta? grefftra ad eins piñ framlidna.

16. Og Abraham hlijdde Ephron ad/ og Abraham vog Ephron peninga vt / sem hañ hafde sagdt i Hets barna aheyrn/ (sem voru) fiogur hundrud seklar silfurs / geinger i kaup.

17. So vard * Ephrons akur / i hvorium sa tvofallde hellter er / sem er pvert yfer fra Mamre/ akureñ og hellereñ/ sem er par i / og oll tre / sem voru a akrenum/ sem voru i allre hañs grend um kring/ Abraham stadfestur til eigendooms/ * c. 49/30. c. 50/13.
p. G. 7. 16.

18. J Hets barna asynd / fyrer ollum sem geingu iñ ad hañs stadar porte.

19. Og sijdañ * groof Abraham Saru sijna hustru/i piñ tvofallda heller a akrenum/ pvert yfer fra Mamre/ pad er Hebron i Canaans lande.
* C. 25/ 9/ 10.

20. So vard akureñ og * hellereñ par i stadfestur Abraham til eins greftrunar eigendooms af Hets bornum.
* C. 25/ 9 / 10. C. 47 /30. C. 49/ 29. C. 50/ 13.

## XXIV. Capitule.

### Isaak fær Rebekku til hustrur.



Og Abraham var gamall/ vel vid alldur / og Drotteñ hafde blessad Abraham i ollum hlutum.

2. Og Abraham sagde til sijns * ellsta sveins i sijnu hwse / sem forstood allt hañs gotz: ** legg nu pijna hond under mijna lend. * c. 15/ 2.
** C. 47/29.

3. Og eg vil lata pig sverja mier vid Drotteñ / Himensens Gud og Jardarennar Gud/ ad pu ecke skuler taka mijn um syne eina * hustru af peirra Cananita dætrum / medal hverra eg bij.
* C. 28 / 1.

4. Pvi

4. Þvi þu skallt fara burt i mitt fødur land / og til miñar ættar / og taka mijnum syne Isaak eina hustru.

5. Og sveiñeñ sagde til hañs: mæ-skie kviñañ vilie ecke filgia mier til þessa lands / skal eg þa endelega fæ-ra þiñ son aptur til þess lands / sem þu ert komeñ fra ?

6. Og Abraham sagde til hañs: vara þig / ad þu ecke fæ-rer miñ son þangad.

7. Drottiñ / Himensens Gud / sem took mig fra mijns fødurs hwse / og fra mijnu fødurlande / og sa sem talade vid mig / og sem soor mier / og sagde: * þetta land vil eg gefa þijnu sæde / Hañ mun senda siñ ** eingel fyrer þier / ad þu skuler þadañ taka mijnum syne eina hustru. * C. 12 / 7. C. 13 / 15. C. 15 / 18. C. 26 / 4. ** Tob. 7 / 12.

8. Eñ vilie kviñañ ecke filgia þier / þa skalltu vera frij fyrer þessum mijn um eyd / Alleinasta fær miñ son ecke þangad.

9. Þa lagde sveirneñ sijna hønd under Abrahams sijns herra lend / og soor hønum þar uppa.

10. So took sveiñeñ tiju ulfallda af sijns herra ulføllдum / og foor bu-rt / og hafde allra handa af sijns her-ra gotse med sier / og bioo sig af stad / og foor til Mesopotamiam til Nach-ors stadar.

11. Þar liet hañ ulfalldana hvijl-ast utañ fyrer stadnum / hia einum vat ns-bruñe i moot kvølld tijma / under þañ tijma / (sem kveñfoolk var vant ad) gaнga wt / ad ausa (vatn.)

12. Og hañ sagde: Drottiñ / mij-ns herra Abrahams Gud / lát þad skie i dag fyrer mig / og giør mijskun-seme vid miñ herra Abraham.

13. Sia / eg stend hia þessum vatns bruñe / og foolksens dætur af stadnum koma wt ad ausa (vatn.)

14. Og (nær) þad skiedur / ad (þar kemur nu) su pijka / til hvørrar eg seige: hneig nu þijna skioolu nidur / og lát mig drecka / og hun seger: dreck / eg vil og so gefa þijnum ulføllдum ad drecka / ad hun sie su / sem þu hefur fyrerhugad þijnum þienara Isaak / ad eg þar af kuñe þeckia / ad þu hafer giørdt mijskunsemd vid miñ herra.

15. Og þad skiede / ædur eñ hañ hafde endad ad tala / sia / * Rebekka kom wt / sem var Bethuels dootter / hvør ed var Milkæ Nachors Abra-hams broodurs hustrur son / og heñar skioola var a heñar øxl. * c. 22 / 23.

16. Og pijkañ var miøg frijd til ad lijta / ein joomfrw / og eingeñ madur hafde kient heñar / og hun gieck nidur til bruñsens / og fillte sijna skioolu / og gieck upp.

17. Þa hlioop sveiñeñ i moot heñe / og sagde: lát * mig drecka nu lijted vatn af þiñe skioolu. * Joh. 4 / 7.

18. Og hun sagde: dreck / miñ her-ra / hun flijtte sier / og took sijna skioolu ofañ / i sijna hønd / og gaf hønum ad drecka.

19. Þegar hun hafde gefed hønum ad drecka / þa sagde hun: eg vil og au-sa handa þijnum ulføllдum / þar til þeir hafa aller drucked.

20. Og hun flijtte sier / og liet wt siñe skioolu i þroona / og hlioop eñ nu til bruñsens ad ausa / og hun joos hañ da øllum hañs ulføllдum.

21. Og mañeñ undrade miøg a heñe / þagde þo / þar til hañ fieck ad vita / hvørt Drottiñ hefde láted hañs rei-su luckast / eda ei.

22. Og þad skiede / þegar ulfalld-arner høfdu aller drucked / took madur eñ eina gull spaung / sem vog eiñ half-añ sekel / og sette tvo arm-rhijnga a heñar hendur / þeir vogu tiju gyllene.

23. Og sagde: dootter / hvørtum heyrer þu til ? seg mier nu þad / mun þar vera rwm i þijns fødurs hwse / ad herbergia oss i noott ?

24. Og hun sagde til hañs: eg

er * Bethuels dootter / hvør ad er Milka son / sem Hun fædde Nachor.

* C. 22/ 20/ 23.

25. Og hun sagde til hans : þar er bæde hæálmur og myked foodur hia oss / og eñ rwm til herberges i noott.

26. Og madureñ hneigde sig / og tilbad til Drottens/

27. Og sagde: lofadur vere Drottenñ/ mijns herra Abrahams Gud/ sem ecke hefur yfergiefed sijna myskunsemd og siñ sañleik vid miñ herra / eg (er hier/) Drotteñ hefur fært mig a vegenum til mijns herra broodurs hwss.

28. Og pijkañ hlioop / og sagde þetta i siñar moodur hws.

29. Og Rebekka atte eiñ broodur / og hañs nafn var Laban / og Laban/ hlioop wt til mañsens / til bruñsens.

30. Og þad skiede / þegar hañ sa spaungena og hrijngana a siñar systur hondum / og þegar hañ heyrde Rebekku siñar systur ord / ad hun sagde: so hefur madureñ sagt / þa kom hañ til mañsens / og sia / hañ stood hia ulfvolldunum vid bruñeñ.

31. Og hañ sagde: gack iñ / þu * Drottens blessade/ þvi stendur þu hier wte ? þvi eg hefe bwed hwsed / og rwm til ulfvalldaña. * c. 26/ 29. ps. 115 / 15.

32. So gieck madureñ i hwsed / og took af ulfvolldunum/og hañ gaf þeim hæálm og foodur til ulfvalldaña / og vatn til ad þvo hañs fætur/og þeirra maña fætur/sem voru med hønum.

33. Og þar var settur matur fyrer hañ / eñ hañ sagde: eg * vil ecke eta / fyrr eñ eg hefe wtriett mitt eyrende / Og hañ sagde: tala þu.

* Tob. 7 / 10.

34. Og hañ sagde: eg er Abrahams sveiñ.

35. Og Drotteñ hefur blessad miñ herra * miøg / og hañ er ordeñ megtugur/ og hañ hefur gefed hønum sauþe og fenad/ og silfur og gull/og þienara og ambæátter/ og ulfvallda og asna. * c. 13 / 2.

36. Og * Sara mijns herra hustru hefur fædt mijnum herra eiñ son / þa hun var ordeñ gømul / og hønum hefur hañ giefed allt þad hañ a.

* C. 21 / 2.

37. Og miñ herra hefur teked eiñ eyd af mier / og sagt: þu skallt ecke taka mijnum syne nockra hustru af Cananitaña dætrum / i hvørra lande eg by.

38. Helldur skalltu fara burt til mijns fødurs hwss/ og til miñar ættar / og taka mijnum syne eina hustru.

39. Og eg sagde til mijns herra: hvad ef kviñañ vill ecke filgia mier ?

40. Og hañ sagde til mijn: Drotteñ/ * fyrer hvørs auglite eg hefe geinged/ mun senda siñ eingel med þier/ og gefa þier eina luckusamlega reysu/ og þu skallt taka mijnum syne eina hustru af miñe ætt / og af mijns fødurs hwse. * c. 17/ 1. 5. Mos. 8/ 6. Jos. 22/5.

41. So skalltu vera kvittur fyrer mijnum eyde/ þegar þu kiemur til miñar ættar / og ef þeir vilia ecke giefa þier / so ertu af mijnum eyde kvittur.

42. So kom eg i dag til bruñsens/ og sagde: Drotteñ/mijns herra Abrahams Gud / hafer þu nu gefed mier lucku a miñe reisu/ a hvørre eg hefe geinged:

43. Sia/eg stend hia þessum vatns bruñe/ og (nær) þad skiedur/þar kiemur ein joomfrw wt ad ausa (vatn/)og eg sege til heñar : gef mier nu lijted vatn ad drecka af þiñe skioolu:

44. Og hun seger til mijn : ja / dreck þu/ og eg vil og so ausa til þiña ulfvallda/ ad hun skule vera su kviña/ sem Drotteñ hefur skickad handa mijns herra syne.

45. Adur eñ eg hafde wt-talad i mijnu hiarta / sia / þa kom Rebekka wt/ og heñar skioola a heñar øxl/ og

gieck

gieck þangad nidur til brunnsens / og jvos (vatn) upp/ Þa sagde eg til hennar: kiæra/ gief mier ad drecka.

46. So flÿtte hun sier/og took sÿna skiolu ofann af sier / og sagde: dreck/og eg vil og so giefa þÿnum ulfvølldum ad drecka/ og eg drack/ so gaf hun og ulfvølldunum ad drecka.

47. Og eg spurde hana/og sagde: hvørs dootter ert þu ? og hun sagde: eg er Betuels dootter / hvør ad er Nachors sonur / þann Milka fædde hønum. So heingde eg eina spøng umm hennar andlit / og arm-hrÿnga a hennar hendur.

48. Og eg hneigde mig / og tilbad fyrer Drottne og lofade Drottenn / mÿns herra Abrahams Gud/sem leidde mig a þeim rietta vege ad taka mÿns herra broodurs doottur til hanns sonar.

49. Og nu / þar sem þier vilied giøra mÿskunsemd og sannleika vid minn herra/ so seged mier þad/ enn þar sem þier vilied ecke / so seged mier þad/ ad eg kunne ad snwa mier til þeirrar hægre edur til þeirrar vinstre sÿdu.

50. Þa svarade Laban og Betuel/ og søgdu : þesse høndlun er komenn af Drottne / vier kunnum eckert ad tala til þÿn illt eda gott.

51. Siaa/þar er Rebekka fyrer þier / tak hana og gack / ad hun verde þÿns herra sonar hustru/ sem Drottenn hefur sagt.

52. Og þad skiede / þegar Abrahams sveinn heyrde þirra ord/ þa hneig de hann sig til Jardar fyrer Drottne.

53. Og sveirnenn took upp silfurbwnad og gull bwnad/ og klæde og gaf Rebekku / enn hennar broodur og hennar moodur gaf hann dÿrmætar skeinkingar.

54. So aatu þeir og druck u / hann og þeir menn sem voru med hønum / og var(þar) umm nootkena/og þeir stoodu upp umm morgunenn/ og hann sagde: læted mig fara heim til mÿns herra.

55. Þa sagde hennar brooder og hennar mooder : læt þÿkuna vera hia oss nockra daga / eda tÿu ( i minstalage ) sÿdann maatt þu fara.

56. Og hann sagde til þeirra: tefied mig ecke / þvi Drottenn hefur gefed mier eina luckusamlega reisu / læted mig fara/ og eg vil reysa til mÿns herra.

57. Og þau søgdu : lated oss kalla þÿkuna/ og spyria hvad hun seger.

58. So kølludu þau a Rebekku/ og søgdu til hennar: villtu fara med þessum manne? og hun sagde : eg vil fara.

59. So lietu þau þeirra systur Rebekku/ ꝛ hennar foostur-moodur/ og Abrahams svein og hanns menn fara.

60. Og þau blessudu Rebekku/ og søgdu til hennar: vor syster / vertu ad mørgum þusund siñum þusundum/ og * þitt sæde erfe siña fiandmaña port.
* c. 22/ 17.

61. So stood Rebekka upp/og hennar þernur/ og þær settu sig a ulfvalldana / og fooru epter mannenum. So medtook sveinnenn Rebekku / og foor burt.

62. Og Isaak kom gangande * fra þeim brunne ( sem kallast ) þess lifanda/sem sier mig/ þvi hann bioo i landenu moot sudre. * c. 16/ 14.
c. 25/ 11.

63. Og Isaak var wtgeingenn til ad giøra bæn a mørkenne/moot aptne/ ꝛ hann upplypte sÿnum augum / og saa / og sÿtur ulfvalldana koma.

64. Og Rebekka lypte sÿnum augum upp / og saa Isaak/ og stie fliootlega ofan af ulfvalldanum/

65. Og sagde til sveinsens: hvør er sa madur/ sem geingur a mørkenne i moote oss ? og sveirnenn sagde : þad er minn herra. So took hun klæded og hulde sig.

66. Og sveirnenn kunngiorde Isaak allt efned / sem hann hafde wtriett.

Pharao. Miñ herra spurde sijna þie
nara ad / og sagde: * eige þier og eirn
fødur eda broodur ? * c. 43/ 6. etc.
20. Þa søgdum vier til mijns her-
ra: * vier eigum eirn gamlañ fødur/
og eirn lijteñ svein / hañ ablade i siñe
elle/og hañs brooder er daudur/og hañ/
hañ er alleina til epter sijna moodur /
og hañs fader hefur hañ kiærañ.

* C. 42/ 13.

21. Þa sagder þu til þiña þienara:
færed hañ ofañ til mijn / ad eg kuñe
sia hañ.
22. Þa søgdum vier til mijns her-
ra: sveirneñ maa ecke fara fra sijnum
fødur / ef hañ fer fra sijnum fødur /
þa deyr hañ.
23. Þa * sagder þu til þiña þien-
ara: þar sem ecke ydar yngste brooder
kiemur ofañ med ydur / þa skulu þier
ecke sia mitt andlit meir. * c 42/ 15.
C. 43/ 2/ 4.
24. Og þad skiede/ þegar vier foor
um upp til þijns þienara / mijns fød-
urs / og gaafum hønum mijns herra
tal til vitundar/
25. Þa sagde vor fader: * fared
þangad aptur/ og kauped oss litla fæd
 su. * c. 43/ 1.
26. Þa søgdum vier: vier kuñum
ecke fara þangad ofañ/ nema vor yng
ste brooder sie med oss / þa vilium vier
fara ofañ / þvi vier meigum ecke sia
þess mañs andlit/ ef vor yngste brood-
er ecke er medur oss.
27. Þa sagde þiñ þienare miñ fad-
er til vor: þier vited / ad mijn hustru
hefur fædt mier tvo:
28. Sa eine gieck wt fra mier / og
eg * sagde: hañ er vissulega rifeñ (i
hel/) Og eg sia hañ ecke eñ nu.

* C. 37/ 33.

29. Ef * þier taked og so þeñañ
fra mier/ og hønum fellur olucka til /
þa * * færdu þier mijnar graaar hær-
ur med olucku nidur til grafareñar.

* C. 42/ 38. ** C. 37/ 35.

30. Og nu/ þar sem eg kiem til þij
ns þienara/ mijns fødurs / og sveiñeñ
være ecke med oss / med þvi hañ hefur
hañ myked kiærañ.
31. Þa skier þad/ nær hañ sier / ad
sveiñeñ er ecke þar / ad hañ deyr / So
nidur færdu þijner þienarar / þijns
þienara vors fødurs graau hær med
sorg til grafareñar.
32. Þvi eg þiñ þienare var * i bor
gun fyrer sveineñ / (þegar vier foor-
um) fra mijnum fødur/ og sagde: fære
eg þier hañ ecke ( aptur / ) þa vil eg
lijda skulld fyrer mijnum fødur alla
daga. * c. 43/ 8.
33. Og nu / kiære / læt þiñ þien-
ara verda mijns herra þienara fyrer
sveineñ / ad sveiñeñ meige fara upp
med sijnum brædrum.
34. Þvi hvørneñ skyllde eg fara
upp til mijns fødurs/ og sveiñeñ skyll
de ecke vera med mier ? eg mætte þa
sia uppa þad vonda/ sem koma mun-
de yfer miñ fødur.

## XLV. Capitule.

Joseph auglijser sig fyrer sijnum Brædrum.



g. Joseph kuñe ecke hall
da sier fyrer øllum þeim/
sem stoodu hia hønum /
og hañ hroopade: laated
hvørn mañ ganga wt
fra mier / Og þar stood
ecke eiñ madur hia hønum / þegar *
Joseph liet sig þeckia fyrer sijnum
brædrum. * P. G. 7/ 13.
2. Og hañ griet so hatt / ad þeir
Egyptsku heyrdu þad/ og Pharaonis
hws heyrde þad.
3. Og Joseph sagde til siña bræd-
ra: eg er Joseph / lifer miñ fader eñ
nu ? og hañs brædur gaatu ecke svar-
ad hønum / þvi þeir skielfdust fyrer
hañs auglite.
4. Þa sagde Joseph til siña bræd-
ra: komed þo hijngad til mijn/ og þeir
geing-

geingu fram̃/ Og hañ sagde: eg er Joseph ydar brooder/ hvorn þier selldud,* til Egyptalands. * c. 37/ 38. ell. p. G. 7/ 13.

5. Barmed ydur nu eckert/ og læted þad ecke misþocknast fyrer ydar augum/ ad þier selldud mig hyngad/ þvi * so ad þier skylldud halldast vid lyfed / hefur Gud sendt mig undañ ydur. * c. 50/20.

6. Þvi þar hefur nu vered tvo ær hwngur i landenu/ og hier eru eñ nu fim̃ ær/ a hvoriñ þar mun ecke verda plæging / nie haustøyrkia.

7. Eñ Gud hefur sendt mig undañ ydur / ad hañ vill læta ydur halldast vid a Jørdune / og giefa ydur fædu til eins stoors frelses.

8. Og nu hafed þier ecke sendt mig hyngad/ helldur Gud / og * hañ hefur sett mig til Pharaonis fødurs / og til eins herra yfer allt hañs hws / og eiñs drottnara i øllu Egyptalande.
* C. 41/ 41.

9. Flyted ydur / og fared upp til myns fødurs / og þier skulud seigia til hañs: so seiger þiñ sonur Joseph: Gud * hefur sett mig til eins herra yfer allt Egyptaland / ** kom ofañ til myn / tef ecke. * c. 41/ 43. ** p. G. 7/ 14.

10. Og þu skallt bwa i Gosen lande/ og vera nærre hia mier / þu og þyn børn/ og þyn barna børn/ og þiñ fenadur/ og þyner uxar/ og allt þad þu hefur.

11. Og eg vil vidhallda þier þar/ þvi þar er eñ nu fim̃ ær hwngur/ uppa þad þu skuler ecke fordiarfast af fætækt/ þu og þitt hws/ og allt þad/ sem þier heyrer til.

12. Og siæ/ ydar augu siæ / og myns broodurs BenJamins augu / ad eg tala munnlega til ydar.

13. Og þier skulud kuñgiøra mynum fødur alla myna vegsemd i Egyptalande/ og allt þad/ sem þier hafed sied / og flyted ydur / og læted miñ fødur koma hyngad ofañ.

14. So * fiell hañ um̃ BenJamins syns broodurs hals / og gret / og BenJamin gret um̃ hañs hals.
* C. 33/ 4. C. 46/ 29. 2. Mos. 4/ 27.

15. Og hañ kyste alla syna brædur/ og gret yfer þeim / Þar epter toludu hañs brædur vid hañ.

16. Og þad friettest i Pharaonis hws / ad þar sagdest: Josephs brædur eru komner / Þad þocknadest Pharao og hañs þienurum.

17. Og Pharao sagde til Josephs: seig til þiña brædra: giøred so / klyfied ydar dyr / og fared hiedañ / ferdest til Canaans lands:

18. Og taked ydar fødur / og ydar heimiles fóolk/ og komed til myn/ Og eg vil giefa ydur gots i Egyptalande / ad þier skulud eta af landsens feite.

19. Og þad er þier byfalad / giøred þetta/ taked vagna af Egyptalande til ydar barna/ og til ydar hustrua / og færed ydar fødur (þar a/) og komed.

20. Og lyted ecke vid, fyrer ydar bws hluta skulld / þvi allt þad gooda/ sem er i Egyptalande / er ydar.

21. Og Israels børn giørdu so / og Joseph fieck þeim vagna/ sem Pharao byfalade/ og gaf þeim tæring a veigeñ.

22. Hañ gaf hvoriu̅m af þeim øll- um eitt par helgra daga klæda/ eñ BenJamin gaf hañ þriu hundrud silfur peninga / og fim̃ þør helgra daga klæda.

23. Og hañ sende synum fødur lyka so tyu asna / sem bæru af þvi besta gotse af Egyptalande / og tyu øsnur / sem bæru korn / og braud / og fædu / handa synum fødur til reisuñar.

24. Og hañ liet syna brædur fara / og þeir fooru burt/ og hañ sagde til þeirra: kyfed ecke a veigenum.

25. So fooru þeir upp af Egyptalande / og komu i þad land Canaan til Jakobs þeirra fødurs.

26. Og kuñgiørdu honum / seigiande: Joseph lifer eñ nu/ og hañ * drottnar yfer øllu Egyptalande. Eñ hañs hiarta vard veikt / þvi hañ ** trwde þeim ecke. * c. 41/ 41. ** Luc. 24/ 41.

27. Þa sogdu þeir honum oll Jo-
sephs ord / sem hañ hafde sagt til þeir-
ra / Og hañ sæ vagnana / sem Joseph
hafde sendt til ad flitia hañ a/ Og Ja-
kobs þeirra fodurs ande vard lifande.
28. Og Israel sagde: þad er mykid/
Joseph miñ sonur lifer eñ nu / * eg vil
fara þangad / og siæ hañ / fyrre eñ eg
dey. * c. 40/ 30.

## XLVI. Capitule.

### Jakob reiser til siins Sonar Josephs i Egyptaland.



g Israel * foor burt med
allt þad hañ hafde / og
kom til ** Bershaba /
og slætrade siins fodurs
Isaaks Gude slætur-off-
re. * 2. Mos. 1/ 1.
Jos. 24/ 4. ps. 105/ 23. Es. 52/ 4.
P. G. 7/ 15. ** 1. Mos. 26/ 23/ 24.
2. Og Gud talade til Israels i *
sioonum um noottena/ og sagde: Jakob/
Jakob / og hañ sagde: sæ / hier er eg.
* C. 31/ 11.
3. Og hañ sagde: eg er sa Gud/ þij-
ns fodurs Gud / ottast ecke fyrer ad fa-
ra ofañ i Egyptaland/ þvi * þar vil eg
giora þig ad eirne stoorre þiood.
* C. 35/ 11/ 12. C. 48/ 4. Judith 5/ 9.
4. Eg / eg vil fara ofañ med þier
i Egyptaland / og eg vil og so vissulega
færa þig upp ( aptur / ) og * Joseph
skal leggia siina hond yfer þijn augu.
* C. 50/ 1.
5. So took Jakob sig upp fra Bersha-
ba/ og Israels syner fluttu Jakob þeir-
ra fodur/ og þeirra smæ-born/ og þeirra
hustrur a vognum / sem Pharao hafde
sendt til ad flitia hañ a.
6. Og tooku þeirra * fie/ og þeirra
goots / sem þeim hafde aflast i Cana-
ans lande / og komu til Egyptalands /
Jakob og allt hañs afkvæme med hon-
um. * c. 31/ 18.
7. Hañs syner/ og hañs sona syner
med honum/ hañs dætur/ og hañs sona
dætur / og allt hañs afkvæme / liet hañ
koma med sier til Egyptalands.
8. Og þesse eru Israels barna nøf-
n / sem komu i Egyptaland / Jakob og
hañs syner: Ruben / Jakobs * frum-
geteñ. * c. 29/ 32. c. 49/ 3.
9. Og * Rubens syner: Hanoch/ og
Pallu / og Hezron / og Carmi.
* 2. Mos. 6/ 14. etc.
10. Og * Simeons syner: Jemuel/
og Jamin/ og Ohad/ og Jachin/ og Zoh-
ar/ og Saul / þeirrar Cananæisku son-
ur. * 2. Mos. 6/ 15. etc.
11. Og * Levi syner: Gerson/ Kah-
ath/ og Merari. * 2. Mos. 6/ 16. etc.
12. Og * Juda syner: Er og On-
an/ og Sela/ og Perez og Serach/ Eñ
Er og Onan voru dauder i Canaans
lande/ Og ** Perez syner voru Hezron
og Hamul. * c. 38/ 3/ 4/ 29/ 30.
1. Kron. 2/ 3. Matth. 1/ 3. ** Ruth. 4/ 18.
1. Kron. 2/ 5.
13. Og * Isaschars syner: Thola/
og Phua/ og Job/ og Semron.
* 1. Kron. 8/ 1.
14. Og * Sebulons syner: Sered/ og
Elon/ og Jahleel. * 4. Mos. 26/ 26.
15. Þesse eru Leæ born / sem hun
fædde Jakob i Padan i Syria/ og hañs
doottur Dina/ Allra hañs sona og hañs
dætra sæler voru þriaar og þriatijger.
16. Og * Gads syner: Ziphion/ og
Haggi/ Suni og Ezbon/ Eri/ og Aro-
di/ og Areli. * 4. Mos. 26/ 15/ 16/ 17.
17. Og * Assers syner: Jimna/ og
Jisua/ og Jisui / og Bria / og Serach
þeirra syster/ Og Bria syner: Heber og
Malchiel. * 1. Kron. 8/ 30/ 31.
18. Þesse eru Silpæ born / hverja
Laban gaf Lea sine doottur/ og hun fæd-
de Jakob þesse/ sem eru sextan sæler.
19. Rachelar Jakobs hustrur syner:
Joseph og BenJamin.
20. Og * Joseph urdu fædder i E-
gyptalande/ sem Asnat Potiphars doott-
er/ prests i On / fædde honum: Man-
asse og Ephraim. * c. 41/ 50. etc.
21. Og * BenJamins syner: Bela
og Becer / og Asbel / Gera og Naa-
man/ Ehi og Ros/ Muppim og Hupp-
im/ og Ard. * 1. Kron. 8/ 6. c. 9/ 1.
22. Þesse

22. Þesse eru Rachelar born / sem fæddust Jakob / Allar sæler fioortan.

23. Og Dans syner: Husim.

24. Og * Naphthali syner: Jazeel/ og Guni/ og Gezer / og Sillem.

* 1. Kron. 8/ 13.

25. Þesser eru Bilhæ syner/hvøria Laban gaf Rachel sine dootiur / og hun fædde Jakob þessa / þeir eru aller sio sæler.

26. Allar þær sæler / sem komu med Jakob i Egyptaland/ sem voru wt komnar af hans lendum/fyrer utan Jakobs sona hustrur / eru allar sex og sextigger sæler.

27. Og Josephs syner/ sem fæddust honum i Egyptalande/ voru tvær sæler: * allar sæler af Jakobs hwse / sem komu i Egyptaland / voru siotiger.

* 2. Mos. 1/ 5. 5. Mos. 10/ 22.

28. Og hann sende Juda undann sier/ til Josephs/ ad tilbwa Gosen fyrer sier/ og þeir komu til Gosen lands.

29. Þa liet Joseph spenna fyrer sinn vagn/ og foor upp/ ad mæta Israel synum fedur til Gosen. Og hann vard sied ur af honum / og fiell umm hans hals / og gret leinge umm hans hals.

30. Þa sagde Israel til Josephs: * eg vil nu (giarnann) deya/ med þvi ad eg hefe sied þitt andlit / ad þu ert enn nu lifs. * c. 45/ 28.

31. Og Joseph sagde til sinna brædra/ og til syns fødurs hwss: eg vil fara upp / og giefa Pharao til vitundar / og seigia til hans: * myner brædur/ og mynns fødurs hws / sem voru i Canaans lande/ eru komner til myn: * c. 47/ 1.

32. Og þeir menn eru fiarhyrdarar / þvi þeir eru menn / sem umm gangast med fienad/ ag þeirra saude/ og þeirra uxa/ og allt þad / þeir hafa / hafa þeir fært hyngad.

33. Og þad skal skie / nær Pharao kallar a ydur / og seiger: hvad er ydar ydia?

34. Þa skulud þier seigia: þyner þienarar eru menn/(sem umgangast med) fie / fra vorum ungdoome og allt til þessa / bæde vier og vorer fedur / uppa þad þier meiged bwa i þvi lande Gosen / þvi aller fiarhyrdarar eru Egyptunum * ein vidurstigd. * c. 43/ 31.

## XLVII. Capitule.

Jakob byr i þvi Lande Gosen. Sw Dyrtyd er stoor i Egyptalande. Jakob vill ecke vera grefttradur i Egyptalande.



Og * Joseph kom / og kunngiorde Pharao þad/ og sagde: minn fader og myner brædur/og þeirra sauder og þeirra uxar / og allt þad þeir hafa / eru komner af Canaans lande/ Og sia/ þeir eru i Gosen lande.

* p. G. 7/ 14/ 15.

2. Og af synum brædrum took hann fimm menn/ og skickade þa fyrer Pharao.

3. Þa sagde Pharao til hans brædra: * hvad er ydar ydia? og þeir søgdu til Pharao: þyner þienarar eru fiarhyrdarar / bæde vier / so og vorer fedur.

* c. 46/ 33/ 34.

4. Og þeir søgdu til Pharao: vier erum komner / ad vera framande i landenu/ þvi þyner þienarar hafa ecke fædu til þeirra fienadar/ þvi þar er eitt þungt hungur i Canaans lande/ Og kiære/lat nu þyna þienara bwa i Gosen lande.

5. Og Pharao talade til Josephs og sagde: þinn fader og þyner brædur eru komner til þyn.

6. * Egyptaland er fyrer þier/ lat þinn fødur / og þyna brædur bwa i þeim besta stad i landenu / lat þa bwa i Gosen lande / og þar sem þu veitst / ad þar eru duganleger menn a medal þeirra / þa set þa til forstødu manna yfer þad fie / sem eg hefe. * c. 34/ 10.

7. Og Joseph liet z Jakob sinn fødur innkoma / og færde hann fyrer Pharaonem / Og Jakob blessade Pharaonem.

8. Enn Pharao sagde til Jakobs: hvad gamall ertu?

9. Og Jakob sagde til Pharao: minn wtlendingskapar tyme er hundrad og

þriatiger ar / litel og ill er mijn lijfs-
tijd / og nær ecke miña fedra lijfs-tijd
a þeirra utlendingskapar dogum.

10. So blessade Jakob Pharaonem/
og gieck ut fra Pharao.

11. Eñ Joseph skickade sijnum fød-
ur og sijnum brædrum bwstade/ og gaf
þm eitt eigendoom i Egyptalande i þeim
besta stad i landenu / (sem var i þvi)
lande Raamses/ sem Pharao hafde bij-
falad.

12. Og Joseph * forsorgade siñ fød
ur/ og sijna brædur/ og allt hañs fødurs
hws med braude/ til þess litla muñs:

* Syr. 49/ 20.

13. Þar var ecke braud i øllu land-
enu/ þvi hwngred var miøg þungt/so ad
Egyptarans land z Canaans land van-
megnuduft fyrer hwngurs skulld.

14. Og Joseph safnade øllum pen-
ingum / sem funduft i Egyptalande og i
Canaans lande fyrer þad korn/sem þeir
keyptu / og Joseph liet peningana koma
i Pharaonis hws.

15 Og þegar peningarner voru wt-
gefner af Egyptalande og af Cana-
ans lande / komu aller Egyptsker til Jo-
sephs / og søgdu: fa oss braud / og hvi
* skulum vier deyia fyrer þier / þo pen-
ingarner sieu i burtu? * v. 19.

16. Og Joseph sagde: læted hijngad
ydar fie / so vil eg giefa ydur fyrer ydar
fie/ ef peningarner eru i burtu.

17. So færdu þeir þeirra fie til Jo-
sephs / og Joseph gaf þeim braud fyrer
hestana / og fyrer fienadeñ / sem þeir
ættu/ og fyrer uxana / sem þeir ættu/ og
fyrer asnana/So hialpade hañ þeim med
braude fyrer allt þeirra fie a þvi sama
are.

18. Þegar þad sama ar hafde enda/
þa komu þeir a þvi ødru are til hañs /
og søgdu til hañs: vier viljum ecke dylia
fyrer mijnum herra / ad ecke alleinasta
peningarner eru i burtu/ helldur og fied/
sem vier ættum / er (komed) til mijns
herra / Vier hefum eckert meira epter
handa mijnum herra/utañ vora lijkame/
og vort land.

19. * Hvi skulum vier deyia fyrer
þijnum augum? (vier bædi þier) bæde
oss/so og vort land med/ kaup oss og vort
land/ fyrer braud/ og vier / vier med vo-
ru lande/viljum vera Pharaonis prælar/
og gief (oss) sæd/ ad vier megum lifa/
og ecke deyia/og landed ecke verde i eyde.

* v. 15.

20. So keypte Joseph allt Egypta-
land handa Pharaoni / þvi þeir E-
gyptsku selldu / hver sijna akra / af þvi
þad hwngur var þwngt yfer þeim / og
landed vard Pharaonis.

21. Og hañ liet foolked flitia til stad
aña/ fra þeim eina landa-merkes enda i
Egyptalande / og til þess añars enda
þar a.

22. Alleinasta prestaña land keypte
hañ ecke / þvi prestarner hefdu þeirra
tilskickadañ part af Pharaone / og ætu
þeirra tilskickadañ hlut / sem Pharao
hafde giefed þeim/ þar fyrer selldu þeir
ecke þeirra land.

23. Þa sagde Joseph til foolksens:
Sia / eg hefe i dag keypt ydur og ydar
land handa Pharaoni / Sia / þar
hafed þier sæd/ og þier skulud sa Jørd-
ena.

24. Og þad skal vera til frumvaxt-
ar / og þier skulud giefa Pharaoni hañ
fimta part / og þeim fioorum partum
skulud þier bijhallda til ad sa i Jørd-
ena/z til ydar fædslu/og fyrer þa/sem eru
i ydar hwse/ z handa ydar børnū ad eta.

25. Þeir søgdu : þu hefur hallded
oss vid lijfed / læt oss fiña nad fyrer mij
ns herra augum / og vier viljum vera
Pharaonis prælar.

26. So gierde Joseph þad til eiñrar
skickunar iñ til þessa dags yfer Egypta
land / ad Pharao skyllde hafa hañ fim-
ta part / Alleinasta prestaña land sier i
lage vard ecke Pharaonis.

27. Og Israel bioo i Egyptalande /
i Gosen lande / og þeir hielldu sig þar /
og uxu * og margfollduduft miøg.

* 2. Mos. 1/ 7/ 12. C. 5/ 3. Ps. 105/ 24.

28. Og Jakob lifde i Ægyptalande i seitian aar/ Og Jakobs dagar/ hans lijfs tijd var hundrad fiø og fiorutijger aar.

29. Og Israels tijd nælgadest/ ad han skyllde deyia/ og han kallade a sin son Joseph / og sagde til hans : kiære/ har sem eg hefe funded naad fyrer þier/ þa * legg nu/ kiære/ þijna hønd under mijna lend / og sijn kiærleika og tru vid mig/ ad þu/ kiære/ ecke grefter mig i Ægyptalande. * c. 24/ 2.

30. Og laat mig liggia hia mijnum fedrum / og þu skallt flitia mig af Ægyptalande/ og jarda mig i * þeirra grøf/ Og han sagde: eg vil giøra sem þu hefur sagt. * c. 23/ 19/ 20. etc.

31. En han sagde : sver mier / og han soor honum / Og Israel * hallade sier yfer hofdalaged i sængenne.

* Ebr. 11/ 21.

## XLVIII. Capitule.

### Jakobs Testament umm Ephraim og Manasse.



g þad skiede þar epter / ad þad var sagt til Josephs: sia/ þinn fader er siukur. Og han took baada sijna syne med sier / Manasse og Ephraim.

2. Og þad var gefed Jakob til vitundar / og var sagt: sia / þinn son Joseph kemur til þijn/ So giørde Israel sig styrkvann / og sat a sængenne:

3. Og Jakob sagde til Josephs: * sa almaattuge Gud openberadest mier i Luz / i Canaans lande / og blessade mig. * c. 38/ 13/ 14.

4. Og sagde til mijn: sia / * eg vil laata þig vaxa / og laata þig aukast/ og giøra þig ad einum flocke fooks / og giefa þijnu afkvæme epter þig þetta land til eigendooms æfenlega.

* C. 35/ 11 12.

5. So skulu nu þijner * tveir syner / þeir sem þier voru fædder i Ægyptalande / aadur enn eg kom til þijn i Ægyptaland/ þeir skulu heyra mier til/ Ephraim og Manasse skulu heyra mier til / sem Ruben og Simeon.

* C. 41/ 50. C. 48/ 20.

6. Enn þitt afkvæme/ sem þu munt abla epter þa/ skulu heyra þier til/ þeir skulu kallast epter þeirra brædra nafne / i þeirra arfe.

7. Og þegar eg kom af Padan/ deyde * Rachel fyrer mier i Canaans lande/ a veigenum / þegar eg atte enn nu einn part vegar til Ephrath / og eg groof hana þar a veigenum til Ephrath/ hvør ad er Bethlehem.

* C. 35 / 16. etc.

8. Og Israel sa Josephs syne / og sagde: hvørier eru þesser ?

9. Og Joseph sagde til sijns fødurs: þeir eru * mijner syner/ sem Gud hefur hier giefed mier/ Og han sagde: kiære / leid þa til mijn / og eg vil blessa þa. * c. 33/ 5.

10. Og Israels * augu voru dimm af elle/ han kunne ecki sia/ Og han leid þa til hans / og han kiste þa / og ** took þa i fadm. * c. 27/ 1.

1. Sam. 3/ 2. ** Marc. 10/ 16.

11. Og Israel sagde til Josephs: eg hafde ecke þeinkt ad sia þitt andlit/ og sia/ Gud hefur og so laated mig sia þitt afkvæme.

12. Og Joseph took þa fra hans kniaam / og hneigde sig med sitt andlit til Jardar.

13. Og Joseph took þa baada / Ephraim i sijna hægre hønd/ fra Israels vinstre hende / og Manasse i sijna vinstre hønd / fra Israels hægre hende / og leidde þa til hans.

14. So riette Israel sijna hægre hønd wt / og lagde a Ephraims høfud/ og han var sa yngre/ og sijna vinstre hønd a Manasse høfud. Med vitund wrietti han sijnar hendur / þvi Manasse var sa frumgetne.

15. Og hañ * blessade Joseph / og sagde: sa Gud / fyrer hvørs augsyn ** mijner fedur / Abraham og Isaak geingu / sa Gud / sem fæder mig / fra þvi eg var til iñ til þessa dags.

* Ebr. 11 / 21. ** 1. Mos. 32 / 9.

16 * Sa eingell / sa sem mig hefur endurleist / fra øllu illu / blesse svein ana / ad þeir meige kallast epter mijnu nafne / og epter miña fedra / Abrahams og Isaaks nafne / og ad þeir meige verda marger sem fiskar midt i land enu. * c. 32 / 24 / 29.

17. Þegar Joseph sa / ad hañs fader lagde sijna hægre hønd a Ephraims høfud / þa mislijkade þad hønum / og hañ lypte sijns fødurs hønd upp / ad færa hana fra Ephraims høfde yfer Manassis høfud.

18. Og Joseph sagde til sijns fødurs: ecke so / miñ fader / þvi þesse er sa frumgetne / legg þijna hægre hønd a hañs høfud.

19. Eñ hañs fader syniade þess / og sagde: eg veit þad / miñ son / eg veit þad / Hañ / hañ skal og so verda ad foolke / og hañ skal og so verda stoor / eñ hañs yngre brooder skal verda stærre eñ hañ / og hañs afkvæme skal verda eiñ stoor flockur foolks.

20. So blessade hañ þa a þeim sama deige / og sagde: vid þig skal Israel blessa / og seigia: Gud setie þig sem * Ephraim / z sem Manasse: Og hañ sette Ephraim fyrer Manasse.

* 5. Mos. 33 / 17.

21. Og Israel sagde til Josephs: sia / * eg dey / og Gud skal vera med ydur / og færa ydur til ydar fedra lands aptur. * c. 50 / 24.

22. Og eg hefe gefed þier eiñ * part (lands) meire eñ þijnum brædrum / hvorn eg took af Amoritans hende / med mijnu sverde og med mijnum boga. * Joh. 4 / 5.

## XLIX. Capitule.

## Jakobs Spaadoomur og Daude.



Og * Jakob kallade a sijna syne / og sagde: safned ydur / og eg vil kuñgiøra ydur / hvad fram vid ydur skal koma hier epter. * 5. Mos. 33 / 1.

2. * Komed til samans / z heyred / Jakobs syner / og gefed gaum ad Israel ydar fødur. * Ps. 34 / 12.

3. Ruben / þu ert miñ * frumborneñ / ** miñ kraptur og mijn fyrsta magt / hellstur i vyrdingu / og hellstur i styrkleika. * c. 29 / 32.

** 5. Mos. 21 / 17.

4. Fliootur / sem vatned / þu skallt ecke vera ypparlegur / þvi * þu uppstiest i þijns fødurs hvijlu / þa saurgader þu hana / hañ hefur uppstijged i mijna sæng. * c. 35 / 22. etc.

5. Simeon og Levi eru brædur / þeirra sverd eru vondsku vopn.

6. Mijn saal skal ecke koma i þeirra heimugleg raad / mijn æra skal ecke sameinast med þeirra søfnude / þvi * i þeirra reide hafa þeir slegeð eirn mañ i hel / og i þeirra eigeñ vilid hafa þeir kollkastad uxanum. * c. 34 / 25. etc.

7. Bølvud vere þeirra reide / þvi hun er straung / og þeirra bræde / þvi hun er hørd / eg * vil sundur skipta þeim i Jakob / og tvijstra þeim i Israel. * Jos. 19 / 1.

8. Juda / þu (ert sa rietta) þig skulu þijner brædur lofa / þijn hønd skal vera a þiña ovina hnacka / fyrer þier skulu þijns fødurs syner beigia sig.

9. Juda er eiñ ungur leon / * þu uppstiest fra herfangenu / miñ son / Hañ hefur nidur beigt sig / hañ laa sem eiñ leon / og sem eiñ (stoor) leon / hvør vill uppreisa hañ? * 1. Kron. 6 / 2.

10. Þar skal ecke vijkia sprokeñ fra Juda / og læremeistareñ fra hañs footum / iñ til ad Siloh skal koma / og þio ðernar skulu hlijda hønum.

11. Hañ er sa / sem bindur siñ fola vid vijnviðed / og siñar øsnu fola vid

vijn-

vijn.kvistenn / hon hefur þveiged sitt
klæde i vijnenu / og sijna kapu i vijn-
þrwgna bloode.
12. Hann er raudare i augunum enn
vijn / og hvijtare a tennur enn miolk.
13. Sebulon * skal bwa hia hofn
enne / vid hafed / og hann skal vera hia
skipanna hofn / og hanns sijda (nææ) til
Zidon. * Jos. 19 / 10.
14. Isaschar (skal vera) einn bein-as
ne / liggiande i millum tveggia landa-
merkia.
15. Og hann sa / ad hvijlden var
good / og ad landed var fagurt / og hann
hefur beigt sijnar herdar til ad bera /
og er ordenn einn skattskylldur þienare.
16. Dan skal lata dæma sitt foolk /
sem eirn af Israels ættum.
17. Dan skal vera einn hoggormur
a veigenum / einn brodd-ormur a stig-
inum / sem beit hestenn i hælana / og
hanns reid-madur fiell aptur a bak.
18. * Drottenn / eg bijd epter þijnu
hialpræde. * Ps. 119 / 166.
19. Gad / eirn her * skal heria a
hann / og hann / hann skal heria (a adra)
umm sijder. * Jos. 1 / 12 / 14.
20. Af Asser (er) hanns feita bra-
ud / og hann / hann skal gefa konunglega
kræsing.
21. Naphthali er ein * wtsloppenn
hind / hann / sem gefur ** lystelegt tal.
* Dom. 4 / 6. ** Dom. 5 / 1.
Coll. C. 4 / 6.
22. Joseph er einn kvistur / sem vex /
sa einn kvistur / sem vex hia einne upp-
sprettu / Dæturnar geingu uppa mwr
num.
23. Og skotmennerner ysdu hann / og
skutu / og hotudu hann.
24. Og hanns boge vard þo sterk-
ur / og hanns handa armlegger styrkt-
ust af Jakobs Mattkuga hondum /
þar af er hann einn hyrder / einn steinn i
Israel.
25. (Þad kiemur) fra þijns fodurs
Gude / og hann skal hialpa þier / og fra
þeim Almattuga / og hann skal blessa
þig med blessunum af himnenum ad
ofann / (med) blessunum af underdiwp-
enu / sem liggur hier under / med brioo-
sta og lijfs blessunum.
26. Þijns fodurs blessaner yfer
gange minna forelldra blessaner inn til
eilijfdar hædanna takmarka / þær skulu
koma a Josephs hofud / og a Naza-
reni hvirfel a medal hanns brædra.
27. BenJamin skal * ræna sem einn
ulfur / umm morguninn skal hann eta ræn /
og umm apkanenn skal hann wtskipta her-
fange. * Dom. 20 / 25.
28. Allar þessar eru þær * tolf
Israels ætter / og þetta er þad / sem
þeirra fader talade vid þær / og bless-
ade þær / hvorta epter sinne blessan bless-
ade hann þær. * Syr. 44 / 31.
29. Og hann bijfalade þeim / og sag-
de til þeirra : nær eg er safnadur til
mijns foolks / þa grefted mig hia mijn
um fedrum.
30. * I þeim heller / sem er a E-
phrons þess Hetita akre / i þeim hell-
er / sem er a þess tvofallda hellers ak-
re / sem er gagnvart Mamre i Cana-
ans lande / hvorn Abraham keypte med
akrenum af Ephron þeim Hetita / til
greftrunar eigendooms.
* C. 23 / 16 / 19 / 20. etc.
31. Þar hafa þeir grafed * A-
braham / og ** Saru hanns hustru /
þar hafa þeir grafed + Isaak / ⁊ Re-
bekku hanns hustru / og þar hefe eg graf
ed Lea. * C. 25 / 9. ** C. 23 / 19.
+ C. 25 / 29.
32. Þess akurs eigendoomur / og sa
heller / sem er þar a / (er keyptur) af
Hets bornum.
33. Þegar Jakob hafde giort end-
er a / ad biooda sijnum bornum þetta /
þa took hann sijnar fætur til sijn uppa
sængena / og * deyde / og vard safnad
ur til sijns foolks. * P. G. 7 / 15.

## L. Capitule.

Jakob verdur grepstradur. Joseph
deyr.

Na fiell Joseph yfer sijns fødurs andlit / og griet * yfer hønū/ og kiste hañ. * c. 47/ 4.

2. Og Joseph bijfalade sijnum þienurum / sem voru læknarar / ad smyria med balsame hañs fødur/ So smurdu med balsame læknararner Israel.

3. Og þar urdu fullendader fiørutijju dagar a hønum/ þvi so skylldu full endast þeirra dagar/ sem smurder voru med balsame / og Ægyptsker grietu hañ siøtijger daga.

4. Og þegar sorgar-dagarner yfer hønum voru umlidner / þa talade Joseph til Pharaonis þienara / og sagde : hafe eg nu funded nad hia ydur/ þa taled nu vid Pharao/og seiged:

5. * Miñ fader took eiñ eyd af mier/ og sagde: siaa/ eg dey/ J miñe grøf/ sem eg liet grafa mier i Canaans lande / þar skalltu jarda mig / Og nu / kiære / laat mig fara upp / og greftra miñ fødur / og eg vil koma aptur.

* C. 47/ 29.

6. Og Pharao sagde : far upp / og jarda þiñ fødur / so sem hañ took eyd af þier (þar uppa.)

7. So foor Joseph upp / ad jarda siñ fødur/ og þar upp fooru med hønum aller Pharaonis þienarar / þeir ellstu af hañs huuse / og aller þeir ellstu af Ægyptalande.

8. Og Josephs giørvallt huus/ og hañs brædur / og hañs fødurs huus / alleinasta þeirra børn/ og þeirra saude / og þeirra uxa lietu þeir i Gosen lande.

9. Og þar upp fooru med hønum/ bæde vagnar so og reidmeñ / og þad var eirn myked stoor her.

10. Þegar þeir komu til þess gards Atad/ sem liggur hinumeigeñ Jordanar/ þa hielldu þeir þar eina stoora og saar-bitra harma kløgun / og hañ liet hallda sorg vegna sijns fødurs * sio daga. * Syr. 22/ 13.

11. Og þegar foolked i landenu / Cananitarner/ saau þa sorg hia þeim garde Atad / søgdu þeir : þesse er ein stoor sorg fyrer Ægyptskum/ þar fyrer kallade mañ þess nafn : Ægyptskra sorg/ sem er hinumeigeñ Jordanar.

12. So giørdu hañs syner hønum so / sem hañ hafde bijfalad þeim.

13. Og hañs syner fluttu hañ i Canaans land/ og groofu hañ i einum heller/ a þeim tvøfallda hellers akre/ sem * Abraham hafde keypt med akrenū til greftrunar eigendooms/ af Ephron Hetita/ þvert yfer fra Mamre.

* C. 23/ 16. P. G. 7/ 16.

14. Og Joseph kom aptur til Ægyptalands / hañ og hañs brædur / og aller þeir sem voru uppfarner med hønum til ad grafa hañs fødur / epter þad hañ hafde greftrad siñ fødur.

15. Og Josephs brædur saau / ad þeirra fader var daudur / og søgdu : maa skie/ Joseph mune hata oss/og visselega bijtala oss aptur allt þad illt sem vier høfum giørt hønum.

16. Og þeir lietu bioda Joseph/ seigande: þiñ fader bijfalade / adur hañ deyde/ og sagde:

17. So skulud þier seigia til Josephs: kiære / forlaat þo þiña brædra misgiørning og þeirra synd / ad þeir giørdu illa i moote þier/ kiære/ so forlaat nu þijns fødurs Guds þioonū þañ misgiørning / Þa griet Joseph / þegar þeir tøludu þetta til hañs.

18. Og hañs brædur geingu og so / og fiellu nidur fyrer hønum / og søgdu: siaa / vier erum þijner þienarar.

19. Og Joseph sagde til þeirra : ottest ecke / þvi munde eg vera i Guds stad ?

20. Og þier * þeinktud illt i moote mier / Gud þeinkte þad til gooda / ad hañ villde giøra þad / (mañ sier) sem a þessum deige / ad hallda miklu foolke vid lijfed. * c. 45/ 5.

21. So okkest nu ecke / eg/ eg vil fæda ydur og ydar børn/ So huggade hañ þa / og * talade vingiarnlega vid þa.

* Es. 40/ 2. Os. 2/ 14.

22. So bioo Joseph i Ægyptalande/ hañ og hañs fødurs huus/ og Joseph lifde hundrad og tiju aar.

23. Og Joseph saa Ephraims syne i þridia lid/ eirnig * Machirs / Manasses sonar syner urdu og fædder a Josephs knie. * 4. Mos. 32/ 39.

24. Og Joseph sagde til siña brædra : eg dey / og * Gud mun visselega vitia ydar / og uppfæra ydur aþ þessu lande til þess lands / sem hañ heþur svared Abraham/ Isaak og Jakob.

* Ebr. 11/ 22.

25. Og Joseph took eiñ eyd aþ Israels bornum/ og sagde : Gud mun visselega vitia ydar / og * þier skulud uppþlitia myn bein hier fra.

* 2. Mos. 13 / 19. Jos. 24/ 32. Syr. 49/ 20. Ebr. 11/ 22.

26. So deyde Joseph / þegar hañ var hundrad og tiju aara gamall / Og þeir smurdu hañ med balsame / og mañ * lagde hañ i kistu/ i Ægyptalande.

* Jos. 24/ 32.

ENDER

a þeirre fyrstu Mose Book.

# Su Auñur Mose Book

## I. Capitule.

Israels Barna Þiaaning i Ægyptalande.



Og þesse eru Israels sona * nøfn / þeir sem komu iñ i Ægyptaland med Jakob / hvør gieck iñ med sijnu huuse.

* 1. Mos. 46/ 8.

2. Ruben/ Simeon / Levi og Juda.

3. Isaschar / Sebulon og Benjamin.

4. Dan/ og Naphthali / Gad og Asser.

5. Og * allar persoonur/ sem voru wt komnar af Jakobs lend / þær voru siøtijger persoonur / Eñ Joseph var i Ægyptalande. * 1. Mos. 46/ 27. etc.

6. Þegar * Joseph var daudur / og aller hañs brædur / og øll þw sama ætt. * 1. Mos. 50 / 26.

7. Þa urdu Israels børn * aavaxtarsøm/ og wtbreiddu sig / og urdu margþolld/ og voru harla miøg sterk/ ad landed vard þullt aþ þeim. * Ps. 105/ 24. P. G. 7/ 17.

8. Og þar upp kom * eiñ nyr konungur yþer Ægyptaland / sem ecke þeckte Joseph. * Dom. 2/ 10.

9. Og hañ sagde til sijns foolks : sia / Israels barna foolk er þleira og sterkara eñ vier.

10. Nu vel / vier villum vera vyser/ ad þad skal ecke verda so myked/ Og þad kuñe skie/ eþ þar yrde (takeþære) til eins striijds / kuñe þad gieþa sig til vorra þiandmaña/ og striijda i moot oss/ og draga aþ landenu.

11. So settu þeir yþnu. fovita yþer þad / ad þeir skylldu plaaga þad / med þeim þrældoome / Og mañ bygde (þa) Pharaoni innteckta stadena Pithom og Raamses.

12. Og þvi meir sem þeir plaagudu þad/ so jookst þad / og so voox þad / og þeim baud vid Israels bornum.

13. Og Ægyptsker * lietu Israels børn þrælka hardlega. * Judith 5/ 12.

14. Og giørdu þeim þeirra lijþ beyskt / med þwngum þrældoome i leyr og tijgle/ og med allra handa þrældoome a mørkeñe / med øllu þeirra erþide / sem þeir þrælkudu hardlega i.

15. Og konungureñ aþ Ægyptalande sagde

sagde til þeirra Ebresku yfersetu-kveña/ medal hvorra þrar einu nafn var Siphra/ og þeirrar añarar nafn Pua.

16. Og hañ sagde: nær * þier hiálped þeim Ebresku (kvinum) ad fæda/ og siaed a stoolunum ef þ er eirn sonur/ so dreped hañ/ og ef þad er ein dootter/ þa mæ hun lifa.

* Spek. 18/5.

17. Eñ yfersetu-konurnar ottudust Gud/ og giordu ecke so sem konungureñ af Egyptalande hafde talad til þeirra/ helldur lietu svein-borneñ lifa.

18. Þa kallade konungureñ af Egyptalande yfersetu-konurnar/ og sagde til þeirra: hvi giordud þier þad/ ad þier lietud svein-borneñ lifa?

19. Og yfersetu-konurnar svorudu Pharaoni: þvi þær Ebresku eru ecke sem þær Egyptsku kvinnur/ eñ þær eru hraustar (af nattwrunñe/) fyrr eñ yfersetu-konurnar koma til þeirra/ þa hafa þær fædt.

20. Þar fyrer giørde Gud vel vid yfersetu-konurnar/ og foolked jookst/ og þeir urdu harla sterker.

21. Og þad skiede/ med þvi yfersetu-konurnar ottudust Gud/ þa bygde hañ þeim hws.

22. So baud Pharao øllu sijnu foolke/ og sagde: * kasted øllum sonum i fliooted sem fædast/ og læted allar dæt-ur lifa. * P. G. 7/19.

## II. Capitule.

### Mosis Fæding/ Uppfostur/ Flootte og Egtaskapur.



g þar geck eirn madur af Levi hwse/ og * took eina Levi dootter.

* C. 6/20. 4. Mos. 26/59. 1. Kron. 24/13.

2. Og kviñañ vard olett/ og fædde eirn son/ Og þegar hun sæ hañ/ ad hañ var * frijdur/ þa falde hun hañ i þriu maanude. * P. G. 7/20. Ebr. 11/23.

3. Eñ þegar hun gat ecke leingur duled hañ/ þa took hun honum eina kistu af reyr/ og bradde hana med lijme og bike/ og lagde sveineñ þar i/ og lagde hana i reyreñ hia backanum a fliootenu.

4. Eñ hñs * syster stood laangt fra/ ad hun kyñe siæ/ hvorneñ þad villde gañga honum. * C. 15/20.

5. Og Pharaonis dootter geck ofan/ ad bada i fliootenu/ og heñar joomfrwr geingu a backanum vid fliooted/ Þegar hun sæ kistuna midt i reyrnum/ þa sende hun sijna stulku burt/ og liet sækia hana.

6. Og þegar hun lauk heñe upp/ sæ hun hañ/ sveineñ (seige eg/) og siæ/ sveirneñ gret/ Þa aumkadest hun yfer honum/ og sagde: þesse er af þeim Ebreskra sveinum.

7. Þa sagde hañs syster til Pharaonis doottur: skal eg ganga i burt/ og sækia þier eina kviñu/ eina foostru af þeim Ebresku/ ad hun giefe þiña vegna sveinenum ad siuga?

8. Og Pharaonis dootter sagde til heñar: gack burt/ Og stulkañ geck burt/ og kallade sveinsens moodur.

9. Þa sagde Pharaonis dootter til heñar: tak þeñañ svein burt/ og foostra mier hañ upp/ og eg/ jæ eg vil giefa þier þijn laun. Og kviñañ took sveineñ/ og foostrade hañ upp.

10. Og þegar sveirneñ var ordeñ stoor/ þa leidde hun hañ til Pharaonis doottur/ og hun hiellt hañ fyrer siñ son/ og kallade hañs nafn Mose/ og sagde: þvi eg droo hañ wr vatne.

11. Og þad skiede a þeim somu døgum/ þegar * Mose var ordeñ stoor/ þa geck hañ wt til siña brædra/ og leit a þeirra byrder/ og hañ siæ/ eirn Egyptskur madur sloo eirn Ebreskañ mañ af hañs brædrum. * P. G. 7/23. Ebr. 11/24/25.

12. Þa leit hañ hijngad og þangad/ og sæ/ ad þar var eingeñ/ og sloo þañ Egyptska/ og hulde hañ i sande.

13. Og * añañ dageñ geck hañ wt/ og siæ/ tveir Ebresker meñ þrætt-

udu

udu til samans / þa sagde hañ til þess er giorde orietl: hvi slær þu þiñ náunga?
* P. G. 7/ 26.

14. Og hañ sagde: hver hefur sett þig til eins foringia og doomara yfer ock ur? seiger þu þad/ til ad slaa mig i hel / so sem þu sloost þañ Ægyptiska i hel? þa ottadest Mose / og sagde: sañlega / þesse giordningur er ordeñ vitanligur.

15. Og Pharao heyrde þeñañ gior-ning/ og sookteft epter / ad slaa Mose i hel / * eñ Mose flyde fra Pharaonis augsyn/ og var i þui lande Midian / og var hia bruñenum. * P. G. 7/ 29.
Ebr. 11/ 27.

16. Og eirn prestur i Midian atte sio dætur / og þær komu þangad ad ausa (vatn) upp/ og felltu reñurnar / ad vat-na þeirra fodurs saudum.

17. Þa komu hyrdararner og hrundu þeim þar fra. Eñ Mose stood upp/ og hiálpade þeim/ og vatnade þeirra saud-um.

18. Og þegar þær komu til Revel þeirra fodurs / þa sagde hañ: hvi ko-mud þier so snart aptur i dag?

19. Og þær sogdu: eirn Ægyptskur madur frijade oss fra hyrdarañá hende / og joos so kappsamlega (vatned) upp fyrer oss/og vatnade fienu.

20. Og hañ sagde til sinna dætra: og hvar er hañ? hvi lietu þier þañ mañ fara? kalled hañ/ og hañ skal fa mat.

21. Og Mose hafde lyst til/ ad ver-da hia mañenum / So * gaf hañ Mo-se Ziphora sijna doottur. * c. 18/ 4.

22. Og hun fædde eirn son / og hañ * kallade hañs nafn Gersom / þui hañ sagde: eg er ordeñ eirn utlendingur i framande lande. * c. 18 / 4.

23. Og þad skiede longum tijma þar epter / þa deyde konungureñ af Ægypta-lande/Og Israels born andvorpudu yf-er þeim þrældoome / og hroopudu/ Og þeirra hroop yfer (þeirra) þrældoome kom upp fyrer Gud.

24. Og Gud heyrde þeirra hroop / og Gud * þeinkte a siñ sattmaala vid Abraham / vid Isaak og vid Jakob.
* 1. Mos. 26/ 42.

25. Og Gud leit Israels born / og Gud þeckte (þau.)

## III. Capitule.

Mose verdur kalladur af Gude til ad fæára Israels Born af Ægyptalande.



Og Mose vaktade Jethro sijns mágs / prestsens i Midion/ hañs fie / og rak fied a bak eydemerk eñe/ og kom til þess Gu ds fialls Noreb.

2. Og Drotteñs eingell openberadest * honum i einum elldsloga / midt af einum þyrnebusk/ Og hañ sa / og sia / þyrnebuskureñ brañ i elldenum / þo þyrnebuskureñ yrde ecke forfærdur.
* P. G. 7/ 30. 5. Mos. 33/ 16.

3. Og Mose sagde: * eg vil nu þan gad/ og sia þessa stooru syn/ hvi þyrne-buskureñ ecke upp breñur. * Luc. 2/ 15.

4. Þegar Drotteñ sa/ ad hañ gieck þangad til ad sia / þa hroopade Gud til hañs midt af þyrnebuskenum/ og * sag-de: Mose / Mose/ og hañ sagde: sia / hier er eg. * 1. Mos. 22 / 11.

5. Og hañ sagde: kom ecke nær hyn gad / leis þijna skoo af þijnum footum / þui sa stadur / sem þu steñdur a / hañ er ein heilog Jord.

6. Og hañ sagde (frañveiges:) * eg er þijns fodurs Gud / Abrahams Gud / Isaaks Gud / og Jakobs Gud / Og Mose hulde sitt andlit / þui hañ ottadest ad lijta a Gud.
* Matth. 22 / 23. Marc. 12 / 26. Luc. 20 / 37. P. G. 7/ 32.

7. Og Drotteñ sagde: eg hefe grand giæfelega sied mijns fooks eymd / sem er i Ægyptalande / og heyrt þeirra hro-op yfer þeim / sem plaga þa / þui eg veit þeirra hormungar.

8. Og er nidur fareñ ad frelsa þa af Ægyptskra hende / og til ad fæára þa upp af þessu lande/til eins * gods z vijds lands til eins lands/z flijtur med miolk z huniang / til Cananiitans og Hetitans og

og Amoritans og Pherefitans/og Hevit-
ans/ og Jebusitans stadar. * c. 13/5.
9. Og nu sia / Israels barna hro-
op er komed fyrer mig / og eg hefe og so
seed þa þreinging / hvar med Egyptsker
þreingia þeim.
10. So * gack nu / og eg vil senda
þig til Pharao / og wtfærdu mitt foolk
Israels born af Egyptalande.
* P. G. 7/34. Ps. 105/26. Os. 12/14.
11. Og Mose sagde til Guds: hvor
er eg / ad eg skyllde ganga til Pharao /
og eg skyllde wtfæra Israels born af
Egyptalande?
12. Og hañ sagde: sañlega/ * eg vil
vera med þier / Og þetta skal vera þier
eitt teikn/ ad eg / ia eg hefe sendt þig:
nær þu wt fører foolked af Egyptalan-
de/ þa skulud þier þiona Gude a þessu
fialle. * 1. Mos. 31/ 3.
13. Og Mose sagde til Guds: sia /
nær eg kiem til Israels barna/og seige til
þeirra: ydar fedra Gud hefur sendt mig
til ydar/ og þeir seigia til myn : hvad er
hañs nafn? hvad skal eg seigia þeim?
14. Og Gud sagde til Mose: eg skal
vera sa/ sem eg skal vera/ Og hañ sag-
de: so skalltu seigia til Israels barna :
eg skal vera/ hefur sendt mig til ydar.
15. Og Gud sagde eñ framar til
Mose: so skalltu seigia til Israels bar-
na : Drottieñ ydar fedra Gud / Abra-
hams Gud / Isaaks Gud / og Jakobs
Gud/sende mig til ydar/ þetta * er mitt
nafn æfiñlega / og þesse myn miñing
til eilijfrar tijdar. * Es. 42/ 8.
16. Gack / og þu skallt safna þeim
elldstu af Israel / og seigia til þeirra:
Drottieñ ydar fedra Gud er openberadur
mier / Abrahams Isaaks og Jakobs
Gud/ seigiande: eg hefe vissulega villad
ydar / og (sied) hvad vid ydur er fram-
komed i Egyptalande.
17. Og hefe sagt : eg vil uppføra
ydur af Egyptalands eymd til Canan-
itans/ og Hetitans / og Amoritans / og
Pherefitans / og Hevitans / og Jebusit-
ans lands/til eins lands/ sem flytur med
miolk og hunange.
18. Og þeir skulu heyra þijna raust/
og þu skallt ganga/ þu og þeir elldstu af
Israel/ til konungsens af Egyptalande/
og þier skulud seigia til hãs: * Drottieñ
Ebreskra Gud hefur mætt oss/ So nu/
kiære / lát oss ganga þriggia daga reisu
burt i eydemorkena/ z offra til Drottens
vors Guds. * c. 5/ 3.
19. Eñ eg veit / ad konungureñ af
Egyptalande mune ecke láta ydur fara/
utañ fyrer eina volldugа hond.
20. Þvi eg skal wtrietta mijna hond/
og sla Egyptaland med ollum mijnum
furdulegũ verkum / sem eg vil giora þar
iñe/ Og sydañ skal hañ láta ydur fara.
21. Og eg vil giefa þessu foolke nád
hia Egyptskum / og þad skal skie / nær
þier skulud reisa/ skulud þier * ecke reisa
snauder. * c. 11/ 2. c. 12/ 35/ 36.
22. Eñ hver kviña skal oska af siñe
grañkonu/ og af þeirre þar byr i hẽñar
hwse/ silfurkiera og gullkiera/ og klæ-
da/ og þaug skulu þier leggia uppa ydar
syne og uppa ydar dætur/ og skilia Egypta
land þar vid.

## IV. Capitule.

Mose verdur giefed ad giora undar-
lega Giorninga.



Og Mose svarade og sag-
de: og sia/þeir munu ecke
trwa mier / og ecke hlyda
miñe raust / eñ þeir munu
seigia: Drottieñ hefur ecke
openberad sig fyrer þier.
2. Og Drottieñ sagde til hañs: hvad
er þetta þu hefur i þiñe hende? og hañ
sagde : eirn stafur.
3. Og hañ sagde : kasta honum a
Jordena / Og hañ kastade honum a
Jordena / so vard hañ ad einum hogg-
orme / og Mose flydde fyrer honum.
4. Þa sagde Drottieñ til Mose: wt-
riett þijna hond / og grijp um hañs ha-
la/So riette hañ sijna hond wt/og greip
um hañ / og hañ vard ad einum staf i
hañs hond.

5. Ad þeir skulu trwa / ad Drott-
en þeirra fedra Gud / * Abrahams
Gud / Isaaks Gud / og Jakobs Gud
se openberadur þier. * c. 3/6/15/16.
6. Og Drotten sagde en fremar
til hans: stick þu þine hende i þin ba-
rm / Og han stack sine hende i sin ba-
rm / og wt droo hana / og sia / hans
hond var spitelsk sem snioor.
7. Og han sagde: stickþu aptur
þine hende i þin barm / og han stack
aptur sine hende i sin barm / og droo
hana wt af sijnum barme / og sia / þa
var hun orden aptur sem hans (annad)
holld.
8. Og þad skal skie / ad ef þeir ecke
vilia trwa þier / eda hlijdnast (þine)
raust vid þad fyrsta teikn / þa skulu
þeir trwa þine raust vid þad annad
teikn.
9. Og þad skal skie / ef þeir ecke en
munu trwa þessum tveimur teikn-
um / og ei hlijda þine raust / þa skalltu
taka af flootsens vatne / og ausa upp
a þad þurra / so skal þad vatn / sem
þu tookst af flootenu / verda ad *
bloode a þvi þurra. * c. 7/ 17.
10. Og Mose sagde til Drottens:
kiære herra / * eg hefe ecke hijngad til
dags vered eirn velltalande madur / ei
helldur sijdan þu talader til þijns þien
ara / þvi eg hefe eitt þwngt mælfære /
og eina þwnga tungu. * c. 6/ 12/ 30.
11. Og Drotten sagde til hans:
hvør hefur * giefed manneskiunne munn-
en? eda hvør mun giøra mællausan
eda daufan / eda siaande / eda blindan?
hefe ecke eg Drotten (þad giørt?)
* Ps. 94/ 9.
12. So gack nu / og * eg / eg skal
vera med þijnum munne / og kienna þier
hvad þu skallt tala. * Matth. 10/19.
13. Og han sagde: kiære Drotten /
send þo fyrer þann / þu villt senda.
14. Þa vard Drottens reide upp-
tendrud i moote Mose / og han sagde:
þecke eg ecke * Aaron þinn broodur /
þann Levita / ad han kan vel tala? og
sia / han skal og ganga wt i moote þi-
er / og nær han sier þig / þa skal han
gledia sig i sijnu hiarta.
* Syr. 45/ 10.
15. Og þu skallt tala til hans / og
leggia orden i hans munn / og eg / eg skal
vera med þijnum munne / og med hans
munne / og kienna ydur hvad þid skulud
giøra.
16. Og * han skal tala fyrer þig
til foolksens / og þad skal skie / han
skal vera þinn tulkur / og þu / ia þu
skallt vera hønum sem eirn Gud.
* C. 7/ 12.
17. Og tak þennan staf i þijna hø-
nd / med hvørium þu skallt giøra teik-
nen.
18. Og Mose gieck / og kom aptur
til Jethro sijns mægs / og sagde til
hans: kiære / * lát mig fara / og eg
vil fara aptur til minna brædra / sem
eru i Egyptalande / og sia / hvort þeir
enn nu lifa / Og Jethro sagde til Mo-
se: gack i fride. * 1. Kong. 1/ 21. etc.
19. Og Drotten sagde til Mose i
Midian: gack burt / far til Egypta-
lands aptur / þvi aller * þeir menn eru
dauder / sem sooktu epter þijnu lijfe.
* Matth. 2/ 20.
20. So took Mose sijna hustru / og
sijna syne / og flutte þau a einum as-
na / og foor til Egyptalands aptur /
og Mose took Guds staf i sijna hønd.
21. Og Drotten sagde til Mose:
nær þu fer ad koma i Egyptaland
aptur / þa sia til / ad þu giører øll
þesse teikn i Pharaonis asynd / sem
eg hefe giefed i þijna hønd / Enn * eg
vil forherda hans hiarta / ad han skal
ecke láta foolked fara. * c. 7/ 3.
C. 14/ 4.
22. Og þu skallt seigia til Pha-
rao: so seiger Drotten: Israel er minn
sonur / minn frumgietenn.
23. Og eg hefe sagt þier: lát minn
son fara / ad han kunne þioona mier /

Og þu hefur syniad/ ad lꜳta hañ fara/ siꜳ/ eg i hel slæ þiñ son/ þiñ frumgetna. * c. 11/ 5. c. 12/ 29.

24. Og þad skiede a veigenum i herbergenu/ kom Drotteñ i moote hønum/ og villde slꜳ hañ i hel.

25. Þa took * Ziphora eirn hvassañ stein / og afskar syns sonar yferhwd/ og liet hana snerta hañs fætur/ og sagde : Þvi þu ert mier eirn blooduugur brwdgume. * Jos. 5/ 2.

26. Þa liet hañ hñ vera/ Eñ hun sagde: eirn bloodugur brwdgume fyrer umskurnareñar skulld.

27. Og Drottéñ sagde til Aaron: gack i moot Mose i eydemørkena/ og hañ gieck og mætte hønum hia Guds fialle / og * kiste hañ.

* 1. Mos. 33 / 4.

28. Og Mose sagde Aaron øll Drottéñs ord/ sem hafde wtsendt hañ/ og øll þau teikn/ sem hañ hafde biff al ad hønum.

29. So gieck Mose z Aaron burt/ og søfnudu øllum þeim ellstu af Israels børnum.

30. Og Aaron talade øll ord/ sem Drottéñ hafde talad vid Mose / og giørde teikneñ fyrer foolksens augum.

31. Og foolked trwde / Og þegar þeir heyrdu / ad Drottéñ vitiade Israels barna/ og ad hañ hafde sied þeirra eymd / þa hneigdu þeir sig/ og tilbꜳdu.

## V. Capitule.

Israels Børn plaagast meir.



Og þar epter komu Mose og Aaron iñ/ og tøludu til Pharao : so seiger Drottéñ Israels Gud: * lꜳt mitt foolk fara / og þeir skulu hallda mier hꜳtijd i eydemørkeñe.

* C. 7/ 16. C. 8/ 1/ 20.

2. Og Pharao sagde : hvør * er sa Drottéñ/ hvørs raust eg skule hlyda / ad lꜳta Israel fara ? eg þeckе ecke þañ Drottéñ / eg vil og ecke lꜳta Israel fara. * Dan. 3/ 15.

3. Og þeir søgdu: þeirra Ebreskra Gud mætte ecku r / So lꜳt oss nu fara þriggia daga ferd i eydemørkena / og giøra Drottne vorum Gude offur/ ad hañ ecke skule mæta oss med drepsoott eda sverde.

4. Þa sagde konungureñ af Ægyptalande til þeirra : Þu Mose og Aaron/ hvar fyrer vilied þid taka foolked fra þeirra erfide ? ganged burt til ydar þioonustu.

5. Og Pharao sagde (eñ framar:) siꜳ / foolked er allareidu * ofmyked i landenu/ og þier lꜳted þa hvijlast af þeirra byrdum. * c. 1/ 7/ 12.

6. Og Pharao biff alade plaagu-fovitunum medal foolksens / og under-fovitunum yfer þvi / sama dag / og sagde:

7. Þier skulud ecke framar meir giefa foolkenu hꜳlm ad breña tijgla med / sem fyrrum / helldur lꜳted þa sialfa ganga/ og safna sier strꜳum.

8. Og setied þeim (samt) fyrer / ad giøra þa sømu tølu steinaña / sem þr hafa giørt hijngad til dags/ mijnked eckert þar af / þvi þeir ganga ydiulauser/ þar fyrer hroopa þeir/ og seigia: vier vilium ganga burt / vier vilium giøra vorum Gude offur.

9. Lꜳted erfided verda þwngt yfer moñunum/ ad þeir hafe ad starfa þar med / og ecke reida sig uppa lijgefull ord.

10. Þa wtgeingu foolksens plaagu-fovitar og under-fovitar yfer þvi / og søgdu til foolksens / seigiande : so seiger Pharao : eg gief ydur ecke hꜳlm.

11. Ganged sialfer / safned ydur strꜳum/ hvar þier kuñed fiña/ eñ þar skal eckert mijnkast af ydar erfide.

12. So dreifdest foolked yfer allt Ægyptaland/ ad safna sprekum fyrer hꜳlm

haalm.

13. Og fovikarner þreingdu og sǫg
du: fullgiøred ydar verk / hvørn dag
fyrer sig / so sem þegar þier høfdud
haalm.

14. Og Israels barna under-fovik
ar urdu slegner / hvøria Pharaonis
fovikar høfdu sett yfer þa / og þar
vard sagt til þeirra: hvar fyrer hafe
þier ecke fullgiørt ydar tilskickad (ve-
rk:) ad giøra tijgla sem fyrrum/so og
i giær og i dag?

15. Þa komu Israels barna under-
fovikar / og hroopudu til Pharao/
og sǫgdu: hvi fer þu so med þijna
þienara?

16. Þijnum þienurum giefst ecke
haalmur/ og þeir seigia til vor: giør-
ed steina/ Og siaa/ þijner þienarar faa
hogg/ og þitt foolk * skal faa skulld.

* 1. Kong. 1/ 21.

17. Og hann sagde: þier erud later/
iiaa later / þar fyrer seiged þier: vier
vilium ganga burt / vier vilium offra
Drottne.

18. Þvi ganged nu burt / þrælked/
og eingenn haalmur skal ydur giefast/enn
þier skulud þo skila tølu a tijgul-steinunum.

19. Þa saau Israels barna under-
fovikar/ad þeir voru illa stadder i þvi/
ad þar var sagdt: þier skulud eckert
mijnka af tijgul-steinunum a ydar dags
verke nockurn dag.

20. Og þeir mættu Mose og Aa-
ron/ sem komu þeim i moote/þegar þe
ir geingu wt fra Pharaone.

21. Og sǫgdu til þeirra: Drottenn lijte
a ydur/ og dæme / ad þier hafed giørt
oss * illa luccktande fyrer Pharaone/
og fyrer hanns þienurum/ ad faa þeim
sverded i þeirra hond / til þess ad slaa
oss i hel. * 1. Mos. 34/ 31.
1. Sam. 13/ 4.

22. Og Mose kom til Drottens
aptur/ og sagde: Drottenn/ hvi giør-
er þu illa vid þetta foolk / hvi send
er þu mig?

23. Þvi sijdann eg gieck (fyrst) inn
til Pharao/ ad tala i þijnu nafne/ hef
ur hann fared illa med þetta foolk / og
þu hefur ecke neirnveigenn frijad þitt
foolk.

## VI. Capitule.

Kynkvijslanna Nefnd verda skrifud.



Og Drottenn sagde til
Mose: nu skalltu siaa
hvad eg vil giøra Pha-
raoni/þvi hann skal lata
þa fara fyrer eina vold
uga hønd / og * fyrer
eina sterka hønd skal hann wtreka þa
af sijnu lande. * c. 11/ 1. c. 12/ 33.

2. Og Gud talade til Mose / og
sagde til hanns: eg er Drottenn.

3. Og er openberadur Abraham /
Isaak og Jakob / i einum almaattug-
um Gude/ enn med mijnu nafne/ Drott
enn/ er eg ecke þecktur af þeim.

4. Og eg hefe enn uppreist minn satt
maala vid þa / * ad gefa þeim Cana-
ans land/ þeirra wtlendingsskapar la-
nd/i hvøriu þeir hafa vered wtlender.
* 1. Mos. 17/ 8. C. 26/ 3.

5. Og eg / eg hefe og so heyrt Is-
raels barna andvarp / hvøria Egypt-
sker hafa giørt ad þrælum/ Og eg he-
fe þeinkt a minn sattmaala.

6. Þar fyrer seig til Israels bar-
na: eg er Drottenn/ og vil wtfæra yd-
ur fra Egyptskra þreingingu/og frija
ydur af þeirra þrældoome / og frelsa
ydur med einum wtrietkum armlegg/og
med stooru straffe.

7. Og eg vil taka ydur mier til eins
foolks / og vil vera ydur einn Gud / ad
þier skulud vijst reina/ ad eg sie Drott
enn ydar Gud / sa sem wtfærer ydur
fra þeim Egyptska þwnga.

8. Og eg vil innfæra ydur i land-
ed/ um hvørt * eg hefe svared/ad gie-
fa þad Abraham / Isaak og Jakob /
Og eg vil giefa ydur þad til eigen-
dooms / Eg er Drottenn.
* Ezech. 47/ 14.

led i moote hønum/ Og hvad erum vid? ydar møgl var ecke i moote ockur/ helld ur i moote Drottne.

9. Og Mose sagde til Aaron: seig til allrar Israels barna samkun-du: komed fram fyrer Drottenn/ þvi hann heyrde ydar mølgan.

10. Og pad skiede/ þegar Aaron talade til alls Israels barna safnad-ar/ þa litu þeir þangad i eydemørk-ena/ og sia/ þar * sast Drottens vegsemd i einu skye. * 4. Mos. 12/ 5. C. 14/ 10. Syr. 45/ 5.

11. Og Drottenn talade til Mose/ og sagde:

12. Eg hefe heyrt Israels barna møgl/ tala til þeirra/ seigiande: i millum þeirra tveggia aptna/ skulud þier eta kiøt/ og a morgun mettast af braude/ og vita/ ad eg er Drottenn ydar Gud.

13. Og þad skiede umm apkanenn/ ad þar * uppkomu vagtelur/ og þecktu herbwdernar/ Og umm morgunenn laa døgg fallenn umm kryng herbwdernar.

* 4. Mos. 11/ 31. Ps. 105/ 40.

14. Og þegar døggenn/ sem var fallenn/ stie upp/ sia/ þa * (laa þar) i eydemørkenne nockud smatt/ kryng-loott/ smatt sem hrymfrost a Jørdu.

* Ezechiel. 9/ 15. Ps. 78/ 24. Spek. 15/ 20/ 21. Joh. 6/ 31.

15. Þegar Israels børn saau þad/ þa søgdu þau/ sa eine til þess annars: * þad er Man/ þvi þeir vissu ecke hvad þad var/ þa sagde Mose til þeirra: ** þad er þad braud/ sem Drottenn hefur giefed ydur ad eta.

* 4. Mos. 11/ 7. ** Joh. 6/ 31. 1. Cor. 10/ 3.

16. Þetta er þad ord sem Drott-enn hefur byfalad/ safned þar af epter þvi sem hvør hefur þørf ad eta/ þier skulud taka eirn omer til (hvørs) høf-uds/ epter persoonanna tølu/ sem hvør hefur i sinne tialldbwd.

17. Og Israels børn giørdu so/ og søfnudu eirn meira/ og eirn annar minna

18. Og þeir mælldu þad i einum omer/ þa * hafde sa ecke yfer/ sem meira hafde safnad/ og þann vantade ecke/ sem hafde safnad minna/ Þeir høfdu safnad hvør so myked/ sem hann kunne eta. * 2. Cor. 8/ 15.

19. Og Mose sagde til þeirra: eingenn skal leifa þar af til morguns.

20. Þo hlyddu þeir ecke Mose/ helldur leifdu sumer þar af til morg-uns/ so uxu þar ormar i/ og þad luckt-ade illa/ þar fyrer vard Mose reidur vid þa.

21. So søfnudu þeir hvørn morg-un þar af/ hver so myked/ sem hann kunne eta/ enn nær soolenn (skein) heitt/ so smelltest þad.

22. Og þad skiede a þeim siøtta deige/ søfnudu þeir tvøfølldu braude/ tvo omer fyrer eirn/ So geingu aller þeir yppurstu af søfnudenum til Mo se/ og gaafu hønum þad til vitundar.

23. Þa sagde hann til þeirra: þad er þad/ sem Drottenn sagde: a morg-un er þad sabbat/ heilagleikans hvyld fyrer Drottne/ hvad þier vilied baka/ þad baked/ og hvad þier vilied sioda/ þad siooded/ Enn allt þad sem yfer er/ þad laated liggia i ydar geymslu/ til þess ad morgne.

24. Og þeir lietu þad liggia til morguns sem Mose byfalade/ og þad lucktade ecke illa/ og þar var ecke orm ur i þvi.

25. Þa sagde Mose: eted þad i dag/ þvi þad er sabbat i dag fyrer Drottne/ i dag skulud þier ecke finna þad a mørkenne.

26. Sex daga skulud þier safna þvi/ og a þeim siøunda deige er sabb-at/ þad skal ecke vera a hønum.

27. Og þad skiede a þeim siøunda deige/ utgeingu (nockrer) af foolkenu ad safna/ og þeir fundu ecke.

28. Þa sagde Drottenn til Mose: hvad leinge neited þier ad hallda myn bod

bod/og mijn løg ?

29. Siaed/ad Drottenn hefur giefed ydur * sabbatinn / þar fyrer giefur hann ydur a þeim siotta deige tveggia daga braud / Vered hvør heima / einngenn wtgange af sijnum stad a þeim siøunda deige. * 1. Mos. 2/ 2.

30. Og foolked hvijldest a þeim siøunda deige.

31. Og Israels huus kallade þess nafn Man/ og þad var eins sem coriander fræ/ hvijtt/og smackade sem ein hunangs kaka.

32. Og Mose sagde: þetta er þad ord / sem Drottenn bijfalade : * fyll eirn omer þar af / ad geima til ydar epterkomara / ad þeir meige siaa þad braud / sem eg fædde ydur med i eydemørkenne / þegar eg wtfærde ydur af Egyptalande. * Ebr. 9/ 4.

33. Og Mose sagde til Aaron: tak eina * krws / og legg eirn omer fullann af Man þar i/ og set þad fyrer Drottne/ ad geimast til ydar epterkomara. * Ebr. 9/ 4.

34. Sem Drottenn bijfalade Mose / so sette Aaron þad nidur fyrer vitnesburdenum ad geimast.

35. Og Israels børn aatu þad Man fiørutijger aar / þar til þeir komu til þess lands / sem var byggt / Þeir aatu Man * þar til ad þeir komu til þess ytsta a Canaans lande. * Jos. 5/ 12.

36. Enn eirn omer er sa tiunde(part ur) af einum epha.

## XVII. Capitule.

Israels Børn drecka Vatn af Klettenum/ og yferviñna þa Amalekita.



Og allur Israels barna søfnudur foor af þeirre eydemørku Sin/ epter þeirra reysum/epter þvi sem Drottenn bijfalade / og settu sijnar herbwder * i Rephidim / og þar hafde foolked eckert vatn ad drecka. * 4. Mos. 33/14.

2. Og foolked * þrættade vid Mose og sagde : giefed oss vatn / ad vier kunnum drecka. Og Mose sagde til þeirra : hvad vilied þier þrætta vid mig? ** hvad vilie þier freista Drottens. * Ps. 95/ 9. etc.
** 5. Mos. 6/ 16.

3. Og foolked þyrste þar epter vatne / og foolked møglade i moot Mosa og sagde : hvar fyrer upp færder þu oss af Egyptalande / ad laata mig og mijn børn og mijn fienad deyia af þorsta?

4. Þa hroopade Mose til Drottens/ og sagde : hvad skal eg giøra vid þetta foolk? þad vantar ecke myked/ ad * þeir vissulega grijte mig.
* 4. Mos. 14/ 10.

5. Og Drottenn sagde til Mose : gack fram fyrer foolked / og tak med þier af þeim ellstu af Israel / og tak þinn staf/med hvørium þu * sloost fliooted/ i þijna hønd/ og gack þangad.
* C. 7/ 20. C. 14/ 16/ 17.

6. Siaa / eg vil standa þar fyrer þier a einum klett i Horeb / og þu * skallt slaa a klettenn / so skal þar flioota vatn af hønum / ad foolked meige drecka / Og Mose giørde so fyrer augum þeirra elldstu af Israel.
* 4. Mos. 20/ 11. 5. Mos. 8/ 15. Ps. 78/ 15 15. Ps. 105/ 41. Ps. 114. 8. Es. 48/ 21. 1. Cor. 10/4.

7. So kallade hann * stadarens nafn Massa og Meriba / vegna Israels barna þrætanar / og vegna þess þeir høfdu freistad Drottens/ og sagt: mun Drottenn vera a medal vor / edur ei? * Ps. 95/ 8/ 9.

8. Og * Amalek kom / og strijdde i moot Israel i Rephidim.
* 4. Mos. 24/ 20. 5. Mos. 25/ 17. 1. Sam. 15 / 2.

9. Þa sagde Mose til Josua: wtvel oss menn / og reis wt / strijd i moot Amalek / Eg vil standa efst a hædenne a morgun / og Guds stafur skal vera i

minne

miñe hende.

10. Og Josua giørde / sem Mose sagde hønum/ ad strijda i moot Amalek/ eñ Mose/ Aaron og * Hur geingu epst uppa hædena. * c. 24/ 14.

11. Og þad skiede / þa stund Mose hiellt siñe hende upp/ þa vañ Israel/ eñ nær hañ liet sijga sijna hond / þa vañ Amalek.

12. Eñ Mose hendur voru þwngar / þar fyrer tooku þeir eirn stein / og løgdu under hañ / og hañ sette sig þar a/ Og Aaron og Hur hielldu upp hañs høndum/ eirn a þa eina sijdu/ og eirn a þa adra sijdu. Og so urdu hañs hendur fast ( upphallonar ) til þess sooleñ gieck nidur.

13. Og Josua lagde ad velle * Amalek / og hañs foolk med hvøssu sverde. * Dom. 4/ 12/ 13. Spek. 11/ 3.

14. Og Drotteñ sagde til Mose : skrifa þetta til eirnrar miñingar i bookena / og legg þad i Josuæ eyru / ad eg vilie vissulega afmaa * Amaleks miñing under Himnenum. * 4. Mos. 24/ 20. 5. Mos. 25/ 19. 1. Sam. 15/ 2/ 3

15. Og Mose bygde eitt altare / og kallade þess nafn / Drotteñ mitt strijdsmerke.

16. Og hañ sagde : þvi þar er ein hond yfer Drottens hæsæte / Drottens strijd ( skal vera ) i moote Amalek / fra barne til barna barns.

## XVIII. Capitule.

### Jethro giefur Mose Rad.



Og Jethro prestur af Midian / Mose mægur/ heyrde allt þad Gud hafde giort vid Mose og sitt foolk Israel / ad Drotteñ hafde wtfærdt Israel af Egyptalande.

2. Þa took Jethro / Mose mægur/ * Ziphora/Mose hustru/ epter þad hañ hafde sendt hana aptur : * c. 2/21/22. C. 4/ 20.

3. Og heñar * tvo syne / af hvørium þess eina nafn var Gersom/ þvi hañ sagde : eg var eirn framande/ i einu ødru lande. * c. 2/ 22.

4. Og þess añars nafn Elieser/ þvi hañ (sagde :) mijns fødurs Gud er kom eñ mier til hiaalpar/og hefur frijad mig fra Pharaonis sverde.

5. Þegar Jethro Mose mægur kom/ og hañs syner og hañs hustru/til Mose i eydemørkena / þar sem hañ hafde sett sijnar herbwder/hia Guds fialle.

6. Þa liet hañ seigia til Mose : eg Jethro þiñ mægur kiem til þijn / og þijn hustru / og heñar tveir syner med heñe.

7. Þa gieck Mose wt/ ad mæta sijnum mæge / og hneigde sig / og * kiste hañ / Og sa eine heilsade þeim ødrum/ og þeir komu til tialldbwdareñar. * 1. Mos. 33/ 4.

8. So sagde Mose sijnum mæge allt þad Drotteñ hafde giort Pharao og Egyptiskum fyrer Israels skulld / og alla þa mædu sem þa hafde skied a veigenum / og hvørneñ Drotteñ hafde frijad þa.

9. Þa vard Jethro gladur vegna alls þess gooda/sem Drotteñ hafde giort Israel/ er hañ hafde frijad af Egyptskra hende.

10. Og Jethro sagde : lofadur vere Drotteñ/ sem frijade ydur af Egyptskra hende/ og af Pharaonis hende/sem frijade foolked fra Egyptskra hende.

11. Nu veit eg/ad Drotteñ * er mykell / fram yfer alla gude / þvi i þeirre streitne sem þeir stærdu sig af/(kom hañ) yfer þa. * c. 15/ 11.

12. Og Jethro / Mose mægur/ took brenne offur z slaatur-offur fyrer Gude/ So kom Aaron og aller elldstu af Israel / ad eta maat med Moses mæge fyrer Gude.

13. Og þad skiede a ødrum deige/ ad Mose sette sig / ad dæma foolked / og foolked stood fyrer Mose/fra morgne/ til til kvøllds.

14. Þegar Mose mægur saa alla þa atferd/ hoñ giørde vid foolked/þa sagde hañ : hvad er þad / sem þu giører vid

fooked? hvi situr þu alleina / og allt fooked stendur i kryngum þig fra morgne til kvollds?

15. Og Mose sagde til syns mags: þvi fooked kiemur til myn / og spyr Guds.

16. Þegar þeir hafa nockud ad sysla / þa koma þeir til myn / ad eg skule dæma i millum hvers eins og hans næunga / og kieña þeim Guds riett og hans løg.

17. Þa sagde Mose mægur til hans: þad er ecke gott / sem þu giører.

18. Þu mætt vyst vanmegnast ( þar yfer /) bæde þu og þad foolk / sem er med þier / þvi su sysslan er þier * ofþung / þu kant ecke wirietta þad alleina.
* 5. Mos. 1/ 9.

19. Hlyd nu mine raust / eg vil giefa þier rad / og Gud mun vera med þier / Vertu fyrer foolkenu / hvad Gude er vid vykiande / og þu skallt færa malefneñ til Guds.

20. Og æmiñ þa um̃ skickaner og løgeñ / og kieñ þeim veigeñ / sem̃ þeir eiga ad ganga a / og þad verk / sem þeir skulu giora.

21. Og þu skallt sia þig um̃ wt af ollu foolkenu * duganlega meñ / sem ottast Gud / sañsyna meñ / sem hata ágirnd / og setia þa yfer þa / hofdingia yfer þusund / hofdingia yfer hundrud / hofdingia yfer fimtyger / og hofdingia yfer tyu. * 4. Mos. 11/ 16.
5. Mos. 1/ 13.

22. Og þeir skulu dæma foolked a allre (hentugre) tyd / Og þad skal ske / allt þad stoora malefne skulu þeir setia fyrer þig / og allt lyted malefne skulu þeir sialfer dæma / Giør þad þier (hañs) liettara / og þeir skulu bera med þier.

23. Þar sem þu villt giora þeñañ hlut / og Gud byfalar þier þad / þa kañ tu standast vid / og eirneñ allt þetta foolk mætte koma med fride til syns stadar.

24. Og Mose hlyddde syns mags ord um / og giorde allt þad / sem hañ sagde.

25. Og Mose * wtvalde duganlega meñ af ollum Israel / og sette þa til hofdingia yfer foolked / hofdingia yfer þusund / hofdingia yfer hundrud / hofdingia yfer fimtyger / og hofdingia yfer tyu. * 4. Mos. 11/ 16.

26. Og þeir dæmdu foolked a ollum (til settum) tyma / Eñ þar þungu saker skylldu þeir setia fyrer Mose / og sialfer dæma allar þær smæu saker.

27. So liet Mose siñ mag fara / og hañ foor til syns lands.

## XIX. Capitule.

### Underbwningur til ad heyra Guds Logmal.



þeim þridia manude / epter þad Israels børn voru wtgeingeñ af Egyptalande / a þeim sama deige komu þeir * i Sinai eydemorku. * 4. Mos. 33/ 15.

2. Þvi þeir fooru af Rephidim / og komu til Sinai eydemorkar / og settu syn ar herbwder i eydemorkeñe / og þar sette Israel synar herbwder gagnvart fiallenu.

3. Og Mose gieck upp til Guds / og Drotteñ * hroopade til hañs af fiallenu / og sagde: so skalltu seigia til Jakobs huuss / og kuñgiora Israels bornum. * P. G. 7/ 38.

4. Þier * hafed sied / hvad eg giørde Egyptskum / og eg ** upplyfte ydur yfer arna vængium / og took ydur til myn.
* 5. Mos. 29/ 2. ** 5. Mos. 32/ 11.

5. Og þar sem þier villed nu vissulega hlyda mine raust / og hallda * miñ sattmala / þa skulud þier vera mier eirn eigendoomur / fram̃ yfer allar þiooder / Þvi ** oll Jordeñ heyrer mier til.
* 5. Mos. 5/ 2. ** Ps. 24/ 1. Ps. 50/ 12. 1. Cor. 10/ 26.

6. Og þier skulud verda mier eitt * prestlegt kongs ryke / ** og eitt heilagt foolk. Þesse eru þau ord / sem þu skallt seigia til Israels barna. * 1. Pet. 2/ 9.
** 5. Mos. 7/ 6. etc.

7. So kom Mose / og kallade a þa elldstu af foolkenu / og lagde þeim oll þesse ord fyrer / sem Drotteñ hafde bod ed honum.

8. Þa

8. Pa svarade allt foolked til samans / og sagde: allt pad / sem Drottenn hefur sagt/ villum vier giora/ Og Mose flutte aptur foolksens ord fyrer Drottenn.

9. Pa sagde Drottenn til Mose: sia / eg vil koma til pin i einu pyckou skye/ uppa pad foolked meige heyra/ nær eg tala vid pig/ og eirnenn trwa a pig æfenlega / Og Mose kunngiorde foolksens ord fyrer Drottne.

10. Og Drottenn sagde til Mose: gack til foolksens/ og pu skallt helga pa i dag og a morgun / ad peir pvoe peirra klæde:

11. Og peir skulu vera reidubwner til pess pridia dags/ pvi a peim pridia deige mun Drottenn nidur stijga fyrer alls foolksens augum/a Sinai fiall.

12. Og pu skallt giora foolkenu eitt mark umhverfes / og seig: varest ad * ganga uppa fialled / og ad koma nærst vid pad/ hvør sa / sem kiemur vid fialled / skal vissulega deydast. * c. 34/ 3.

13. Eingenn * hond skal koma vid pad/ pvi hann skal visselega grijtast/ eda visselega skiootast / hvort helldur pad er eitt dijr/ eda ein manneskia/pa skal þ ecke lifa / Nær bæsunann hlioodar længsamlega/ pa skulu peir stijga uppa fialled.
* Ebr. 12/ 18/ 20.

14. Og Mose gieck ofann af fiallenu til foolksens/ og helgade foolked/ og peir pvoodu peirra klæde.

15. Og hann sagde til foolksens: verid reidubwner ad prem døgum/ og halldid ydur ecke til kvennfoolks.

16. Og pad skiede a peim pridia deige/ pegar par vard morgun/ ad par voru prumur og elldingar / og eitt pickt sky a fiallenu/ og bæsununnar hliood var harla sterkt / so ad pad gioruallt foolk skalf/ sem var i herbwdunum.

17. Og Mose * wtleidde foolked i moots vid Gud af herbwdunum/ og peir stadnæmdust nedann under fiallenu.
* 5. Mos. 4/ 11.

18. Og Sinai fiall rauk allt/af pvi ad Drottenn foor nidur yfer þ i elldenum/ og par uppgieck eirn reikur af pvi / sem reikur af einum ofne/og allt fialled skalf harla miog.

19. Og basununnar hliood varade/ og var wyked sterkt/ Mose talade/ og Gud svarade honum hatt.

20. Pegar Drottenn var pa nidurkomenn yfer Sinai fiall yfer fiallsens topp/ pa kallade Drottenn Mose uppa fiallstoppenn/ og Mose gieck upp.

21. Pa sagde Drottenn til Mose: stijg ofann / og vitna fyrer foolkenu / ad peir ecke briootest fram til Drottenns ad siaa / pvi par mætte marger falla af peim.

22. Og eirnenn presstarner / sem ganga fram til Drottenns / peir skulu helga sig / ad Drottenn skule ecke vinna skada a peim.

23. Og Mose sagde til Drottens: foolked kann ecke stijga uppa Sinai fiall/ pvi pu/ pu vitnoder fyrer oss/ og sagder: set eitt mark umm fialled / og helga pad.

24. Og Drottenn sagde til hanns: gack/stijg ofann/ og pu skallt sijdann stijga upp/ pu og Aaron med pier. Enn presstarner og foolked skulu ecke briootast fram/ ad uppstijga til Drottens / ad hann ecke vinne skada a peim.

25. Og Mose stie ofann til foolksens/ og talade til peirra.

## XX. Capitule.

### Mose medtekur pau tiju Guds Bodord.



Og Gud talade oll pesse ord/ og sagde:

2. Eg * er Drottenn pinn Gud / sem wtfærde pig af Egyptalande/ af præla huusenu.
* 5. Mos. 5/ 6. Ps. 81/ 11. Os. 13/ 4.

3. Pu skallt ecke hafa * adra gude fyrer mier. * Jos. 24/ 14. Ps. 113/ 4/ 5.

4. Pu skallt ecke giora pier * bylæte edur nockurt lykneske(epter pvi/)sem er a Himnenum par uppe / eda pvi a Jordunne/ hier nidre/ eda pvi i vatnenu/

under Jørdunne. * 3. Mos. 26 / 1. 5. Mos. 4/ 15/ 16. C. 5/8. C. 27/15. Ps. 81/ 10. Ps. 97/ 7.

5. Þu skallt ecke tilbidia þau/ og ecke þioona þeim / þvi eg er Drottenn þinn Gud / eirn vandlætur Gud / sem villar fedranna misgiørninga a børnunum / a þeim i þridia/ og a þeim i fioorda (lid:) vegna þeirra/ sem hata mig.

6. Og sa / sem giører myskunsemd vid þusunder / fyrer þa sem elska mig / og fyrer þa / sem hallda myn bod.

7. Þu skallt ecke taka Drottens þyns Guds * nafn/ fæfeingelega/ þvi Drottenn ** skal ecke reikna þann sak-lausann ( ad vera / ) sem tekur hans nafn fæfeingelega. * 3. Mos. 19/12. 5. Mos. 5/ 11. Matth. 5/ 33. ** 3. Mos. 24/ 16. 2. Mos. 23/ 12.

8. Minstu * a sabbatsdagenn / ad helga hann. * C. 23 / 12. C. 31 / 14. C. 35/ 2. 5. Mos. 5/ 12. etc. Ezech. 20/ 12.

9. Sex daga skalltu erfida/ og giøra allt þitt verk.

10. Enn sa siounde dagur er sabbat fyrer Drottne þynum Gude / þa skalltu eckert verk giøra/ hvorke þu/ edur þinn sonur / edur þyn doottter / þinn þioon / edur þyn þerna / edur þitt dyr / edur sa framande / sem er innann þinna porta.

11. Þvi * a sex døgum giørde Drottenn Himen og Jørd/ hafed/ og allt þad/ sem er i þeim / og hvylldest a siounda deige/ Þar fyrer blessade Drottenn sabbatsdagenn / og helgade hann. * 1. Mos. 2/ 2/ 3. etc.

12. Heidra * þinn fødur og þyna moodur/ ad þyner dagar ** kunne leingiast i landenu / sem Drottenn þinn Gud gefur þier. * 5. Mos. 5/ 16. Syr. 3/7. Tob. 4/3. Matth. 15/4. Eph. 6/2. ** Ordsk. 3/ 2. C. 4/ 10.

13. Þu * skallt ecke slaa i hel. * Matth. 5/ 21.

14. Þu * skallt ecke drygia hoor. * 3. Mos. 20/ 10. etc. Ebr. 13/ 4/ 9.

15. Þu skallt ecke stela.

16. Þu skallt ecke leita fals vitnes i moote þynum naunga.

17. Þu skallt ecke gyrnast þyns naunga huus / Þu * skallt ecke gyrnast þyns naunga hustru/ edur hans þræl/ edur hans þernu / eda hans uxa / eda hans asna/ edur nockud sem heyrer þyn um naunga til. * 5. Mos. 5/ 21. Rom. 7/ 7. C. 13/ 9.

18. Og allt foolked sa þrumurnar og elldingarnar / og basununnar hliood/ og fialled riuka/ en foolked sa þad/ þa flydu þeir/ og stoodu langt fra.

19. Og þeir søgdu til Mose : tala þu vid oss / og vier villium vera hlydug-er/ og lat Gud ecke tala vid oss/ ad vier ecke deyum.

20. Og Mose sagde til foolksens : ottest ecke / þvi Gud er komenn til ad reyna ydur / og til þess ad hans otte skule vera yfer ydar augsyn / ad þier skulud ecke synda.

21. Og foolked * stood langt fra / og Mose geck nær til myrkursens / hvar Gud var. * Ebr. 12/ 18.

22. Og Drottenn sagde til Mose : so skalltu seigia til Israels barna / Þier hafed sied / ad eg hefe talad af Himne vid ydur.

23. Þier * skulud ecke giøra (nockud jafnt) vid mig silfur gude / eda gull gude skulud þier ecke giøra ydur. * C. 34/ 17.

24. Eitt * altare af Jørd skallt þu giøra mier/ og þar a skalltu offra þynum brennefoornum / og þynum þacklætes foornum / þynum saudum / og þynum fienade / A hvorium þeim stad / sem eg giøre myns nafns minning / ** vil eg koma til þyn/ og blessa þig. * C. 27/8. ** 5. Mos. 12/ 5. etc.

25. Og ef þu villt giøra mier * eitt altare af steine / þa skalltu ecke byggia þad / af hogguum (steine/) Þvi lætur þu þitt hogg-jarn koma þar yfer / þa vanhelgar þu þad. * 5. Mos. 27/ 5. Jos. 8/ 31.

26. Þu skallt ecke ganga upp um troppur til myns altares/ ad þyn blygdan ei skule verda ber yfer þvi.

## XXI. Capitule.

### Adskilianleg Veralldleg Løg.

Og


Og þesser eru þeir doomar / sem þu skallt setia þeim fyrer.

2. Nær þu kauper * eirn Ebreskañ þræl/ þa skal hañ þioona sex ar / og a þvi siounda skal hañ wtganga frij fyrer eckert. * 3. Mos. 25 / 39. 5. Mos. 15/ 12. Jer. 34/ 14.

3. Ef hañ kom eirnsamañ / þa skal hañ wtganga eirnsamañ / Ef hañ var eirnrar kuiñu madur/ þa skal hañs kuiña wtganga med hønum.

4. Ef hañs herra hefur gefed hønum eina eigeñ kuiñu/ og hun hefur fædt hønum syne eda dætur/ þa skal kuiñañ og heñar børn heyra heñar herra til / og hañ sialfur skal wtganga eirn samañ.

5. Eñ seige þiooneñ einardlega: eg elska miñ herra/ mijna kuiñu og mijn børn/ eg vil ecke ganga frij wt:

6. Þa skal hañs herra leida hañ iñ fyrer doomarana/ og hallda hønum upp vid dyrnar / edur vid dyra-stafeñ/ og hañs herra skal i giegnumstijnga hañs eyra med einum al / so skal hañ þioona hønum æfeñlega.

7. Ef nockur selur sijna dootkur til eirnrar ambattar / þa skal hun ecke wtganga / sem þioonustu-foolk wtgeingur.

8. Ef hun ecke þocknast heñar herra / sem sig hefur trwlofad heñe / þa skal hañ læta hana lausa/ Hañ skal ecke hafa magt / til ad selia hana til nockurs framande foolks/ med þvi hañ hefur missied sig vid hana.

9. Eñ ef hañ trwlofar hana sijnum syne / þa skal hañ giøra heñe epter dootkur riette.

10. Ef hañ tekur sier eina adra/ þa skal hañ ecke mijnka heñar uppheldе/ heñar klæde og heñar bwstad.

11. Eñ ef hañ giører ecke vid hana þetta þrent/ þa skal hun wtganga fyrer eckert / fyrer utañ peninga.

12. Hvør sem slær * eina mañeskiu / ad hun deyr / hañ skal vissulega deydast. * 1. Mos. 9 / 6. 3. Mos. 24/ 17. 4. Mos. 35/ 16.

13. Eñ hafe hañ ecke fared epter (hønum/) eñ Gud hefur læted hañ koma fyrer hañs hønd / þa vil eg setia þier * eirn stad / hvørt hañ skal flija burt. * 4. Mos. 35/ 6. etc.

14. Og ef nockur dyrfer sig i moote sijnum naunga / ad sla hañ i hel med svikum / þa skalltu taka hañ fra * mijnu altare ad deya. * 1. Kong. 2/ 29/ 31.

15. Og hvør sem slær * siñ fødur eda sijna moodur / skal vissulega deydast. * 3. Mos. 20/ 9.

16. Og hvør sem stelur * eirne mañeskiu/ og selur hana/ edur hun verdur fundeñ hia hønum/ hañ skal vissulega deydast. * 5. Mos. 24/ 7.

17. Og hvør sem * bølvar sijnum fødur edur siñe moodur / skal vissulega deydast. * 5. Mos. 27/ 16. Ordsk. 20/ 20. C. 30/ 17. Matth. 15/ 4. Marc. 7/ 10.

18. Og ef meñ þrætta / og nockur slær siñ naunga med einum steine / edur med hnefa / og hañ deyr ecke / eñ liggur vid sængena.

19. Þar sem hañ stendur upp aptur / og geingur um̃ a gøtuñe vid siñ staf / þa skal sa / sem sloo / vera saklaus / Þo skal hañ betala hañs viñu-misser/ og vissulega læta (hañ) lækna.

20. Ef nockur slær siñ þioon elle-gar sijna ambatt med einum staf / ad hañ deyr under hañs hende / þa skal þess vissulega hefndt verda.

21. Eñ ef hañ lifer eirn dag / edur tvo daga/ þa skal þess ecke hefndt verda/ þvi hañ er hañs peningur.

22. Og ef meñ þrætta til samans/ og sla eina ohrausta kuiñu / og heñar foostur fædest/ og fær ecke skada/ þad skal vissulega straffast / epter þvi sem kuiñuñar madur hønum uppaleggur/ og hañ skal giefa epter doomarans (mate.)

23. Eñ ef þar skier skade/ þa skalltu giefa * lijf fyrer lijf.

* 3. Mos. 24/ 19/ 20. 5. Mos. 19/ 21. Matth. 5/ 38.

24. Auga fyrer auga / tøñ fyrer tøñ/ hønd fyrer hønd/ foot fyrer foot.

25. Brendt fyrer brendt/ saar fyrer saar/ blaatt sleiged fyrer blaatt sleiged.

26. Ef nockur slær sijns þioons auga / edur siñar ambaattar auga / og fordiarfar þad/ þa skal hañ laata hañ fara fyrer sitt auga.

27. Lijka so / ef hañ slær sijns þioons tøñ/edur siñar ambaattar tøñ wt/ þa skal hañ laata hañ fara frij fyrer sijna tøñ.

28. Ef nockur uxe stangar eirn mañ eda kviñu / ad hañ deyr / þa skal uxeñ vissulega grijtast / og hañs kiøt skal ecke etast/ eñ uxans herra skal vera siknsaka.

29. Eñ ef sa uxe var fyrrum vanur ad stanga / og þad var vitanlegt giørt fyrer hañs herra / og hañ ecke giætte hañs / og hañ myrdte mañ eda kviñu/ þa skal uxeñ grijtast/ og hañs hwsboonde skal og so deydast.

30. Eñ ef hønum verda bætur uppalagdar/ þa skal hañ giefa bætur fyrer sitt lijf/ epter øllu þvi sem hønum verdur uppalagdt.

31. Hvørt helldur hañ stangar eirn son/ edur hañ stangar eina doottur/ þa skal hañ skie epter þessũ doome.

32. Ef eirn uxe stangar þioon eda ambaatt/ þa skal hañ giefa hañs hws boonda þriatiju sikla silfurs/ og uxeñ skal grijtast.

33. Og ef nockur opnar eirn bruñ/ eda ef nockur grefur eirn bruñ/ og lykur hañ ecke til (aptur/) og þar fellur eirn uxe edur asne i.

34. Þa skal bruñsens herra giefa peninga þar fyrer/ edur hañ skal giefa þess herra (so gott) aptur / og þañ dauda skal hañ hafa.

35. Og nær mañs uxe stangar eins añars mañs uxa/ ad hañ deyr/ þa skulu þeir selia þañ lifande uxa/og skipta til helminga hañs verde/ og þeim dauda skulu þeir og skipta til helminga.

36. Añars ef þad var vitanlegt / ad sa uxe var vanur ad stanga / og hañs eignar-madur villde ecke giæta hañs/ þa skal hañ vissulega aptur giefa uxa fyrer uxa / og þañ dauda skal hañ hafa.

## XXII. Capitule.

Mose helldur afram i Veralldlegra Laga Skrifte.



Hær nockur stelur einum uxa/ edur einu lambe/ og slatrar þvi / edur selur þad/ þa skal hañ aptur giefa fim naut fyrer uxañ/og * fiogur fyrer lambed. * 2. Sam. 12/ 6. Ordsk. 6/ 31. Luc. 19/ 8.

2. Ef eirn þioofur verdur fundeñ/ ad iñbriootast / og verdur sleigeñ / og deyr / þa skal madur aungvañ blood-doom laata ganga fyrer hañs skulld.

3. Eñ sie sooleñ uppgeingeñ yfer hønum / þa skal madur laata ganga blood-doom fyrer hañs skulld. (Þioofureñ) skal vissulega aptur skila/ eñ hafe hañ ecke / þa skal hañ seliast fyrer siñ þioofnad.

4. Fiñest fyrer vyst þad stolna hia hønum/ hvørt helldur þad er uxe eda asne/ eda lomb/ sem er lifande/ þa skal hañ aptur giefa tvøfalldt.

5. Ef nockur lætur eta af akre eda vijngarde / ad hañ sleppe sijnu fie / og þad etur a eins añars mañs akre / þa skal hañ aptur giefa af þvi / sem gott er a sijnum akre / edur þad sem gott er i sijnum vijngarde.

6. Ef elldur fer wt / og hitter a þyrna/ og bindene breña/ edur þad korn/ sem (eñ nu) stendur/ edur akureñ/ þa skal hañ vissulega aptur giefa/ sem uppkveikte þañ bruna.

7. Ef nockur selur wt til sijns naunga

unga peninga edur hluke ad geima / og þvi verdur stoled wt mannsens huuse / finnest þioofurenn / þa skal hann aptur giefa tvøfalldt.

8. Enn finnest þioofurenn ecke/ þa skal huusboondenn ganga framm fyrer doom=arana/ hvort hann hefur ecke lagt sijna hønd a sijns næunga gooks.

9. Ef nockur skulldar eirn annan fyrer oriett/ fyrer uxa/ fyrer asna/ fyr er saud/ fyrer klæde/ ellegar fyrer nockud / sem misst er / seige nockur/ ad þad sie þad/ þa skal beggia þeirra maal ko=ma fyrer doomarana/ Hvørn doomar=arner dæma i sekt/ hann skal aptur gie=fa sijnum næunga tvøfalldt.

10. Ef nockur selur wt til sijns næ unga/ annadhvort asna / eda uxa/ eda lamb / eda nockurt dijr / ad geima / og þad deyr/eda þad fordiarfast/eda þad burtrekst/ so eingenn þad sier:

11. Þa skal Drottens eidur vera i millum þeirra beggia/ad hann hafe ecke lagt sijna hønd a sijns næunga gooks/ og þann skal eignarmadurenn taka / og (sa annar) skal ecke bijtala.

12. Enn verde þvi vissulega stoled fra hønum/ * þa skal hann bijtala þess eignarmanne þad. * 1. Mos. 31/ 39.

13. Enn verde þad vijst rifed / þa skal hann færa þad til vitnesburdar / og ecke bijtala þad / sem rifed er.

14. Og ef nockur tekur til læns (nockud) af sijnum næunga / og þad fordiarfast / eda deyr / i eignar=mann=sens fraveru / þa skal hann þad vijst aptur giefa.

15. Enn sie eignar=madurenn þar hia/þa skal hann ecke aptur giefa þad/ Sie þad leigt / þa reiknast þad fyrer sijna leigu.

16. Og ef nockur * lockar eina jomfru/ sem ecke er trwlofud/ og ligg=ur hia henne / þa skal hann vijst taka sier hana til hustrur.

* 5. Mos. 22/ 28/ 29.

17. Enn ef hennar fader neitar al=deiles ad giefa hønum hana / þa skal hann vega wt peninga epter jomfruar=ennar morgun giøfu.

18. Þu skallt ecke læta * eina galldra konu lifa. * 3. Mos. 20/ 27. C. 19/ 31.

19. Hvør sem leggur sig * med eir=ne bestiu/ skal vissulega deydast.

* 3. Mos. 18/ 23. etc.

20. Hvør sem offrar til guda/ skal vera bølvadur/ nema til Drottens all eina.

21. Og þu skallt * ecke plaga eirn framande / og ecke underþrickia hann / þvi þier hafed vered framande i Æ=gyptalande. * C. 23/ 9. 3. Mos. 19/ 33. 5. Mos. 10/ 18/ 19. C. 24/ 17. C. 27/ 19. Zach. 7/ 10.

22. Þier skulud ecke plaga neckra eckiu/ edur * fødurlausann. * Es. 1/ 17.

23. Underþrycker þu vissulega hann / ad hann * hroopar vissulega til mijn / þa skal eg vissulega heyra hanns hroop. * Syr. 35/ 18. etc.

24. So verdur mijn reide grim/ og eg i hel slæ ydur med sverde / og ydar hustrur skulu verda eckiur / og ydar børn fødurlaus.

25. Ef þu * lænar mijnu foolke peninga / sem er sa fatæke hia þier/ þa skalltu ecke vera hønum sem eirn okurkall / þu skallt ecke leggia okur a hann. * 3. Mos. 25/ 36. 5. Mos. 23/ 19. C. 24/ 10.

26. Enn taker þu klæde til vissu=legs panks af þijnum næunga / þa skalltu aptur fa hønum þad i moote þvi sooleñ geingur nidur.

27. Þvi þad er hanns skiool/ þad er alleinasta hanns klæde fyrer sijna hud sem hann skal liggia i / Sie þad so / ad hann hroope til mijn / þa skal eg heyra (hann/) þvi eg er myskunsamur.

28. Þu skallt * ecke bolva yfervall denu / og þeim ædsta fyrer þijnu fool=ke skallt þu ecke bølva. * Pred. 10/ 20. P. G. 23/ 4.

29. Þu skallt ecke innehallda þinne

fylle og Þynum ſaurum/ Þu ſkallt giefa
mier * þañ frumgietna af Þynum ſon
um. * C. 13/ 2. etc.
30. So ſkalltu og giøra med Þiñ
uxa / med Þiñ ſaud / Þad ſkal vera *
ſiø daga hia ſiñe moodur/ a Þeim aatt
unda deige ſkalltu giefa mier Þad.
* 3. Moſ. 22/ 27/ 28.
31. Þier ſkulud vera mier heilagt
foolk / og ecke eta kiøt ſem er * rifed
a mørkeñe / fyrer hunda ſkulud Þier
kaſta Þvi. * 3. Moſ. 22 / 8.
Ezech. 44/ 31.

## XXIII. Capitule.

Veralldleg Løg um̃ falſkt Vitne/ etc.
Andleg Løg um̃ Sabbatteñ / etc.

Nu * ſkallt ecke uppta-
ka falſkt kiæru-maal /
ad Þu ecke giører Þe-
im/ ſem giører oriett/
hiaſtod / ad vera eitt
falſkt vitne.
* 5. Moſ. 19/ 16. etc.
2. Þu ſkallt ecke vera med ( Þeim
ſtoora) flock til Þeſſ/ ſem illt er/ og Þu
ſkallt ecke ſvara i Þrætu / ad fylgia
epter (Þeim ſtoora) flock/ ad um̃ſnwa
(maalenu.)
3 Þu ſkallt ecke fegra eirn ſaatæk-
añ i hañs maale.
4. Nær Þu mæter Þyns ovinar *
uxa/ eda hañs aſna/ ſem fer villt/ Þa
ſkalltu vyſt leida hañ til hañs aptur.
* 5. Moſ. 22/ 1.
5. Nær Þu ſier Þyns hatur-mañs
aſna liggia under ſiñe byrde/ og ſkylld-
er Þu Þa tefia ad yfergiefa (Þyna yd-
iu) fyrer hañs ſkulld ? Þu ſkallt viſſu
lega yfergiefa (Þad) med hønum.
6. Þu ſkallt ecke um̃breita * doom
enum fyrer Þañ ſaatæka i hañs Þræ-
tu. * 5. Moſ. 16/ 19.
7. Þu ſkallt * hallda Þig laangt
fra følſku maale / Þu ſkallt ecke i hel
ſlaa Þañ ſaklauſa og riettferduga /
Þvi eg læt ecke Þañ ogudlega hafa
riett. * Suſañ. v. 53.
8. Þu ſkallt ecke taka * gaafu /
Þvi gaafañ kañ forblinda Þa ſiaande/
og um̃ſnwa Þeirra riettferdugra maal-
um. * 5. Moſ. 16/ 19. etc.
9. Þu ſkallt * ecke underÞryckia
Þañ framande/ Þier Þecked Þeſſ fram-
anda ſaal / Þvi Þier vorud framande i
Ægyptalande. * C. 22/ 21. etc.
10. Og ſex aar ſkalltu ſaa Þitt la-
nd / og * ſafna af Þeſſ grooda.
* 3. Moſ. 25/ 3/ 4.
11. Eñ a Þvi ſiøunda ſkallt Þu yf-
ergiefa Þad / og laata Þad liggia / ad
Þeir ſaatæku a medal Þyns foolks mei-
ge eta (Þar af/) og hvad Þar geing-
ur af / meiga dyr a mørkeñe eta / So
ſkalltu giøra vid Þiñ vyngard/ (og) vid
Þitt oliu-fiall.
12. Sex * daga ſkalltu giøra Þyn
verk / eñ a Þeim ſiøunda deige ſkalltu
hvylaſt / uppa Þad ad Þiñ uxe og Þiñ
aſne meige hvylaſt / og Þiñ anbaattar
ſon / og ſa framande meige endurnær-
aſt. * C. 20 / 8. etc.
13. Allt Þad / ſem eg hefe ſagt til
ydar/ ſkulud Þier gaumgiæfelega hall-
da/ Og ydur ſkulu ecke i hug koma añ
ara guda nøfn / Þad ſkal ecke heyraſt
af Þynum muñe.
14. Þu * ſkallt hallda mier Þriſ-
varſiñum haatyd um̃ aared.
* 5. Moſ. 16/ 15. 3. Moſ. 23/ 4. etc.
15. Þu ſkallt hallda * Þeirra oſyr-
du (brauda) haatyd / Þu ſkallt eta o-
ſyrdt (braud) ſiø daga/ ſo ſem eg byd-
falade Þier/ a (nyia) korn maanadar
tymanum/ Þvi a hønum foorſt Þu wt
af Ægyptalande / og mitt auglit ſkal
ecke ſiaaſt toomhendt. * C. 21/ 15.
C. 13/ 6. C. 34/ 18. 3. Moſ. 23/ 5/ 6.
16. Og Þa haatyd / nær Þu ſkier
Þyns erfides fyrſta grooda / ſem Þu
hefur ſaad a mørkeñe/ og iñſøfnunar-
hatydena / nær aared geingur wt / nær
Þu hefur ſafnad Þynu erfide af mørk-
eñe.
17. * Þriſvarſiñum um̃ aared ſkal
allt Þitt kallkyn ſiaaſt fyrer Þeim volld

uga

uga Drottne. * C. 34 / 23.
5. Mos. 16/ 16.

18. Þu skallt ecke offra mijnu offurs Bloode med syrdeige / og þad feita af mijne hatijd skal ecke liggia til morguns.

19. Þad * fyrsta af þijnum Jardar fyrsta grooda skalltu færa til Drottens þijns Guds huuss / Þu skallt ecke matgiora eitt kid i sijnar moodur miolk.
* 2. Mos. 34/ 26. 5. Mos. 14/ 21.

20. Siaa/ eg sende eirn * eingel fyrer þier/ ad giæta þijn a veigenum / og adleida þig til þess stadar / sem eg hefe tilreidt. * v. 23. C. 32/ 34. etc.

21. Vara þig fyrer hans auglite/og hlyd hans raust / * stigg þu han ecke/ þvi han skal ecke þyrma ydar yfertrodslu / þvi mitt ** nafn er i honum.
* Es. 63/ 10. ** 2. Mos. 3/ 2. 6.

22. Þvi þar sem þu fyrer vyst heyrer hans raust / og giorer allt þad / sem eg vil segia / þa vil eg og vera þinn Fiandmanna fiande / og eg vil þreingia þeim/ sem þreingia þier.

23. Þvi minn eingell skal * ganga fyrer þier/og leida þig inn til þeirra Amorita/ og þeirra Hetita/ og þeirra Pheresita / og þeirra Cananita / þeirra Hevita / og þeirra Jebusita / og eg vil eideleggia þa. * v. 20. C. 32/ 34. etc.

24. Þu skallt * ecke tilbidia þeirra gude / og ei þioona þeim / og ecke giora sem þeir giora / Þu skallt endelega nidurslaa þa / og endelega sundurbriota þeirra bijlæte. * C. 20/ 5.

25. Enn þier skulud þioona * Drottne ydar Gude / og han mun blessa þitt Braud og þitt vatn / og eg vil taka siwkdoom fra þier. * Matth. 6/ 33.

26. Þar skal * eingen vera/ sem oskmabær fæder / edur ofrioofsom i þijnu lande / Eg vil laata þig verda gamlann.
* 5. Mos. 7/ 14.

27. Eg vil senda mijna * skielfing undan þier/ og giora allt foolked skielfad/ sem þu kiemur til/ og eg vil laata alla þijna Fiandmenn flija fyrer þier.
* 5. Mos. 11/ 25.

28. Og senda * geitunge undann þier/ sem skulu burtjaga Hevitana/ Cananitana / og Hetitana fyrer þier.
* 5. Mos. 7/ 20. Jos. 24/ 12.

29. Eg vil ecke wtreka þa fra þier a einu are / ad landed ecke skule verda i eide/ og ad villudyr skule ecke fiolga yfer þier:

30. Eg vil wtreka þa fyrer þier/ þa nockra/ og (þa) nockra/ þar til (ad) þu vex og sitiur landed.

31. Og eg vil setia þitt * landamerke fra þvi rauda hafe/ og allt til Philisteanna hafs / og fra eydemorkenne / allt til Elivotsens / þvi eg vil gefa landsens innbyggiara i þijna hond/ ad þu skallt wtreka þa fra þier. * 4. Mos. 34/ 2. etc.

32. Þu * skallt ecke giora sattmaala vid þa / eda þeirra gude. * C. 34/ 12.
5. Mos. 7/ 2. Jos. 9/ 15.

33. Lat þa ecke bwa i þijnu lande / ad þeir skule ecke koma þier til ad syndga i moote mier / þvi þu kynner þioona þeirra gudum/ þvi þad * mun verda þier til eirnrar snoru. * Dom. 2/ 3.

## XXIV. Capitule.

Mose stijgur aftur uppa þad Fiall Sinai til Drottens.



g han sagde til Mose: gack upp til Drottens / þu og Aaron / Nadab og Abihu/ og siotiju af þeim elldstu i Israel/og þier skulud tilbidia langt fra.

2. Enn Mose skal ganga framm/ fyrer sig alleina til Drottens / og þeir (ader) þeir skulu ecke hallda sig nær ad/ og foolked skal ecke koma upp med honum.

3. Og Mose kom / og sagde foolkenu oll Drottens ord/ og alla dooma/ Þa svarade allt foolked med eirne raust / og sagde: vier viljum giora epter ollum þeim ordum / sem Drotten hefur sagt.

4. Þa skrifade Mose oll Drottens ord / og stood ára upp umm morguninn / og bygde eitt altare nedann vid fialled/ og tolf stoolpa / epter þeim tolf Israels

turtvylltum.

5. Og sende unga menn þangad af Israels bornum / og þeir offrudu brenne offre / og slatur offre / og þackar offre fyrer Drottne af uxunum.

6. Og Mose took halfparten af bloodenu / og liet i munnlaugar / og halfpartenum af bloodenu stockte hañ a altared.

7. So took hañ sattmælans book / og las / ad foolked þad heyrde / og þeir sogdu : vier vilium giora allt þad / sem Drottenñ hefur sagt / og vera hlydnger.

8. Þa took Mose blooded / og * stockte a foolked og sagde : sia / þetta er sattmælans blood / sem Drottenñ hefur giort vid ydur / yfer ollum þessum ordum.

* Ebr. 9/ 19/ 20.

9. Og Mose og Aaron / Nadab og Abihu / og siotyu af þeim ellstu / af Israel geingu upp.

10. Og * litu Israels Gud / og þad var under hañs footum / ** sem eitt verk af saphir steine / og sem Himenenñ sialfur / nær hañ er klaar. * Es. 6/ 1.

** Ezech. 1/ 26.

11. Og hañ lagde ecke syna hond a þa yppurstu af Israels bornum / Og þeir skodudu Gud / og atu og druncku.

12. Og Drottenñ sagde til Mose : kom upp til myn a fialled / og vertu þar / so vil eg gefa þier þær stein toblur / og logenñ / og bodorded / sem eg hefe skrifad / ad kieña þeim.

13. Þa stood Mose upp / og hañs þienare Josua / og Mose gieck upp a Guds fiall :

14. Og sagde til þeirra elldstu : bydid ockar hier / þar til vid komum aftur til ydar / og sia / Aaron og Hur eru hia ydur / hafe nockur mal / þa meiga þeir koma fram̃ fyrer þa.

15. Þegar Mose kom uppa fialled / þa þackte eitt sky fialled.

16. Og Drottenñs dyrd bioo a Sinai fialle / og skyed þackte þad i sex daga / og hañ kallade a Mose a þeim siounda deige midt wr skyenu.

17. Og Drottenñs dyrdar asynd var sem * eirn fortærande elldur / efst a fiallenu / fyrer Israels barna augum.

* 5. Mos. 4/ 24. C. 9/ 3.

18. Og Mose gieck midt iñ i skyed / og stie uppa fialled / og Mose var a fiallenu * fioruthyger daga / og fioruthyger nætur. * C. 34/ 28.

5. Mos. 9/ 9/ 18.

## XXV. Capitule.

Mose fær Byfalning / ad heimta af Foolkenu eitt upplypt Offur / til ad giora eina Tialldbwd.

Og Drottenñ talade til Mose / og sagde :

2. Seig til Israels barna / ad þau skule taka mier eitt upplypt offur / þier skulud af hverium mañe / sem er * velviliadur af synu hiarta / taka mier eitt upplypt offur.

* C. 35/ 5.

3. Og þetta er þad upplypta offur / sem þier skulud taka af þeim : gull / og silfur / og kopar :

4. Og blatt silke / og skarlat / og purpura / og hvitt silke / og geyta hær :

5. Og raudlitud hruta skiñ / og greifinga skiñ / og sithim trie :

6. Oliu til lysingar / jurter til smurningar oliu / og til kostulegs (goods) reikiar :

7. Onyx steina / og steina til ad setia i lyf kyrtelenñ / og til brioost spangarenar.

8. Og þeir skulu giora mier eitt * Helgedoom / og eg vil bwa a medal þeirra. * Ebr. 9/ 2.

9. Efter ollum þeim hlutum / sem eg vil syna þier / efter * tialldbwdarenar lyking / og allre heñar umbwnadar lykingu / og so skulud þier giora.

* v. 40. etc.

10. Og þeir skulu giora eina * ork af sithim trie / hælfrar þridiu alnar langa / og hælfrar añarar alnar breida / og hælfrar añarar alnar hæfa.

* C. 35/ 12. C. 37/ 1.

11. Og hana skalltu umslaa med hreinu gulle/ innan og utan skalltu umslaa hana / og giora eitt gull-krans ofan umm kring hana.

12. Og steipa til hennar fioora gull-hringa/ og setia þa i hennar fiogur horn/ og tvo hringa a þa einu hennar sijdu/ og tvo hringa a þa adra hennar sijdu.

13. Og giora steingur af sithim-trie/ og umslaa þær med gulle:

14. Og stinga steingunum i hringana vid hlidarnar a ørkenne/ad bera ørkena med þeim.

15. Steingurnar skulu vera i hringunum/ (sem eru) i ørkenne/ þær skulu ecke takast fra henne.

16. Og þu skallt leggia i ørkena * þatt vitnesburd / sem eg vil giefa þier.

* C. 34/ 29. Ebr. 9/ 16.

17. Og þu skallt giora * eitt nadarstool af klaara gulle / halfprar þridiu alnar langann/og halfprar annarar alnar breidann. * C. 35/ 12. C. 37/ 6.

18. Og þu skallt giora tvo cherubim af gulle/med drif-verke skalltu giora þa/ a bædum endunum yfer nadar-stoolnum:

19. Og gior þann eina cherub a þeim eina enda / og þann annann cherub a þeim ødrum enda a nadar-stoolnum / þier skulud giora cherubim a bædum hans endum.

20. Og cherubim skulu wtbreida * vængena ofann yfer/ so ad þeir hilie yfer nadar-stoolenn/ med þeirra vængium/ og þess eina andlit (skal vera) moote þeim ødrum / Moote nadar-stoolnum skulu cherubims andlit vera. * C. 37/ 9.

21. Og þu skallt setia nadar-stoolenn ofann a ørkena/ og leggia * þann vitnesburd i ørkena / sem eg vil giefa þier.

* 1. Kong. 8/ 9. etc.

22. Og þar vil eg vera til stadar hia þier / og tala vid þig ofann af nadarstoolnum/ i millum þeirra tveggia cherubim/ sem eru a vitnesburdar ørkenne/ allt þad eg vil bioода þier til Israels barna.

23. Og þu skallt giora * eitt bord af sithim-trie / tveggia alna langt / og eirnrar alnar breidt / og halfprar annarar alnar hatt. * C. 35/ 17. C. 37/ 10.

24. Og * umslaa þad med hreinu gulle / og giora eitt gull-krans þar umm kring. * C. 37/ 11.

25. Og giora þar eirn lista umm kring/ eirnrar þverhandar (hæfann /) og giora eirn gull-krans umm kring listann þar a.

26. Þu skallt og giora fioora gull-hringa þar a / og setia hringana i þau fiogur horn / sem eru hia þeim fioorum footum þar a.

27. Þvert yfer fra listanum skulu hringarner vera/ ad stinga steingunum i/ ad bera borded.

28. Þu skallt giora steingurnar af sithim-trie / og umslaa þær med gulle/og borded skal berast med þeim.

29. Og * þu skallt giora fatenn þar til / og skeider þar til / og lok-kier þar til/ og skaler þar til/ i hvørium menn skulu offra dryckiar-offre / af klaara gulle skalltu giora þau. * C. 37/ 16.

30. Og þu skallt alltijd leggia * skodunar-braud fyrer mig a borded.

* 1. Sam. 21/ 6.

31. Og þu skallt giora eirn * lioosastiaka af skijra gulle/ med drif-verke skal lioosastiakenn gioraſt / staungenn þar a / og greiner þar a/skalernar þar a/knappar þar a/ og bloomstur þar a/ skulu vera af þvi sama. * C. 35/ 14. C. 37/ 17.

32. Og þar skulu ganga sex greiner wt af sijdunne þar af / þriar greiner af lioosastiakanum/ af þeirre einu sijdu þar af/ og þriar greiner af lioosastiakanum af þeirre annare sijdu þar af.

33. (Þar skulu vera) þriar opnar skaler/ a þeirre einu grein/ eirn knappur og eitt bloomstur / og þriar opnar skaler a þeirre annare grein / eirn knappur og eitt bloomstur / So skal þad vera a þeim sex greinum / sem ganga af lioosastiakanum.

34. Enn a lioosastiakanum skulu vera fioorar opnar skaler/ knappar þar a/ og bloomstur

bloomſtur þar a.

35. Og eirn knappur under þeim tveimur greinum þar aþ/ og eirn knappur under þeim tveimur greinum þar aþ / og eirn knappur under þeim tveimur greinum þar aþ/ vegna þeirra ſex greina/ſem vtganga aþ liooſastiakanum.

36. Þeirra knappar og þeirra greiner ſkulu vera aþ þvi ( ſama/) þad ſkal vera allſamañ * eitt driþed (verk) aþ hreinu gulle. * c. 37/ 22.

37. Og þu ſkallt giora ſio lampa þar til / og mañ ſkal uppſetia lampana þar til/og lꜳta þa lyſa a hvorre ſydu þar a.

38. Og ſox þar til / og ſkar-kier þar til aþ klaru gulle.

39. Mañ ſkal giora þad * af einu centener klara gulls/ med ollum þeſſum umbunade. * c. 37/ 24.

40. Og ſia til / og gior þad epter þeſſ * lyking/hvor þier var ſynd a fiall enu. * c. 26/ 30. P. G. 7/ 44. Ebr. 8/ 5.

## XXVI. Capitule.

Tialldbudareñar Ukmꜳlan i ſynum Portum.



Og þu ſkallt giora * tialldbudena af tyu dukum / af hvytu tvinnudu ſilke og blꜳu ſilke/ og ſkarlate/ og purpura/ Cherubim med artugu verke ſkalltu giora þa. * c. 36/ 8.

2. Hvor dukur ſkal vera ꜳtta og tuttugu alna langur / og hvor dukur ſkal vera fiogra alna breidur/ aller dukarner ſkulu vera eins ſtoorer.

3. Þar ſkulu fim̃ dukar feſtaſt til ſamans / eiñ vid añañ / og (aptur) fim̃ dukar feſtaſt til ſamans / eiñ til þeſſ añars.

4. Og þu ſkallt giora netſlur aþ blꜳu ſilke i jadareñ a hvorn duk/þar ſem þad ydſta ſkal feſtaſt til ſamans / Og lyka ſo ſkalltu giora a þeſſ ydſta duks jadre / þar ſem ſamañſetningeñ ſkal añad ſiñ ſkie.

5. Þar ſkalltu giora fim̃tyu netſlur a eiñ duk / og giora fim̃tyu netſlur ydſt a dukeñ/ ſem ſkal feſtaſt vid þañ añañ/ ad netſlurnar kuñe teingiaſt ſamañ / ſa eine vid þañ añañ.

6. Þu ſkallt og giora fim̃tyu gullkrooka og feſta dukana þañ eina vid þañ añañ med krookunum / ad tialldbudeñ verde ein.

7. Þu ſkallt og giora * duka aþ geita hꜳre til tialldſens yþer tialldbudena/ elleþu duka ſkalltu giora þa. * C. 36/ 14.

8. Hvor dukur ſkal vera þriatyu alna langur/og hvor dukur ſkal vera fiogra alna breidur/ þeir elleþu dukar ſkulu vera eins ſtoorer.

9. Og þa fim̃ duka ſkallt þu feſta til ſamans fyrer ſig / og þa ſex duka fyrer ſig/ ſo ad þu giorer þañ ſiotta duk tvoþalldañ fyrer tialldenu.

10. Og þu ſkallt giora fim̃tyu * netſlur i þeſſ eina duks jadre / til ad feſta þa ſamañ med i endunum / og fim̃tyu netſlur til ſamans i jadrenum a þeim odrum duk/ ſem ſkal feſtaſt. * c. 36/ 12.

11. So ſkalltu giora fim̃tyu meſſingar krooka / og ſpeña krookana i netſlurnar/ ad * tiallded teingeſt til ſamans / og verde eitt. * c. 36/ 18.

12. Eñ þañ auka duk ſem er aþgangs aþ tialldenu / ſkalltu lꜳta heingia halpparteñ bak til yfer tialldbudeñe.

13. Eirnrar alnar a þeſſa ſydu / og eirnrar alnar a hina ſydu / ad þad ſem hefur yþer af dukſens leingd aþ tialldenu/ ſkal ganga aþ/ a ſydunum aþ tialld budeñe / ad þekia hana hier og þar.

14. Þu ſkallt og giora * þak yþer tiallded aþ raudlitudum hruta ſkiñum / og eitt þak þar yfer af greiþinga ſkiñum. * C. 36/ 19.

15. Og þu ſkallt giora * fialernar til tialldbudareñar aþ ſithim-trie ſem kuñe ſtanda. * c. 36/ 20.

16. Tyu alna laung ſkal hvor ein fiol vera / og eirnrar alnar og eirnrar halfrar alnar breid ſkal hvor ein fiol vera.

vera.

17. Hvør fiøl skal hafa tvo blindinga / ad su eina (fiøl) falle vid þa adra / Soddañ skalltu giøra a øllum fiølum til tialldbwdareñar.

18. Og þu skallt giøra fialer til tialldbwdareñar / tuttugu fialer til þess sydra horns moot sudre.

19. Og þu skallt giøra fiørutyju silfur-fætur under þær tuttugu fialer/ tvær fætur under þa einu fiøl/ vegna heñar tveggia blindinga/og tvær fætur under þa adra fiøl / vegna heñar tveggia blindinga.

20. Og til þeirrar añarar tialldbwdareñar sydu moot nordur-hornenu tuttugu fialer.

21. Og þeirra fiørutyjer silfurfætur / tvo fætur under þa einu fiøl/ og tvo fætur under þa adra fiøl.

22. Og til hlidaña a tialldbwdeñe i moot vestre / skallt þu giøra sex fialer.

23. Og þu skallt giøra tvær fialer til tialldbwdareñar horna a bædar sydur.

24. Þær tvær skulu koma samañ nedañ til / og lyka so skulu þær koma samañ ofañ til med einum synkle / so skal þad vera vid þær bædar/ þær skulu vera a tveimur hornunum.

25. Og þar skulu vera átta fialer/ og þeirra silfur fætur/ sextan fætur/ tveir fætur under þeirre einu fiøl/ og tveir fætur under þeirre añare fiøl.

26. Og þu skallt giøra ✱ steingur af sithim-trie / fim̄ til fialaña vid þa einu sydu a tialldbwdeñe.

✱ C. 36/31.

27. Og fim̄ steingur til fialaña / vid þa adra sydu a tialldbwdeñe / og fim̄ steingur til fialaña a syduñe af tialldbwdeñe / i moote þeim tveimur endum moot vestre.

28. Og su mid-staungeñ skal vera midt a fiølunum / og ganga i giegnum fra þeim eina enda til þess añars.

29. Og þu skallt um̄slaa fialernar med gulle/ og giøra þeirra hrijnga af gulle / ad stijnga steingunum i/ og þu skallt um̄slaa steingurnar med gulle.

30. So skalltu uppreisa tialldbwdena epter þeim maata/sem þier ✱ var syndt a fiallenu. ✱ C. 25/9/40. etc.

31. Og þu skallt giøra eitt fortialld af blaau silke / og skarlake / og purpura/ og hvijtu tviñudu silke/ þar a skalltu artuglega giøra cherubim.

32. Og heingia þad a fioora stoolpa af sithim (trie/) sem eru um̄slegner med gulle / og hafa þeirra gullkrooka / yfer þeim fioorum footum af silfre.

33. Og þu skallt speña fortialldeð under krookana/ og setia vitnesburdarens ørk þangad iñ / iñañ fyrer fortialldeð/ Og fortialldeð skal skilia fyrer ydur/ i millum þess heilaga z i millum þess heilagasta.

34. Og þu skallt setia ✱ naadarstooleñ uppa vitnesburdarens ørk i þvi heilagasta. ✱ Ebr. 9/5. 2. Mos. 25/21.

35. Eñ þu skallt setia ✱ bordeð utañ fyrer fortialldeð/ og lioosastiakañ þvert yfer fra bordenu / a þa sydu i tialldbwdeñe moot sudre / Og bordeð skalltu setia a þa nyrdre sydu.

✱ C. 40/22.

36. Og þu skallt giøra ✱ eitt klæde fyrer dyrunum a tialldenu af blaau silke / og purpura / skarlake og hvijtu tviñudu silke / med utsaumudu verke.

✱ C. 36/37.

37. Og þu skallt giøra fim̄ stoolpa til kladesens / af sithim-(trie/) og um̄slaa þa med gulle / þeirra krookar skulu vera af gulle/ og þu skallt steypa til þeirra fim̄ kopar-fætur.

## XXVII. Capitule.

Undervijsan um̄ Breñe-Offurs Altared. Forgardureñ. Þad heilaga Oleum.

29. Og a þeim attunda deige skal
hun taka sier * tvær turtil-dwfur / eda
tvo dwfu-unga / og bera þær til prest-
sens/ til samkundunar tialldbwdar dyra.
* C. 12/ 8. C. 14/ 22.
30. Og presturenn skal offra þeirre
einu til synda-offurs / og hinne adrare til
brenne-offurs / og presturenn skal giora
forlykun fyrer hana fyrer Drottne/ fyr-
er hennar ohreinleika rensl.
31. So skulud þier skilia Israels bø-
rn fra þeirra ohreinleika / ad þeir ecke
deye i þeirra ohreinleika/ i þvi þeir saur
ga mijna tialldbwd/ sem er a medal ydar.
32. Þetta er løgmaled um þann / sem
hefur rensl/ og um þann/ sem saded geing
ur fra i svefne / ad hann verdur ohreirn
þar fyrer.
33. Og fyrer hana/ sem er veik/ nær
hun er fraskilenn / Og þann sem hefur
rensl / mann edur kvinnu / og fyrer eirn
mann/ sem liggur hia eirne ohreirnre
(kvinnu.)

XVI. Capitule.

Sa Arlege mikle Sabbat med Sælar
þyngun / og Frahallde fra Þrælkan.



Og Drottenn talade til
Mose/ epter þad þeir *
tveir Arons syner voru
dauder/ þegar þeir voru
geingner framm fyrer
Drottens auglit/ og vo-
ru dauder. * C. 10/ 2. etc.
2. Og Drottenn sagde til Mose: seig
þu til Aaron þyns broodurs / ad hann
gange * ecke alltyd inn til helgedoomsens/
inn fyrer forthallded/ fyrer nadar-stoolenn/
sem er a orkenne / ad hann ecke deye / Þvi
eg vil openberast i skyenu yfer nadar-
stoolnum. * 2. Mos. 30/ 10. Ebr. 9/ 7.
3. Þar med skal Aaron ganga inn i
Helgedoomenn / med eirn ungann uxa til
synda-offurs / og eirn hrwt til brenne-
offurs.
4. Hann skal færa sig i þann heilaga
lijn-kyrtel/ og hafa lijn(niduro)klæde yfer
synum lijkama/ og girda sig upp med ei-
nu lijn-bellte/ og med eirne lijn (presta)
hwfu skal hann hilia sig / þau eru þau
heilogu klæde/ Og hann skal * bada sinn
lijkama i vatne / og færa sig i þau.
* v. 24.
5. Og hann skal taka af Israels bar-
na samkundu / tvo geite hafra til synda-
offurs / og eirn hrwt til brenne-offurs.
6. Og Aaron skal leida uxann framm
til synda-offurs / sem hann hefur / og
giora forlykun fyrer sig og fyrer sitt
hws. * Ebr. 6/ 27.
7. Og hann skal taka þa tvo hafrana
og færa þa fyrer Drottenn/ fyrer samkund
unnar tialldbwdar dyr.
8. Og Aaron skal kasta hlutum yf-
er þa tvo hafra/ einum hlut fyrer Drott
enn / og einum hlut a þann (hafur) sem
skal lætast laus.
9. Og Aaron skal offra þeim haf-
ur / sem Drottens hlutur fiell a / og til-
reida hann til synda-offurs.
10. Enn sa hafur / sem hluturenn
fiell a/ ad hann skyllde lætast laus / skal
færast lifande fyrer Drottenn/ ad þar giør
est forlykun med / ad hann burt sticke
þann/ ad lætast laus i eydemerkena.
11. Og Aaron skal leida eirn uxa
framm til synda-offurs / sem hann hefur/
og giora forlykun fyrer sig / og fyrer sitt
hws / og hann skal slatra uxanum / sem
hann hefur / til synda-offurs.
12. So skal hann taka * eitt reykel-
sers-kier / fullt af glædum / af elldenum
a altarenu / fra Drottens auglite / og
synar hendur ** fullar af moldu reyk
else af jurtum/ og bera inn fyrer fortiallded. * C. 10/ 1. ** 2. Mos. 30/ 34/ 35.
13. Og hann skal kasta reykelsenu a
elldenn fyrer Drottens augsyn / so ad eirn
þyckur reykur af reykelsenu hilie nadar-
stoolenn / sem er a vitnesburdenum / ad
hann ecke deye.
14. Og hann skal taka * af uxans
bloode/ og stockva med synum fingre yf-
er nadar-stoolenn moot austre / ** fio-
sinnum skal hann stockva med synum fingr-
re af bloodenu fyrer nadar-stoolnum.
* Ebr. 9/ 13. C. 10/ 14. ** 3. Mos. 4/ 6/ 17.

15. Sio

15. Sijdan skal hann slatra synda-offursens hafre / sem folked hefur / og bera hans blood inn fyrer fortiallded / og giora med hans bloode / eins sem hann giorde med uxans bloode / og steckva þvi yfer nadar-stoolenn og fyrer nadar-stoolnum.

16. Og hann skal giora forlijkun fyrer helgedoomenn fyrer Jsraels barna ohreinleika / og fyrer þeirra yfertrodslur i ollum þeirra syndum / og so skal hann giora vid samkundu tialldbudena sem er hia þeim / midt a medal þeirra ohreinleika.

17. Og eingenn manneskia skal vera i samkundu tialldbudenne / nær hann kemur / ad giora forlijkun i helgedoomenum / þar til hann geingur ut / og hann skal giora forlijkun fyrer sig / og fyrer sitt hws / og fyrer Jsraels gioruallann sofnud.

18. Og hann skal ganga ut til altaresens / sem er fyrer Drottens augsijn / og giora forlijkun fyrer þad / og taka af uxans bloode og af hafursens bloode / og striuka þvi a altaresens horn umm hverfes.

19. Og steckva þar a af bloodenu med sijnum fijngre sio sinnum / og hreinsa þad / og helga þad af Jsraels barna ohreinendum.

20. Og nær hann hefur fullkomnad helgedoomsens forlijkun / og samkundu tialldbudarennar / og altaresens / þa skal hann leida þann lifande hafur framm.

21. Og Aaron skal leggia badar sijnar hendur a þess lifande hafurs hofud / og jata allar Jsraels sona yfertrodslur uppa hann / og alla þeirra misgiorninga i ollum þeirra syndum / og leggia þær uppa hafursens hofud / og senda (hann) burt i eydemorkena med einum manne / (þar til) hæfum.

22. Ad hafurenn bere alla þeirra misgiorninga a sier / i eina ville-eydemork / og hann skal lata hafurenn lausann i eydemorkena.

23. So skal Aaron ganga inn i samkundu tialldbudena / og færa sig af lijn-klædunum / sem hann færde sig i / þegar hann gieck inn i helgedoomenn / og hann skal leggia þau þar.

24. So skal hann bada sinn lijkama i vatne / i þeim heilaga stad / og færa sig i sijn klæde / og ganga ut / og giora sitt brenne-offur og folksens brenne-offur / og giora forlijkun fyrer sig og fyrer folked.

25. Og uppbrenna synda-offurs mørenn a altarenu.

26. Enn sa sem færde hafurenn i burt / ad hann lætest laus / skal þvo sijn klæde / og bada sitt holld i vatne / og sijdann ganga inn i herbudernar.

27. Og uxann til synda-offursens / og hafurenn til synda-offursens / * hvorra blood / er verdur bored inn i helgedoomenn til forlijkunar / skal mann færa ut fyrer herbudernar / og þeir skulu brenna þeirra hwder / og þeirra kiot / og þeirra myke / med ellde. * c. 6 / 30. Ebr. 13 / 11.

28. Og sa sem brenner þau / skal þvo sijn klæde / og bada sinn lijkama med vatne / og koma sijdann i herbudernar.

29. Og þad skal vera ydur * eitt eilijft skick: i þeim ** siounda manade / a þeim tijunda (deige) i manadenum / skulud þier þija ydar saler / og eckert verk giora / (hvorke) innbyggiarar eda sa framande / sem er framande a medal ydar. * c. 6 / 18. c. 10 / 9. c. 17 / 7.
** C. 23 / 32.

30. Þvi * a þeim deige skal madur giora forlijkun fyrer ydur / ad hreinsa ydur af ollum ydar syndum / þier skulud verda hreiner fyrer Drottens augsijn.
* C. 23 / 27. 4. Mos. 29 / 7.

31. Þad skal vera ydur * eitt mykell sabbat / og þier skulud þija ydar saler / til eilijfrar skickunar.
* C. 23 / 32.

32. Og presturenn / sem mann skal smyrja / og hvors hond mann skal fylla til prestsembættesens i sijns fodurs stad / skal giora forlijkun / og hann skal færa sig i þau lijn-klædenn / þau heilogu klæde.

33. Og hann skal forlijka heilagleikans helgedoom / og samkundunnar tialldbwd / og altared skal hann forlijka / og yfer prestunum / og yfer allo safnadarens folke

folke

foolke skal hann giøra forlijkun.
34. Og þetta skal vera ydur til eirn
rar eilijfrar skickunar/ ad giøra forlijk-
un fyrer Israels børn af øllum þeirra
syndum * einu sinne a are / Og hann
giørde epter þvi / sem Drottenn hafde
bijfalad Mose. * Ebr. 9/ 7.

## XVII. Capitule.

Løgmal um þann Stad/ a hvorium øll
Offur skylldu skie / og um þad ad
eta ecke Blood.



g Drottenn talade til
Mose / og sagde:
2. Tala til Aarons
z til hans sona/ z til all-
ra Israels barna/og þu
skallt seigia til þeirra:
þetta er þad / sem Drottenn hefur bod
ed og sagt.
3. Hvør sem hellst af Israels hw
se / er slatrar einum uxa eda lambe /
eda geyt i herbwdunum / eda sem slat
rar utann fyrer herbwdunum/
4. Og fører þad ecke framm fyrer
samkundu tialldbwdarennar dyr / ad
þar offrest offur fyrer Drottne / fyrer
Drottens tialldbwd / sa same mann
skal vera bloods sekur / hann uthellte
bloode / og sa same madur skal uppræt
ast fra sijnu foolke.
5. Fyrer þa skulld / ad Israels bø-
rn skulu færa þeirra offur / sem þeir
offra / ut a eina frij-mørk / og færa
þau fyrer Drottenn / til samkundu
tialldbwdarennar dyra / til prestsens /
Og þar skulu þeir offra Drottne þe-
im til þackar-offurs.
6. Og presturenn skal støckva blood
enu a Drottens altare þ samkundu
tialldbwdar dyrunum/ z upptendra þad
feita til eins sæts ylms fyrer Drottne.
7. Og þeir skulu ecke framar offra
* þeirra offre til diøflana / epter
hvørium þeir fremia hooraner/ þetta
** skal vera þeim ein eilijf skickun hia
þeirra epterkomurum.
*5. Mos. 32/17. ** 3. Mos. 6/18. C. 16/9.

8. Og þu skallt seigia til þeirra:
Hvør sem hellst af Israels huuse / eda
af framande / sem eru framande a
medal ydar / er offrar brenne-offre / eda
(ødru) offre:
9. Og fører þad ecke framm til *
samkundu tialldbwdar dyranna / ad giø
ra þad fyrer Drottne / sa same mad-
ur skal upprætast fra sijnu foolke.
* 5. Mos. 12/ 14.
10. Og hvør sem hellst af Israels
huuse / eda af framande / sa sem er
framande a medal þeirra / sem * etur
nockurt blood / þa vil eg setia mijna
augsyn i mooti þeirre persoonu / sem
etur blood / og uppræta hana fra sij-
nu foolke. * C. 3/ 17. etc.
11. Þvi holldsens sal hun er i blood
enu / og eg hefe giefed ydur þad uppa
altared / ad giøra forlijkun fyrer ydar
saaler/ þvi * blooded er þad/ sem skal
giøra forlijkun fyrer saalena.
* Ebr. 9/ 22.
12. Þar fyrer hefe eg sagt til Isra
els barna: eingenn persoona af ydur skal
eta blood/og sa framande/ sem umgein
gst a medal ydar / skal ecke eta blood.
13. Og hvør sem hellst af Israels
børnum/ z af framande/sem umgeingst
a medal þeirra/sem veider eitt (ville)-
dijr / eda eirn fugl / sem ma etast/ þa
skal hann uthella bloodenu þar af/ og
hilia þad med Jørdu.
14. Þvi hvørs * hollds saal er blo
oded þar af / þad (reiknast) fyrer saal
ena/ þar til/ og eg hefe sagt til Isra-
els barna : þier ** skulud ecke eta
nockurs hollds blood / þvi alls hollds
saal er blooded þar af / hvør sa / sem
etur þad / skal upprætast.
*1. Mos. 9/4. ** 3. Mos. 3/17. C. 7/26.
5. Mos. 12/ 23.
15. Og hvør * persoona / sem et-
ur eitt hræ / eda sundur rifed (a med-
al) innbyggiaranna eda framande / skal
þvo sijn klæde/ og bada sig i vatne/ og
vera ** ohreinn inn til kvøllds/ so verd
ur hann hreinn. * C. 11/ 40.
** C. 11/ 24. etc. C. 14/46. C. 15/5. etc.

16. Og þvoe han̄ sig ecke / og bade ecke sitt hollld / þa skal han̄ bera sin̄ misgiørning.

## XVIII. Capitule.

### Fyrerbodner Lider i Egtaskap.



g Drotten̄ talade til Mose/ og sagde:

2. Tala þu til Jsraels barna / og þu skallt seigia til þeirra : eg * er Drotten̄ ydar Gud.

* C. 11/ 44. C. 19/ 2/ 3/ 4/ 10/ 25/ 31.

3. Epter Ægyptalands athøfn / sem þier bigguð i / skulud þier ecke giøra / og epter Canaans lands athøfn/þangad sem eg vil in̄færa ydur/ skulud þier ecke giøra/ þier skulud ecke helldur hallda ydur epter þeirra skicke.

4. (En̄) þier skulud hallda ydur epter mijnum riette/ og mijnar skickaner skulud þier vardveita/ad þier gangid þar i / eg er Drotten̄ ydar Gud.

5. Þar fyrer skulud þier og hallda mijnar skickaner og mijn riettinde/ þvi hvør * man̄eskia / sem þau giører / skal lifa fyrer þau/ eg er Drotten̄.

* Neh. 9/ 29. Ezech. 20/ 11. Rom. 10/ 5. Gal. 3/ 12.

6. Þier skulud ølldunges eingen̄ hallda ydur til ydar nánustu ættingia/bligdan ad openbera/eg er Drotten̄.

7. Þu skallt * ecke openbera þijns fødurs blygdan / edur þin̄ar moodur blygdan / hun er þijn mooder / (þar fyrer)skalltu ecke openbera hen̄ar bligdan. * 5. Mos. 9/ 22. C. 19/ 33. Ezech. 22/ 10.

8. Þu skallt * ecke openbera þijns fødurs hustrur bligdan/þvi þad er þijns fødurs bligdan. * 1. Mos. 35. 22. 3. Mos. 20/ 11. 5. Mos. 22/30. C. 27/ 20. 1. Cor. 5/ 1.

9. Þin̄ar * systur bligdan/(hvørt helldur) þijns fødurs doottur / ellegar þin̄ar moodur doottur / hvørt hun er fødd heima/eda fødd an̄arstadar/þeirra bligdan skalltu ecke openbera.

* C. 20/ 17. 2. Sam. 13/ 14. Ezech. 22/ 11.

10. Þin̄ar sonar doottur/eda þin̄ar doottur doottur bligdan/ þeirra bligdan skalltu ecke openbera / Þvi þad er þijn bligdan.

11. Þin̄ar stiwp-moodur doottur bligdan / sem er þijnum fødur fødd / hun er þijn syster/ hen̄ar bligdan skalltu ecke openbera.

12. Þu skallt ecke openbera þin̄ar fødur systur bligdan/þvi ad hun er þijns fødurs (nánasta) ætt.

13. Þu skallt ecke openbera þin̄ar moodur systur bligdan/ þvi þad er þin̄ar moodur (nánasta) ætt.

14. Þu skallt * ecke openbera þijns fødur broodurs bligdan / þu skallt ecke hallda þig til han̄s hustrur/(þvi) hun er þijn mágkona. * C. 20/ 20.

15. Þu skallt * ecke openbera þin̄ar sonar konu bligdan / (þvi) þad er þijns sonar hustru / (þar fyrer) skalltu ecke openbera hen̄ar bligdan.

* 1. Mos. 38/ 16. Ezech. 22/ 11.

16. Þu skallt * ecke openbera þin̄ar broodurs hustrur bligdan / (þvi) hun er þijns broodurs bligdan.

* Marc. 6/ 18.

17. Þu skallt * ecke openbera eirnar kvin̄u / og hen̄ar doottur bligdan / þu skallt ecke taka hen̄ar sonar doottur/ og hen̄ar doottur doottur/ ad openbera hen̄ar bligdan / (þvi) þær eru hen̄ar (nánasta) ætt / þad er skammarlegt. * C. 20 / 14.

18. Og þu skallt ecke taka eina hustru til hen̄ar systur ad upperta/ ad openbera hen̄ar bligdan / um̄fram þessa/ medan̄ hun lifer

19. Þu skallt ecke hallda þig til * kvin̄u / (nær hun er)adskilen̄ (fra ødrum/) i hen̄ar ohreinleik / ad openbera hen̄ar bligdan. * C. 20/ 18.

20. Þu skallt og * ecke samblanda þig vid þijns náunga hustru/ ad abla afkvæmes / ad saurgast a hen̄e.

* C. 20/ 10. etc. 2. Sam. 11/ 4.

21. Þu skallt ecke giefa af þijnu sæde /

sæde / til ad * læta ganga yfer fyrer Molech / og þu skallt ecke vanhelga þyns Guds nafn / eg er Drottenn.

* C. 20/2. 5. Mos. 18/10. 2. Kong. 21/5. C. 23/10. Ps. 106/37. Jer. 7/31. C. 32/35.

22. Og þu * skallt ecke liggia hia kallkyne / sem madur liggur hia eirne kvinnu / Þad er ein vidurstygd.

* C. 20/ 13. etc.

23. Þu skallt * og ecke samblanda þig vid nockurn fienad / ad saurgast a hønum / og eingenn kvinna skal hafa ad giøra med (nockurn) fienad / ad hann hafe falled med henne/ þad er eitt (skammarlegt) sambland. * C. 20/ 15.

2. Mos. 22/ 19. 5. Mos. 27/ 21.

24. Þier skulud * ecke saurga ydur med nockru af øllu þessu/ þvi heidingiarner hafa saurgad sig med þessu øllusamann/hvøria eg utrek fyrer ydur.

* 2. Kong. 17/ 15.

25. Og landed hefur saurgad sig / og eg hefe vitiad þess misgiørnings a þvi / og landed hefur utskyrpt sijnum innbyggiurum.

26. Og þier skulud hallda mijnar skickaner og mijn riettinde/ og ecke giøra nockud af þessum vidurstyggelegum (hlutum / hvort helldur hann er) innbyggiare eda framande/ sa sem umgeingst hia ydur.

27. Þvi þetta lands-foolk/sem var fyrer ydur / giørde allar þessar vidurstigder / og landed hefur saurgad sig.

28. Ad * landed skule ecke utskyrpa ydur / ef þier saurged þad / lijka sem þad utskyrpte þvi foolke/ sem var fyrer ydur. * C. 20/ 22.

29. Þvi hvør sa/ sem giører (nockrar) af øllum þessum vidurstygdum / þær persoonur/ sem giøra þad / skulu uppræktast fra þeirra foolke.

30. So * hallded þad/ eg vil hafa hallded / ad þier ecke giøred (nockud) af þeim vidurstyggelegum hlutum / sem eru giørder fyrer ydur/og þier skulud ecke saurga ydur þar med / ** eg er Drottenn ydar Gud. * C. 19/ 37.

C. 20/ 8. ** C. 11/ 44. C. 20/ 7/ 24.

## XIX. Capitule.

Utlegging þeirra tiju Guds Bodorda/ og annara Laga.



Og Drottenn talade til Mose/ og sagde:

2. Tala til þess giørvalla Israels barna safnadar/og þu skallt segia til þeirra: Þier skulud verda * heilager / þvi eg er heilagur / (sem er) Drottenn ydar Gud.

* C. 11 / 44/ 45. etc.

3. Þier skulud hvør * ottast sijna moodur og sinn fødur/ og ** hallda mijna sabbata/ eg + er Drottenn ydar Gud. * Syr. 3/ 5. etc.

** 2. Mos. 31/ 13. + 3. Mos. 11/ 44. C. 18/ 2/ 4/ 30.

4. Þier skulud ecke snua ydur til afgudanna/ og ecke giøra ydur * steipta gude/ eg er Drottenn ydar Gud.

* 2. Mos. 20/ 23. C. 34/ 17.

5. Og nær þier vilied slatra þackar offre fyrer Drottne / þa skulud * þier offra þvi ydur til lystesemé.

* C. 7/ 11/ 15. etc.

6. Þad * skal etast a þeim deige þier slatred þvi / og a ødrum deigenum/ enn hvad sem leifest til þess þridia dags/ skal brennast med elldenum.

* C. 7/ 16/ 17.

7. Enn ef (nockud) verdur þo eted (þar af) a þeim þridia deige / þa er þad ein vidurstygd/og verdur ecke þacknæmt.

8. Og hvør sem þad etur skal bera sinn misgiørning / þvi hann saurgade Drottens helgedoom / og su sama persoona skal uppræktast fra sijnu foolke.

9. Og nar * þier uppskiered ydar merkur kornskieru/ þa skalltu ecke skiera alltsamann upp af þijns akurs endum/ ecke helldur safna axlunum naumt i þijna kornskieru. * C. 23 / 22.

5. Mos. 24/ 20.

10. Þu skallt ecke helldur naumt

taka vijnþrwgurnar af þijnum vijngarde / og ecke epteran safna þeim berium/ sem eru nidurfalleñ i þijnum vijngarde / (N elldur) lata þau epter þeim fatæka / og þeim wtlenda / eg er Drotteñ ydar Gud.

11. Pier skulud * ecke stela/ og ecke liwga/ ei helldur falsklega høndla/ sa eine vid hiñ añañ. *2. Mos. 20/15/16. 1. Thess. 4/6.

12. Og ecke falsklega sveria vid mitt nafn/so þu *vanhelger þijns Guds nafn/eg er Drotteñ. *2. Mos. 20/7. etc.

13. Þu skallt * ecke giøra þijnum naunga ofrijke/ ei ræna(hñ/)laat ** ecke daglaunarans laun vera hia þier ut nootkena til morguns.

* 2. Mos. 23/7. **5. Mos. 24/14. Jer. 22/13. Syr. 34/ 23. Tob. 4/ 19. Jak. 5/ 4.

14. Þu skallt ecke bølva þeim daufa / og * ecke leggia ästeiting fyrer þañ blinda / helldur ottast fyrer þijnum Gude / eg er Drotteñ.

* 5. Mos. 27/18.

15. * Pier skulud ecke giøra oriett i doomenum / þu skallt ecke ælijta þess fatæka persoonu / og ei heidra þess volldugа persoonu/(helldur)dæma þiñ naunga riettferduglega.

* 5. Mos. 16/ 19. etc.

16. Þu skallt * ecke ganga( sem ) eirn bakkalare a medal þijns foolks/þu skallt ecke standa ** epter þijns naunga bloode / eg er Drotteñ.

* Ps. 15/3. Ps. 50/20. ** Jer. 9/8. Jak. 5/6.

17. Þu skallt ecke hata þiñ broodur i þijnu hiarta/(Eñ)þu skallt * vissulega straffa þiñ naunga/ ad þu skuler ecke bera synd yfer hañ.

* Syr. 19/13. etc. Matth. 18/15. Luc. 17/3.

18. Þu skallt ecke hefna þijn (sialfur/) og ei helldur geima (reide) i moote þijns foolks børnum/ Og þu * skallt elska þiñ naunga sem þig sialfañ/ eg er Drotteñ. * Marc. 12/ 31. etc.

19. Pier skulud hallda mijnar skickaner / þu skallt ecke lata þiñ fienad samblanda sig vid añad kyn / þu skallt * ecke sa þiñ akur med blondudu(korne/) og ei bera klæde a þier / sem eru ofeñ af ullu og lijne. * 5. Mos. 22/9.

20. Og nær eirn madur liggur hia eirne kviñu / med sædes samblande / og hun var ein þioonustu stulka / sem var trwlofud einum mañe / þo ecke (keypt) laus / eda feinged frelse / þad ber ad straffast/ eñ þau skulu ecke deydast/ þvi hun var ecke frij giefeñ.

21. Eñ hañ skal bera sitt skullda-offur fyrer Drotteñ / til samkundu-tialldbwdareñar dyra / eirn hrwt til skullda-offurs.

22. Og presturen skal giøra forlijkun fyrer hañ / med skullda-offursens hrwte fyrer Drotteñs auglite / fyrer hñs synd/sem hñ syndgade/so skal hañ fa fyrergiefning a siñe synd/ sem hañ syndgade. *c. 4/26/31/35. c. 5/13/16.

23. Nær þier komed iñ i landed/ og planted allra handa trie / sem mañ etur af / þa skulud þier skiera forhwdena af þeim/ (sem er) avoxteñ af þeim / i þriu ar skulu þau halldast ydur oumskoreñ/ og ecke etast.

24. Og a þvi fioorda are skal allur þeirra avøxtur vera eirn loflegur heilagleike fyrer Drotine.

25. Eñ a þvi fimta are skulud þier eta af avextenum þar af / ad þier safned ydur groodanum þar af / eg er Drotteñ ydar Gud.

26. Pier skulud eckert eta * med bloode/ þier skulud ecke spa/ ei helldur brwka kukl. * c. 3/ 17. etc.

27. Pier skulud * ecke kringskiera ydar høfud-hær/ ei helldur skalltu fordiarfa þitt skijfda skiegg. * c. 21/5. etc.

28. Og þier skulud * ecke skiera teikn fyrer þess dauda skulld a ydar lijkama/ eda setia rista skrift a ydur/ eg er Drotteñ. * 5. Mos. 14/ 1.

29. Þu skallt ecke saurga þijna dootur/ ad þu later hana hoorast/ad landed skule ecke fremia hoordoom / og

landed skule verda fullt af vanvirdu.
30. Þier skulud hallda mijna * sabbata/ og ottast fyrer mijnum Helgedoom/ eg er Drottenn. * c. 23/ 2. etc.
31. Þier skulud * ecke snwa ydur til spa-kvenna / og ecke leita burt til spamanna/ ad saurga ydur a þeim/ eg er Drottenn ydar Gud. * c. 20/6/27. 1. Sam. 28/ 7.
32. Þu skallt uppstanda fyrer þeim grahærda / og heidra þann gamla / og þu skallt ottast fyrer þijnum Gude/eg er Drottenn.
33. Nær þar umgeingst * eirn framande hia þier i þijnu lande / þa skulud þier ecke giøra hønum ofrijke.
* 2. Mos. 22/ 21. etc.
34. Sa framande/ sem umgeingst a medal ydar/skal vera ydur sem eirn innbyggiare af ydur / og þu skallt elska hann sem þig sialfann / þvi þier hafed vered utlendingar i Egyptalande / eg er Drottenn ydar Gud.
35. Þier skulud ecke giøra oriett i doomenum / i alenn / i * vigt / og i mæler. * 5. Mos. 25/15. Ordsk. 11/ 1. C. 20/ 10.
36. * Riett vigt / riett (punda) lood/ riettur epha/ og riettur hin skal vera hia ydur / eg er Drottenn ydar Gud/** sem utfærde ydur af Egypta lande. * 5. Mos. 25/13. Ordsk. 16/ 11.
** 3. Mos. 11/ 45. C. 22/ 32.
37. Og þier skulud * hallda allar mijnar skickaner / og alla mijna dooma/ og giøra þa/eg er Drottenn. * c. 18/ 30. C. 20/ 8/ 22.

XX. Capitule.

Strafp fyrer adskilianlegar Synder.



Og Drottenn talade til Mose / og sagde:
2. Og þu skallt seigia til Israels barna: Hvør sem hellst af Israels børnum / eda af þeim framande / sem umgeingst i Israel / er giefur * Molech af sijnu sæde/ skal vissulega deydast/ foolked i landenu skulu grijta hann i hel.
* C. 18/ 21. etc.
3. Og eg vil setia mitt * auglit i moote þeim sama manne / og lata ** uppræta hann fra sijnu foolke/ fyrer þad hann gaf Molech af sijnu sæde/ad saurga mitt Helgedoom / og vanhelga mitt heilaga nafn. * c. 17/ 10. ** Ezech. 14/ 8.
4. Og þar sem foolked i landenu sier ad sonu i gegnum fijngur vid þa somu manneskiu/ i þvi hann gaf Molech af sijnu sæde/ ad þeir sloou hann ecke i hel.
5. Þa vil eg þo setia mitt auglit i moote þeirre somu manneskiu / og hans ætt/ og lata uppræta hann / og þa alla/ sem fremia hoor epter hønum/ og drygia hoor epter Molech / fra þeirra foolke.
6. Nær ein persoona snyr sier * til spa-kvennanna eda til spasagnarmannanna ad drygia hoor epter þeim/ þa vil eg setia mitt auglit i moote þeirre somu persoonu / og uppræta hann fra sijnu foolke.
* C. 19/ 31. etc.
7. Þar fyrer * helged ydur/ og vered heilager/ Þvi eg er Drottenn ydar Gud.
* C. 11/ 44/ 45.
8. Og hallded mijnar * skickaner/og giored þær/ Eg er Drottenn / sem giører ydur heilaga. * c. 18/ 30. c. 19/ 37.
9. Þvi hvør sem hellst þar * bolvar sijnum fødur/ eda sinne moodur/skal vissulega deydast. Hann bolvade sijnum fødur/ eda sinne moodur/ hans blood vere yfer hønum. * 2. Mos. 21/ 17. etc.
10. Og hvør sem * drygger hoor med eins manns hustru/ hvør sem fremur hoor doom med sijns naunga hustru/ sa hoorkall skal vissulega deydast/ ja / og hoorkonan. * c. 18 / 20. 2. Mos. 20 / 14. 5. Mos. 22/ 22. Matth. 5/ 27. Joh. 8/ 5.
11. Ef nockur liggur hia sijns * fødurs hustru/ ad hann hafe openberad sijns fødurs blygdan / þa skulu þau bæde vissilega deydast/þeirra blood vere yfer þeim.
* C. 18/ 8. 1. Mos. 35/ 22. 5. Mos. 27/ 20. 2. Sam. 16/ 22.
12. Ef nockur liggur hia sijns * sonar hustru / þa skulu þau bæde vissilega

 deydast/

deydast/ þvi þau hafa giort eitt (skam-
arlegt) sambland / þeirra blood vere yfer
þeim. * 1. Mos. 38/18. 5. Mos. 27/23.
13. Ef nockur * liggur hia eirnre
karlmans persoonu/ so sem madur liggur
hia eirnre kvinnu / þeir hafa bæder giort
eina vidurstygd/ þeir skulu visselega deyd
ast/ þeirra blood vere yfer þeim.
* C. 18/ 22. Rom. 1/ 27. 1. Cor. 6/ 9.
14. Ef * nockur tekur eina kvinnu og
hennar moodur/ þad er ein hneixlan/ þeir
skulu brenna hann med ellde/ ja þau (bæde/)
ad þar sie eingenn vanvyrda a medal yd-
ar. * C. 18/ 17.
15. Og ef nockur hefur sitt samræde
med einum * fienade / hann skal visse-
lega deydast/ og fienadenn skulud þier dre
pa. * C. 18/ 23. etc.
16. Ef eitt kvennmadur helldur sig
til nockurs fienadar/ad hann hefur sam-
ræde med henne/ þa skalltu sla i hel kvinn
una og fienadenn / Þau skulu visselega
deydast / þeirra blood vere yfer þeim.
17. Og sa sem tekur sijna * systur/
sijns fødurs dootter / eda sinnar moodur
dootter / og sier hennar bligdan / og hun
sier hans bligdan (aptur/) þad er ein
(vidurstyggeleg) skømm/og þau skulu upp
rætast fra þeirra foolks barna augsyn /
hann openberade sinnar systur bligdan/ hann
skal bera sinn misgiørning. * C. 18. 9.
5. Mos. 27/ 22.
18. Og sa/ sem liggur hia eirnre kvi
nnu/sem er veik/og openberar hennar bligd
an/ og giører berann hennar brunn/ og hun
openberar sinn blood-brunn / þa skulu þau
bæde upprætast fra þeirra foolke.
19. Þu skallt ecke openbera þinnar *
moodur systur/og þinnar fødur systur bligd
an/ þvi hann hefur giort berann sinn næn-
asta ættingia. Þau skulu bera þeirra
misgiørning. * C. 18/ 13.
20. Og sa / sem liggur * hia sijns
fødur brooders hustru/ hann hefur open-
ad sijns fødur brooders bligdan/ þau sku
lu bera þeirra synd/ þau skulu deya barn
laus. * C. 18/ 14.
21. Ef * nockur tekur sijns brooders
hustru / þad er eitt slæmur giørningur /
hann openberade sijns brooders bligdan /
þau skulu vera barnlaus. * Marc. 6. 18.
22. So skulud þier nu * hallda all-
ar mijnar skickaner/ og oll mijn riettinde/
og giora þau/ uppa þad/ ad * * landed
skule ecke utskyrpa ydur / sem eg vil føra
ydur inn i/ til ad bwa þar i. * C. 19/37.
* * C. 18/ 25/ 28.
23. Og ecke ganga i þess foolks ski-
cke / hvert eg skal utreka fyrer ydur /
Þvi allt soddann hafa þeir giort / og eg
hafde eina vidurstygd til þeirra.
24. Enn eg seige ydur : þier skulud
setiast ad þeirra lande / og eg vil giefa
ydur þad til ad sitia þad / eitt * land /
sem flijtur med mioolk og hunange / eg
er Drottenn ydar Gud/sem hefe * * ad-
skiled ydur fra foolkenu. * 2. Mos. 3/8.
C. 13/ 5. * * 1. Kong. 8/ 53.
25. Og þier skulud giora mismun a
mille þess * hreina fienadar og þess o-
hreina / og i millum þeirra ohreinu fug-
la fra þeim hreinu / og ecke giora ydar
sæler ohreinar a fienadenum og a fugl-
unum / og a ollu þvi/ sem skrijdur a
Jordunne/ hvert ed eg hefe fraskiled fyr
er ydur / ad þad skule vera ohreint.
* C. 11/ 3. etc. 5. Mos. 14/ 4. etc.
26. Þar fyrer * skulud þier vera mi
er heilager/ þvi eg Drottenn er heilagur/
og eg hefe adskiled ydur fra foolkenu/ til
ad vera mijner. * C. 11 / 44 / 45. etc.
27. Og nær eirn madur eda kvinna
finst ad umgangast med * galldur/eda
spaadoom / þau skulu visselega deydast /
þeir skulu grijta þau i hel / þeirra blood
vere yfer þeim. * 2. Mos. 22/ 18. etc.

## XXI. Capitule.

### Hvernenn eirn Prestur i einu eda ødru skal skicka sier.



g Drottenn sagde til Mo-
se : tala þu til prestanna /
Aarons sona / og seig til
þeirra : (eirn prestur)skal
ecke saurga sig a einu *
lijke a medal sijns foolks.
* 4. Mos. 5/ 2. Ezech. 44/ 25.
2. Utann a sinne næstu ætt / sem hon-
um

um næst til heyrer / sem er yfer hans moodur/og yfer hans fodur/og yfer hans syne/og yfer hans dootter/og yfer hans broodur.

3. Og yfer hans systur / sem er ein joomfrw/ sem er hans næsta (ætt/) sem hefur ecke man/yfer henne mæ hann saurga sig.

4. Hann skal ecke saurga sig/ sem einn eghtamadur a medal hans foolks/ ad vanhelga sig.

5. Þeir skulu * og ecke klippa slett af a sijnu hofde / og ecke taka þeirra skyfda skiegg af/og ei skiera teikn a þeirra lijkama. * c. 19/27. 5.Mos.14/ 1. Ezech. 44/ 20.

6. Þeir skulu vera heilager fyrer þeirra Gude / og ecke vanhelga þeirra Guds nafn / þui þeir offra Drottens elld-offre / ( ja ) þeirra Guds braude / þar fyrer skulu þeir vera heilager.

7. Þeir skulu ecke taka ( nockra ) * hoorkonu/ ellegar þa/ sem er kreinkt/ og þa kuinnu/sem er rekenn fra sijnum manne/ skulu þeir ecke taka / þui hann er heilagur fyrer sijnum Gude. * Ezech.44/22.

8. Þar fyrer skalltu hallda hann heilagann/ þui hann offrar sijns Guds braude/ hann skal vera þier heilagur / þui * eg Drottenn er heilagur / sem ydur giore heilaga. * c. 19/ 2. c. 22/ 9/ 16.

9. Nær eins prests dootter tekur til ad fremia hoor / hun hefur skammad sinn fodur/ hun skal brennast med elldenum.

10. Sa sem er ypparste prestur a medal sinna brædra/ a hvers * hofud smurningar oleo er wthellt / og madur hefur uppfyllt hans hond/ad hann verdur færdur i klæden/ hann skal ecke giora bert sitt hofud/ og ei sundur rifa sijn klæde. * 2. Mos. 28/ 41.

11. Og hann skal ecke koma til nockurs dauds lijks/ og hann skal ecke saurga sig/ hvorke fyrer sinn fodur / eda fyrer sijna moodur. * 4.Mos.6/ 7. c. 9/ 6.

12. Og hann skal ecke wtganga af helgedoomenum / ad hann ecke vanhelge sijns Guds helgedoom / þui hans Guds smurningar olíu * krona er a honum/ eg er Drottenn. * 2. Mos. 28 / 36.

13. Og hann skal taka eina hustru i hennar * joomfrwr doome. * Ezech. 44/ 22.

14. Eina eckiu/ eda wiskwpada/eda kreinkta hooru / þær skal hann ecke taka/ helldur eina joomfrw af sijnu foolke s skal hann taka til hustrur.

15. Ad hann ecke vanhelge sitt sæde medal sijns foolks / þui eg er Drottenn / sem hann giorer heilagann.

16. Og Drottenn talade til Mose/ og sagde: tala þu til Aaron / og seig:

17. Nær þar er nockur * madur af þijnu sæde i þeirra ættum/ sem er vanse a / þa skal hann ecke ganga framm / ad offra sijns Guds braude. * 1.Tim.3/2. Tit. 1/ 6/7.

18. Þui * eingenn madur / sem breskeur er a/ skal ganga framm/(hvort hnn er) einn blindur madur/eda halltur/ eda sem hefur flatt (nef/) eda of-stoor. * C. 22/ 22.

29. Eda sa madur/ sem hefur lam a fætenum / eda lam a hondenne.

20. Eda keinghriggiadur / eda skackeigdur / eda hefur mein a sijnu auga/ eda er skurfottur / eda klædugur / eda kuidslitenn.

21. Og eingenn madur/sem hefur brest a sier af Aarons prests sæde/ skal ganga framm / ad offra Drottens elld-offre / þar er brestur a honum / hann skal ecke ganga framm / ad offra sijns Guds braude.

22. Þo skal hann eta sijns Guds braud af þui helgasta og af þui heilaga.

23. Enn hann skal ecke ganga til fortiallsens / og ei ganga framm til altaressens / þui þar er brestur a honum / ad hann skule ecke vanhelga minn helgedoom/ þui * eg er Drottenn/ sem giore þa heilaga. * c. 22/ 9 / 16/ 32.

24. Og Mose sagde(þetta) til Aaron og hans sona / og til allra Israels barna.

## XXII. Capitule.

Logenn um Offursens Næstalag.

Og


g Drotteñ talade til Mo-
se/ og sagde :

2. Seig þu * til Aaron og til hañs sona / ad þeir hallde sig ꝼra Israels barna helgum hlutum / og ad þeir ecke vanhelge mitt heilaga naꝼn/ hvoria þeir helga mier/ eg er Drotteñ. * c. 6/ 25. 4. Mos. 6/ 23.

3. Seig til þeirra : hvør sa madur af øllu ydar sæde i ydar ættum/ sem geingur fram til þess heilaga / sem Israels børn helga Drottne/ og hañs ohreinleike er a honum/ þa skal su sama persoona uppræætast ꝼra miñe augsyn / Eg er Drotteñ.

4. Hvør sem hellst þar er aꝼ Aarons sæde/og hañ er lykþrær/eda heꝼur reinsl/ hañ skal ecke eta aꝼ þvi heilaga / fyrr eñ hañ hreinsar sig/ Og hvør sem snert er nockurn/sem er ohreiñ yꝼer einu lyke/ eda * hvør madur / sem sæded geingur fra i svefne. * c. 15/ 16.

5. Ellegar hvør þar kiemur vid nockud skrijdande ( dyr / ) sem hañ kyñe ad verda ohreinn af / ellegar vid eina mañeskiu / sem hañ kañ verda ohreinn aꝼ / epter øllum sijnum ohreinleika.

6. * Su persoona / sem kiemur vid þad/ skal vera ohrein tiñ til kvøllds / og ecke eta af þvi heilaga/ helldur bada siñ lijkama i vatne. * c. 11/ 24. etc.

7. Og nær sooleñ geingur nidur / þa skal hañ hreinsa sig/ og sijdañ mæ hañ eta aꝼ þeim heilogu hlutum / þvi þad er hañs matur.

8. Hañ skal ecke eta * hræ / eda sundur-rifed / ad saurga sig a þvi/ eg er Drotteñ. * 2. Mos. 22/ 31. etc.

9. Þar ꝼyrer skulu þeir hallda þad eg vil haꝼa hallded / ad þeir skule ecke hlada sig med synd/ og deya þar i/ nær þeir vanhelga þad/ * eg er Drotteñ / sem helgar þa. * c. 21/ 8.

10. Þar skal eingeñ ꝼramande eta af þvi heilaga / Prestsens heima ꝼoolk/ og einn daglaunare skal ecke eta þad heilaga.

11. Eñ haꝼe presturiñ keypt persoonu fyrer sijna wtgieꝼna peninga / hun mæ eta þar af / og sa sem fædest i hañs hwse/þeir mega eta af hañs braude.

12. Eñ kome ein prests dootter i eins framande mañs ꝼiærhalld/ þa skal hun ecke eta aꝼ þeirre heilogu upplifting.

13. Eñ verde ein prests dootter eckia eda utskwꝼud / og heꝼur ecke sæde/ og kiemur aptur til sijns fødurshwss/ lijka sem þegar hun var ein pijka / þa mæ hun eta af sijns fødurs braude / eñ eingeñ framande mæ eta þar af.

14. Eñ ete nockur aꝼ þvi heilaga ovitande / hañ skal leggia * þañ ꝼimta (part) þar aꝼ/ þar til/ og giefa prestenum þad (med) þvi heilaga.
* 4. Mos. 5. 7.

15. Ad þeir skule ecke vanhelga Israels barna heilaga hlute/ sem þeir upplipta fyrer Drottne/

16. Og ( ecke ) hlada sig med misgiørning (og) skulld/ nær þeir eta þeirra heilaga hlute/ þvi * eg er Drotteñ/sem helgar þa. * v. 9. c. 21/ 8/ 32.

17. Og Drotteñ talade til Mose/ og sagde:

18. Tala þu til Aaron og hañs sona / og til allra Israels barna / og seig til þeirra : hvør sem hellst aꝼ Israels hwse / eda aꝼ þeim ꝼramande i Israel / sem vill giøra sitt oꝼꝼur / hvørt helldur þad er þeirra * heit / eda þeirra ꝼrijvilie / sem þeir vilia oꝼꝼra Drottne til eins breñe-oꝼꝼurs. * Ps. 50/ 14.

19. Þad skulud þier giøra ydur til lystesemi/ ( ad þier oꝼꝼred ) einum kallkyns fyrer utañ lijte af ꝼienu / aꝼ saudunum/ eda af geitunum.

20. Þier skulud aungvu * oꝼꝼra aꝼ þvi/sem brestur er a/þvi þad verdur ecke þacknæmelegt fyrer ydur.
* 5. Mos. 15/ 21. C. 17/ 1. Mal. 1/ 8.

21. Og hvør sem vill oꝼꝼra einu þackar-oꝼꝼurs oꝼꝼre ꝼyrer Drottne / til eins fierdeiles heits / eda af frijvilia / aꝼ ꝼie eda aꝼ saudum / þa skal þad vera utañ lijte / ad þad skule verda þacknæmelegt/

þar

þar skulu eingen lyke vera a.

22. Pad sem er blindt/ eda (bein-) broted/ eda lest / eda sem hefur boolgu/ eda klada/ eda krefdu/ þvi skulud þier ecke offra Drottne/ og ei giefa elld-off ur af þeim a Drottens altare.

23. Bæde eirn uxe og saudur / sem hefur lim / of-stooran eda of-lyken / þvi mattu offra af friviliа/ en til eins heits/kan þad ecke verda þægelegt.

24. Þu skallt ecke helldur offra Drottne (nockru/ sem er) kramed/ eda molad/ eda sundur-rifed / eda afskored/og þier skulud ecke giøra þad i ydar lande.

25. Og þier skulud ecke offra af eins framande hende ydars Guds braud/ af nockru af þvi/ þvi þeirra vanse er a þeim/ þar eru lyke a þeim/ þeir skulu ecke þocknast ydur.

26. Og Drotten talade til Mose/ og sagde:

27. Nær eirn uxe eda lamb/eda geit fædast/þa skal þad vera i siø daga hia sinne moodur / Og fra þeim attunda deige og þar epter/ skal þad vera þægelegt / til ad offra einu elld-offre fyrer Drottne.

28. Hvørt helldur þad er uxe eda lamb / þa skal madur ecke slatra þvi a einum deige/ med syni afkvæme.

29. En nar þier offred Drottne einu lofgiørdar offre/þa offred þvi epter ydar vilia.

30. Pad skal etast a þeim sama deige / þier skulud ecke leifa þar af til morguns / eg er Drotten.

31. Þar fyrer skulud þier * hallda myn bod/og giøra þau/eg er Drotten.

* C. 18/ 30.

32. Ad þier ecke vanhelged mitt heilaga nafn/ og eg kunne vera heilagur a medal Israels barna/ þvi * eg er Drotten/ sem helgar ydur. * v. 9.

* C. 21/ 8. 23.

33. Hann sem wtfærer ydur af Egyptalande / ad vera ydar Gud / eg er Drotten.

XXIII. Capitule.

Setningur um þær hellstu Hatijder.

Og Drotten talade til Mose / og sagde:

2. Tala þu til Israels barna / og seig til þeirra: þessar eru Drottens hatijder / sem þier skulud kalla heilagar samkomur/þessar eru mynar hatijder.

3. * Sex daga skalltu erfida / en a þeim siøunda deige er sa stoore sabbat/er heiløg samkoma / þa skulu þier ecker erfide giøra/(Þvi) þad er Drottens sabbat/ i øllum ydar hybylum.

* 2. Mos. 20/ 8/ 9. etc.

4. Þessar eru Drottens samkomur/ þær heiløgu samkomur/ sem þier skulud kalla a þeirra (til settu) tyd.

5. J þeim fyrsta manade / a þeim * fiortanda (deige) i manadenum / millum þeirra ** tveggia aftna/ eru þad Drottens paskar. * 2. Mos. 12/18.

C. 23/ 15. 4. Mos. 9/ 2. C. 28/ 16.
5. Mos. 16 / 1. ** 2. Mos. 12/ 6.

6. Og a þeim fimtanda deige i þessum manade / er þad þess * osyrda brauds hatijd fyrer Drottne/þa skulud þier eta osyrt i siø daga.

* 2. Mos. 12/ 15.

7. Og a þeim fyrsta deige/skal þad vera ydur ein heiløg samkoma/þa skulud þier eckert þrældooms verk giøra.

8. Og þier skulud offra elld-offre fyrer Drottne i siø daga / a þeim siøunda deige skal vera ein heiløg samkoma/ þa skulud þier ecke giøra nockurt þrældooms verk.

9. Og Drotten talade til Mose / og sagde:

10. Tala þu til Israels barna/ og seig til þeirra : nær þier komed inn i þad land / sem eg vil giefa ydur / og uppskiered þess kornskurd / þa skulud þier frambera eirn omer af ydar kornskurdar fyrsta til prestsens.

11. Og hann skal hræra þann omer

fyrer Drottne / ydur til vilia / a ød-
rum deigenum epter ſabbatenñ ſkal
preſturenñ hræra þad.
12. Og þier ſkulud giøra offur a
þeim ſama deige/ nær þier hræred þañ
omer/ eitt lamb utañ lyte / ærs gam-
allt / til eins breñe-offurs fyrer Dr-
ottne.
13. Og * mat-offur þar til / tvo
tiundu (parta) miøls / blandad med
oleo/ til eins elld offurs fyrer Drottne/
til eins þægelegs ylms / og dryckiar-
offur þar til/ eirn (fioorda) part af
einum hin vijns. * c. 2/ 1. etc.
14. Þier ſkulud ecke eta braud / eda
ſteikt (ax/) eda grænt (ax/) til þeſſa
ſama dags / iñ til þeſſ þier bered ydar
Guds offur fram̄ / * Þetta ſkal vera
ydar epterkomurum ein eilijf ſkickun / i
øllum ydar hybijlum. * c. 6/ 18.
2. Moſ. 27/ 21. C. 30/ 21
15. Sijdañ ſkulud þier telia ydur *
fra ødrum deige epter ſabbatenñ / fra
þeim deige / þier bered hræringarenñar
omer fram̄ / ſiø heiler ſabbatar ſkulu
þeir vera. * 5. Moſ. 16/ 9. 10.
16. Fra þeim ødrum deige i þeirre
ſiøundu viku/ ſkulud þier telia fimtijg-
er daga / og offra nyju mat-offre fyrer
Drottne.
17. Af ydar hybijlum ſkulud þier
fram̄bera hræringar braudet/ þar ſku-
lu vera tvo af tveimur tiundu (pørt-
um) miøls/ fyrſta groodans (braud)
ſkal bakaſt med ſurdeige til Drottenñs.
18. Og þier ſkulud bera fram̄ med
braudenu ſiø lømb/ ærs gømul/ utañ
lyte/ og eirn ungur uxe/ og tveir hrut-
ar ſkal vera breñe-offur fyrer Drott-
ne/ og þeirra mat-offur/ og þeirra dryck
iar-offur/ þad er eitt vel þocknanlegs
ylms elld-offur fyrer Drottne.
19. So ſkulud þier tilreida eirn geit
hafur til ſynda-offurs / og tvø lømb /
ærs gømul til þackar-offurſins offurs.
20. Og preſturenñ ſkal læta hræra
þau med þeſſ fyrſta groodurs braude
til eirnrar hræringar fyrer Drottne /
med þeim tveimur lømbum / þau ſkulu
vera eiñ heilagleike fyrer Drottne til
preſtſens.
21. Og þier ſkulud kalla (ſamañ)
a þeim ſama deige/ þad ſkal vera ydur
ein heiløg ſamkoma/ þier ſkulud eckert
þrældooms verk giøra / Þad ſkal vera
ein eilijf ſkickun i øllum ydar hybijl-
um / hia ydar epterkomurum.
22. Og nær þier * uppſkiered ydar
lands kornſkurd / þa ſkalltu ecke ſkiera
alldeiles upp a þijnum akre / nær þu
uppſkier/ og ecke ſafna of miklu i þiñe
kornſkieru/ Þu ſkallt læta þad (vera)
handa þeim fatæka / og handa þeim
framande/ eg er Drottenñ ydar Gud.
* C. 19/ 9. etc.
23. Og Drottenñ talade til Moſe /
og ſagde:
24. Tala þu til Iſraels barna/ og
ſeig: i þeim ſiøunda manade / a þeim
fyrſta (deige) i manadenum / ſkulud
þier hallda eirn * ſabbat / eiñ (bæ-
ſoonu) hlioom til miñingar/ eina hei-
laga ſamkomu. * 4. Moſ. 29/ 1.
25. Þa ſkulud þier eckert þrældooms
verk giøra / og þier ſkulud offra elld-
offre fyrer Drottne.
26. Og Drottenñ talade til Moſe /
og ſagde:
27. Eñ a þeim * tiunda (deige) i
þeſſum ſiounda manade / er forlijkun-
ar dagurenñ / ſa ſkal vera ydur ein hei-
løg ſamkoma/ þa ſkulud þier þiaa ydar
ſaler/ og giøra elld-offur fyrer Drott
ne. * c. 16/ 30. etc.
28. Og þier ſkulud eckert verk giø-
ra a þeſſum ſama deige / þvi hañ er
forlijkunarenñar dagur/ til ad giøra for
lijkun fyrer ydur / fyrer Drottenñs yd-
ar Guds augſyn.
29. Þvi hvør perſoona / ſem ecke
þinæſt a þeſſum ſama deige / ſu ſkal
uppræetaſt fra ſijnu foolke.
30. Og hvør ſu perſoona/ ſem giør-
er nockurt erfide / a þeſſum ſama dei-
ge/ þa ſømu perſoonu vil eg eydelegg-
ia fra ſijnu foolke.

3. Þier skulud eckert verk giøra / (Þad skal vera) ein eilijf skickan hia ydar epterkomurum / i øllum ydar hy- bylum.

32. Þesse er ydar * stoore sabbat / ad þier skulud þia ydar saler / a þeim niunda deige i manadenum / um aptan eñ / fra þeim eina aptne / til þess añars skulud þier hallda ydar sabbat.
* C. 16 / 31.

33. Og Drottenn talade til Mose / og sagde:

34. Tala þu til Israels barna / og seig: a þeim fimtanda deige i þessum þm siøunda manade / er lauffskalaña * hatijd / i siø daga fyrer Drottne.
* 2. Mos. 23 / 16. 4 Mos. 29 / 12.

35. A þeim fyrsta deige skal vera ein heiløg samkoma / þier skulud eckert prældooms verk giøra.

36. Þier skulud offra elld-offre fyrer Drottne i siø daga / eñ a þeim attunda deige / skal þad vera ydur ein heiløg samkoma / og þier skulud offra Drottne elld offre / þad er forbods (dag ur /) þier skulud eckert prældooms verk giøra.

37. Þessar eru Drottens hatijder / sem þier skulud kalla heilagar samkom ur / ad offra fyrer Drottne elld-offre / breñe-offre og mat-offre / (og ødru) offre / og dryckiar-offrū / hvørs dags hønd lan a sijnum deige.

38. Fyrer utañ Drottens sabbat / og fyrer utañ ydar gafur / og fyrer ut añ øll ydar heit / og fyrer utañ allar ydar lostugar (gafur /) sem þier skulud giefa Drottne.

39. Þo a þeim fimtanda deige i þeim siøunda manade / nær þier safned Jardareñar grooda / skulu þier hallda hatijdlega Drottens hatijd siø daga. A þeim fyrsta deige er þad sabbat / og a þeim attunda deige er þad sabbat.

40. Og a þeim fyrsta deige skulu þier taka ydur avøxt af * føgrum triam / palma kvist / og bloom kvistu af þickvum triam / og vijder hia lækium / og vera glader / fyrer Drottens ydar Guds auglite siø daga.
* Neh. 8 / 14 / 15 / 16.

41. Og þier skulud hatijdlega hallda þa hatijd fyrer Drottne siø daga um ared: (þ skal vera) * ein eilijf skickan hia ydar epterkomurum / þier skulud hatijdlega hallda hana i þeim siøunda manade. * C. 6 / 18.
2. Mos. 27 / 21. C. 30 / 21. 4. Mos. 10 / 8.

42. Siø daga skulu þier bwa i lauffskalunū / hvør iñbyggiare i Israel skal bwa i lauffskalunum.

43. Vppa þad / ad ydar epterkomarar skule vita / ad eg liet Israels børn bwa i tiølldum / þegar eg wtfærde þa af Egyptalande / * eg er Drottenn ydar Gud. * C. 11 / 44. C. 18 / 2 / 14 / 30.

44. Og Mose sagde Israels børnum (soddañ) Drottens (tilsettar) hatijder.

## XXIV. Capitule.

Skickun um Oleum til Lampaña / og Skodunar Brauden / Um þañ sem bølvar / og um þañ sem slær nockud i Hel.



Og Drottenn talade til Mose / og sagde:

2. Biood Israels børnum / ad þau bere * til þijn hreint skiered oleum af oliu-trie / til lijsingareñar sem allstijd (kuñe) ad kastast ofañ i lampañ. * 2. Mos. 27 / 20.

3. Utañ fyrer vitnesburdarens fortiallde / i samkundu tialldbudeñe skal Aaron tilreida þad fra aptne til morguns / alltijd fyrer Drottens auglite / Þetta skal vera ein * eilijf skickan hia ydar epterkomurum. * C. 6 / 18.
C. 10 / 9

4. Eñ hañ skal tilreida lampana a þeim hreina lioosastiaka alltijd fyrer Drottens auglite.

5. Og þu skallt taka miøl / og baka þar af tooif køkur / ein kaka skal h fa tvo tijundu (parta /) so skalltu leggia þær i tvær rader.

6. Sex i hvøria rød a þvi fagra borde fyrer Drottens auglite.

7. Og þu skallt leggia hreint reykelse a hvøria rød / ad þad skule vera braud til eirnrar miñingar / eitt elld offur fyrer Drottne.

8. A hvørium sabbats deige skal hañ tilreida þad allttyd fyrer Drottens augsyn / af Israels børnum / til eins eilijfs sattmala.

9. Og þad skal heyra Aaron og hañs sonum til / og þeir skulu eta þad a þeim heilaga stad / þvi þad er hønum þad helgasta af Drottens elld offrum / til eirnrar eilijfrar skickanar.

10. Eñ þar gieck eirn Israelitiskrar kviñu son ut / og hañ var eins Egyptsks mañs sonur a medal Israels barna / og þeirrar Israelitisku son og eirn Israelitiskur madur þrættudu i herbudunum.

11. Og sa Israelitisku kviñu son lastade nafned / og bølvade / þa leiddu þeir hañ til Mose / og hañs moodur nafn var Selomith / Dibri doottir / af Dans ætt.

12. Og þeir settu hañ * i fangelsed / þar til þeir feinge eitt bert andsvar af Drottens muñe.
* 4 Mos. 15/34.

13. Og Drotteñ talade til Mose / og sagde:

14. Fær ut þañ / sem hefur bølvad / burt wt fyrer herbudernar / og læt alla þa / sem þad heyrdu / leggia þeirra hend ur a hañs høfud / og sa giørvalle søfn udur skal grijta hañ.

15. Og tala til Israels barna / og seig : hvør hellst þar bølvar sijnum Gude / hañ skal bera sijna synd.

16. Og hvør sem * lastar Drottens nafn / skal vissulega deydast / allur søfnudureñ skal vissulega grijta hañ / eins sem þañ framande / so iñbyggiarañ / nær hañ lastar (þad) nafn / þa skal hañ deydast. * 2. Mos. 20/7.

17. Ef nockur slær eina * mañeskiu i hel / þa skal hañ vissulega deydast.
* 2. Mos. 21/12. 4. Mos. 35/16.

18. Eñ hvør þar slær eirn fienad i hel / skal aptur giefa sal fyrer sal.

19. Og hvør þar lijter siñ naunga / þa * skal þar giørast vid hañ / sem hañ hefur giørt. * 2. Mos. 21/23/24. etc.

20. Brot fyrer brot / auga fyrer auga / tøñ fyrer tøñ / eins sem hañ hefur giørt lijte a eirnre mañeskiu / so skal þar giørast vid hañ.

21. Hvør sem slær eirn fienad / skal giallda þad aptur / eñ hvør þar slær eina mañeskiu (i hel /) skal deydast.

22. Þad skal vera * eirn riettur a medal ydar / so vel fyrer þañ framanda / sem fyrer eirn iñbyggiara skal þad vera / * * þvi eg er Drotteñ ydar Gud.
* 2. Mos. 12/49. ** 3. Mos. 11/44.

23. Og þetta sagde Mose til Israels barna / og þeir * færdu þañ / sem hafde bølvad burt ut fyrer herbuderñar / og grijttu hañ i hel / Og Israels børn giørdu eins sem Drotteñ bijfalade Mose. * 4. Mos. 15/36.

## XXV. Capitule.

### Fagnadar eda Jubil Ared.



Og Drotteñ hafde talad til Mose a Sinai fialle / og sagdt:

2. Tala til Israels barna / og seig til þeirra : nær þier komed iñ i þad land / sem eg vil giefa ydur / þa skal Jørdeñ hallda sabbat fyrer Drottne.

3. * Sex ær skalltu sa þijna mørk / og sex ær skalltu skiera þiñ vijngard / og safna ævexte þar af.
* 2. Mos. 23/10.

4. Eñ a þvi siøunda ære skal landed hallda þañ stoora sabbat / þad er eirn sabbat fyrer Drottne / þu skallt ecke sa þijna mørk / og ei skiera þiñ vijngard.

5. Eñ hvad þar uppvex af sialfu / skalltu ecke þijnum kornskurde af sier sialfu / skalltu ecke uppskiera /

uppſkiera / og ecke ſafna þeim vijn‑
þrwgum upp / ſem voxa fyrer utañ
þitt erfide / þad ſkal vera landſens
hvijldar‑ar.

6. Og þad ſkal vera Jardarenar
ſabbat fyrer ydur ad eta/fyrer þig og
þiñ ſvein / og fyrer þijna þernu / og
fyrer þiñ daglaunara / og fyrer þitt
heima foolk/ þa framande hia þier.

7. Og fyrer þiñ fienad / og fyrer
þaug ville dijr / ſem eru i þijnu lande/
allur avoxtur þar af ſkal vera til ad
eta.

8. Og þu ſkallt telia þier ſio hvijl
dar‑ar / ſio ar ſiotiñum / og þeir ſio
hvijldar ars dagar ſkulu vera þier niju
og fiorutiju ar.

9. Og þu ſkallt lata fagnadarens
baſunu ganga um̃ kriñg i þeim ſiound
da manade a þeim * tijunda (deige) i
manadenum a forlijkunaña deige/ þier
ſkulud lata ganga um̃ kriñg baſunu
i ollu ydar lande. * c. 23/ 27.

10. Og þier ſkulud hallda þad fim̃
tugaſta ars ar heilagt / og kalla frel‑
ſe i landenu fyrer ollum þeim/ſem bwa
þar i / þad ſkal vera ydur eitt fognud
ur/ og þier * ſkulud koma aptur hvor til
ſijns eigendooms/og koma aptur hvor til
ſiñar ættar. * c. 27/ 24.

11. Þad fim̃tugaſta ars ar ſkal ve‑
ra ydur eitt fagnadar (ar/) þier ſkulud
ecke ſa/ og ei uppſkiera/ þad ſem uppvex
af ſier ſialfu / og ecke upplesa þad /
ſem uppvex fyrer utañ erfide þar i.

12. Þvi þad er fagnadar (ar/) þad
ſkal vera ydur eitt heilagleike/ þier ſkul‑
ud eta hvad mørken ber.

13. J þeſſu fagnadarens are ſkulu
þier aptur koma / hvor til ſijns eigen‑
dooms.

14. Og nær þu ſelur þijnum naunga/
nockud edur kauper (nockud) af þijns
naunga hende/þa ſkulud þier * ecke ne‑
ſeilaſt ſa eine vid añañ. * 1. Teſſ. 4/ 6.

15. Eins ſem aren telſaſt epter fagn
adar (ared / ) ſkalltu kaupa af þijnum
naunga / epter arafia grooda tolu ſkal
hañ ſelia þier.

16. Epter þvi ſem aren eru mørg
til/ ſkalltu lata kauped þar a uppſtijga/
og epter þvi ſem aren eru fa til/ſkallt
þu lata kauped þar a miñka / þvi hañ
ſelur þier ſo marge (are) grooda.

17. So ſkulud þier ecke nockur meiſ‑
aſt ſiñ naunga/eñ þu ſkallt * ottaſt fyr
er þijnum Gude / þvi * * eg er Drottiñ
ydar Gud. * c. 19/14/32. * * c. 11/44.

18. Þar fyrer * ſkulud þier giora mijn
ar ſkickaner/ og hallda mijn riettinde/ og
giora þau / og * * þier ſkulud bwa o‑
hult i landenu. * c. 18/ 30. c. 19/ 37.
* * 1. Kong. 4/ 25.

19. Og landed ſkal giefa ſiñ avoxt/
ad þier ſkulud hafa noog ad eta/og bwa
ohult þar i.

20. Og ef þier villed ſeigia: hvad
ſkulum vier eta a þvi ſiounda are ſem /
vier ſkulum ecke ſa/ og ecke iñſafna vor‑
um grooda.

21. Og eg vil giefa * mine bleſſan
befalning yfer ydur a þvi ſietta are/ ad
þad ſkal bera grooda fyrer þau þriu ar.
* 5. Moſ. 28/ 8.

22. Ad þier kuñed ſa a þvi attunda
are/ og eta af þeim gamla grooda allt
til þeſs nijunda ars / þar til groodureñ
kiemur þar af / ſkulud þier eta þad
gamla.

23. Þar fyrer ſkulud þier ecke ſelia
landed olldunges af hende / þvi landed
heyrer mier til/þvi þier erud * framande
og gieſter fyrer mier. * 1. Kron. 29/15.
Ps. 39/ 13.

24. Og þier ſkulud i ollum ydar eig‑
endooms londum lata Jordena til lauſ‑
nar.

25. Nær þiñ brooder verdur ufarm‑
adur/ ad hañ ſelur af ſijnum eigendoom/
kome þa hañs nanaſte frænde til ha‑
ñs / ad leyſa þad / þa ma hañ * leyſa
hvad hañs brooder hefur ſelldt.
* Ruth. 4/ 2. etc.

26. Og nær nockur hefur ecke þañ /
er kuñe leyſa / eñ eignaſt ſialfur / og
fær hier um̃ ſo myked / hañ kuñe leyſa
þad fyrer.


Og Drottiñ talade til
Moſe/ og ſagde:
2. * Tala þu til Iſ
raels barna / og ſeig til
þeirra: nær þier komed
til þeſſ lands/ ſem þier
ſkulud bwa i/ hvørt eg vil giefa ydur/
* C. 35/ 10.
3. Og viljed giøra Drottne eitt elld
offur/ breñe-offur / eda ſlatrunar-off-
ur / ad giøra eitt ſierlegt * heit / eda
eitt frijviliugt ( offur/) eda a ydar til-
ſettum ( tijmum / ) ad giøra fyrer
Drottne eirn ſætañ ylm af nautum
eda af ſaudum. * 3. Moſ. 7/ 16.
4. Hvør ſem þa vill offra Drott-
ne ſijnu offre/ ſkal offra * til mat-off-
urs/ einum tijunda parte miøls / blønd
udum med einum fioorda (parte) af ein-
um hin oliu. * 3. Moſ. 6/ 14. etc.
5. Og eirn fioorda ( part ) af ein-
um hin vijns/ til eins dryckiar-offurs /
ſkallt þu tilreida/ med breñe-offre/ eda
til ſlatrunar-offurs til þeſſ eina
lambs.
6. Eda til hrwtſens / ſkalltu til-
reida mat-offur af tveimur tijundu
(pørtum) miøls/ bløndudum med oleo/
eirn þridia (part) af einum hin.
7. Og vijn til dryckiar-offurs/ eirn
þridia (part) af einum hin/ þvi ſkall
tu offra til eins ſæts ylms fyrer
Drottne.
8. Og nær þu villt tilreida eiñ
uxa til eins breñe-offurs / edur ſlat-
urs offurs/ til eins ſierdeileslegs heits/
eda þackar-offurs fyrer Drottne.
9. Þa ſkal mañ offra med einum
uxa mat-offre / þria tijundu (parta)
miøls / blandada med oleo / einum
halfum hin.
10. Og þu ſkallt offra vijne til dryck
iar offurs/ einum halfum hin / þad er
eitt elld-offur til eins ſæts ylms
fyrer Drottne.
11. So ſkal þad ſkie um̃ þañ uxañ/
eda um þañ hrwteñ/ eda um̃ eitt lamb
af ſaudunum / eda af geitunum.
12. Epter þeirre tølu / ſem þier
ſkulud tilreida / ſo ſkulud þier tilreida
(þad) fyrer hvørn epter þeirra tølu.
13. Hvør iñbyggiare ſkal ſvo giøra/
nær hañ offrar * einu elld-offre til
eins ſæts ylms fyrer Drottne.
* 3. Moſ. 1/ 17.
14. Og ef nockur framande um̃-
geingſt hia ydur/ edur ſa/ ſem er a med
al ydar / hia ydar epterkomurum / og
vill giøra eitt elld-offur til eins ſæts
ylms fyrer Drottne / lijka ſem þier
ſkulud giøra / ſo ſkal hañ giøra.
15. Þu * ſøfnudur/ þar ſkal vera
ein ſkickun fyrer ydur og fyrer þañ
framanda/ ſem um̃geingſt hia ydur/ ein
eilijf ſkickan hia ydar epterkomurum /
eins ſem þier / ſo ſkal ſa framande ve-
ra fyrer Drottiñs augſyn.
* 2. Moſ. 12/ 49.
16. Ein løg og eirn riettur ſkal ve-
ra fyrer ydur og fyrer þañ framande/
ſem um̃geingſt hia ydur.
17. Og Drottiñ talade til Moſe /
og ſagde:
18. Tala þu til Iſraels barna / og
ſeig til þeirra: nær þier komed i þad
land/ ſem eg vil føra ydur wt i /
19. Þa ſkal þad ſkie / nær þier eted
af braudenu i landenu/ ſkulud þier upp-
lipta eirnre upplipting fyrer Drottne/
20. Sem er eirnre køku af þvi fyr
ſta af ydar deige/ ſkulud þier upplipta
til upplipt ingar / lijka ſem upplipting
uñe af hloduñe.
21. So ſkulu þier upplipta heñe/ af
þvi fyrſta af ydar deyge ſkulud þier
giefa Drottne eina upplipting hia yd-
ar epterkomurum.
22. Og nær * þier fared villt / og
ecke giøred øll þeſſe bod / ſem Drott-
eñ hefur talad til Moſe.
* 3. Moſ. 4/ 2/ 13.
23. (Ja) allt þad / ſem Drottiñ
hefur boded ydur fyrer Moſe/ fra þeim
deige/ ſem Drottiñ gaf bijfalning/ og
ſijdañ fyrer ydar epterkomara.
24. Þa ſkal þad ſkie / ef nockurt
verdur

verdur giørt * af søfnudenum ovit-
anlegt af yfersioon / þa skal sa giør-
valle søfnudur taka eirn ungann uxa
til brenne-offurs til eins saks ylms
fyrer Drottne med sÿnu mat-offre og
sÿnu dryckiar-offre / sem þad byriar /
og eirn geit-hafur til synda-offurs.
* 3. Mos. 4/13.
25. So skal presturenn giøra forlÿk-
un fyrer allann Israels barna søfnud/
so verdur þad þeim fyrergiefed/ þvi þad
er ein yfersioon/og þeir skulu bera þeir-
ra offur framm til eins elld-offurs fyrer
Drottenn / og þeirra synda-offur fyrer
Drottenn fyrer þeirra yfersioon.
26. So verdur þad øllum safnad-
enum af Israels børnum fyrergiefed/
og þeim framande/sem umgeingst med-
al ydar/ af þvi (þad er skied) þad allt
foolk af yfersioon.
27. Enn nær ein persoona syndgast
af yfersioon / þa skal hun frambera
eina ærs-gamla geit til eins synda-
offurs.
28. Og presturenn skal giøra for-
lÿkun fyrer þa persoonu sem mis-
sier sig i þvi hun syndgade af yfersioon
fyrer Drottne/ ad giøra forlÿkun fyr-
er hana / so verdur þad henne fyrer-
giefed.
29. Fyrer þann / sem byr a medal
Israels barna/ og fyrer þann framan-
da / sem umgeingst medal ydar / skal
vera eitt løgmaal/ fyrer þann/ sem giør
er (nockud) af yfersioon.
30. Enn su persoona / sem giører
nockud af þrioodsku/(hvort hun er)af
innbyggiurum / eda af framande/ hun
hefur foraktad Drottenn / og su sama
persoona skal upprætast fra sÿnu
foolke.
31. Þvi hann forakta de Drottens
ord / og yfergaf hanns bod / su sama
persoona skal ølldunges upprætast/ ha-
nns misgiørningur skal vera a hønum.
32. Og Israels børn voru i eyde-
mørkenne/og þau fundu eirn mann/ sem
safnade triam samann* a einum sabb-
ats deige. * 2. Mos. 16/ 27. c. 20/ 8.
33. Og þeir sem fundu hann safna
trianum/ leiddu hann til Mose og til Aa
ron/ og til alls safnadarens.
34. Og þeir * settu hann i fangelse/
þvi þad var ecke klaarlega utþryckt/ hv-
ad þar skyllde giørast vid hann.
* 3. Mos. 24/12.
35. Enn Drottenn sagde til Mose: sa
same madur skal vissulega deydast / sa
allur almuge skal grÿta hann i hel utann
fyrer herbudunum.
36. Þa færde allur safnadurenn hann
burt utann fyrer herbudernar / og þeir
grÿttu hann med steinum / og hann deyde/
so sem Drottenn hafde byfalad Mose.
37. Og Drottenn talade til Mose / og
sagde:
38. Tala þu til Israels barna / og
seig til þeirra/ ad þeir skule * giøra sier
bremingar a løfum af þeirra klædum /
hia þeirra eptterkomurum / og setia blaa-
ar snwrur yfer sømu bremingar a løf-
inu. * 5. Mos. 6/ 8. c. 22/ 12.
Matth 23/ 5.
39. Og sømu bremingar skulu þie-
na ydur ( þar til ) ad þier skulud lÿta a
þær / og minnast a øll Drottens bod / og
giøra þau / og ecke skicka ydur epter yd-
ar (eigenn) hiarta / og epter ydar augum/
epter hvørium þier drygeð hoor.
40. Ad þier skuled minnast og giøra
øll mÿn bod / og vera heilager fyrer yd-
ar Gude.
41. Eg * er Drottenn ydar Gud/ sem
hefe utfært ydur af Egyptalande/ **
ad vera ydur eirn Gud/ eg er Drottenn yd-
ar Gud. * 2. Mos. 20/ 2.
** 1. Mos. 17/ 7.

XVI. Capitule.

Korah og hanns Selskapar Magllan a
moote Mose.


g * Corah Jezears
son/ Kaaths Levi sonar
son / took bade Datan
og Abiram/ Eliabs sy-
ne/ og On Pelets son /
Rubens børn. * c. 26/ 9.
Syr. 45/ 34. Jud. v. 11.

 2. Og

2. Og þeir * settu sig upp i moot Mose/ og (nockrer) men af Israels bør-num/ tvø hundrud og fimmtiju/ þeir ypp-ursstu i safnadenum / ** raad-herrar / nafnkunnuger men.  * c. 12 / 1.
** 2. Mos. 18/ 21/ 22.

3. Og søfnudust * i moot Mose og moot Aaron/ z søgdu til þeirra: þier gioered þar ofmykid af/ þvi sa gioervalle søfnud-er allur samann heilagur/ og Drottenn er i bland þeirra / Og þvi upphæcked þier ydur yfer Drottens søfnud. * c. 20/ 2.

4. Þegar Mose þad heyrde/ þa * fiell hann a sitt andlit.  * c. 14/ 5.

5. Og sagde til Korah og alls han-ns selskapar/ seigiande: a morgun / þa skal Drottenn giefa til vitundar / hvør hans er/ og sa/ sem heilagur er/ og læta (hann) koma til sijn/ og * hvørn hann wt velur/ maa koma nær til.  * c. 17/ 5.

6. Gioered þetta / taked ydar reykel-ses kier/ Korah og allur hans selskapur/

7. Og legged elld þar i/ z legged reyk-else þar a fyrer Drottens auglite a mor-gun / Og þad skal skie / hvør madur er Drottenn mun wtvelia/ sa er heilagur/ * Þier gioered þar ofmykid af/ Levi børn.
* v. 3.

8. Og Mose sagde til Korah : kiære/ heyred þo Levi børn.

9. Er þad ydur oflijted / ad Israels Gud * hefur adskiled ydur fra Israels safnade/ ad hann vill læta ydur koma til sijn/ til ad þioona Drottens tialldbwdar þioonustu/ og til ad standa fyrer søfnud-enum / ad þioona fyrer þeim?
* C. 3/ 6. etc.

10. Og hann hefur læted þig koma fram / og alla þijna brædur / Levi børn med þier/ og þier leited og so Presta doom sens.

11. Þar fyrer ertu og allur þinn sel-skapur/ þeir sem eru komner samann i mo-ot Drottne / Og Aaron / hvad er hann / ad þier viled mogla i moote hønum?

12. Og Mose sende/ ad kalla a Da-tan og a Abiram/ Eliabs syne/ og þeir søgdu: vier komum ecke upp.

13. Er þad litid / ad þu hefur fært oss af einu lande/ sem flijtur med miolk og hunange / ad læta oss deya i eyde-morku/ þvi þu villt og so endelega hafa herradoomenn yfer oss?

14. Ja þu hefur ecke fært oss inn * i eitt land/ sem flijtur med miolk og hun ange / eda giefed oss akra og vijngarda til eigendooms? villtu og rijfa augun wt a þessum mønnum? vier komum ecke upp.
* 2. Mos. 3/ 8/ 17. C. 13/ 5. C. 33/ 3.

15. Þa * vard Mose afar reidur / og sagde til Drottens : snu þier ecke til þeirra mat-offurs / eg * * hefe ecke teked eirn asna fra þeim/ og eg he-fe aungvum gioert illt a medal þeirra.
* 2. Mos. 32/ 19. ** 1. Sam. 12/ 3.

16. Og Mose sagde til Korah : þu og þinn allur selskapur vered fyrer Drott-ens augsyn / (ja) þu / og þeir / og Aa-ron a morgun.

17. Og taked þa hvør sitt reykelses kier / og legged reykelse i þau / og hvør fære sitt reykelses kier fram fyrer Drott-enn / tvø hundrud og fimmtiju reykelses kier/ og þu og Aaron / hvør sitt reykel-ses kier.

18. Og þeir tooku hvør sitt reykelses kier og løgdu elld i þau / og løgdu reyk-else a þau / og þeir stoodu fyrer sam-kundu tialldbwdar dyrunum/ og Mose og Aaron.

19. Og Korah safnade þeim gioer-valla almwga i moote þeim / fyrer sam-kundunnar tialldbwdar dyr. Enn * Drott-ens dijrd vard sien fyrer þeim gioervoll-um safnade.  * c. 12/ 5. c. 14/ 10.

20. Og Drottenn talade til Mose og til Aaron/ og sagde:

21. * Skilied ydur fra þessum safn-ade / ad eg kunne hastarlega eydeleggia hann.  * v. 45.

22. Enn þeir fiellu nidur a þeirra a-sioner/ og søgdu: (æ/) Gud/ sem ert alls hollds andanna Gud/ * þar ed einn madur vilde syndga/ skylldir þu (þa) æda uppa allann almwgann?  * 2. Sam. 24/ 17.

23. Og Drottenn talade til Mose / og sagde:

24. Tala

24. Tala þu til safnadarens / og seig: fared upp fra Korah/ Dathans og Abirams hybyle/ (allt) um kring.

25. Og Mose stood upp/ og gieck til Datan og Abiram/ og þeir elldstu af Is rael fylgdu epter honum.

26. Og hann talade til safnadarens/ og sagde: vijked nu fra þessora ogudlegu manna tialldum / og snerted eckert af þvi/ sem þeim heyrer til / ad þier skuled ecke fyrerfarast i ollum þeirra syndum.

27. Og þeir geingu upp fra Korah/ Datans og Abirams hybyle / allt um kring/ enn Datan og Abiram geingu wt/ og stoodu i þeirra tiallbwda dyrum / og þeirra hustrur/ og þeirra syner / og þeirra born.

28. Og Mose sagde: þar a skulu þier þeckia / * ad Drottenn hefur sende mig / ad eg skule giora alla þessa giorninga/ ad þeir eru ecke af mijnu hiarta.
* Joh. 5/36.

29. Ef þesser deyia/ * sem allar mann eskiur deyia/ eda verda heimsookter/ sem allar manneskiur heimsækiast / þa hefur Drottenn ecke sendt mig. * c. 27/ 3.

30. Enn ef Drottenn giorer nockud nytt / ad Jordenn upplætur sinn munn/og svelger þa/ z allt þ þeir hafa/so ad þeir fara lifande nidur i helvijte / þa skulu þier þeckia/ ad þesser menn hafa uppegnt Drottenn.

31. Og þad skiede/ þegar hann hafde wttalad oll þesse ord/þa * rifnade Jordenn / sem var under þeim. * c. 26/ 10. C. 27/3. 5. Mos. 11/ 6. Ps. 106/ 17.

32. Og Jordenn uppliet sinn munn / og uppsvelgde þa /og þeirra huus/ og hvoria manneskiu / sem var hia Korah / og allt gotsed.

33. Og þeir/ og allt þad þeir hofdu/ * fooru lifande nidur i helvijte/og Jordenn lukte yfer þeim / og þeir fyrerfoorust midt af sofnudenum. * Ps. 63/10.

34. Og allur Israel/sem var allt um kring þa flyde fyrer þeirra raust / Þvi þeir sogdu : ad Jordenn ecke svelge oss.

35. Og þar foor * eirn elldur wt fra Drottne/ og foortærde þeim tveim hund rudum og fimmtygu monnum / sem offrudu reykelsenu. * 3. Mos. 10/ 1/ 2.

36. Og Drottenn talade til Mose/ og sagde:

37. Seig til Eleasar Aarons sonar prestsens / ad hann take reykelses kierenn upp af brunanum / og tvistra (þu) elldenum burt wt / þvi þau eru heilog.

38. Þesse eru þeirra reykelses kier / sem syndgudu i gegn þeirra salum/ og mann skal sla þau i breidar plotur / ad þeckia altared med/ þvi þeir offrudu þeim fyrer Drottne/ og þau eru heilog/og þau skulu vera Israels bornum til eins teikns.

39. So took Eleasar prestur þau rep kelses kier af kopar/ sem þeir brunnu hoss du offrad med/ og beittu þau wt til eins þaks yfer altared/

40. Israels bornum til eirnrar minningar / a þad / ad eingenn * framande madur/sem er ecke af Aarons afkvæme/ skylde hafa sig til ad offra reykelse fyrer Drottne/ ad hann skule ecke verda sem Korah / og sem hans selskapur / epter þvi sem Drottenn hafde sagt honum fyrer Mosen. * c. 1/ 51. c. 3/ 10.

41. Enn a odrum deigenum moglade allur sofnudurenn af Israels bornum * moot Mose og moot Aaron / og sogdu: þier hafed slaged Drottens foolk i hel.
* C. 14/ 2. C. 20/ 2.

42. Og þad skiede / þegar almugenn safnadest i moot Mose / og i moot Aaron/sneru þeir sier til samkundunnar tialld bwdar/ og sia/ þa hulde skyed hana/og * Drottens dyrd vard sien. * c. 12/ 5. 2. Mos. 16/ 10.

43. Og Mose og Aaron komu til samkundunnar tialldbwdar.

44. Og Drottenn talade til Mose/og sagde:

45. * Flyed (snart) burt fra þessum safnade/eg vil hastarlega eydeleggia þa/ og þeir ** fiellu nidur a þeirra asioonu. * v. 21. ** v. 4/ 22.

46. Og Mose sagde til Aarons: tak reykelses kiered/ og legg elld þar i af altarenu/

tarenu / og legg reykelse þar a / og gack
snarlega burt til safnadarens/og * gior
eina forlykun fyrer þa / þvi ein (hastar
leg) reide er wtgeingen fra Drottne /
(sia/) plagan er byriud. *3.Mos.1/4.
47. Og Aaron * took/ so sem Mose
hafde byfalad honum / og hliop mids a
medal safnadarens/ og sia/ plagan var
byriud medal foolksens/ so gaf hann reyk
else/ og giorde eina forlykun fyrer foolk
ed. * Spek. 18/ 21. Ps. 106/ 23.
48. Og stood i millum þeirra daudu
og þeirra lifendu/og plagan vard stillt.
49. Enn þeir/ sem doou i plagunne/
voru fiortan þusunder og sio hundrud /
fyrer utann þa/sem doou fyrer Korah at
hafnar saker.
50. Og Aaron kom til Mose aptur
fyrer samkundunnar tialldbwdar dyr / og
plagan var stillt.

XVII. Capitule.

Aarons Stafur bloomgast og ber
vaxenn Mandel.



g Drottenn talade til Mo-
se/ og sagde:
2. Tala þu til Israe-
els barna/og tak af þeim
vissulega eirn staf fyrer
(þeirra) fedra hws / af
ollum þeirra hofdingium/ fyrer þeirra
fedra hwse/ toolf stafe / þu skallt skrifa
hvors mans nafn a hans staf.
3. Enn þu skallt skrifa Aarons nafn
a Levi staf/þvi (þar skal vera) eirn staf
ur fyrer hvorn hofdingia yfer ydar fed-
ra hwse.
4. Og þu skallt leggia þa i samkund
unnar tialldbwd fyrer vitnesburdenum/ þar
sem eg vil tala vid ydur.
5. Og þad skal skie / * hvorn mann
eg wtvel/ hans stafur skal bloomgast/ad
eg (kunne) stilla Israels barna knurran-
er fra mier / sem þeir mogla i moote yd-
ur. * c. 16/5 / 7.
6. Og Mose talade til Israels bar-
na / og aller þeirra hofdingiar feingu
honum vissulega fyrer hvorn hofdingia eirn
staf / epter þeirra fedra hwse / þad er
toolf stafe / og Aarons stafur var med
al þeirra stafa.
7. Og Mose lagde stafena fyrer
Drottne i vitnesburdarens tialldbwd.
8. Og þad skiede a odrum deigenum/
ad Mose kom til vitnesburdarens tialld-
bwdar / og sia Aarons stafur fyrer Levi
hws/ * var bloomgadur/hafde spreingt
sig wt/ og hafde bloomstur/ og bar (vax-
enn) mandel. * Ebr. 9/4.
9. Og Mose bar alla stafena wt fra
Drottens augsyn til allra Israels barna/
og þeir sau og tooku hvor sinn staf.
10. Og Drottenn sagde til Mose: ber
Aarons staf (inn) aptur fyrer vitnes-
burdenn/ ad hann skule vera geimdur til ei-
ns teikns * i gegn þeim þverwdarsomu
bornum / og þu skallt giora eirn enda a
þeirra mogle fyrer mier / ad þeir skule
ecke deyia. * c. 20/ 10.
11. Og Mose * giorde so sem Drott-
enn byfalade honum/ so giorde hann.
* 2. Mos. 40/ 16.
12. Og Israels born sogdu til Mo-
se/ segiande: sia/ vier fortynunst/ vier
fyrerfarunst / (sia) vier fyrerfarunst
aller.
13. Hvor sem geingur vissulega nær
til Drottens tialldbwdar/ hann mun deya/
Skulum vier þa med ollu eydeleggiast?

XVIII. Capitule.

Prestanna og Levitanna Embætte og
Upphellde.



g * Drottenn sagde til
Aaron: þu og þyner syn
er / og þyns fodurs hws
med þier/ skulud bera hel
gedomsens misgiorning/
Og þu og þyner syner
med þier/ skulud bera ydar prests embætt
es misgiorning. * v. 8. 20.
2. Og fær framm med þier og so þy-
na brædur/ * Levi kynkvysl / þyns fod-
urs ættkvysl/ ad þeir skule halldast til
þyn og þioona þier/ enn þu og þyner syn
er med þier / skulud þioona fyrer vitnes-
burdarens tialldbwd. * c. 3/ 6. etc.

3. Og þeir skulu taka kostgiæfelega vara a þier/ og a þeirre giørvallre tialldbwd/ þo skulu þeir ecke koma til Helgedoomsens bwnadar/ eda til altaresens/ ad bæde þeir og þier skuled ecke deyia.

4. Enn þeir skulu halldast til þijn/ og kostgiæfelega taka vara a i samkundunnar tialldbwd/ i allre tialldbwdarennar þioonustu/ og eingenn framande skal hallda sier til ydar.

5. So taked vara a Helgedoomsens varatekt/ og altaresens varatekt/ ad ecke skule framar meir koma * ein (hastarleg) reide yfer Israels børn.

* C. 16/ 46.

6. Og eg/ sia/ eg hefe teked ydar brædur/ Levitana/ midt af Israels børnum/ sem eru * giefner til ydar/ til eirnrar gaafu fyrer Drottenn/ til ad þioona kostgiæfelega i samkundunnar tialldbwd. * C. 3/ 12/ 45.

7. Enn þu og þijner syner med þier skulud taka vara a ydar presta embætte/ i øllu þvi sem heyrer til altarenu og innann fyrer fortialldenu/ og þier skulud þioona (þar/) eg vil giefa (ydur) ydar prestadæme til embættes fyrer eina gaafu/ og hallde * nockur framande sig (þar) til/ þa skal hann deydast. * C. 1/ 51. c. 3/ 10/ 38.

8. Og Drottenn talade til Aaron: og eg/ sia eg hefe giefed þier mijna * uppliftingar (offurs) varatekt/ af øllu þvi/ sem Israels børn helga/ þad hefe eg giefed þier til smurningarennar/ og þijnum børnum til eirnrar eilijfrar skickunar. * 3. Mos. 6/ 14/ 15/ 25.

9. Þad skalltu hafa af þvi helgasta af elldenum/ allar þeirra gaafur/ med * øllum þeirra mat-offrum/ og med øllum þeirra synda-offrum/ og med øllum þeirra skulld-offrum/ sem þeir skulu giefa mier/ þad (skal vera) þier og þijnum sonum þad helgasta.

* 3. Mos. 6/ 16/ 26.

10. Þu skallt eta þad * i þeim heilaga (stad/) allt kallkyn skal eta þar af/ þad skal vera þier eirn heilagleike.

* 3. Mos. 6/ 16.

11. Og þad heyrer þier til/ þad er þeirra giafa upplyfting/ med øllum Israels barna hræringar- (offrum/) þier hefe eg giefed þau/ og * þijnum sonum/ og þijnum dætrum med þier/ til eirnrar eilijfrar skickunar/ Hvør sem er hreinn ** i þijnu hwse/ skal eta þad. * 3. Mos. 10/ 14.

** 3. Mos. 22/ 11.

12. Allt þad besta af (nyiu) oleo/ og allt þad besta af (nyiu) vijne og korne/ (iaa) þeirra fyrstu (grooda/) sem þeir skulu giefa Drottne/ þa hefe eg giefed þier.

13. Þa fyrstu ávexte af øllu þvi/ sem er i þeirra lande/ er þeir skulu bera fram fyrer Drottenn/ skulu heyra þier til/ Hvør sem er hreinn i þijnu hwse/ skal eta þad.

14. Allt þad/ * sem (endelega) er helgad i Israel/ skal heyra þier til.

* 3. Mos. 27/ 28.

15. Allt þad/ sem * fyrst opnar (moodur) lijf af øllu hollde/ sem þeir skulu offra fyrer Drottenn/ af manneskiunne eda af fienu/ þad skal vera þitt/ þo so ad þu vissulega leyser mannesk iunnar frumborna/ og leyser þad fraumborna af ohreinum dijrum.

* 2. Mos. 13/ 12/ 13. C. 34/ 19.

16. Og þad sem skal leysast þar af/ þu skallt leysa (þeim) þad/ nær þad er eins maanadar gamallt/ epter þinne virding fyrer peninga/ fyrer fimm sekla/ epter Helgedoomsens sekle/ hvør ad * er tuttugu gera. * 2. Mos. 13/ 12/ 13. C. 20/ 13. etc.

17. Enn þa frumbornu af nautum/ eda þa frumbornu af saudum/ eda þa frumbornu af geitum/ skalltu ecke leysa/ þeir eru heilager/ Þeirra bloode skalltu støckva yfer altared/ og upptendra þeirra mør * til eins elld-offurs/ til eirnrar sætrar ylmingar fyrer Drottne. * 3. Mos. 1/ 9. c. 2/ 9.

18. Og þeirra kiøt skal heyra þier til/ lijka sem hræringar brijngann/ og

sem sa hægre boogur skal þad heyra
þier til.

19. Allar heilagleikaña upplipt-
ingar/ sem Israels børn skulu upplip-
ta fyrer Drotteñ/ hefe eg giefed þier
og þynum sonum og þynum dætrum
med þier / til eirnrar eilyfrar skickan-
ar / þad skal vera þier og þynu sæde
med þier eirn sallt-sattmaale fyrer
Drotteñs auglite æfeñlega.

20. Og * Drotteñ sagde til Aa-
ron: þu skallt ecke erfa i þeirra lande /
og ecke hafa hlutdeilld a medal þeirra/
** Eg er þyn hlutdeilld /og þiñ arf-
ur a medal Israels barna.

* 4. Mos. 18/ 1/ 8. ** 5. Mos. 10/ 9.
C. 12/ 12. C. 14/ 27. Jos. 13/ 14/ 33.
C. 18/ 7. Ezech. 44/ 28.

21. Eñ ( vidvykiande ) Levi børn-
um/ siaa/ þa hefe eg giefed þeim * alla
tyund i Israel til eins arfs fyrer þtra
þioonustu/ sem þeir þioona kostgiæfe-
lega i samkunduñar tialldbwd.

*3. Mos. 27/ 30.

22. Og Israels børn skulu ecke me-
ir koma nær til samkunduñar tialld-
bwdar / ad bera synd til ad deyia.

23. Eñ Leviteñ hañ skal þioona i
samkunduñar tialldbwdar þioonustu /
og þeir skulu bera þeirra misgiørning
til eirnrar eilyfrar skickanar hia ydar
epterkomurum / og þeir skulu eckert
arfa- ( goots ) erfa a medal Israels
barna.

24. Þvi Israels barna tyunder /
sem þeir skulu upplipta fyrer Drotteñ
til eirnrar uppliptingar / hefe eg giefe-
ed Levitunum til arfs/ þar fyrer hefe
eg sagt til þeirra / ad þeir skule eckert
arfa- ( goots ) erfa a medal Israels
barna.

25. Og Drotteñ talade til Mose /
og sagde:

26. Og þu skallt tala til Levit-
añа/ og seigia til þeirra: nær * þier
taked þa tyund af Israels børnum/
sem eg hefe giefed ydur af þeim til
ydar arfs / þa skulud þier upplipta
Drotteñs upplipting þar af/ þeim ty-
unda (parte) af tyundunum.

* Nehem. 10/ 38.

27. Og þad ydar uppliptingar (off-
ur) skal reiknast ydur lyka sem korned
af hløduñe/lyka sem fyllingeñ af (vyn)
pressuñe.

28. So skulud þier og so upplipta
Drotteñs upplipting af øllum ydar
tyundum / sem þier skulud taka af Is-
raels børnum / ad þier giefed Aaron
preste Drotteñs upplipt ( offur) þar
af.

29. Þier skulud upplipta allre
Drotteñs upplipting af øllum ydar
gaafum / ( jaa ) af øllu þvi besta þar
af/af þvi(sem verdur)heilagt þar af.

30. Og þu skallt seigia til þeirra:
nær þier uppliptid þvi besta þar af /
þa skal þad reiknast Levitunum til /
lyka sem ein iñtekt af hløduñe/og lyka
sem ein iñtekt af (vyn-) pressuñe.

31. Og þier meiged eta þad a øllum
stødum/ þier og ydar hws/ þvi þad er
* ydar laun fyrer ydar þioonustu i
samkunduñar tialldbwd.

* Matth. 10/ 10. 1. Cor. 9/ 11.

32. So hladed þier ydur ecke med
syndum/ þar med/ nær þier uppliptid
þvi besta þar af / og þier skulud ecke
vanhelga þad / sem Israels børn hel-
ga / ad (þier skuled) ecke deyia.

## XIX. Capitule.

Afreiþingar Vatned af þeirre raudu
Kyrgu.



Og Drotteñ talade til
Mose og til Aaron/ og
sagde:

2. Þesse skal vera
løgmaalsens skickan/ sem
Drotteñ hefur boded og
sagt: seig til Israels barna / ad þau
leide * eina rauda kyrgu til þyn / ut-
añ lyte/ sem hefur eingeñ lyte / og sem
ecke er komed ok a. * Ebr. 9/ 13.

3. Og þier skulud faa Eleasar prest
enum hana / og hañ skal færa hana
burt ut fyrer herbwdernar / og laata
heñe

heñe slatra fyrer sier.
4. Og Eleasar prestur skal taka
af heñar bloode a siñ fingur/ og stock-
va burt giegnt samkunduñar tialldbwd
ar fremra hluta/ af heñar bloode *
siøsiñum. * 3. Mos. 4/ 6/ 17.
C. 8/ 11.
5. Og lata kyrguna uppbreña i
siñe nærveru/ heñar hwd/ og heñar ki-
øt/ og heñar blood skal hañ breña a
heñar myke.
6. Og presturen skal taka cedrus-
trie og ysop / og * roosrauda (ull/)
og kasta þui midt a þa brendu kyrgu.
* Ps. 51/ 9. etc.
7. Og presturen skal þvo sijn klæ-
de/ og bada siñ lijkama i vatne/ og gan
ga so iñ i herbwdernar / og presturen
* skal vera ohreiñ iñ til kvollds.
* 3. Mos. 11/ 24. etc. C. 14/ 46.
8. Og sa/ sem hana uppbrende /
skal þvo sijn klæde i vatne/ og bada siñ
lijkama i vatne og vera ohreirn iñ til
kvollds.
9. Og eiñ madur/ sem er hreiñ/ skal
safna øskuñe af kyrguñe og lata ha-
na wt fyrer herbwdernar / a eiñ hreiñ-
añ stad/ ad hun verde geimd / fyrer søf-
nudeñ af Israels børnum / * til fra-
skilnadar vatns / þad er eitt synda-
(vatn.) * 1. Pet. 1/ 2.
10. Og sa / sem hefur safnad øsk-
uñe af kyrguñe / skal þvo sijn klæde /
og vera ohreirn iñ til kvollds / Og
þetta * skal vera fyrer Israels born/
og fyrer þañ framanda/ sem umgeingst
a medal ydar/ til eirnrar eilijfrar stick-
anar. * 2. Mos. 27/ 21. C. 30/ 21.
11. Hvør sem snerter eirn daudañ/
hvada hellst mañeskiuñar lijk/ hañ skal
og vera ohreirn i siø daga.
12. Hañ skal hier med leysa sig af
syndeñe a þeim þridia deige/ so verd-
ur hañ hreirn a þeim siøunda deige /
Og leyse hañ sig ecke af syndeñe a þe-
im þridia deige/ og a þeim siøunda dei-
ge / þa verdur hañ ecke hreirn.
13. Þar sem nockur kiemur vid eiñ
daudañ/ vid þad Mañeskiuñar lijk/ og
vill ecke leysa sig af syndeñe/ hañ saur
gar Drottens tialldbwd / og su sama
persoona skal burtrækast af Israel /
af þui ad fraskilnadarens vatne er
ecke støckt a hañ/ hañ er ohreirn/ hañs
ohreinleike er eñ nu a honum.
14. Þetta eru løgeñ / nær eiñ mañ-
eskia deyr i tialldbwd/ hvør sa/ sem geiñ
gur iñ i tialldbwdena/ og allt þad/ sem
er i tialldbwdeñe / skal vera ohreint i
siø daga.
15. Og hvørt oped kier/ sem ecke er
eiñ parfur klædes yfer/ þad er ohreint.
16. Og hvør / sem snerter nockurn
a mørkeñe/ sem er slegeñ med sverde/
eda eiñ daudañ / eda eiñar mañeskiu
bein/ eda eina grøf / skal vera ohreiñ i
siø daga.
17. So skulu þeir taka fyrer þañ
ohreina af þeirre brendu synda-offurs
øsku / og lata reñande vatn þar a i
eitt kier.
18. Og eirn hreiñ madur/ skal taka
ysop/ og dyfa i vatned / og støckva yf
er tialldbwdena/ og yfer øll kierañ / og
yfer persoonurnar / sem voru þar / og
yfer þañ/ sem hefur hrært vid einu bei
ne/ ellegar vid einum i helslegnum/ ell-
egar vid einum daudum/ ellegar vid ei-
ne grøf.
19. Þa skal sa hreine støckva a
þañ ohreina a þeim þridia deige og a
þeim siøunda deige / og leysa hañ af
syndeñe a þeim siøunda deige / og hañ
skal þvo sijn klæde / og bada sig i vat-
ne/ so verdur hañ hreiñ um kvølldit.
20. Og hvør sem verdur ohreiñ/ og
vill ecke lata sig afleysa / þa skal su
sama persoona burt rækast fra søfn-
udenum/ þui hañ hefur saurgad Drott-
eñs helgedoom / fraskilnadarens vatne
er ecke støkt a hañ / hañ er ohreirn.
21. Og þad skal vera þeim til eirn-
rar eilijfrar stickanar / Og hañ sem
støckver fraskilnadarens vatne / skal
af þvo sijn klæde / og hañ sem hrærer
vid fraskilnadarens vatn/ hañ skal ve-

ra ohreiñ iñ til kvollds.

22. Og allt þad sa ohreine hrærer vid/ skal vera ohreint/ og hver persoona/ sem snerter (hañ/) skal vera ohreín iñ til kvollds.

XX. Capitule.

Gud giefur Israels Bornum Vatn af Hellu-Biargenu. Aaron deyr.



Og Israels born/ jaa/ sa allur søfnudur komu i þa eydemørk Zin/ i þeim fyrsta maanade / og foolked laa i Kades / og Maria doo þar/ og var þar grafeñ.

2. Og søfnudureñ hafde * ecke vatn / þa søfnudust þeir ** i moot Mose og moot Aaron.

* 2. Mos. 17/ 1. ** 4. Mos. 14/ 2. C. 16/ 3.

3. Og foolked * kyfade vid Mose og sagde/ seigiande: og Gud giæfe vier hefdum farest/ þar vorer brædur foorust fyrer Drottens augsyn.

* 2. Mos. 17/ 2.

4. Og hvar til færdud þier Drottens søfnud i þessa eydemørk / ad vier skylldum hier deya / vier og vor fienadur?

5. Og * hvar til færdud þier oss upp af Ægyptalande / ad føra oss til þessa vonda stadar/ sem ecke er eiñ stadur til saads/ og fykna/ og vijn-triana/ og granata eplaña/ og hier er ecke vatn ad drecka? * 2. Mos. 17/ 3.

6. Og Mose og Aaron gieck fra safnadenum til samkunduñar tiallbudar dyra / og fiellu nidur a þeirra andlit/ og Guds dyrd openberadest fyrer þeim.

7. Og Drotteñ talade til Mose/ og sagde:

8. Tak stafeñ/ og safna almugan um/ þu og Aaron þiñ brooder/ og þid skulud tala til klettsens fyrer þeirra augum / so skal hañ * giefa vatn af sier/ so skalltu wtleida þeim vatn af klettynum / og giefa safnadenum ad drecka/ og þeirra fienade. * c. 21/ 16.

Ps. 105/ 41. Spek. 11/ 4. 1. Cor. 10/ 4.

9. Þa took Mose stafeñ fra Drottens augsyn / so sem hañ hafde byfalad honum.

10. Og Mose og Aaron søfnudu almuganum til klettsens / og sogdu til þeirra: heyred nu * þier mootþroo anleger/ munum vid kuña fa ydur vatn af þessum klett? * c. 17/ 10.

11. Og Mose upplypte siñe hende / og sloo * kletteñ med synum staf tvisvar siñum/ þa floode þar myked vatn/ so ad almugeñ drack / og þeirra kvikfie. * 2. Mos. 17/ 6. etc.

12. Og Drotteñ sagde til Mose og til Aaron: af þvi * þid trwdud ecke a mig/ ad helga mig fyrer Israels bærna augum / þar fyrer skulud þid ecke iñ føra þeñañ søfnud i þad land/ sem eg hefe giefed þeim. * c. 27/ 14.

5. Mos. 1/ 37. C. 3/ 26. C. 4/ 21. C. 31/ 2. C. 34/ 4.

13. Þad er * kyfs-vatned/ þar sem Israels børn kyfudu vid Drotteñ / og hañ vard helgadur a medal þeirra.

* 2. Mos. 17/ 2/ 7. 5. Mos. 32/ 51. Ps. 81/ 8. Ps. 106/ 32.

14. Og Mose sende bod af Kades til * Edoms konungs / so seiger ** þiñ brooder Israel: þu veitst alla þa mædu/ sem oss er til fallen.

* Dom. 11/ 17. ** 1. Mos. 25/ 25/ 26.

15. Ad vorer fedur fooru ofañ i Ægyptaland / og ad vier bigguum langa tijd i Ægyptalande / og ad Ægyptsker høndludu illa vid oss/ og vid vora fedur.

16. Og vier hroopudum til Drottens/ og hañ heyrde vora raust/ og sende * eirn eingel/ og wtførde oss af Ægyptalande/ og sia / vier vorum i Kades stad / hia þynu ytsta landamerke.

* 2. Mos. 14/ 19.

17. Kiære/ lat * oss ferdast i giegnum þitt land/ vier vilium hvorke ganga yfer a akre/ eda i vijngarde / og ei drecka vatned af bruñunum/ vier viljum fara uñ land-vegeñ / vier vilium hvorke beigia til hægre eda til vinstre (sijdu) þar til ad vier komum i giegnum

þitt

þitt landamerke. * c. 21/ 22.
18. Og Edom sagde til hans: þu
skallt ecke ferdast i giegnum mitt (la-
nd/) ad eg ecke skule fara i moot þier
med sverdinu.
19. Og Israels børn søgdu til ha-
ns: vier vilium reisa um þann al-
menna veg / og þar sem vier dreckum
af þijnu vatne/ eg og mitt fienadur þa
vil eg giefa verd þar fyrer/eg vil eckert
(giøra) utan fara i giegnum einasta
til foots.
20. En hun sagde: þu skallt * ecke
fara i giegnum / og Edomitarner dro-
ogu ut i moote þeim med einu myklu
foolke / og eirnre volldugre hende.
* 5. Mos. 2. 10.
21. So meinade Edom / ad leifa
Israel ad ferdast i giegnum sitt landa-
merke/ og Israel veik fra honum
22. Og þeir tooku sig upp af * Ka
des/ z Israels børn/(ja/) allur safn-
adurenn komu til þess fialls Hor.
* c. 33 37.
23. Og Drottenn talade til Mose/og
til Aaron a þvi fialle Hor hia Edomi
tana landamerke/ og sagde:
24. Aaron skal safnast til sijns
foolks/ þvi hann skal ecke koma inn i þad
land/ sem eg hefe giefed Israels børn-
um/ af þvi / ad þid vorud mijnum mu-
nne ohlijdnger/ hia kijfs-vatnenu.
25. Tak * Aaron og Eleasar ha-
ns son/og leid þa uppa þad fiall Hor.
* C. 27/13. C 33 38. 5. Mos. 10/6. C. 32/50.
26. Og fær Aaron af sijnum klæd-
um / og fær Eleasar hans son i þau/
og Aaron skal safnast og deya þar.
27. Þa giorde Mose so sem Drott
enn hafde byfalad/ og þeir geingu uppa
þad fiall Hor fyrer þess alls almuga
augum.
28. Og Mose færde Aaron af sijn-
um klædum / og færde Eleasar hans
son i þau / so * doo Aaron þar uppa
fiallenu / enn Mose og Eleasar geingu
ofann af fiallenu. * 5. Mos. 10/ 6.
C. 32/ 50.
29. Og þar allur søfnudurenn sa
ad Aaron var daudur / þa grieku þeir
Aaron i þriatiju daga / þad giørvallt
Israels hws.

## XXI. Capitule.

Glovande Hoggormar bijta Foolked
til Bana.

Nu Þegar * Aarad þeirra
Cananita konungur/ sem
bioo i sudre / heyrde ad
Israel kom inn um nidosn
arana veg / þa stridde
hann i moot Israel / og
færde fanngna burt af honum.
* C. 33/40.
2. Þa hiet Israel Drottne einu heite/
og sagde: nær þu ølldungis giefur þetta
foolk i mijna hønd / þa vil eg bannfæra
þeirra stade.
3. Og Drottenn heyrde a Israels rau-
ust / og gaf (honum) Cananitana / og
hann * bannfærde þa og þeirra stade / og
kallade þess stadar nafn Horma.
* Dom. 1/ 17.
4. So droogu þeir fra þvi fialle Hor
a vegenn til þess rauda hafs / ad ferdast
um kring Edoms land. * c. 20/ 21.
5. Og foolkenu * leiddest a vegene
um / og foolked talade ** i moot Gude
og i moot Mose: hvar fyrer uppfærdud
þier oss af Egyptalande/ ad deya i eyde-
mørku? þvi hier er hvørke braud edur
vatn/ og vora sal velger vid þeim lietta
mat. * c. 11/1. ** c. 11/20. c. 14/ 2.
6. Þa sende Drottenn glovande *
hoggorma medal foolksens/ og þeir bitu
foolked / so ad þar deyde myked foolk af
Israel. * Spek. 16/ 5. 1. Cor. 10/9.
7. Þa kom foolked til Mose/ og þe-
ir søgdu: * vier hofum syndgad/ þvi vier
hofum talad i giegn Drottne/og i giegn
þier/ bid til Drottens / ad hann vilie taka
hoggormana fra oss/ og Mose bad fyrer
foolkenu. * c. 14/ 40. 1. Sam. 7/ 6.
8. Þa sagde Drottenn til Mose: giør
þier * eirn brennande (hoggorm) z reistu
hann uppa eirn staka / og þad skal ske /
ad hvør sem er bitenn/ og sier hann / hann
skal lifa. * Joh. 3/ 14. etc.


9. Þa

9. Pa giørde Mose eirn eyr-hoggorm og sette hann uppa eirn stiaka/og pad skiede/ nær eirn hoggormur beit nockurn/ pa leit hann til pess eyrhoggorms / og hiellst vid lijfed.

10. Og Israels born ferdudust og settu sijnar herbuder * i Oboth.

* C. 33/ 43.

11. Og peir fooru fra Oboth/og settu sijnar herbuder * i Jje Abarim i eydemørkenne/ sem er giegnt Moab/ fra sool arennar uppgaungu. * C. 33/ 44.

12. Peir fooru par fra/og settu sijnar herbuder hia peim læk Sared.

13. Peir fooru par fra/og settu sijnar herbuder par hinumegenn Arnon / sem er i eydemørkenne/sem geingur wt fra peirra Amorita landamerke / pvi * Arnon er Moabs landamerke i millum Moab og peirra Amorita.

* Dom. 11/ 13/ 18/

14. Par pyrer skal par seigiast i Drottens strijds book: Vaeb i Supha/ og Arnons læker.

15. Og lækianna (vatns) hlaup / sem nær til Ars heimkinnes / og falla inn a Moabs landamerke.

16. Og par fra til Beer / pad er sa brunnur/ sem Drottenn talade um til Mose: safna foolkenu/ og eg vil giefa peim vatn.

17. Pa saung Israel petta saung: stijg upp brunnur/ svared yfer honum.

18. Hofdingiarner groofu pann brunn/ peir gøfugu a medal foolksens hafa wthoggved hann / pyrer * læremeistarann med peirra stafum/Og fra eydemørkenne til Matthana. * 5. Mos. 33/ 21.

19. Og fra Matthana til Nahaliel / og fra Nahaliel til Bamoth.

20. Og fra Bamoth til pess dals / sem er i Moabs mørku giegnt toppenum a hædenne/og hann breider sig moot eydemørkenne.

21. Og Israel sende bod burt * til Sihon Amoritanna konungs / og liet seigia:

* 5 Mos. 2/ 26. C. 29/ 7. Dom. 11/ 19. Ps. 135/ 11. Amos. 2/ 9.

22. Eg * villde reisa i giegnum pitt land / vier villum ecke beigia burt a akrana/ eda i vijngardana/ vier villum ecke drecka vatned af brunnunum / vier villum fara um land veg / inn til pess vier komum i giegnum pitt landamerke.

* C. 20/ 17.

23. Og Sihon villde ecke leifa Israel / ad fara i giegnum sitt landamerke / Enn Sihon safnade ollu sijnu foolke/og droo wt a moote Israel i eydemørkena / og pegar hann kom til * Jaaz / strijdde hann i moot Israel. * 5. Mos. 2/ 32.

24. Enn Israel sloo hann med hoffsins sverde/ og inntook hans land / fra Arnon allt til Jabok/og allt til Amons barna/ pvi Amons barna landamerke var sterkt.

25. So took Israel alla pessa stadei/ og Israel bioo i ollum Amoritanna stadum/ i Hesbon/ og ollum hennar tilheyrande (porpum.)

26. Pvi Hesbon sa stadur heyrde Sihon Amoritanna konunge til/ og hann hafde pyrst strijdt i moote Moabitanna konunge/ og teked allt hans land fra honum inn til Arnon.

27. Par pyrer seigia peir/ sem tala malshætte: komed til Hesbon / Sihons stadur skal byggiast og efflast.

28. Pvi par er farenn elldur af Hesbon/ eirn loge af Sihons stad/ sa hefur fortært Moabs Ar/sem/ peim herrum af Arnons hædum.

29. Vei pier Moab / pu * Camos foolk ert fortapad/ hann hefur teked hans syne a flootta/og hans dætur liet hann fara fangnar burt til Sihon Amoritanna konungs. * Dom. 11/ 24. etc.

30. Og peirra ok er orded til einskes/ fra Hesbon allt til * Dibon / og vier hofum eydelagt(pa)allt til Nopha/(sem nær) inn til Medba. * Es. 16/ 2.

31. So bioo Israel i peirra Amoritta lande.

32. Og Mose sende wt / ad niosna * um Jaeser/ og peir unnu hennar tilheyrande (porp / ) og hann burtdreif Amoritana/sem voru par. * C. 32/ 3.

33. Og peir snieru vid og droou upp

a veigen til Basan / þa * droo og kon-
ungurenn af Basan wt i moote þeim/ hann
og allt hanns foolk til stryds (i) Edrei.
* 5. Mos. 3/ 1. C. 29/ 7.
34. Og Drottenn sagde til Mose: otl-
ast ecke fyrer honum/ þvi eg hefe giefed
hann i þijna hond/ og allt hanns foolk/og
hanns land/ og þu skallt giora vid hann /
eins sem þu giorder vid Sihon Amor-
ika konung/sem bioo i Hesbon.
35. Og þeir sloou hann og hanns syne/
og allt hans foolk/so ad honum vard einge-
enn epter sem af komst / og þeir innthooku
hanns land.

## XXII. Capitule.

Balak sender Bod til Bileam/ hvors Asna talar.



Og Israels born ferdudust
afram/og settu sig nidur hier
hvoder a * Moabita hei-
de hinumeigenn Jordanar
giegnt Jericho. * C. 33/ 48.
2. Og þa Balak Zi-
pors son sa allt þad/ sem Israel hafde
giort Amoritunum.
3. Og ad Moabitarner hræddust har
la miog fyrer foolkenu / ad þad var so
myked / og ad Moabitarner hræddust fyr
er Israels bornum.
4. Þa sagde Moab til þeirra Midi
anita eldunga: nu mun þesse flockur
uppsleikia allt þad hier er allt um kring
oss/ eins sem uxenn uppsleiker gras a mør
kenne / enn Balak Zipors son var Moa-
bitanna konungur a þeim sama tijma.
5. Og hann sende * bod til ** Bile-
ams Beors sonar til Pethor/ sem er hia
vatnsfallenu / i hanns foolks barna lan-
de/ ad kalla hann/ og liet honum seigia:
sia / þar er eitt foolk wtgeinged af E-
gyptalande/ sia/ þad hylur Jardarennar
ofan / og þad liggur i moote mier.
* Jos. 24/ 9. ** 4. Mos. 23/ 7.
6. Og nu / kiære kom / bolvadu fyrer
mig þessu foolke/ þvi þad er mier ofmegt
ugt / kann skie / eg kunne ad sla þad / og
burtreka þad af landenu / þvi eg veit/ad
hvorn þu blessar / hann er blessadur /
og hvorium þu bolvar / skal vera bol-
vadur.
7. Og þeir elldstu af Moabitunum
geingu burt med þeim elldstu af Midia-
nitunum/og (spasmanns) laun var i þeir-
ra hende / og þeir komu til Bileam / og
sogdu Balaks ord til hanns.
8. Og hann sagde til þeirra: vered
hier i noott / so vil eg seigia ydur svar
aptur / epter þvi sem Drottenn seger til
mijn / So voru Moabitanna hofdingiar
hia Bileam.
9. Og Gud kom til Bileam/ og sagde:
hvorier eru þeir menn/ sem eru hia þier?
10. Og Bileam sagde til Guds:
Balak Zipors son/ Moabitanna konung-
ur sende (bod) til mijn.
11. Sia / þar er eitt foolk fared af
Egyptalande/og hylur Jardarennar ofan/
kom nu / bolva fyrer mig þvi / þad kann
skie/ eg kunne sigrast a moote þvi og burt
reka þad.
12. Og Gud sagde til Bileam: þu
skallt ecke ganga med þeim þu skallt ecke
bolva foolkenu / þvi þad er blessad.
13. Þa stood Bileam upp um morgu
nenn / og sagde til Balaks hofdingia:
ganged til ydar lands/ þvi Drottenn veig
rar sier vid ad læta mig fara med ydur.
14. So giordu Moabitanna hofding
iar sig buna/ og komu til Balak/og sog
du: Bileam veigrade sier / ad fara med
oss.
15. Þa sende Balak enn fleire og veg
legre hofdingia/ enn þa (adra.)
16. Og þeir komu til Bileam/og sog
du til hanns: so seiger Balak Zipors son:
kiære / neita ecke ad ferdast til mijn.
17. Þvi eg vil vissulega heidra þig
miog / og allt þad þu seiger til mijn/ vil
eg giora / kiære kom / bolva fyrer mig
þessu foolke.
18. Og Bileam svarade og sagde
til Balaks þienara: * þoott vilde Ba-
lak giefa mier sitt hws fullt af silfre og
gulle / so kynne eg (þo) ecke yfer troda
Drottens mijns Guds ord / til ad giora
litid eda myked. * C. 24/ 13.

19. So vered þo nu hier og so a þess-
are nootiu/ ad eg kuñe vita/ hvad Drott
eñ vill framar tala vid mig.

20. Þa kom Gud til Bileam um̃ no-
ottena/ og sagde til hañs: eru þeir meñ
komner hingad til ad kalla þig ?
(sia) tak þig upp/ * far med þeim / og
hvada ord eg seige til þijn / þad skalltu
giora. * v. 35.

21. Þa stood Bileam upp um̃ morg-
uneñ/ og södlade sijna ösnu/og foor med
þeim Moabita höfdingium.

22. Eñ Gud vard afar reidur/af þvi
hañ foor burt/ og Drotteñs eingell stood
i veigenum / ad mootstanda hönum/ Eñ
hañ reid a siñe ösnu /og hañs tveir svein
ar voru med hönum.

23. Og Asnañ sa Drotteñs eingel
standa a veigenum/og * hañs sverd sem
var wtdreiged i hañs hende / og asnañ
veik af veigenum / og gieck a mörkena /
Eñ Bileam sloo ösnuna/ ad keira hana
a veigeñ. * 1. Mos. 3/ 24.

24. Þa stood Drotteñs eingell a þeim
þreingra stig/wt med vijngördunum/ hvo
ar ed var gyrding a bädar sijdur.

25. Og þegar asnañ sa Drotteñs
eingel/þa þreingde hun sier upp vid gard
eñ/ og kreiste Bileams foot vid gardeñ /
og hañ sloo hana eñ meir.

26. Þa gieck Drotteñs eingell leing
ra fram/ og stood a einum þreingra stad/
þar sem öngvañ veg var ad vijkia til
hægre eda vinstre (sijdu.)

27. Og þegar asnañ sa Drotteñs
eingel / þa fiell hun a knie under Bile-
am / þa vard Bileam afar reidur / og
sloo ösnuna med stafnum.

20. Þa upplauk Drotteñ * ösnuñar
muñe / og hun sagde til Bileam : hvad
hefe eg giort þier/ad þu hefur nu sleig-
ed mig þrisvar siñum ? * 2. Pet. 2/16.
Jud. v. 11.

29. Og Bileam sagde til ösnuñar :
af þvi þu hefur gabbad mig / Æ hefde
eg eitt sverd i miñe hende / þa villde eg
nu sla þig i hel.

30. Og asnañ sagde til Bileam : er
eg ecke þijn asna / sem þu hefur riced /
sijdañ þu varst ( miñ herra ) iñ til þessa
dags ? hefe eg nockurn tijma vered von
ad giora þier so ? og hañ sagde ney.

31. Þa upplauk Drotteñ Bileams
augum/ ad hañ sa Drotteñs eingel stan
da i veigenum / og hañs brugded sverd i
hañs hende / Og hañ hneigde og beigde
sig a sitt andlit.

32. Og Drotteñs eingell sagde til
hañs : hvi hefur þu sleiged þijna ösnu
þrisvar siñum ? sia/ eg er wtgeingeñ/ad
mootstanda ( þier/ ) þvi vegureñ er mier
i moote.

33. Og asnañ sa mig / og veik nu
þrisvar siñum fyrer mier/ añars þar sem
hun hefde ecke viked fyrer mier/ þa vill-
de eg og so hafa sleiged þig nu i hel / og
lated hana lifa.

34. Þa sagde Bileam til Drotteñs
eingels : eg hefe syndgad / þvi eg visse
ecke/ ad þu stoodst i moote mier a veigen-
um/ og þar sem þad nu illa lijkar þier /
vil eg snwa mier til baka aftur.

35. Og Drotteñs eingell sagde til
Bileam : far þu med moñunum/ eñ all-
einasta þad ord/ sem eg tala til þijn/ þad
skalltu tala/ So foor Bileam med Ba-
laks höfdingium.

36. Þegar Balak heyrde / ad Bile-
am kom/ þa reiste hañ wt i moote hön-
um/ til eins af Moabitaña stödum / sem
er hia landamerke Arnon/sem er hia þvi
ysta landamerke.

37. Og Balak sagde til Bileam : sen
de eg vijst ecke ( bod ) til þijn / ad lata
kalla a þig ? hvi komstu ecke til mijn/mei
nar þu/ ad eg kuñe ecke heidra þig?

38. Og Bileam sagde til Balak :
sia/ eg er nu komeñ til þijn/ mun eg þo
kuña ad tala nockud ? orded/ sem Gud
leggur i miñ muñ/ þad skal eg tala.

39. So foor Bileam med Balak /
og þeir komu til þess stadar Husoth.

40. Og Balak offrade nautum og
saudum / og sende (bod) epter Bileam/
og epter þeim höfdingium/ sem voru hia
hönum.

41. Og

41. Og þad skiede um̃ morgunenñ/ þa
took Balak Bileam/og farde hañ uppa
* Baals hæd / ad hañ sæe þar af þad
ysta af fookenu. c. * 35/ 3.

## XXIII. Capitule.

Bileam i moot Balaks Vilia
blessar Israels Born.



Og Bileam sagde til Ba-
lak: * bygdu mier hier
sio ølturu/ og fa mier
hingad sio uxa/og sio
hruta. * v. 29.
2. Og Balak giør-
de so sem Bileam sagde / og Balak og
Bileam offrudu einum uxa og einum
hrwt a (hvert) altare.
3. Og Bileam sagde til Balak: *
stattu hia þijnu breñe-offre / og eg vil
ganga burt/ef/ ma skie/Drottenñ (ku-
ñe) mæta mier/ og hvada ord hañ vys-
ar mier / skal eg giefa þier til vitund-
ar/og hañ gieck fliootlega þadañ upp.
* v. 15.
4. Og Gud mætte Bileam/og hañ
sagde til hañs : eg hefe tilreidt sio øl-
turu / og offrad einum uxa og einum
hrwt a (hvort) altare.
5. Þa lagde Drottenñ ord i Bile-
ams muñ / og sagde : gack til Balak
aptur/ og so skalltu tala.
6. Og hañ kom til hañs aptur/og
sia / hañ stood hia sijnu breñe-offre /
hañ og aller Moabitaña høfdingiar.
7. Þa took hañ til sijns mæls/ og
sagde : af Syria hefur Balak Moa-
bitaña konungur læted sækia mig/ fra
fiøllunum i moot austre / Kom/ bølva
fyrer mig Jakob / og kom / smæanadu
Israel.
8. Hvørnenñ skal eg bølva þeim /
sem Gud ecke bølvar : hvørnenñ skal
eg smæna þa / sem Drottenñ ecke smæ-
nar?
9. Þvi eg skal sia hañ af klett-
aña toppe/ og af hædunum skal eg sko-
da hañ : sia/ eitt foolk/ sem skal bwa
ser i lage/ og ecke reiknast i bland heid-
ingiaña.
10. Hvør kañ telia * Jakobs du-
pt/ og toluna a þeim fioorda (parte)
af Israel : mijn sal deye þeirra riett-
ferdugu dauda / og * * mijn endalok
verde sem hañs. * 1. Mos. 28 / 14.
c. 36/3. ** ps. 37/37.
11. Þa sagde Balak til Bileam :
Hvad giører þu moote mier : eg liet
sækia þig til ad bølva mijnum fiand-
moñum/ og sia/ þu ølldunges blessar
(þa.)
12. Og hañ svarade og sagde : *
skal eg ecke hallda fram ad tala þad /
sem Drottenñ leggur i miñ muñ :
* c. 22 / 38.
13. Og Balak sagde til hañs : kom
þo med mier a eirn aññan stad/ af hvør-
jum þu kant sia þad / (eñ) þo halañ
þar af skalltu sia / so þu ecke giefer
sied þad allt/ og bølva fyrer mig þvi /
þar af.
14. Og hañ farde hañ a Sophims
mørk / a hædarenar topp / og bygde
sio ølturu / og offrade einum uxa og
einum hrwt a (hvørju) altare.
15. Og hañ sagde til Balak: stattu
hier hia þijnu breñe-offre / og eg vil
hlaupa þangad.
16. Og Drottenñ mætte Bileam/
og lagde orded i hañs muñ / og sagde :
gack til Balak aptur / og so skalltu
tala.
17. Og hañ kom til hañs/ og sia /
hañ stood hia sijnu breñe-offre / og
Moabitaña høfdingiar med honum /
og Balak sagde til hañs : hvad sagde
Drottenñ ?
18. Og hañ took til sijns Mæls /
og sagde : statt upp Balak / og heyr /
giættu ad mier/ Zipors son.
19. Gud er ecke ein mañeskia / ad *
hañ ljwge/ ei helldur einnrar mañeskiu
barn / ad hañ skule angra (neckud/)
hafe hañ sagt þad/ og skyllde ey giøra
þad : og hafe hañ talad / og skyllde ey
hallda þad : * Tit. 1/ 2.
20. Sia / eg hefe leked mier fyrer

ad blessa / og hañ blessade / og eg kañ ecke afvenda þvi.

21. Hañ ꜳleit ecke illsku i Jakob / og sꜳ ecke mædu i Israel / Drottenn hans Gud er hia hønum / og Konungsens (trometu-) hliood a medal hans.

22. Gud/ sem ꝡtfærde þa af Egypta lande / hans styrkur er sem eins einhirnings.

23. Þvi þar er eckert fiølkinge i Jakob / og eingeñ spꜳdoomur i Israel / J tijma skal madur tala um Jakob og um Israel / hvad Gud hefur ꝡtriett.

24. Sia / eitt foolk skal uppreisa sig / * sem eiñ (stoor) leon / og upphæcka sig sem eirn (ungur) leon/ Þad skal ecke leggia sig/ fyrr eñ þad etur her fanged / og dreckur þeirra slegnu blood. * c. 24/ 9. 1. Mos. 49/ 9.

25. Þa sagde Balak til Bileam: Þu skallt hvørke alldeiles bølva þvi / ei helldur alldeiles blessa þad.

26. Og Bileam svarade / og sagde til Balak: * hefe eg ei sagt til þijn / seigiande: ad allt þad / sem Drottenn seiger/ þad skule eg giøra. * c. 22/38.

27. Og Balak sagde til Bileam: kom þo / eg vil færa þig til eins añars stadar/ mꜳ skie/ þad þocknest Gude/ ad þu þar af bølver fyrer mig þvi.

28. Og Balak færde Bileam a * Peors kopp / sem er giegnt eydemørkeñe. * c. 25/ 3.

29. Og Bileam sagde til Balak: bigg mier hier siø ølturu / og fꜳ mier hier siø uxa og siø hrꝡta

30. Og Balak giørde so sem Bileam sagde/ og offrade einum uxa og einum hrꝡt a (hvørt) altare.

## XXIV. Capitule.

Bileam spꜳer um Stiørnuna af Jakob.



egar Bileam sꜳ / ad þad þocknadest Drottne/ ad hañ blessade Israel / þa gieck hañ ecke burt/ sem þeim ødrum siñum ad leita spꜳdooma/ helldur snere sijnu andlite moot eydemørkeñe.

2. Og Bileam upplijfte sijnum augum/ og sꜳ Israel / sem lꜳ epter sijnum kynkvijslum/ og Guds Ande var yfer hønum.

3. Og hañ * took til sijns mꜳls / og sagde: þetta seiger Bileam Beors son/ og þad seiger sa madur sem augad var luckt ꜳ. * c. 23/ 7/ 18.

4. Þad seiger sꜳ/ sem heyrer Guds rædur/ sa sem sier þess Almꜳttugasta sijn/ sa þar fiell / og augun urdu opnud ꜳ.

5. Hvad frijd eru þijn tiølld/ Jakob / sꜳ þijn hybijle / Israel.

6. Lijka sem daler eru þau ꝡtbreidd / sem urtagardar hia einu vatnsfalle/ sem sandel-trien/ er Drottenn plantar/ sem cedrus-trien hia vatnenu.

7. Þar skal fliooта vatn af hans skioolu / og hans sæde (skal verda) i myklu vatne/ z hans konungur skal verda hærre eñ Agag / og hans rijke skal upphæckast.

8. * Gud er sa/ sem ꝡtfærde hañ af Egyptalande / hañ hefur styrkleika sem eirn einhyrningur / Hañ skal uppsvelgia heidingiana/ sijna ofsooknara/ og fordiarfa þeirra bein/ og skioota (þa) med sijnum pijlum. * C. 23/ 22.

9. Hañ * hefur beigt sig/ lagt sig sem eirn (ungur) leon/og sem eirn (stoor) leon / hvør þorer uppvekia hañ? blessadur ** vere hvør af þeim/ sem þig blessar / og bølvadur vere hvør af þeim / sem þier bølvar. * c. 23 / 24. ** 1. Mos. 12/ 3.

10. * Þa vard Balak reidur uppa Bileam / og sloo sijnum høndum til samans/ og Balak sagde til Bileam: eg liet kalla þig/ ad bølva mijnum fiandmoñum / og sia / þu hefur nu vijsst þrisvar siñum blessad þa * c. 22/27.

11. Og far nu burt til þijns stadar / Eg þeinkte/ad eg villde vissulega hafa heidrad þig / eñ sia / Drottenn hefur hindrad þig fra þeim heidre.

12. Og Bileam sagde til Balak:
talade eg ei og so til þiña sendeboda /
sem þu sender til mȳn/ og sagde:
13. * Þoott villde Balak giefa mi
er sitt hws / fullt af silfre og gulle /
þa kyñe eg ecke yfertroda Drottens
ord / ad giøra illt edur gott af mȳnu
hiarta/ (eñ) hvad sem Drottéñ vill
seigia/ þad skal eg seigia. * c. 22/18.
14. Og nu sia/ eg fer til mȳns fool
ks/ (eñ) kom/ * eg vil rꝍda þier/hv-
ad þetta foolk skal giora vid þitt foolk
i þeirre sȳdarstu tȳd. * c. 31/ 16.
15. Og hañ * took til sȳns mꝍls/
og sagde: þad seiger Bileam Beors
son / þad seiger sa madur/ sem augad
var luckt a. * c. 23/ 7/ 18.
16. Þad seiger sa/ sem heyrer Gu-
ds rꝍdur / og sa/ sem veit þess hꝍsta
vȳsdoom / sa sem sier þess Almꝍtug-
asta sȳn / sa þar fiell og auguñ urdu
opnud a.
17. Eg skal sia hañ / eñ ecke nu /
eg skal skoda hañ/eñ ecke nꝍr hia/Þar
er ein stiarna komeñ fram af Jakob /
og ein spȳra uppkomeñ af Jsrael / og
hun skal sundur mola Moabs hyrning
ar / og eydeleggia øll Seths børn.
18. Og Edom * skal seleñ verda /
og Seirs eigendoomur skal koma til
hañs ovina / Eñ Jsrael skal bȳhallda
sigrenum. * 2. Sam. 8/14.
19. Af * Jakob skal stioornareñ
koma/ og eydeleggia þad / sem epter er
af stødunum. * Mich. 5/ 2.
20. Og þar hñ sa Amalekitana/
took hañ til sȳns mꝍls / og sagde:
Amalek er heidingiaña upphaf / eñ
* hñs ender (skal verda) til fordiørf-
unar. * 2. Mos. 17/ 14.
21. Og þa hañ sa * Kenitana/ þa
took hañ til sȳns mꝍls / og sagde:
rambygdt er þitt heimele/og sett þitt
hreidur a klettenum. * Dom. 1/ 16.
1. Sam. 15/ 6.
22. Eñ Kain skal verda til ad upp-
eta/ iñ til þess Assur fꝍrer þig fang-
eñ burt.
23. Og hañ took til sȳns mꝍls/ og
sagde: æ / hvør mun lifa / nꝍr Gud
mun setia hañ?
24. Og skip af Chitims hofn sku-
lu (koma) og fordiarfa Assur/og nidur
lꝍgia Eber/ og hñ skal og so alldung
es eydeleggiast.
25. Og Bileam giørde sig reidubw-
eñ/og foor burt/og kom til sȳns stadar
aptur / og Balak foor og so siñ veg.

## XXV. Capitule.

Jsraels Barna Afgudadȳrkaner og
Hooraner straffast hardlega.



Og Jsrael bioo * i Sit-
tim/ og foolked took til
ad drygia hoor med Mo
abitaña dꝍtrum.
* C. 31/ 49.
2. Og þꝍr budu *
foolkenu til þeirra guda offruna / og
foolked at og tilbad fyrer þeirra gud-
um. * c. 33/ 16.
3. Og Jsrael sloo sier til * Baal
Peor/ þa vard Drottens reide hastar-
leg uppa Jsrael. * 5. Mos. 4/ 3.
Jos. 22/ 17. Os. 9/ 10.
4. Og Drottéñ sagde til Mose:
tak alla þa yppurstu fyrer foolkenu /
og lꝍt * uppheingia þa fyrer Drott-
ne i moot sooluñe / uppa þad Drott-
eñs hostug reide meige snwast fra Js-
rael. * 2. Sam. 21/ 6/ 9.
5. Og Mose sagde til Jsraels do-
omara: hvør slꝍe sitt foolk i hel/ sem
hefur giefed sig til Baal Peor.
6. Og sia / eirn madur af Jsraels
børnum kom/og leidde eina Midiani-
tiska (kviñu) fram til siña brꝍdra fyr
er Mose augum / og fyrer alls Jsra-
els barna safnadar augum / og þeir
grietu fyrer samkunduñar tialldbwdar
dyrum.
7. Þegar * Pinehas Eleasars
son Aarons prests son / þad sa / þa
stood hñ upp fra safnadenum/ og took
eitt spioot i sȳna hønd * Ps. 106/30.
8. Og gieck epter þeim Jsraelitiska

manne i hoorn hwsed / og i giegnum stack þau bæde / þann Israelitiska mann / og kinnina a hennar lijf / * Þa stilltest plagann a Israels bornum.

* 2. Sam. 24/ 25.

9. Og þar * urdu slegner i hel i þeirre plagu fioorar og tuttugu þusunder. * 1. Cor. 10/ 8.

10 Og Drottenn talade til Mose / og sagde:

11. Pinehas Eleasars son / Aarons prests son hefur snwed minne reide fra Israels bornum fyrer hanns vandlæting vegna minnar vandlætingar a medal þeirra / og eg hefe ecke fortært Israels bornum i minne vandlæting.

12. Þar fyrer seig: sia/eg * gief honum minn sattmaala / (sia) frid.

* Syr. 45/31.

13. Og hann og hanns sæde epter hann / skal hafa eirn eilijfann prestadæmes sattmaala / þar fyrer/ad hann var vandlætingarsamur fyrer sinn Gud / og giørde forlijkun fyrer Israels born.

14. Enn þess slegna Israelita manns nafn / sem var sleigenn med þeirre Midianitisku (kvinnu/) var Simri / Salu son / eirn høfdinge fyrer Simeonitanna fødurs hwse.

15. Og þeirrar slegnu Midianitisku (kvinnu) nafn var Casbi/ * Zurs dootter, einn høfuds madr a medal heidingianna af eirnre sierlegre ætt a medal Midianitanna. * C. 31/ 8.

16. Og Drottenn talade til Mose/ og sagde:

17. * Þvijnga Midianitana / og þier skulud slaa þa. * C. 31/ 2.

18. Þvi þeir þvijngudu ydur med þeirra svikum/med hvørium þeir sviku ydur i Peors høndlun/ og i Casbi athøfn/(sem var)ein Midianitka høfdingia dootter / þeirra syster / sem var sleigenn a plagunnar deige/ fyrer Peors høndlunar skulld.

XXVI. Capitule.

Israels Børn teliast a ny/ under Mose og Eleasar.



Og þad skiede epter plagunna/ ad Drottenn talade til Mose og til Eleasar / Aarons prests sonar/ og sagde:

2. Tak summuna af ølluu Israels barna safnade / fra tuttugu aara gømlum og yfer/ epter þeirra fedra hwse / a hvørium sem (kann) draga wt i strijd i Israel.

3. Og Mose og Eleasar prestur tøludu vid þa a Moabitanna mørku / hia Jordan giegnt Jericho / og søgdu:

4. Fra tuttugu aara gømlum og yfer / lijka sem Drottenn hafde bijfalad Mose/ og Israels bornum / sem voru wt farenn af Egyptalande.

5. Ruben / Israels * frumborenn / Rubens born/ til Hanoch/ Hanochita ætt/ til Pallu / Palluitanna ætt.

* 2. Mos. 6/ 14. etc.

6. Til Hezron/ Hezronitanna ætt / til Charmi / Charmitanna ætt.

7. Þessar eru Rubenitanna ætter / og þeir tøldu af þeim voru þriaar og fiørutijger þusunder og siø hundrud og þriatijger.

8. Enn Pallu børn var Eliab.

9. Og Eliabs born voru Nemuel / og Datan og Abiram / Þad er * sa Datan og Abiram / sem mann kallade fra søfnudenum / þeir sem kijfudu i giegn Mose / og i giegn Aaron i Korah flocke/ þegar þeir kijfudu i moot Drotlne. * C. 16/ 12. etc.

10. Og * Jørdenn upplauk sijnum munne/ og uppsvelgde þa og Korah / þegar sa flockur doo / þegar elldurenn uppsvelgde fimmtijger og tvø hundrud menn/ og urdu til eins teikns.

* C. 16/ 31/32 5. Mos. 11/ 6. Ps. 106/ 17.

11. Enn Korah born deydu ecke.

12. * Simeons born i þeirra ættum voru: til Nemuel / Nemuelitanna ætt/ Til Jamin/ Jaminitanna ætt/ Til Jachin/

Jachin / Jachinitaña ætt.
* 1. Mos. 46/10.
13. Til Serah / Serahitaña ætt / Til Saul / Saulitaña ætt.
14. Þessar eru * Simeonitaña ætt er / tvær og tuttugu þusunder og tvö hundrud. * C. 1/ 23.
15. Gads børn i þeirra ættum voru / Til Ziphon / Ziphonitaña ætt / Til Naggi / Naggitaña ætt / Til Suni / Sunitaña ætt.
16. Til Osni / Osnitaña ætt / Til Eri / Eritaña ætt.
17. Til Arod / Aroditaña ætt / Til Areli / Arelitaña ætt.
18. Þessar eru Gads barna ætter / epter þeirra tølu / fiørutyu þusunder og fim̃ hundrud.
19. Juda børn voru Er og Onan / og Er og Onan deydu i Canaans lande.
20. Og Juda børn i þeirra ættum voru / Til Sela / Selanitaña ætt / Til Perez / Perezitaña ætt / Til Serah / Serahitaña ætt.
21. Eñ * Perez børn voru / Til Nezron / Nezronitaña ætt / Til Namule / Namulitaña ætt.
*. Ruth. 4/18. 1. Kron. 2/5.
22. Þessar eru Juda ætter epter þeirra tølu / sex og siøtyu þusunder og fim̃ hundrud.
23. Isaschars børn i þeirra ættum (voru:) Til Thola / Tholaitaña ætt / Til Phuna / Phunaitaña ætt.
24. Til Jasub / Jasubitaña ætt / Til Simron / Simronitaña ætt.
25. Þessar eru Isaschars ætter epter þeirra tølu / fiorar og sextyu þusunder og þriu hundrud.
26. Sebulons børn i þeirra ættum voru / Til Sared / Sareditaña ætt / Til Elon / Elonitaña ætt / Til Jaheleel / Jaheleelitaña ætt.
27. Þessar eru Sebulonitaña ætter epter þeirra tølu / sextyu þusunder og fim̃ hundrud.
28. Josephs børn i þeirra ættum voru Manasse og Ephraim.
29. Eñ Manasse børn voru / Til Machir / Machiritaña ætt / og Machir ablade Gilead / Til Gilead / Gileaditaña ætt.
30. Þesse eru Gileads børn / Til Hieser / Hieseritaña ætt / Til * Helek / Helekitaña ætt. * Jos. 17/2.
31. Og til Asriel / Asrielitaña ætt / og til Sechem / Sechemitaña ætt.
32. Og til Smida / Smidaitaña ætt / og til * Hepher / Hepheritaña ætt.
* C. 27/1. C. 36/2.
33. Eñ Zelaphad Hephers son atte øngva syne / helldur * dætur / Og Zelaphads dættra nøfn var Mahela / og Noa / Hogla / Milca og Thirza.
* C. 27/1.
34. Þessar eru Manasse ætter / og þeirra talder voru tvær og fim̃tyu þusunder og siø hundrud.
35. Þesse eru Ephraims børn / i þeirra ættum / Til Suthelah / Suthelahitaña ætt / Til Becher / Becheritaña ætt / Til Thahan / Thahanitaña ætt.
36. Og þesse eru Suthela børn / Til Eran / Eranitaña ætt.
37. Þessar eru Ephraims barna ætter / epter þeirra tølu / tvær og þriatyu þusunder og fim̃ hundrud / Þesse eru Josephs børn i þeirra ættum.
38. BenJamins børn i þeirra ættum voru / Til Bela / Belaitaña ætt / Til Asbel / Asbelitaña ætt / Til Ahiram / Ahiramitaña ætt.
39. Til Sephupham / Sephuphamitaña ætt / Til Hupham / Huphamitaña ætt.
40. Og Bela børn voru Ard og Naaman / Til Ard / Arditaña ætt / Til Naaman / Naamitaña ætt.
41. Þesse eru BenJamins børn i þeirra ættum / og þeirra taller voru fim̃ og fiørutyu þusunder og sex hundrud.
42. Þesse voru Dans børn i þeirra ættum / Til Suham / Suhamitaña ætt / Þessar voru Dans ætter i þeirra ættum.


43. Allar

43. Allar Suhamitana ætter epter þeirra toldum / voru fioorar og sextiju þusunder og fiogur hundrud.

44. Asers born i þeirra ættum voru/ Til Jemna / Jemnaitana ætt / Til Isui / Isuitana ætt / Til Bria / Britana ætt.

45. Til Bria barna / Til Heber / Hebritana ætt/ Til Malchiel/ Malchielitana ætt.

46. Og Asers dootter nafn var Sarah.

47. Þessar eru Asers barna ætter epter þeirra toldum / þriar og fimtiju þusunder og fiogur hundrud.

48. Naphthali born i þeirra ættum voru/ Til Jazeel/ Jazeelitana ætt / Til * Suni/ Sunitana ætt. * 1. Kron. 8/13.

49. Til Jezer/ Jezeritana ætt / Til Sillem/ Sillemitana ætt.

50. Þessar eru Naphthali ætter /epter þeirra ættum / og þeirra talder voru fimm og fiorutiju þusunder og fiogur hundrud.

51. Þesser eru talder af Israels born um/sex hundrad þusunder og eitt þusund/ sio hundrud og þriatiger.

52. Og Drottenn talade til Mose/ og sagde:

53. Þu skalltt wtdeila landenu a med al þessara til arfs/epter nafnana tolu.

54. Þu * skallt giefa morgum myk ed til þeirra arfs/ og fæum lijted til þeir ra arfs/ hvorium skal giefast hans arf ur / epter þeirra toldu hatte af honum.
* C. 33/ 54. 1. Mos. 47 / 12.

55 Þo skal landed skiptast * med hlutfalle/Þeir skulu erfa epter þeirra fed ra ættkoslar nofnum. * c/33/54/ etc/

56 Hvers arfur skal skiptast * epter hlutfallsens hættalage/ epter þvi sem hann hefur marga eda fæa til
* Jos. 14/ 2.

57 Og þesser eru talder * af Levi sunum epter þeirra ættum/ Til Gerson/ Gersonitana ætt/ Til Kaath / Kaathitana ætt / Til Merari/ Meraritana ætt
* 2. Mos. 6/ 16. 4. Mos. 3/16/17.

58 Þessar eru Levitana ætter / þeirra Libnita ætt / þeirra Hebronita ætt / þeirra Mahalita ætt/ þeirra Musita ætt/ þeirra Korahita ætt / og Kaath ad le Amram

59 Og Amrams * hustruar nafn / var Jochebed/ Levi dootter/ hvoria hun fædde Levi i Ægyptalande/ og hun fædde Amram / Aaron og Mose / og Mariam þeirra systur * 2 Mos 2 1 etc

60 Enn Aaron ætte born / Nadab og Abihu/Eleasar og Ithamar.

61 Og * Nadab og Abihu deydu/ þa þeir offrudu annarlegum ellde fyrer Drottens-auglite. * 3 Mos 10/ 1/ 2 etc/

62 Og þeir toldu af þeim/voru þriar og tuttugu þusunder/ allt karlkyn fra eins mænadar gomlum og yfer/ þvi þeir voru ecke talder a medal Israels barna / þvi þeim var ecke giefenn arfur a medal Israels barna.

63 Þesser voru talder af Mose og Eleasar preste / sem toldu Israels born a Moabitana mork / hia Jordan giegnt Jericho

64 Og a medal þeirra var eingenn af þeim toldu af Mose og Aaron preste/ sem toldu Israels born i Sinai eydemorku

65 Þvi Drottenn hafde * sagdt til þeirra : þeir skulu vissulega deyia i eydemorkunne / og þar var eingenn epter af þeim / utann Caleb Jephunne son/ og Josua Nuns son * c 14/ 23 etc

## XXVII. Capitule.

Logmaal um Arfa-Skots. Josua skickast af Mose til Folksens Leidtoga.



g þar komu fram Zelaphads * dætur/ Hephers sonar/ Gileads sonar/ Machir sonar/ Manasse sonar/ a medal Manasse / Josephs sonar ætta / og þesse voru hans dætra nofn : Mahela/og Noah/ og Hogla/ og Milca og Tirza.
* C. 26/ 33. C. 36/ 2. Jos. 17/ 3.

2. Og þær stoodu fyrer Mose og fyrer Eleasar preste/ og fyrer hofdingiunum/

um/ og ollum almwganum / fyrer sam-
kunduñar tiallbwdar dyrum / og sogdu:
3. Vor fader er daudur i eydemork-
eñe / og hañ var ecke med a medal þess
sapnadar / sem giordu uppreisn * moot
Drottne i Korah flocke / þvi hañ **
deyde i siñe synd/ og hañ atte ongva so-
nu. : * c. 16/ 2. ** c. 16/ 29.
4. Þvi skal (þa) vors fodurs nafn
wteliklast af hañs ætt/ af þvi hañ atte
ecke eirn son ? gief oss eigendoom a med-
al vors fodurs brædra.
5. Og Mose * færde þeirra maal fyr
er Drottiñ. * 3. Mos. 24. 12/
6. Og Drottiñ sagde til Mose/seig
iande:
7. Zelaphads dætur hafa talad rieet/
þu skallt vyst giefa þeim arfa-goots med
al þeirra fodurs brædra / og þu skallt
snwa þeirra fodurs arfe til þeirra.
8. Og þu skallt tala til Israels barn-
na / og seigia : nær nockur madur deyr /
og æ ecke eirn son / þa skulud þier snwa
hañs arfe til hañs dootttur.
9. Og eige hañ ecke dootttur / þa skul
ud þier giefa hañs brædrum hañs arf.
10. Og eige hañ ecke brædur/ þa skul
ud þier giefa hañs fodur-brædrum hañs
arf.
11. Eñ eige hañ ecke fodur brædur /
þa skulud þier giefa hañs næsta frænda
af hañs ætt hañs arf/og hañ skal erfa
hañ / og þetta skal vera Israels bornum
* eirn tilskickadur riettur/ epter þvi sem
Drottiñ hefur bysalad Mose.
* C. 10/ 8. C. 19/ 10.
12. Og Drottiñ sagde til Mose : *
gack uppa þetta fiall Abarim / og siaa
landed/ sem eg hefe giefed Israels born
um. * 5. Mos. 32/ 48/ 49.
13. Og þu skallt siaa þad/og þu skallt
og so safnast til þyns foolks/lyka so sem
Aaron þiñ brooder * er safnadur.
* C. 20/ 28.
14. Af þvi þid vorud * myñum ord
um ohlydduger i þeirre eydemork Zin /
þañ tyd safnadureñ kyfade / þegar þid
skylldud helga mig fyrer vatned fyrer
þeim / Þad er. kyfs-vatned i Kades i
þeirre eydemork Zin. * c. 20/ 12. etc.
15. Og Mose talade til Drottens/
og sagde:
16. Willde Drottiñ / sem er * alls
holldz andaña Gud/ setia eirn mañ yfer
safnadeñ. * c. 16/ 22.
17. Sem * kyñe ganga wt fyrer þe-
im/ og sem kyñe ganga iñ fyrer þeim/og
sem kyñe færa þa wt/ og sem kyñe færa
þa iñ/ad Drottens sofnudur skyllde ecke
vera lyka sem sauderner / er hafa ecke
hyrder. * 5. Mos. 31/ 2. c. 34 / 9.
18. Og Drottiñ sagde til Mose : *
tak þier Josua Nuns son / eirn mañ i
hverium er eirn Ande/ og legg þyna hon
nd a hañ. * 5. Mos. 3/ 21.
19. Og * set hañ fyrer Eleasar
prest/ og fyrer þañ giorvallañ sofnud /
og gief honum byfalning fyrer þeirra
augum. * N. G. 6 / 6.
20. Og legg af þiñe vegsemd a hañ/
ad sa giorvallur Israels barna sofnud-
ur heyre (honum.)
21. Og hañ skal standa fyrer Elea-
sar preste/og bidia raads hañs vegna fyr
er * Urims skickan fyrer Drottne/ Ept
er hañs muñe skulu þeir ganga wt / og
epter hañs muñe skulu þeir ganga iñ /
hañ og oll Israels born med honum/ og
sa giorvallur safnadur.
* 2. Mos. 28/30. etc.
22. Og Mose * giorde so sem Drott
eñ hafde bysalad honum / og took Jo-
sua / og sette hañ fyrer Eleasar prest /
og fyrer þañ giorvallañ safnad.
* 2. Mos. 40/ 15.
23. Og * lagde syñar hendur a
hañ/og gaf honum byfalning/epter þvi
sem Drottiñ hafde talad fyrer Mose.
* C. 8/ 10. N. G. 8/ 17/ 18.

## XXVIII. Capitule.

Log um þad ad adskilianleg offur
Itrekast.



Og Drottiñ talade til Mo-
se/ og sagde:
2. * Biood Israels
bornum/ og þu skallt seig-
ia til þeirra: mitt offur/
mitt braud til mina elld-
offrana/

offrana/ ** (ja) wiss skalast ylm/skul
ud þier hallda/ ad offra mier þvi a sijn
um tijma. * 2. Mos. 27/ 20.
* 3. Mos. 3/ 3.

3. Og seig til þeirra : þetta er þad
elld-offur / sem þier skulud offra fyrer
Drottne / * lombum ars-gomlum utan
lyte/ hvorn dag tveimur til eins daglegs
brenne-offurs. * 2. Mos. 29/ 38/ 39.
Esr. 3/ 3.

4. Eitt lamb skalltu tilreida um mor
guned/ og þad annad lamb skalltu tilreida
i millum þeirra tveggia aptna.

5. Þar til tiunda partenn (af) einum
epha miøls til eins mat-offurs / bland-
ads med oleo / steyttu/ einum fioorda
(part) af einum hin.

6. Þad er eitt daglegt brenne-offur/
sem þier offrudud a Sinai fialle til eins
sæts ylms/ eitt elld-offur fyrer Drottne.

7. Og dryckiar-offur þar til / eirn
fioorda (part) af einum hin til þess eina
lambs / Uthell dryckiar-offursens ste-
rkum dryck i helgedoomenum fyrer
Drottne.

8. Og þad annad lamb skalltu reida til
i millum þeirra tveggia aptna/ eins sem
mat-offred um morguned/ og sem dryck-
iar-offred þar til skalltu tilreida þad/ þad
er eitt elld-offur til eins sæts ylms fyrer
Drottne.

9. Enn um sabbats dagenn tvo lomb
ars-gomul utan lyte / og tvo tiundu
(parta) miøls til eins mat-offurs bland-
ad med oleo/ og dryckiar-offur þar til.

10. Sem er hvørs sabbats brenne-off
ur a sijnum sabbat/ fyrer utan þad dag-
lega brenne-offur og dryckiar-offur þar
til.

11. Enn þa fyrstu daga i ydar manud
um skulud þier offra Drottne einu brenne
offre / tveimur ungum uxum / og einum
hrwt / sio lombum ars-gomlum utan
lyte.

12. Og * þremur tiundu ( portum )
miøls til mat-offursens/ blandad med oleo/
til hvørs uxa/ z tveimur tiundu (portum)
miøls til mat-offurs/ blandad med oleo
til hvørs hrwts. * v. 20/ 28.

13. Og vissulega einn tiunda (parte)
miøls til mat-offurs blandad med oleo
til hvørs lambs / Þad er eitt velluktan-
de brenne-offur / eitt elld-offur fyrer
Drottne.

14. Og dryckiar-offred þar til skal
vera eitt halfur hin ( vijns) til uxans /
og eirn þridie (partur) af einum hin til
hrwtsens/ og eirn fioorde (partur) af ein
um hin vijns til lambsens / Þetta er
brenne-offred a hvørium manade fyrer
manadena um ared.

15. Þar til med skal tilreidast * eirn
geit-hafur til synda-offurs fyrer Drott
enn / yfer þvi daglega brenne-offre med
sijnu dryckiar-offre. * c. 29 / 5 / 11.
16/ 22/ 28/ 31/ 38.

16. Enn a þeim fyrsta manade a
þann fioortanda dag i manadenum / eru
þad * paskar fyrer Drottne.
* 3. Mos. 23/ 5. ecc.

17. * Og a þeim fimtanda deige i
þeim sama manade er hatijd / madur skal
eta osyrdt ( braud ) i sio daga.
* 3. Mos. 23/ 6.

18. A þeim fyrsta deige skal vera *
ein heilog samkoma/ Þa skulud þier ecke
ert erfides verk giøra. * v. 25/ 26.

19. Og þier skulud offra einu elld-
offre/ ja einu brenne-offre fyrer Drott-
enn / tveimur ungum uxum og einum hr-
wt/ og sio lombum/ ars-gomlum / olyta
skulud þier hafa.

20. Med þeirra mat-offre / miøle
blondudu med oleo/ þremur tiundu (port
um) skulud þier tilreida til uxans/ og tvei
mur tiundu (portum) til hrwtsens.

21. Og vissi eirn tiunda (part) skallt
tu tilreida til hvørs lambs af þeim sio
lombum.

22. Þar til eirn hafur til synda-off
urs/ til ad giøra forlijkun fyrer ydur.

23 Fyrer utan brenne-offred um mor
guned/ sem er til þess daglega brenne-off
urs/ þier skulud giøra þad.

24 Epter þessum mata skulud þier
giøra hvørn dag i sio daga / þar skal til-
reidast braud til eins elld-offurs / ja

sæts ilms þ Drottne/ fyrer utañ þ dag-
lega breñe-offur z dryckiar-offur þar til.

25 Og a þeim siounda deige skal ve-
ra hia ydur ein heilog samkoma/ þa skul-
ud þier eckert erfides verk giøra.

26. Og a þess * fyrsta avaxtar-
deige / nær þier offred þad nya mat-offr-
re fyrer Drottne i ydar vikum / skal vera
hia ydur ein heilog samkoma / Þa skul-
ud þier eckert erfides verk giøra.
* C. 23/ 15/ 16/ 20.

27. Og þier skulud offra * breñe-
offre til eins sæts ilms fyrer Drottne /
tveimur ungum uxum / einum hrut / siø
lombum ars-gomlum. * C. 29/ 2/ 8.

28. Med þeirra mat-offre / miøle
blønduðu med oleo/ þremur tiundu (pør-
tum) til hvørs uxa / tveimur tiundu
(pørtum) til hvørs hruts.

29. Jta einum tiunda parte til hvørs
lambs af þeim siø lømbum.

30. Einum geit-hafur til ad giøra
forlikun fyrer ydur.

31. Þetta skulud þier giøra fyrer ut-
añ þad daglega breñe-offur med sinu
mat-offre/ þau skulu vera ydur utañ ly-
te / og þeirra dryckiar-offur.

## XXIX. Capitule.

### Offur a adskilianlegum Hatijdum.

OG * i þeim siounda mán-
ade/ a þeim fyrsta (deige)
fyrer mánadeñ skal vera
hia ydur ein heilog sam-
koma / þa skulud þier
eckert erfides verk giøra/
Þad skal vera ydur (Basunuñar)
hlioods dagur. * 3. Mos. 23/ 24.

2. Og * þier skulud giøra breñe-
offur til eins sæts ilms fyrer Drott-
eñ / eirn ungañ uxa / eirn hrut / siø
lomb/ ars-gomul utañ lyte.
* C. 28/ 11/ 19/ 27.

3. Þar til þeirra mat-offur / miøl
blandad med oleo/ þria tiundu (par-
ta) til uxans/ tvo tiundu (parta) til
hrutsens.

4. Og eirn tiunda part til hvørs
lambs af þeim siø lømbum.

5. Og * eirn geit-hafur til synda-
offurs til ad giøra forlikun fyrer yd-
ur. * C. 28/ 15/ 22.

6. Fyrer utañ þess mánadar breñe
offur og mat offur þar til/ og þad dag-
lega breñe-offur/ og sitt mat-offur/ og
þeirra * dryckiar-offur epter þeirra
sidvenju til eins sæts ilms/ eitt elld-offur
fyrer Drottni. * C. 28/ 14.

7. Og a * þeim tiunda (deige) i
þeim siounda mánade skal vera ydur
ein heilog samkoma/ og þier skulud þia
ydar sáler / þa skulud þier eckert verk
giøra. * 3. Mos. 16/ 29/ 30. etc.

8. Eñ þier skulud offra * breñe-
offre fyrer Drottni einum sætum ilm.
Einum ungum uxa / einum hrut/ siø
lombum / ars-gomlum / þau skulud
þier hafa utañ lyte. * v. 2.

9. Med þeirra mat-offre / miøle
blønduðu med oleo / þremur tiundu
(pørtum) til uxans / tveimur tiundu
(pørtum) til hvørs hruts.

10. Jta einum tiunda parte til
hvørs lambs/ af þeim siø lømbum.

11. Þar til einum * geit-hafur til
synda-offurs / fyrer utañ forlikunar-
eñar synda-offur/ og þad daglega breñe
offur / med sinu mat-offre / og þeirra
dryckiar-offre. * 3. Mos. 16. 11.

12. Og a þeim * fimtanda deige i
þeim siounda mánade skal vera ydur
ein heilog samkoma / þier skulud eckert
þrældooms verk giøra/ og þier skulud
hallda hátijd fyrer Drottneñ i siø daga.
* 2. Mos. 23/ 34. Joh. 7/ 2.

13. Og þier skulud offra breñe-off-
re / einu elld-offre / einne sætre ilman
fyrer Drottneñ / þrettan ungum ux-
um / * tveimur hrutum / fiortan
lombum ars-gomlum/ þau skulu vera
utañ lyte. * v. 17/ 20/ 23.

14. Og þeirra mat-offre / miøle
blønduðu med oleo / þremur tiundu
(pørtum) til hvørs uxa af þeim þrett-
an uxum / og tveimur tiundu (pørt-
um) til hvørs hruts/ af þeim tveim-
ur hrutum.

15. Og tijste einuna tiunda (parte) til hvers lambs af þeim fioortan lømbum.

16. Þar til einum geit-hafur til eins synda-offurs/ fyrer utañ þad daglega breñe-offur / sitt mat-offur / og sitt dryckiar-offur.

17. Og a ødrum deige tolf ungum uxum / tveimur hrwtum / fioortan lømbum/ ars-gømlum / utañ lyte.

18. Og þeirra mat-offre/ z þeirra dryckiar-offre til uxaña / til hrwtaña og til lambaña / i þeirra tølu / epter veniu.

19. Þar til einum geit-hafur til synda-offurs/ fyrer utañ þad daglega breñe-offur/ og sitt mat-offur/og þeirra dryckiar-offur.

20. Og a þeim þridia deige ellefu uxum / tveimur hrwtum / fioortan lømbum/ ars-gømlum/utañ lyte.

21. Og þeirra mat-offre/og þeirra dryckiar-offre til uxaña/ til hrwtaña/ og til lambaña / i þeirra tølu epter veniu.

22. Þar til einum hafur til synda-offurs/ fyrer utañ þad daglega breñe-offur/ og sitt mat-offur/ og sitt dryckiar-offur.

23. Og a þeim fioorda deige tiju uxum/tveimur hrwtum/fioortan lømbum/ ars-gømlum/ utañ lyte.

24. Þeirra mat-offre og þeirra dryckiar-offre / til uxaña / til hrwtaña / og til lambaña / i þeirra tølu epter veniu.

25. Þar til einum geit hafur til synda-offurs/ fyrer utañ þad daglega breñe-offur / sitt mat-offur og sitt dryckiar-offur.

26. Og a þeim fimta deige niju uxum/ tveimur hrwtum/ fioortan lømbum / ars gømlum/ utañ lyte.

27. Og þeirra mat-offre/og þeirra dryckiar-offre til uxaña / til hrwtaña og til lambaña/ i þeirra tølu epter veniu.

28. Þar til eiñ hrwtur til synda-offurs / fyrer utañ þad daglega breñe offur / og sitt mat-offur og sitt dryckiar-offur.

29. Og a þeim siøtta deige atta uxum/ tveimur hrwtum / fioortan lømbum/ ars-gømlum / utañ lyte.

30. Og þeirra mat-offre/og þeirra dryckiar-offre til uxaña/ til hrwtaña/ og til lambaña i þeirra tølu epter veniu.

31. Þar til einum hafur til synda-offurs/ fyrer utañ þad daglega breñe-offur/ sitt mat-offur/ og sitt dryckiar offur.

32. Og a þeim siøunda deige siø uxum/ tveimur hrwtū/ fioortan lømbū / ars-gømlum / utañ lyte.

33. Og þeirra mat-offre/og þeirra dryckiar offre til uxaña/ til hrwtaña og til lambaña i þeirra tølu / epter þeirra veniu.

34. Þar til einum hafur til synda offurs / fyrer utañ þad daglega breñe offur / sitt mat offur og sitt dryckiar offur.

35. A þeim attunda deige skal vera ydur * forbod/ þa skulu þier eckert þræl dooms verk viña. * 3. Mos. 23/ 36.

36. Og þier skulud offra breñe offre/ einu elld offre / einum sætum ylm fyrer Drottne / einum uxa / einum hrwt/ siø lømbum / ars gømlum / utañ lyte.

37 Þeirra mat offre og þeirra dryckiar offre til uxans til hrwtsens og til lambaña / i þeirra tølu epter veniu.

38. Þar til einum hafur til synda offurs / fyrer utañ þad daglega breñe offur / og sitt mat-offur og dryckiar-offur.

39. Soddañ skulud þier giøra Drottne a ydar tilsettum tijmum / fyrer utañ þad/ sem þier hafed lofad/ og af ydar frijvilia giefed. til ydar breñe-offurs / og ydar mat-offurs/ og

til ydar dryckiar offurs / og til ydar packlætes offurs.

## XXX. Capitule.

Loggenn um Heitenn sem skulu halldast og ecke halldast.



Og Mose sagde til Israels barna epter ollu þessu / sem Drottenn hafde bijfalad Mose.

2. Og Mose talade til hofudsmañanna fyrer Israels barna kynkvijslum/ og sagde: Þetta er þad ord / sem Drottenn hefur bijfalad.

3. Nær eirn madur * heiter Drottne sinu heite/ eda sver eirn eyd/ so hañ fastlega skulldbindur sig uppa sijna sal/ hañ skal ecke raska sijnu orde/ hañ skal giora epter ollu þvi / sem er wtgeinged af hañs Muñe.

*3. Mos. 27/2. 5. Mos. 23/21. Pred. 5/3/4.

4. Og nær ein kvinna heiter Drottne heite / og skulldbindur sig fastlega i sijns fodurs hwse i sijnum ungdoome.

5. Og heñar fader heyrer heñar heit og heñar heitstreinging / sem hun hefur skulldbunded sig med uppa sijna sal/ og heñar fader þeiger þar vid/ þa skulu oll heñar heit halldast/ og oll su heitstreinging / sem hun hefur skulldbunded sig med / uppa sijna sal / skal halldast.

6. Eñ giore heñar fader þad ad aungvu / a þeim deige / sem hañ heyrer oll heñar heit/ og heñar heitstreingingar / sem hun hafde skulldbunded sig med uppa sijna sal / Þa skal þad ecke halldast / og Drottenn skal vera heñe nadugur / af þvi heñar fader hefur giort þad ad eingu.

7. Eñ ef hun er aldeiles i mañs fiarhallde / og hun hefur lofad uppa sig/ eda heñe hrijtur af heñar vorum/ med hvorju hun skulldbindur sig uppa sijna sal.

8. Og heñar madur heyrer þad / og þeiger vid þvi / a þeim deige hañ heyrer þad/ þa skulu heñar heit halldast/ og heñar heitstreinging / sem hun hefur skulldbunded sig med uppa sijna sal/ skulu halldast.

9. Eñ giore heñar madur þad ad aungvu/ a þeim deige/ hañ heyrer þad/ og raskar heñar heite / sem er a heñe / og þvi sem heñe er wtslopped af vorum/ med hvorju hun hefur skulldbunded sig uppa sijna sal/ Þa skal Drottenn vera heñe nadugur.

10. Eñ ef ein eckia / eda ein wtskvfud (heiter) nockru / þa skal allt þad/ sem hun skulldbindur sig med uppa sijna sal / halldast yfer heñe.

11. Eñ lofade hun þvi i sijns mañs hwse/ eda skulldbatt sig med eirnre heitstreinging uppa sijna sal / fyrer eirn eyd.

12. Og heñar madur heyrde þad / og þagde þar vid / og giorde þad ecke ad eingu / þa skulu allar heñar lofaner halldast/ og oll su heitstreinging/ sem hun skulldbindur sig med uppa sijna sal/ skal halldast.

13. Eñ raske heñar hwsshoonde þvi aldeiles a þeim deige hañ heyrer þad/ þa skal allt þad/ sem er wtgeinged af heñar vorum / vidvijkiande heñar lofan / og heñar salar heitstreinging / ecke halldast / heñar madur hefur raskad þvi/ og Drottenn skal vera heñe nadugur.

14. Allar lofaner og hvern heitstreingingar eyd/ til ad þija eina sal med / þad mæ heñar madur stadfesta/ og þvi mæ heñar madur raska.

15. Og ef heñar Madur þeiger olldunges þar vid þañ eina dag epter þañ añañ/ þa stadfester hañ oll heñar heit og allar heñar heitstreingingar / sem hun hefur a sier/ þær stadfester hañ/ af þvi hañ þagde þar vid þañ dag hañ þad heyrde.

16. Eñ raske hañ þeim olldunges sijdañ ad hañ hefur þad heyrt / þa skal hañ bera heñar yfertrodslur.

17. Þessar eru þær skickaner / sem Drottenn byfalade Mose i millum mañs og hans kuiñu / i millum fodursens og hans dooktur / þa stund hun er ung i syns fodurs hwse.

XXXI. Capitule.

Israels Børn fa Sigur yfer Midianitunum og ødlast stoort Herfang.



g Drottenn talade til Mose / og sagde:

2. Hefn þu vissulega * Israels barna a Midianitunum / ** sidan skalltu safnast til þyns foolks. * C. 25/ 17. ** C. 27/ 13.

3. Þa talade Mose til foolksens / og sagde: vopned af foolkenu a medal ydar til strijds / ad þeir drage a moote Midianitunum / ad hefna Drottens a Midianitunum.

4. Eina þusund af hvørre kynkvijsl / (jæ) af øllum Israels ættkvijslum skulud þier skicka til strijds.

5. Og þeir tooku af Israels þusundum / eitt þusund fyrer hvøria kynkvijsl / toolf þusunder vopnada til strijds.

6. Og Mose sende þa / þusund fyrer hvøria kynkvijsl til strijdsens / þa og * Pinehas Eleasars prests son til strijds / og þa heiløgu bunade og hlioodsens ** basunur i hans hende. * C. 25/ 7. ** C. 10/ 9.

7. Og þeir strijddu i moot Midianitunum so sem Drottenn hafde byfalad Mose / og * i hel sloou allt kallkyn. * 1. Mos. 34/ 25.

8. Þar ad auk sloou þeir Midianitana konunga i hel yfer þrra i helslegnum / (sem voru) * Evi og Rekem / og Sur / og Hur / og Reba / fim Midianitana konunga / Og þeir sloou ** Bileam Beors son i hel med sverde. * Jos. 13/ 21. ** 4. Mos. 22. 5.

9. Og Israels børn tooku Midianitana hustrur og þeirra børn fangen / og allan þeirra kuikfienad / og allt þeirra fæ / og øllu þeirra gootse rændu þeir.

10. Og alla þeirra stader / sem þeir bygdu i / og øll þeirra slot uppbrendu þeir med ellde.

11. Og þeir tooku allt Herfanged / og allt þad þar var ad taka af mañeskiunum og af fienadenum.

12. Og færdu til Mose og til Eleasar prests / og til Israels barna samkundu / fangana / og þad sem var tekid og rændt / til herbudaña a Moabitaña mørkum / sem er hia Jordan giegnt Jericho.

13. Og Mose og Eleasar prestur / og aller høfdingiarner fyrer safnadenum geingu wt i moote þeim burt wt fyrer herbuderna.

14. Og Mose vard reidur uppa høfudsmiñena yfer søma her / uppa þa / sem voru yfer þusund og yfer hundrud / þa sem komu af þeim strijds her.

15. Og Mose sagde til þeirra: hafed þier læted hvøria kuiñu lifa?

16. Sia / þessar voru (ordsøk) fyrer Israels børnum fyrer * Bileams raad / ad koma þeim til ad syndga i moot Drottne fyrer Peors høndlunar skulld / hvar fyrer plaagañ var i Drottens samkundu. * C. 25/ 1.

17. So slaaed nu allt kallkyn i hel a medal barnaña / og slaaed allar kuiñurnar i hel / sem hafa kiendt mañ / ad liggia hia kallkyne.

18. En øll børnenn af kueñ kynenu / sem ecke hafa kiendt mañs sambland læted lifa fyrer ydur.

19. Og setied herbuder ydar utañ fyrer herbudunum / * i siø daga / aller þier sem hafed sleiged nøckra persoonu i hel / og aller sem ** hafa snert nøckurn / sem er sleigeñ / skulu hreinsast a þeim þridia deige og a þeim siøunda deige / þier og ydar fangar. * 3. Mos. 15/ 13. ** 4. Mos. 19/ 11/ 18.

20. Og allt klæde og allur bunadur af skiñe / og allra handa verk af

geita

geitarskinne / og allra handa trie-kier
skulud þier hreinsa.
21. Og Eleasar prestur sagde til
strijds foolksens / þeirra sem voru dreg
ner i strijded: þesse er lagana skickan /
sem Drottenn hefur bijfalad Mose.
22. Gulled alleinasta og silfred /
koparenn / iarned / tined og blijed /
23. Alla þa hlute / sem kuña ad þo-
la elldenn / skulud þier draga i giegnum
elldenn / ad þad hreinsest / þo skal þad
verda hreint fyrer fraskilnadar vatn-
ed / Enn allt þad / sem ecke kann þola
elldenn / skulud þier draga i giegnum
vatned.
24. Og þier skulud þvo ydar klæde
a þann siøunda dag / og vera hreiner /
og þar epter skulud þier koma i her-
budernar.
25. Og Drottenn talade til Mose /
og sagde:
26. Tak summuna a fanganna her
fange / af manneskiunum og af fienade /
þu og Eleasar prestur / og þeir ypp-
urstu fedur fyrer søfnudenum.
27. Og þier skulud * skipta þui
(gotse /) sem er teked / i millum strijds-
manñana / þeirra sem voru utfarner i
strijded / og i millum alls safnadarens.
* Jos. 22 / 8. 1. Sam. 30 / 24.
28. Og þu skallt lipta einum parte
fyrer Drottne fra strijds mønnunum /
sem voru farner i strijded / eirne saalu
af fimm hundrudum / af manneskiunum /
og af nautunum / og af øsnunum / og
af saudunum.
29. Og af þeirra haalf parte skul-
ud þier taka þad / og þu skallt afhen-
da Eleasar preste Drottens upp-
lipting.
30. Og þu skallt taka af Israels
barna haalfum parte / eirn part af hvør
ium fimtijger / af manneskiunum / af
nautunum / af øsnunum og af saud-
unum / af øllum fienadenum / og af-
henda Levitunum þa / sem taka kost-
giæfelega vara a Drottens tiallд-
bud.
31. Og Mose og Eleasar prestur
* giørdu so sem Drottenn hafde bijfal-
ad Mose. * 1. Mos. 6 / 22.
2. Mos. 7 / 10.
32. Og (gotsed /) sem var teked /
þad sem var yfer af herfanganu / sem
strijds fooked hafde rænt / var saud-
er sex hundrud þusund / og siøtiju þu-
sund og fimm þusund.
33. Og uxar tvær og siøtijger þu-
sunder.
34. Og asnar eirn og sextiju þu-
sunder.
35. Og þær manneskiunnar persoon-
ur af kvennfoolkenu / sem ecke høfdu
kennt karlkyns samband / allar per-
soonur / voru tvær og þriatiju þu-
sunder.
36. Og haalfur parturenn / sem var þeir-
ra hlute (er) þar voru utgeingner til
strijdsens / voru i tølunne / sauder þriu
hundrud þusund og þriatiju þusund og
siø þusund og fimm hundrud.
37. Og sa hlute til Drottens af saud
unum / var sex hundrud fimm og siøtijger.
38. Og uxarner sex og þriatiju þus-
under / og sa hlute af þeim til Drottens /
tveir og siøtiju.
39. Og asnar þriatiju þusund og
fimm hundrud / Og sa hlute af þeim til
Drottens / eirn og sextijger.
40. Og manneskiunnar persoonur / sex
tan þusunder / Og sa hlute af þeim til
Drottens / tvær og þriatiju persoonur.
41. Og Mose afhendte Eleasar
preste Drottens upplyptingar hluta / so
sem Drottenn hafde bijfalad Mose.
42. Og af Israels barna haalfum
parte / sem Mose skipte unde suundur fra
strijdsmønnunum.
43. Jtem safnadarens haalf-partur var
af saudunum þriu hundrud þusund og
þriatiju þusund / siø þusund og fimm hun-
drud.
44. Og uxar sex og þriatiju þus-
under.
45. Og asnar þriatiju þusunder og
fimm hundrud.

46. Og manneskiana persoonur sextan þusunder.

47. Og Mose took af Israels barna helminge/ þan eina part af fimtigu/ (bæde) af manneskiunum og af fienadenum/ og afhendte Levitunum þa/ sem tooku kostgiæfelega vara á Drottens tialldbwd/ so sem Drotten hafde bifalad Mose.

48. Og þar geingu fram til Mose/ þeir sem voru setter yfer þusunder i herenum/ hofdingiar yfer þeim þusundum/ og hofdingiar yfer þeim hundrudum.

49. Og sogdu til Mose: þijner þienarar hafa teked summu a stridsfoolkenu/ sem var under vorum hondum/ og þar vantade ecke eirn mann þar af.

50. Þar fyrer opprum vier Drottens offre/ hvor sa/ sem hefur funded/ gull kier/ (hosu)band/ og (arm)spøng/ hrijnga/ eyrna-hrijnga/ og (linda)belltie/ til ad giora forlijkun yfer vorum sálum fyrer Drottne.

51. Og Mose og Eleasar prestur medtooku af þeim sama gull/ jæ allra handa giort smijde.

52. Og allt uppliftingarennar gull/ sem þeir uppliftu fyrer Drotten/ voru sextan þusund sio hundrud og fimtigu seklar/ af hofdingiunum yfer þeim þusundum og hofdingiunum yfer þeim hundrudum.

53. Stridsmennerner hofdu rændt þvi/ hvor fyrer sig.

54. Og Mose og Eleasar prestur medtooku gulled af hofdingiunum yfer þeim þusundum/ og þeim hundrudum/ og færdu þad inn i samkundunnar tialldbwd/ Israelsbornum til eirnrar minningar fyrer Drottne.

XXXII. Capitule.

Nockrer af Israels Bornum Oska og fa þad Land/a þessa Sijdu Jordanar.



g Rubens born og Gads born hofdu aldelles mykid og sterki kvikfie/ og þeir sau þad land Jaeser/ og þad land Gilead/ og sia/ sa stadur var eirn (hagkvæmur) stadur til kvikfiar.

2. Og Gads born og Rubens born komu/ og sogdu til Mose og til Eleasar prests/ og til hofdingianna fyrer søfnudenum/ seigiande:

3. Atharoth/ og Dibon/ og Jaeser/ og Nimra/ og Hesbon/ og Eleale/ og Sebam/ og Nebo/ og Beon.

4. Þad land/ sem Drotten hefur slegid fyrer Israels søfnude/ þad er eitt land fyrer kvikfie/ og þijner þienarar hafa kvikfie.

5. Og þeir sogdu (framveiges:) hofum vier funded nad fyrer þier/ þa lat giefast þijnum þienurum þetta land til eigendooms/ ad þu skuler ecke fæta oss yfer Jordan.

6. Þa sagde Mose til Gads barna/ og til Rubens barna: skulu ydar brædur draga i striided/ og þier skulud vera hier?

7. Og þvi * umsnwed þier Israels barna hiortum/ fra ad fara yfer um til þess lands/ sem Drotten hefur giefed þeim? * 5. Mos. 1/ 28.

8. So giordu ydar fedur/ þa eg * sende þa af Kades Barnea/ til ad sia landed. * c. 1/ 4. 5. Mos. 9/ 23.

9. Og þa þeir voru * komner upp til Escols lækiar/ og sau landed/ þa ** umsneru þeir Israels barna hiortum/ ad þeir villdu ecke koma i landed/ sem Drotten hafde giefed þeim.
* C. 13/ 24. ** C. 13/ 28. etc.

10. Og Drottens reide vard hastarleg a þeim sama deige/ og hann soor/ og sagde:

11. Þesser * menn/ sem eru uppgeingner af Egyptalande/ fra tuttugu ara gomlum og yfer/skulu ecke sia þad land/ sem eg hefe svared ** Abraham/ Isaac og Jakob/ þvi þeir hafa ecke fullkomlega fylgt mier. * c. 26/ 65.
** 1. Mos. 50/ 24. 2. Mos. 33/ 1.

12. Vndanteknum * Caleb/ Jephune þess Kenita syne/ og Josua Nuns syne/ þvi þeir hafa fullkomlega fylgt Drottne. * 14/ 30.

13. J þann mata vard Drottens reide grimm yfer Israel/ og hann liet þa rafa

hyngad og þangad i eydemørkenne fiøru-
tyu aar/ þar til øll þeirra ætt aldeiles fyr-
erfoorst / sem giørde illa fyrer Drottens
augum.

14. Og sia þier erud uppgeingner i
ydar fedra stad / eitn flockur syndugs
foolks/ ad giora enn nu Drottens hastar-
lega reide stærre i giegn Israel.

15. Þvi þar sem þier snwed ydur til
baka fra hønum / þa mun hann enn nu
leingur læta hann ganga i eydemørkenne /
og þar med fordiarfed þier allt þetta
foolk.

16 Þa geingu þeir fram til hans /
og sogdu : vier villium alleinasta byggia
fiaar-hws hier fyrer vorn fienad / og
stade fyrer vor børn.

17 Enn vier villium vopna oss fremst
fyrer Israels børnum / þar til ad vier
færum þau til þeirra stada / Vor børn
skulu vera i þeim føstu stødum fyrer land
sens innbyggiara saker.

18 Vier villium ecke fara heim apt-
ur/ fyrr enn Israels børn inntaka hver sinn
arf.

19 Þvi vier villium ecke erfa med þe-
im/ þar fyrer handann Jordan/ og framm
betur / enn vor arfur skal falla oss til *
hierna meigenn moot austre.

* 5. Mos. 3/ 12.

20 Og Mose sagde til þeirra : þar
ed þier villied giora þenann giørning / ad
þier villied * vopna ydur til strijds fyrer
Drottne. * Jos 1/ 13 c 4/ 12.

21 Og þier villied sierhver vopnadur
medal ydar fara yfer Jordan fyrer
Drottne / þar til hann burt rekur sijna
fiandmenn fra sijnu auglite :

22 Og landed verdur fyrer Drottne
underlagt/ og þar epter snwa vid aftur/
þa skulud þier vera saklauser fyrer Drott-
ne og fyrer Israel / og so skulud þier ha-
fa þetta land til eigendooms fyrer
Drottne.

23. Enn vilie þier ecke so giora/ sia/
þa hafed þier syndgad a moote Drott-
ne/og vited ad ydar synd skal finna ydur.

24. (So) bygged ydar stade fyrer yd-
ar børn og hws / fyrer ydar fienad/ og
giøred so sem þier hafed sagt.

25. Og sierhver af Gads børnum
sogdu til Mose/ seigiande : þijner þien-
arar skulu giora so sem minn herra hef-
ur bijfalad.

26. Vor børn / vorar husfruur / vor
bw/ og allt vort fie/skal vera þar i þeim
Gilead stødum.

27. Enn þijner þienarar villia aller
fara yfer um / eitn vopnadur her / til
strijds fyrer Drottne / sem minn herra
seiger.

28. Þa baud Mose þeirra vegna
Eleasar preste / og Josua Nuns syne /
og þeim yppurstu fedrum fyrer Israels
barna ættkvijslum.

29. Og Mose sagde til þeirra : *
nær Gads børn og Rubens børn fara
med ydur yfer um Jordan/ aller vopnad-
er til strijds fyrer Drottne / og landed er
ydur underlagt/þa giefed þeim þad land
Gilead til eigendooms. * Jos. 4/ 12.

30. Enn fare þeir ecke vopnader med
ydur / þa skulu þeir taka arf med ydur i
Canaans lande.

31. Gads børn og Rubens børn svør-
udu / og sogdu : hvad Drottenn talar til
þinna þienara/ so villium vier giora.

32. Vier villium fara vopnader fyr-
er Drottne yfer i þad land Canaan /
og settast ad voru arfa-gotse hierna meig
enn Jordanar.

33. So * gaf Mose þeim (þad er)
Gads børnum og Rubens børnum / og
helmingenum af Manasse / Josephs
sonar ættkvijsl / Sihon þess Amoriska
konungs rijke / og Ogs konungsens af
Basans rijke / landed med sijnum stød-
um a takmørkunum/ (ia) stadena i land
enu umhverfes. * 5. Mos. 3/ 12.

C. 29/ 8. Jos. 13/ 8. C. 22/ 4/ 7.

34. So byggdu Gads børn Dibon /
og Atharoth/ og Aroer.

35. Og Athroth/ Sophan/og Jaeser / og Jagbea.

36. Og Bethnimra / og Betaran /
fasta stade og fiaarhws.

37. Og

37. Og Rubens born bygdu Hesbon og Eleale / og Kiriataim.

38. Og Nebo/ og BaalMeon / sem þeir sneru nafnenu um a/ og Sibma/og þeir gafu stodunum nofn/ hvorium sitt nafn/ sem þeir bygdu.

39. Og * Machirs born/ Manasse sonar geingu inn i Gilead/ og inntoku hana/og þeir wtræku Emoritana/sem þar voru i. * 1. Mos. 50/ 23.

40. Þa gaf * Mose Machir Manasse syne/ Gilead / og hann bioo þar i. * ps. 60/ 9.

41. Enn * Jair Manasse son/ gieck burt / og took þeirra lands þorp inn / og kallade þa Havoth Jair. * Dom. 10/4.

42. Og Nobah gieck burt / og tock Kenat inn/ og hennar tillæga ( stade/ )og kallade hana Nobah / epter sinu nafne.

## XXXIII. Capitule.

### Upptekning a Israels Barna Reisu fra Egyptalande til Jordanar.

Þessar eru Israels barna reisur / sem voru wtfarner af Egyptalande / epter þeirra her / fyrer Mose og Aaron.

2. Og Mose skrifade þeirra wtfør / hvornenn þeir reistu epter Drottens befalningu / Og þessar eru þar reisur/ sem þeir ferdudust.

3. Og þeir reistu fra * Raemses i þeim fyrsta mánade a þann fimtanda dag i þeim fyrsta mánade / A ødrum paska deige wtgeingu Israels born med upplyftre hende / fyrer allra Egyptskra augum. * 2. Mos. 12/37.

4. Og þa grofu Egyptarner alla frumburde / sem Drottenn hafde slegid a medal þeirra/Og Drottenn hafde (enn) giefid doom * yfer þeirra gudum. * Ex. 19/1.

5. Og Israels born reistu fra * Raemses/og settu sinar herbuder i Succot. * 2. Mos. 12/37.

6. Og reistu fra * Succot/ og settu sinar herbuder i Etham / sem er yðst i eydemorkenne. * 2. Mos. 13/ 20.

7. Og reistu af Etham/og sneru vid til Pihachirot / sem er gegnt Baal Zephon/ og settu sinar herbuder gagnvart Migdol.

8. Og reistu fra * Pihachirot/ og geingu midt i gegnum hafed burt i eydemorkena / og reistu þriggia daga reisu i Ethams eydemorku/og settu sinar herbuder ** i Mara. * 2. Mos. 14/ 22. ** 2. Mos. 15/ 23.

9. Og reistu af Mara / og komu til * Elim/ Og i Elim voru tolf vatns uppsprettur/ og siotiu palmavidar triæ/ Og settu sinar herbuder þar. * 2. Mos. 15/ 27.

10. Og þeir reistu fra Elim/og settu sinar herbuder hia þui rauda hafe.

11. Og reistu fra þui rauda hafe / og settu sinar herbuder i þeirre * eyde mork Zin. * 2. Mos. 16/ 1.

12. Og reistu fra þeirre eydemork Zin/ og settu sinar herbuder i Dophka.

13. Og reistu fra Dophka / og settu sinar herbuder i Alus.

14. Og reistu fra Alus / og settu sinar herbuder * i Raphidim / og þar hafde folked ecke vatn ad drecka. * 2. Mos. 17/ 1.

15. Og þeir reistu fra Raphidim/ og settu sinar herbuder i * Sinai eydemork. * 2. Mos. 19/ 1.

16. Og reistu af Sinai eydemork / og settu sinar herbuder i * gyrndargrofum. * c. 11/ 34/ 35.

17. Og reistu fra gyrndarennar grofum/og settu sinar herbuder i * Hazerot. * C. 11/35.

18. Og reistu fra * Hazerot/ og settu sinar herbuder i Ritma. * c. 13/ 1.

19. Og reistu fra Ritma / og settu sinar herbuder i Rimon Parez.

20. Og reistu fra Rimon Parez/ og settu sinar herbuder i Libna.

21. Og reistu fra Libna/ og settu sinar herbuder i Rissa.

22. Og reistu fra Rissa/ og settu sinar herbuder i Kehelata.

23. Og reistu fra Kehelata / og settu sinar herbuder a Saphers fialle.

24. Og

24. Og reiſtu fra Saphers fialle /
og ſettu ſijnar herbuder i Narada.
25. Og reiſtu fra Narada / og ſettu
ſijnar herbuder i Makeelot.
26. Og reiſtu fra Makeelot/og ſettu
ſijnar herbuder i Tahath.
27. Og reiſtu fra Tahath / og ſettu
ſijnar herbuder i Tharah.
28. Og reiſtu fra Tharah / og ſettu
ſijnar herbuder i Mitka.
29. Og reiſtu fra Mitka / og ſettu
ſijnar herbuder i Haſmona.
30. Og reiſtu fra Haſmona/ og ſettu
ſijnar herbuder i Moſerot.
31. Og reiſtu fra Moſerot/ og ſettu
ſijnar herbuder i BenJaakan.
32. Og reiſtu fra BenJaakan / og
ſettu ſijnar herbuder i Horhagidgad.
33. Og reiſtu fra Horhagidgad/ og
ſettu ſijnar herbuder i Jothbata.
34. Og reiſtu fra Jothbata / og
ſettu ſijnar herbuder i Abrona.
35. Og reiſtu fra Abrona/og ſettu
ſijnar herbuder i Ezeongaber.
36. Og reiſtu fra Ezeongaber/ og
ſettu ſijnar herbuder i þeirre eydemør-
ku * Zin/ þad er Kades. * c. 20/ 1.
37. Og reiſtu fra Kades / og ſettu
ſijnar herbuder hia þui fialle Hor/
hia Edoms lands ydſta.
38. Þar * gieck preſturenn Aaron
uppa þad fiall Hor / epter Drottens
byfalning/ og deyde þar / a þui fertug
aſta are / epter ad Iſraels børn wt-
geingu af Egyptalande/ i þeim fimta
maanade a þann fyrſta (dag) i maanad
enum. * c. 20/ 25. etc.
39. Og Aaron var hundrad og
þriggia og tuttugu ara gamall / þa
hann deyde a þui fialle Hor.
40. Og * Aarad Cananitanna kon-
ungur heyrde þad / og hann bioo ſunnan
verdt i þui lande Canaan/ ad Iſraels
børn komu. * c. 21/ 1.
41. Og þeir reiſtu fra þui fialle
Hor / og ſettu ſijnar herbuder i Zal-
mona.
42. Og reiſtu fra Zalmona / og
ſettu ſijnar herbuder i Phunon.
43. Og reiſtu fra Phunon / og
ſettu ſijnar herbuder * i Oboth.
* C. 21/10.
44. Og reiſtu fra Oboth / og ſettu
ſijnar herbuder * i Jje Abarim / i
Moabitanna landamerke. * c. 21 / 11.
45. Og reiſtu fra Jjim / og ſettu
ſijnar herbuder i Dibon Gad.
46. Og reiſtu fra Dibon Gad/ og
ſettu ſijnar herbuder i Almon Dib-
lataim.
47. Og reiſtu fra Almon Diblata-
im / og ſettu ſijnar herbuder a Aba-
rims fialle giegnt Nebo.
48. Og reiſtu fra Abarims fialle/
og ſettu ſijnar herbuder a Moabitanna
mørk vid Jordan giegnt Jericho.
49. Enn þeir ſettu ſijnar herbuder
hia Jordan fra Bet Jeſimot til Abel
* Sittim/ a Moabitanna mørk.
* C. 25/1.
50. Og Drottenn talade til Moſe
a Moabitanna mørk hia Jordan gieg-
nt Jericho / og ſagde:
51. Tala þu til Iſraels barna/ og
ſeig til þeirra: nær * þier erud geing-
ner yfer umm Jordan/ inn i Canaans
land. * 2. Moſ. 23/ 31.
5. Moſ. 7/ 2. Joſ. 11/ 12.
52. Þa ſkulud þier burt reka alla
innbyggiara i landenu fyrer ydur / og
eydeleggia øll þeirra (maalud) bijlæte /
og eydeleggia øll þeirra ſteypt bijlæte/
og nidur brioota allar þeirra hæder.
53. Og þier ſkulud inntaka landed/
og bwa þar i / þui eg hefe giefed ydur
landed/ til ad eiga þad.
54. Og þier ſkulud ſkipta landenu
* fyrer hlute / a medal ydar ætta/ ſa
ſem hefur marga / hans arf ſkalltu
auka/ og ſa ſem hefur faa/ hans arf
ſkallt þu mijnka / ſem hlutурenn fellur
ydur þar hvørium til/ ſo ſkal hann bij-
halla þui / Epter ydar fedra ætt-
kvijſlum/ ſkulud þier erfa. * c. 26/ 55.
Joſ. 14/ 2.
55. Og ef þier ecke burt reked land-

sens inbyggiara fra ydar auglite / pa skal sa / sem þier læted verda epter af þeim / verda * til þyrna i ydar augum / og til gadda i ydar sydum / og þeir skulu þiaa ydur i þvi lande / sem þier bwed i. * Dom. 2/ 3.

56. So skal þad skie / ad so sem eg þeinkte ad giøra vid þa / skal eg giøra vid ydur.

## XXXIV. Capitule.

### Canaans Lands Takmørk og Landamerke.



g Drottenn talade til Mose / og sagde:

2. * Biood þu Israels børnum / og seig til þeirra : med þvi þier komed i Canaans land / pa skal þad land / sem ydur skal falla til arfs / ( vera ) Canaans land * * med sijnum landamerkium.

* 2. Mos. 27/ 20. * * 2. Mos. 23/ 31.

3. Og þad sidra horn skal vera ydur fra þeirre * eydemørk Zin / hia Edoms sijdu / og ydar landamerke skal vera i sudur fra endanum a þvi sallta hafe / sem liggur austur epter.

* Jos. 15/ 1.

4. Og landamerked fra sudre skal ganga fyrer ydur umm kring / þangad upp moot Akrabbim / og ganga i giegnum til Zin / og hafa sijnar wtgaungur fra sudre til Kades Barnea / og breida sig wt til Naser Adar / og ganga yfer til Azmon.

5. Og landamerked skal naa umm kring fra Azmon til Egypti lækiar / og wtgangurenn þar a skal vera til hafsens.

6. Og eitt landamerke ad vestann / og þad skal vera ydur þad stoora haf / og þetta landamerke skal vera ydar landamerke vestur epter.

7. Og þetta skal vera ydur eitt landamerke i nordur / þier skulud mæla til ydar fra þvi stoora hafe / til þess fialls Nor.

8. Fra þvi fialle Nor skulud þier mæla / þar til mann kiemur til * Namat / ad landamerked skal endast vid Zedad. * C. 13/ 22.

9. Og ( sijdann ) skal landamerked ganga wt til Siphron / og þad skal endast hia Nasar Enan / þetta skal vera ydar landamerke nordur epter.

10. Og þier skulud mæla ydar landamerke austur epter / fra Chasar Enan til Sepham.

11. Og landamerked skal ganga nidur fra Sepham til Ribla fra austre til Ain / og (þar epter) skal landamerked ganga nidur / og beigia sig til sijdunnar a * Cinnerets hafe austur epter.

* 5. Mos. 3/ 17.

12. Og landamerked skal ganga nidur til Jordan / ad þad skule endast vid þad sallta haf / þetta skal vera ydur þad land med sijnum landamerkium umm hverfes.

13. Og Mose baud Israels børnum / og sagde : þetta er þad land / sem þier skulud erfa epter hlutfalle / hvørt Drottenn baud umm ad giefa þeim niju ættkvijslum og þeirre halfre ættkvijsl.

14. Þvi þær * Rubenita barna ættkvijsler epter þeirra fødurs hwse / og þær Gaddita barna ættkvijsler epter þeirra fødurs hwse hafa feinged / og Manasse half ættkvijsl hafa feingid þeirra arf. * C. 32/ 33.

15. Þær tvær ættkvijsler og su half ættkvijsl hafa feinged þeirra arf * þessu meigenn Jordanar giegnt Jericho fyrer framann moot austre.

* C. 32/ 32.

16. Og Drottenn talade til Mose / og sagde:

17. Þesse eru nøfnenn a þeim mønnum sem skulu skipta til ydar landenu / * Eleasar prestur og * * Josua Nuns son. * Jos. 14/ 1. C. 21/ 1.

* * 5. Mos. 1/ 38.

18. Og vissulega eirn høfdingia af hvørre ættkvijsl skulud þier taka til

ad

ad wtdeila landenu.

19. Og þesse eru nøfneñ a þeim sømu møñum: af Juda ættkvijsl Caleb Jehunne son.

20. Og af Simeons barna ættkvijsl/ Semuel Amiuds son.

21. Af BenJamins ættkvijsl/ Elidab Chislons son.

22. Af Dans barna ættkvijsl/ eirn høfdinge Bukki Jogli son.

23. Af Josephs børnum / af Manasse barna ættkvijsl / eirn høfdinge Haniel Ephons son.

24. Og af Ephraims barna ættkvijsl / eirn høfdinge Kemuel Siphthans son.

25. Og af Sebulons barna ættkvijsl eirn hofdinge Elizaphan Parnaes son.

26. Og af Jsascars barna ættkvijsl / eirn høfdinge Paltiel Asans son.

27. Og af Asers barna ættkvijsl / eirn høfdinge Ahiud Selomi son.

28. Og af Napthali barna ættkvijsl/ eirn høfdinge Pedael Ammiuds son.

29. Þesser eru þeir/ sem Drottenn baud ad skipta arfe i millum Jsraels barna i Canaans lande.

## XXXV. Capitule.

Løg um̃ Levitaña Stade / um̃ Frij Stade fyrer Mañdræpara / sem Oforvarandes sloou nockra i Hel.



Og Drottenn talade til Mose a þeim Moabita mørkum / hia Jordan giegnt Jericho/ z sagde:

2. * Biood þu Jsraels børnum/ ad þau giefe ** Levitunum af þeirra arfagotse stade ad bwa i. Þar til skulu þier giefa til Levitaña forstade til stadaña/ allt um̃ kring þa. * c. 28/2. c. 34/2. ** Jos. 21/ 2.

3. Ad þeir kuñe hafa stadena til ad bwa i/ og þeirra forstader kuñe ad vera fyrer þeirra fienad / og fyrer þeirra naut/ og fyrer allar þeirra bestiur.

4. Og stadaña forstader/ sem þier skulud giefa Levitunum / (skulu vera) fra stadar mwrnum / og þar utañ fyrer / þusund ælner allt um̃ kring.

5. So skulu þier mæla utañ fyrer stadnum / fra þvi horne austur epter tvo þusund ælner / og fra þvi horne sudur epter tvo þusund ælner / og fra þvi horne vestur epter tvo þusund ælner / og fra þvi horne nordur epter tvo þusund ælner / og stadureñ skal vera þar midt i/ Þetta skal vera þeim stadaña forstader.

6. Og (af) stødunum/ sem þier skulud giefa Levitunum/ (skulu vera) * sex frij-stader / sem þier skulud giefa / ad mañdræpareñ kuñe flija þangad/ z þ utañ þa skulud þier giefa tvo z fiørutiju stade. * v. 13. 2. Mos. 21/ 13. 5. Mos. 4/ 41. C. 19/ 2/ 9. Jos. 20/ 2.

7. Aller * staderner/ sem þier skulud giefa Levitunum / (skulu vera) ætta og fiørutijger stader/ þa og þeirra forstade (skulud þier giefa þeim.) * Jos. 21/ 41.

8. Og ahrærande þa stade/ sem þier skulud giefa af Jsraels barna eigendoome / þa skulud þier taka * myked fra þeim / sem hefur myked / og lijted fra þeim/ sem hefur lijted/ Hvør epter sijns arfs haallfalage / sem þeir erfa / skal giefa Levitunum af sijnum stødum. * c. 26/ 56.

9. Og Drottenn talade til Mose / og sagde:

10. * Tala til Jsraels barna / og seig til þeirra: nær þier komed yfer Jordan i Canaans land. * c. 15/ 2.

11. Þa skulud þier wtvelia ydur stade / þier skulud hafa frij-stade / ad eirn mañdræpare kuñe flija þangad / sem slær (nockra) persoonu (i hel) oforvarandes.

12. Og þier skulud hafa þessa frijstade fyrer eirn (blood-) hefnara / og mañdræpareñ skal ecke deya / þangad til

til hañ hefur staded fyrer safnadenum fyrer doome.

13. Og þeir stader / sem þier skulud giefa / skulu vera ydur * sex frÿ-stader. * v. 6.

14. Þa þrꜳ stade skulud þier giefa þessu meigeñ Jordanar / og þa þrꜳ stade skulud þier giefa i Canaans lande / þeir skulu vera frÿ-stader.

15. Fyrer Jsraels børn / og fyrer þañ framanda og fyrer iñbyggiarana a medal þeirra / skulu þesser stader vera til (frÿ) athvarfs / ad hvør sa kuñe flÿa þangad / sem slær eina persoonu oforvarandes.

16. Og ef nockur slær hañ * med jꜳrn verkfære / og hañ deyr / hañ er eirn mañdrꜳpare / sa mañdrꜳpare skal vissulega deydast. * 2. Mos. 21/ 12. 3. Mos. 24/ 17.

17. Og slꜳe hañ hañ med einum hand-steine / sem nockur kañ deya af / og hañ deyr / þa er hañ eirn mañdrꜳpare / sa mañdrꜳpare skal vissulega deydast.

18. Eda slꜳe hañ hañ med trie-verkfære i hendeñe / sem nockur kañ deya af / og hañ deyr / þa er hañ eirn mañdrꜳpare / sa mañdrꜳpare skal vissulega deydast.

19. (Blood) hefnareñ skal lꜳta deyda mañdrꜳparañ / nær hañ kañ hitta hañ / þa mꜳ hañ lꜳta deyda hañ.

20. Og * hrynde hañ hønum af hatre / eda kastar (nockru) a hañ med svikum / ad hañ deyr. * 5. Mos. 19/ 11.

21. Eda slꜳe hañ af fiandskap med siñe hende / ad hañ deyr / þa skal sa / er sloo / vissulega deydast / hañ er eirn mañdrꜳpare / blood-hefnareñ skal lꜳta deyda mañdrꜳparañ / nær hañ hitter hañ.

22. Eñ ef hañ * oforvarandes hrynder hønum ꜳn fiandskapar / eda kastar nockru verkfære a hañ ꜳn svika. * 5. Mos. 19/ 5.

23. Edur (þad skier) med nockrum steine / þar madur kañ deya af / og sꜳ þad ecke / og liet þad falla a hañ / ad hañ deyr / og hañ var ecke hañs fiandmadur / og ei leitade hañs olucku.

24. Þa skulu þeir i samkunduñe dæma i millum þess sem sloo / og i millum blood-hefnarans epter þessum riette.

25. Og þeir i samkunduñe skulu frÿa mañdrꜳparañ af blood-hefnarans hende / og þeir i samkunduñe skulu lꜳta hañ koma aptur til sÿns frÿ-stadar / sem hañ flꜳde til / Og hañ skal vera þar iñe / þar til ad sa ædste prestur deyr / sem * mañ hefur smurt med þvi heilaga oleo. * 3. Mos. 21/ 10.

26. Eñ ef mañdrꜳpareñ geingur fyrer vÿst utañ fyrer sÿn athvarfs stadar takmørk / sem hañ flꜳde til.

27. Og blood-hefnareñ fiñur hañ fyrer utañ hañs athvarfs stadar takmørk / og blood-hefnareñ slær mañdrꜳparañ i hel / þa skal hañ ecke vera sekur i (hañs) bloode.

28. Þvi hañ skyllde hafa vered i sÿnum athvarfs stad þar til sa ædste prestur deyde / eñ epter þess ædsta prestz dauda skal mañdrꜳpareñ koma til sÿns eigendooms lands aptur.

29. Og þad * skal vera ydur til dooms skickanar hia ydar epterkomurum i øllum ydar heimkyñum. * 2. Mos. 27/ 21. C. 30/ 21.

30. Hvør sem slær nockra persoonu epter vitna hlioodan / (fleire eñ eins /) þañ mañdrꜳpara skal mañ slꜳ i hel / og eitt vitne skal ecke svara i giegn nockre persoonu til dauda.

31. Og þier skulud ecke taka forlÿkun fyrer eins mañdrꜳpara lÿf / sem er verdur ad deya / þvi hañ skal vissulega deydast.

32. Og þier skulud øngva forlÿkun taka (fyrer þañ / sem flÿr) til þess ad flÿa til sÿns frÿ-stadar / ad hañ skule koma aptur ad bꜳa i landenu / fyrr eñ prestureñ deyr.

33. Og þier skulud ecke saurga landed / sem þier bꜳed i / þvi þad blood mun

saurga

saurga landed/ og fyrer landed kan ecke
skie forlijkun fyrer þad blood sem þar
wthellest a/ utan * fyrer hans blood/
sem wthellte þvi. * 1. Mos. 9/ 6.
34. Og þu skallt ecke saurga land
ed / þar þier bwed i / i hvøriu eg bij
midt i/ þvi eg er Drottenn / * sem bij
midt a medal Israels barna.

* 2. Mos. 29/ 45.

## XXXVI. Capitule.

Israels Barna Arpskipte skulu ecke koma fra eirne Kynkvijsl til aňarar.


g þar geingu fram þeir
yppurstu fedur af Gi-
leads barna ætt/ Mach-
irs sonar / Manasse
son/ af Josephs barna
ætt / og þeir føludu til
Mose/ og til høfuds maňana Israels
barna yppurstu fedra / og søgdu:
2. Drottenn hefur bodid mijnum her
ra um ad giefa Israels børnum landed
til arfs * fyrer hlutfall/ og ** mijn-
um herra er bijfalad af Drottne / ad
giefa vorum brædrum Zelaphads arf
til hans dætra. * c. 26/ 55/ 56.

** C. 27/ 6/ 7. Jos. 17/ 3.

3. Og ( þar sem ) þær urdu nock-
rum af þeirra sonum / sem heyra til
(ødrum) Israels sona ættkvijslum til
hustrua / þa munde þeirra arfur tak-
ast fra vorra fedra arfe/ og leggiast til
þeirra ættkvijslar arfs/ sem þar koma
til/ og mijnkast fra vorum arfs hluta.
4. Og nær * fagnadar (aared) kie-
mur fyrer Israels børn / þa leggst
þeirra arfur til þeirrar ættkvijslar
arfs sem þær munu koma til / og þar
med mun þeirra arfur takast fra vorra
fedra ættkvijslar arfe.

* 3. Mos. 25/ 10/ 13.

5. Og Mose baud Israels børnum
epter Drottens bijfalning / og sagde:
þad er riett/ sem Josephs barna ætt-
kvijsl hefur sagt.
6. Þetta er þad ord/ sem Drottenn
bijdur um Zelaphads dætur/ z seiger:
þær meiga gyfta sig / hvørium þeim
gott synest / þo * ad þær skule gyfta
sig þeirra fedra kynþættar ætt.

* Tob. 7/ 15.

7. Ad Israels barna arfur skule
ecke ganga wr fra eirne kynslood til
eirnrar aňarar/ af þvi sierhvør a med
al Israels barna skal vidhænga vid
siňa fedra kynkvijsla arf.
8. Og hvør dootter / sem hefur
erfda-hlut af Israels barna ættkvijsl-
um/ skal gyfta sig einum af sijns fød-
urs kynkvijslar ætt/ uppa þad Israels
børn kuňe erfa hvør siňa fedra arf.
9. Og ad eirn arfur ecke skule gan-
ga wr fra eirne ættkvijsl til aňarar
ættkvijslar/ helldur ad hvør kuňe ad
vera vid siň arf a medal Israels barna
kynkvijsla.
10. Sem Drottenn hafde bijfalad
Mose/ so giørdu Zelaphads dætur.
11. Mahela/ Thirza/ og Hagla/ og
Milca og Noha / Zelaphads dætur
gyftu sig þeirra fødur broodurs son-
um.
12. (Jaa þeim) af Manasse bar-
na/ Josephs sonar ættum gyftu þær
sig / og þeirra arfur varade i þeirra
fødurs ættar kynkvijsl.
13. Þesse eru þau bod/ og þau riett
inde/ sem Drottenn bijfalade fyrer Mo-
sen til Israels barna * a Moabi-
taňa mørkum hia Jordan
giegnt Jericho.

* C. 33/50.

ENDER

a þeirre fioordu Mose Book.



# Su Fimta Mose Book.

## I. Capitule.

Mose talar um̃ Guds Velgiørninga/ og Jsraels Barna Misgiørninga.

Þesse eru þau ord / sem Mose hefur talad til alls Jsraels þessu meigenn Jordanar i eydemørkenne / a mørkenne i moot Suph/ i millum Paran og i millum Tophel/ og Laban/ og Hazerot og Disahab.

2. Ellefu daga (reisu) fra * Horeb / a Seirs fialls veige / burt til Kades Barnea. * 2. Mos. 3/ 1.

3. Og þad skiede a þvi fertugasta are i þeim ellefta mænude a þeim fyrsta (deige) i mænadenum / þa talade Mose til Jsraels barna epter øllu þvi / sem Drottenn hafde boded hønum til þeirra.

4. Epter þad hann hafde slaged * Sihon Emorita konung/ sem bioo i Hesbon / og Og konungenn af Basan / sem bioo i Astharon i Edrei.
* 4. Mos. 21/ 24/ 33/ 35.

5. Þessu meigenn Jordanar i Moabitana lande hoof Mose ad wtlegia þesse løg/ og sagde:

6. Drottenn vor Gud talade vid oss a Horeb / og sagde: þier hafed noogu leinge vered a þessu fialle.

7. Snwed ydur vid/ og fared burt/ og komed til Emoritana fialls / og til allra næbwa þar hia i mørkenne a fiallenu / og a slietlendenu / og i sudur / og giegnt siofar sydunne i Canaans lande / og til Libanon / til þess stoora vatnsfalls / þad er * þad vatnsfall Phrat.
*1. Mos. 15/ 18.

8. Sia / * eg hefe giefed landed fyrer ydur / fared (þangad burt / ) og taked þad land inn / sem Drottenn hefur svared ydar fedrum/ Abraham/ Jsaak og Jakob / ad giefa þeim og þeirra afkvæme epter þa. * 1. Mos. 12/ 7. etc.

9. Þa * talade eg til ydar a þeim sama tijma og sagde: eg kann ecke alleina ad hallda ydur vid.
* 2. Mos. 18/ 18.

10. Drottenn ydar Gud hefur fiolgad ydur/ og sia / þier erud i dag so marger * sem stiørnurnar a Himnenum.
* C. 10/ 22. 1. Mos. 15/ 5.

11. Drottenn ydar fedra Gud giøre ydur enn nu so sem þier erud / þusundfallt fleire / og blesse ydur / sem hann hefur sagt ydur.

12. Hvornenn kann eg alleinn bera ydar mædu / og ydar þwnga / og ydar kijf ?

13. Faaed mier vysa og forstanduga og forsookta menn af ydar ættkvijslum / og eg vil setia þa til høfuds manna yfer ydur.

14. Þa svørudu þier mier / og søgdud; þad er eitt goodur hlutur sem þu seiger / ad þu vilier giøra.

15. So * took eg ydar ættkvijsla høfdingia/ vysa og forsookta menn / og sette þa til høfuds manna yfer ydur/ yfer þusund / og yfer hundrud / og yfer fimtijger / og yfer tiju / og fovita af ydar kynkvijslum. * 2. Mos. 18/ 25.
4. Mos. 11/ 16/

16. Og eg baud ydar doomurum a þeim sama tijma/ og sagde: heyred (mælenn/) i millum ydar brædra/ og * dæmed riett i millum manns og hanns broodurs / og i millum þess framanda hia hønum.
* C. 16/ 18/ 19. etc.

17. Þier skulud * einkis persoonu mælija i doomenum / (enn) þier skulud heyra þann minsta so vel sem þann mesta / þier skulud ecke ottast fyrer nockurs persoonu / þvi ** Doomurenn heyrer Gude til / Enn nær eitt mæl verdur ydur ofþwngt / þa læted þad koma fyrer mig / ad eg kunne heyra þad. * 1. 16/ 19.
Ordsk. 24/ 23. ** 2. Kron. 19/ 6.

18. Þa baud eg ydur a þeim sama tijma øll þau ord / sem þier skylldud giøra.

19. So foorum vier wt fra Horeb /

og

og reistum alla eydemørkena i gíegnum / þa (somu) stooru og hrædilegu / sem þier saud a veigenum til þess Emoritiska þialls/ so sem Drottenñ vor Gud byþalade oss / og vier komum til * Kades Barnea. * 4. Mos. 20/ 1/ 14.

20. Þar sagde eg til ydar : þier erud komner til þessa Emoritiska þialls/ hvoret Drottenñ vor Gud vill gieþa oss.

21. Sia / Drottenñ þinn Gud heþur gieþed þier þad land fyrer þier / þar upp/ eignastu þad / so sem Drottenñ þiña fedra Gud heþur sagt þier / ottast ecke og hrædst ecke.

22. Þa komu þier aller til mÿn / og søgdud : * lætum oss senda meñ þyrer oss/ sem kuñe nioosna um̄ landed/ og seigia oss tÿdende aptur/ til hvors vegar/ vier skulum fara þangad upp / og þa stade / sem vier skulum koma til.

* 4. Mos. 13/ 3.

23 Og þad ord þocknadest mier / so took eg toolf meñ aþ ydur/ eiñ mañ þyrer kynkvÿsl.

24 Og þeir sneru sier / og þooru upp a þialled/og komu til * Escols dals/ og þeir nioosnudu um̄ þad. * 4 Mos 13/24

25 Og tooku med sier aþ landsens avegste/ og færdu nidur til vor / og færdu oss svar aptur / og søgdu : þad er eitt gott land / sem Drottenñ vor Gud heþur gieþed oss.

26. Eñ þier * villdud ecke þara upp/ og þier vorud Drottens ydar Guds muñe ohlÿduger. * 4 Mos 14/ 1

27 Og møgludud i ydar talldbwdum/ og søgdud : aþ þvi Drottenñ er oss reidur/ heþur hañ fært oss aþ Egyptalande/ ad giefa oss i Emoritaña hond / ad leggia oss i eyde.

28 Hvort skulum vier þara ? vorer brædur haþa * eþad vort hiarta / og sagt : þad foolk er stærra og hærra eñ vier / staderner eru stoorer og * * ramþygder i moot Himnenum / þar til med hoþum vier sied Anakims born þar.

* 1. Mos. 11/ 4. ** 5. Mos. 9/ 1.

29 Þa sagda eg til ydar : lated ydur ecke skielþa / og ottest ei fyrer þeim.

30. Drottenñ ydar Gud/ hañ sem fer fyrer ydur þangad / hañ mun * strÿda þyrer ydur epter ollu þvi/ sem hañ giørde vid ydur i Egyptalande / þyrer ydar augum̄. * 2. Mos. 14/14/25. Jos. 10/14.

31. Og i eydemørkeñe/ sem þu heþur sied / hvarneñ Drottenñ þiñ Gud heþur bored þig / lÿka sem eirn madur ber siñ son/ a øllum þeim veige/ sem þier geingud/ þar til þier erud komner allt til þessa stadar.

32. Eñ þyrer þessa hlutar saker trwdud þier ecke a Drottenñ ydar Gud.

33. Sem * gieck þyrer ydur a veigenum / ad vÿsa ydur staden̄ / hvar þier skylldud setia ydar herbwder / fyrer elldeñ a nootteñe / ad vÿsa ydur a hvøriumveige þier skylldud ganga / og þyrer eitt skÿ a dageñ. * 2. Mos. 13/ 21.

4. Mos. 10/ 33.

34. Eñ þa Drottenñ heyrde ydar ords kvein/ vard hañ reidur/og soor/og sagde :

35. Þar * skal eingeñ af þessum moñum / aþ þessare rangsnwñe kynslood sia þad gooda land/ sem eg soor ad gieþa ydar fedrum. * 4. Mos. 14/23. etc.

36. Utañ * Caleb Jephunne son / hañ skal sia þad/og eg vil gieþa honum þad land / sem hañ heþur stÿged a / og hañs børnum/ þvi hañ heþur fullkomlega epterþylgt Drottne.

* 4. Mos. 14/ 30.

37. Og Drottenñ vard * reidur vid mig þyrer ydar skulld/og sagde : þu skallt ecke helldur koma þar iñ.

* 4. Mos. 20/ 12. etc.

38. Josua Nun son/ * sa sem stendur fyrer þier / hañ skal koma þar iñ / styrk hañ / þvi hañ skal skiþta þvi til arþs a medal Israel. * 4. Mos. 11/28.

39. Og ydar born / * um̄ hvor þier søgdud : þau munu verda eitt herfang / og ydar syner / sem ecke a þessum deige skyniudu gott eda illt ; þeir skulu koma þangad (iñ/) og eg vil gieþa þeim þad/ og þeir skulu erþa þad. * 4. Mos. 14/31.

40. Eñ þier/ snwed ydur / og fared til eydemerkur a veigeñ til þess rauda

hafe.

41. Þa svorudu þier og sogdud til myn : * vier hofum syndgad i moote Drottne vier viliu fara þangad upp/ og stryda / epter ollu þvi / sem Drotten vor Gud byfalade oss. Þar þier nu voputudud ydur/ hvor med synum styrdes vopnum/ og vorud reidubuner til ad fara uppa fialled. * 4. Mos. 14/ 40.

42. Þa sagde Drotten til myn : seig þeim/ þier skulud ecke fara upp/ og þier skulud ecke stryda / þvi eg er ecke a medal ydar / ad þier skuled ecke verda slegner fyrer ydar fiandmonnum.

43. Þegar eg sagde ydur þad / þa villdud þier ecke hlyda mier/ og þier vorud Drottens munne mootþroaanleger / og dyrfdud ydur / og foorud upp a fialled.

44. Þa * fooru Emoritarner wt / sem bioggu a þvi sama fialle/ i moot ydur/ og elltu ydur/ so sem byflugur giora/ og sloou ydur i Seir / allt til Horma.
* 4. Mos. 14/ 45.

45. Þegar þier komud aptur / og grietud fyrer Drottne/ þa villde Drotten ecke heyra a ydar raust / og ecke hneigia eyrun til ydar.

46. So voru þier i Kades eirn laang an tyma/ epter þeim tyma/ sem þier vorud þar.)

II. Capitule.

Israels Born fa Sigur yfer þeim Emoritum.

Na snerum vier oss/ og * foorum til eydemerkurenn ar a veigenn til þess rau da hafs/ so sem Drotten * * sagde til myn / og vier foorum i kryng um Seir fiall eirn laangan tyma.
* 4. Mos. 21. 4. * * 5. Mos. 1/ 40.

2. Og Drotten talade til myn / og sagde :

3. Þier hafed noog fared i kryngum þetta fiall/ snwed ydur i moot nordre.

4. Og biood foolkenu/ og seig : þier skulud fara i gegnum ydar brædra Esau barna landamerke / þeir sem bwa i Seir/ og þeir skulu ottast fyrer ydur/ enn þier skulud goda ydur vel vara.

5. Þier skulud ecke stryda i moot þeim/ þvi eg vil ecke giefa ydur af þeirra lande eina þverfootar bredd / þvi eg hefe gefed Esau * Seirs fiall til eigendooms. * 1. Mos. 36/ 8/ 43.

6. Þier skulud kaupa mat af þeim fyrer peninga/ og eta/ og þier skulud og so kaupa vatn af þeim fyrer peninga / og drecka.

7. Þvi Drotten þinn Gud hefur blessad þig i ollu þynu handa verke / hann þecker þynar reisur / i gegnum þessa stooru eydemork nu fiorutyger ar/ Drotten þinn Gud (hefur vered) med þier/ þig vantade eckert.

8. Þegar vier vorum farner fra vorum brædrum/ Esau bornum / sem bioggu a Seir/ a veigenn ad morkenne fra Elat og fra Ezeongaber / þa snerum vier oss / og geingum þangad ad veigenum til Moabitanna eydemerkur.

9. Þa sagde Drotten til myn : þu skallt ecke þreingia Moab / og eingann eigenn stryda a moote honum / þvi eg vil eckert giefa þier af þeirra lande til eigendooms / þvi eg hefe gefed Loths bornum Ar til eigendooms.

10. Þeir Edomitar bioggu fordum þar i / þad var eitt stoort og myked og hatt foolk/ lyka so sem þeir * Anakim.
* 5. 1/ 28.

11. Þeir hielldust og fyrer risa / lyka so sem Anakim/ og Moabitarner kolludu þa Emim.

12. Og * Horitarner bioggu fordum i Seir / og Esau born wtrœku og eydelogdu þa fyrer sier/ og urdu þar bwande i þeirra stad / lyka so sem Israel giorde vid þad land/ sem þeir fiea/ hvort Drotten gaf þeim. * 1. Mos. 14/ 6. c. 36/ 20.

13. So giored ydur nu reidubwna/ og fared yfer * Sareds læk/ Og vier foorum yfer Sareds læk. * 4. Mos. 21/ 12.

14. Enn tymenn/ sem vier foorum af Kades Barnea/ allt til þess vier komum yfer þann læk Sared/ voru atta og þria

tyu

tku ma / þar ell ad su kynslood af stryds-
mønnunum var eydelögd wt af Herbwdun-
um/ so sem * Drottenn hafde svared þm.
* 4. Mos. 14/ 25. C. 29/ 33. C. 26/ 65.
15. Þar med var * og Drottens hö
nd i moote þeim / ad eydeleggia þa af
Herbwdunum / til þess þar vard ender a
þeim. * 2. Mos. 9/ 3. 1. Sam. 12/ 15.
16. Og þad skiede/ þegar aller stryds
mennerner hofdu enda/ so ad þr voru daud
er af foolkenu.
17. Þa talade Drottenn til myn / og
sagde:
18. Þu skallt i dag fara i giegnum
Moabitana landamerke hia Ar.
19. Og koma hartnær framm fyrer
Ammons born þu skallt ecke þreingia þm/
ei helldur stryda i moote þeim / þvi eg vil
eckert gefa þier af Ammons barna lan-
de ad eignast/ þvi eg hefe giefed * Loths
bornum þ til eigendooms. * 1. Mos. 19/ 38
20. Þad er og hallded fyrer eitt risa-
land/ þar biuggu fordum risar i/ og Am-
onitarner kolludu þa Samsummim.
21. Þad var eitt stoort og margfalldt
og hatt foolk/ sem Anakim/ og þa lagde
Drottenn i eyde fyrer þeim/ og þeir yfer-
unnu þa og biuggu i þeirra stad.
22. Lyka sem hann giörde vid Esau
born / þau sem bwa a Seir fialle/ hann
lagde Horitana i eyde fyrer þeim/ og þeir
yferunnu þa/ og biuggu i þeirra stad/ allt
til þessa dags.
23. Og þeir Avoim biuggu i Hazer-
im allt til Aza/ (enn) Caphtorim/ þeir sem
voru wt komner af Caphtor / eydelögdu
þa/ og biuggu i þeirra stad.
24. Taked ydur upp / Fared wt / og
gangid yfer þann læk Arnon: siaa/ eg hefe
gefed þann Emoritiska kong Sihon af
Hesbon i þynar hendur/ og hans land/
tak til/ tak þad inn til eigendooms/ og stryd
endelega i moote honum.
25. Eg vil byria a þessum dege/ ad
gefa þier / ad foolked under himnenum
skal ottast og hrædast fyrer þier/ ad nær
þeir heyra umm þitt rijke / þa skulu þeir
skialfa / og vera kvijdande fyrer þynu
Auglite.
26. Þa * sende eg bod af eydemørk-
enne Kedemot/ til Sihon kongsens i Hes
bon / med fridsamlegum ordum / og liet
(honum) seigia: * 4. Mos. 21. 21. etc.
27. Eg vil * ferdast i giegnum þitt
land / eg vil ganga alleinasta a veigen-
um/ eg vil ecke vykia til þeirrar hægre/ eda
vinstre hlidu. * 4. Mos. 21. 22.
28. Mat skallt þu selia mier fyrer pen
inga/ ad eta/ og vatn/ skalltu gefa mier
fyrer peninga / ad drecka/ eg vil ad eins
fara a fæte þar i giegnum.
29. * Lyka sem Esau born giordu
vid mig/ þau sem bwa i Seir/ og Moa-
bitarner/ sem bwa i Ar/ allt til þess ad eg
kann koma yfer Jordan / til þess lands /
sem Drottenn vor Gud giefur oss.
* 4. Mos. 20. 19/ 20.
30. Enn * Sihon konungurenn i Hes
bon/ villde ecke lofa oss fara þar i giegn
um/ þvi Drottenn Gud forherdte hans an
da / og giorde stijft hans hiarta / uppa
þad/ ad hann villde gefa hann i þynar hen
dur/ (sem mann sier/) a þessum dege.
* C. 29. 7. 4. Mos. 21. 23.
31. Og Drottenn sagde til myn: siaa/
eg hefe byriad ad gefa þier * Sihon og
hans land/ takktu til/ inntaktu/ til ad sitia
hans land. * 4. Mos. 21. 21. etc.
32. Og Sihon droo wt i moote oss /
hann og allt hans foolk/ ad stryda i Jaaz.
33. Enn Drottenn vor Gud gaf hann
under oss / ad vier sloogum hann og hans
born / og allt hans foolk.
34. Þa inntookum vier alla hans sta-
de/ a þeim sama tyma/ og * eydelögdum
hvörn stad/ menn og kvinnur og born/ vier
lietum aungvann lifa epter. * C. 3. 6/ 7.
35. Utann fienaden sem vier ræntum
handa oss/ og herfanged af stødunum /
sem vier höfdum inntekid.
36. Fra Aroer/ sem liggur hia back
anum hia Arnons læk/ og fra þeim stad/
sem er hia læknum og allt til Gilead /
þar var ecke einn stadur / sem kunne veria
sig fyrer oss / Drottenn vor Gud gaf þa
alla under oss.



37. Utann

37. Utañ alleina/ ad þu mætter ecke koma til Ammons barna lands/ (ei helldur) til nockurs af þvi / sem er hiaa þeim læk Jabok / ey helldur til þeirra stada a fiallenu/eda til nockurs/sem Drottenn vor Gud hafde (fyrer-)boded (oss.)

III. Capitule.

## Israels Børn faa Sigur yfer Og/ Konungenum af Basan.



Og vier snerum oss/og foorum uppa veigenn til Basan/so droo * Og/konungurenn af Basan/vt a moote oss / hann og allt hans foolk til striids i Edrei.

* 4. Mos. 21. 33. etc.

2. Og Drottenn sagde til myn: ottast ecktert fyrer hønum / þvi eg hefe gefed hann og allt hans foolk og hans land i þyna hønd/og þu skallt giøra vid hann eins sem þu giørder vid * Sihon Emoritana konung/sem bioo i Hesbon.

* 4. Mos. 21. 34.

3. So gaf Drottenn vor Gud og so konungenn Og af Basan i vora hønd/og allt hans foolk/ og vier slooum hann/allt til þess ad þar var hønum eingenn epter.

4. Þa inntookum vier alla hans stade a þeim sama tyma/ þar var ecke einn stadur / sem vier ecke tookum fra þeim/ sextyu stade/ þa giørvalla eign Argob/ i Ogs ryke i Basan.

5. Aller þesser stader voru rambigder/med haafum mwrum/tvøfolldum portum og støngum/ fyrer utann harla mørg þorp / sem ecke høfdu mwr.

6. Og vier * eydeløgdum þa / lyka sem vier giørdum vid Sihon/ konungenn af Hesbon / vier eydeløgdum alla stadena/ menn / kvinnur og børn. * c. 2. 34/ 35.

7. Enn * allann fienadenn og herfang ed sem var i stødunum/ þvi ræntum vier handa oss. * l. 20. 14.

8. So tookum vier a þeim sama tyma landed / fra þeirra tveggia Emoritana konunga hende/sem voru hinumeigenn Jordanar / fra þeim læk Arnon/allt til þess fialls Hermon.

9. Þeir Sidoniar kølludu Hermon Sirion/enn Emoritenn kallade þad Senir.

10. Alla stadena a slettunne/ og alla Gilead/og alla Bason / allt til Salcha og Edrei/ stadena i Ogs ryke i Basan.

11. Þvi konungurenn Og af Basan/ var alleinasta orden epter af þeim fyrre risum/sia/ hans sæng/(nefnelega hans) jarn-sæng/er su ecke i Rabbat hia Ammons børnum ? nyu alna løng/og fiogra alna breid/epter eins manns hnefa alenn?

12. Og vier tookum þad land inn a þeim sama tyma: fra Aroer/sem liggur hia Arnons læk/og helftena af Gileads fialle med synum stødum/ * gaf eg Rubenitunum og Gadditunum.

* 4. Mos. 32. 33. etc.

13. Og þad sem yfer var af Gilead/ og alla Bason/ Ogs ryke / gaf eg Manassis hálfre ættkvysl/jaa/ þa giørvalla eign Argob/med allre Basan/þad er kall ad risa-land.

14. * Jair Manasses son/ took þa giørvalla eign Argob/allt til Gessuri og Maacati landamerkia / og kallade þau epter synu nafne/ Ha Basan Jairs þorp / allt til þessa dags.

* 4. Mos. 32. 41.

15. Enn eg gaf Machir Gilead.

16. Og eg gaf Rubenitunum og Gadditunum/ fra Gilead /og allt til Arnons lækiar / midt i lækenn / sem landamerked er/og allt til Jaboks lækiar/sem er Ammons barna landamerke.

17. Og merkena/og Jordan/og landamerked fra * Cinereth / og allt til hafsens hia merkenne/ sem er þad sallta haf fyrer nedann (vatns-) spretttuna af hædenne i moot austre. * 4. Mos. 34. 11. Jos. 12. 3.

18. Og eg baud ydur a sama tyma / og sagde: Drottenn ydar Gud hefur gefed ydur þetta land / ad eignast þad/ Þier skulud fara * vopnader þangad fyrer ydar brædrum Israels børnum/ so marger sem sterker erud. * 4. Mos. 32. 17.

19. Ad fraateknum ydar hustrwm og ydar børnum / og ydar fienade / þvi eg veit / ad þier hafed miked fienad / þau meiga

meiga vera i ydar stødum / sem eg heþe giefed ydur.

20. Allt til þess ad Drottenn skickar ydar brædrum hvyld/so sem ydur/ ad þeir og so kune eignast pad land/sem Drottenn ydar Gud giefur þeim / hinumeigenn Jordanar/ so skulu þier þa snwa til baka/ hvor til sijns eigendooms/sem eg heþe giefed ydur.

21. Og eg * byþalade Josua a þeim sama tijma / og sagde : þijn augu haþa sied allt pad/sem Drottenn ydar Gud heþur giort vid þessa tvo konunga/So mun ꝫ Drottenn giora vid oll rijkenn sem þu fer þangad yþerum til. *4. Mos. 27. 18/21.

22. Otteſt ecke fyrer þeim / þviad Drottenn ydar Gud hann er sa/sem stryder fyrer ydur.

23. Og eg bad Drottenn umm nad a þeim sama tijma/ og sagde:

24. Drottenn/Drottenn/þu heþur byrjad ad audsijna þijnum þienara þijna magt / og þijna þa sterku hond / þvi * hvor er einn Gud i Himnenum og a Jordunne/sem kann giora epter þijnum verkum/ og epter þijnum kroptum? * Ps. 86. 8. ps. 89. 7.

25. Kiære/ lat mig fara yþerum/ og sia pad gooda land / sem er hinumeigenn Jordanar/petta pad gooda fiall/og pad Libanon.

26. Enn Drottenn var * reidur uppa mig fyrer ydar saker/og villde ecke bænheyra mig / enn Drottenn sagde til mijn: lat þier nægia / seig mier eckert framar par aþ. * 4. Mos. 27. 12. etc.

27. Gack epst uppa hædena/og upplijt þijnum augum i moot vestre / og i moot nordre / og i moot sudre/ og i moot austre/og sia (pad) med þijnum augum/ þvi þu skallt ecke ganga yþer þessa Jordan.

28. Og biood * Josua/og styrk hann/ og gior hann hugdiarþann / þvi hann skal reisa fyrer þessu foolke/og hann skal skipta landenu i millum þeirra til eigendooms/ hvort þu skallt sia. * c. 31. 7. etc.

29. Og so vorum vier i þeim dal gieg nt * Peors hwse. * 4. Mos. 25. 3. etc.

## IV. Capitule.

**Mose aminner Jsrael til ad halld a Drottens Bod/ Riett og Skickaner.**



Og nu Jsrael / heyr a pau bod og pau riettende/sem eg kiende ydur ad giora / uppa pad þier meiged lifa / og koma / og eignast landed/sem Drottenn ydar fedra Gud giefur ydur.

2. Pier skulud * eckert leggia til þess ords/sem eg byd ydur/og eckert taka par fra / ad þier meiged vardveita Drottens ydar Guds bod / sem eg byþala ydur.
* C. 12. 32. Ordsk. 30. 6.

3. Ydar augu haþa sied/hvad Drottenn heþur giort fyrer * Baal Peors (saker/)Þvi hvor sa madur/sem geingur epter Baal Peor / pann heþur Drottenn þinn Gud eydelagt aþ þier. *4. Mos. 25. 3/4

4. Enn þier/ sem erud stadþastlega hia Drottine ydar Gude/ þier liþed aller a þessum dege.

5. Sia/eg heþe kiennt ydur skickaner og dooma/epter þvi sem Drottenn minn Gud byþalade mier/ad þier skylldud giora lijka so * i landenu/þangad sem þier skulud koma/ad eignast pad. * v. 14.

6. So halldid pad nu og giored pad/ þvi pad skal vera ydar vijsdoomur/og ydar forstand hia þioodunum / sem skulu heyra allar þessar skickaner / og seigia : þetta mikla foolk / er alleinasta eitt vijst og forstandugt foolk.

7. Þvi * hvar er soddann ein stoor þiood/sem guderner nalgast/ so sem ** Drottenn vor Gud / so opt vier kollum a hann? * 2. Sam. 7. 23. ** Ps. 147. 19.

8. Og hvijlijk er so stoor ein þiood / sem heþur so riettferdugar skickaner og dooma/sem * allt þetta logmal er/ sem eg set fyrer ydur i dag? * Ps. 119. 98/99.

9. Alleinasta tak þier vara/og vardveit þijna sal vel/ ad þu ecke forgleymer þeim hlutum / sem þijn augu haþa sied/ ad þeir ecke vijkie fra þijnu hiarta alla

þijna lijfdaga/ og þu skallt kunngiora þa fyrer þijnum bornum og fyrer þijnum barna bornum.

10. Jta a þeim dege/ sem þu * stoodst fyrer Drottens þijns Guds augsyn hia Horeb/ þa Drottenn sagde til mijn: safna til mijn foolkenu/ og eg vil lata þa heyra mijn ord/ sem þeir skulu læra/ ad ottast mig alla þa daga/ sem þeir lifa a Jordunne / og * * kienna þeirra bornum.

* C. 6. 7. C. 11. 19. 2. Mos. 19. 16/17.
* * 5. Mos. 6. 7. C. 11. 19.

11. Og þier stigud fram / og stoodud nedanverdt hia fiallenu / og fialled * brann med ellde / allt til þess midt upp i Himenenn / þar var * * mirkur / sky og þoka. * 2. Mos. 19. 18. * * 2. M. 20. 21.

12. Og Drottenn talade til ydar midt af elldenum / þier heyrdud (hans) ords raust / enn þier saaud einga lijking / utann raustena.

13. Og þa kunngiorde hann ydur sinn sattmaala/ hvorn hann baud ydur ad giora/ (sem voru) þau tiju ord / og hann * skrifade þau a tvær steintabljur.

* 2. Mos. 31. 18. C. 34. 28. 5. Mos. 9. 10.

14. Og Drottenn baud mier a þeim sama tijma / ad kienna ydur skickaner og riettende / ad * þier skylldud giora þar epter / i þvi lande / til hvors þier fared yferum/ til ad eignast þad. * v. 5.

15. So vardveited ydar saaler nu næsta vel/ af þvi þier saaud aungva lijking a þeim dege / þegar Drottenn talade vid ydur a Horeb (fialle) midt af elldenum.

16. Ad þier skilldud ecke fordiarfast/ og giora ydur nockurt * utskored bijlæte/ sem er ein lijking epter nockru bijlæte / eins manns eda kvinnu myndan.

* 2. Mos. 20. 4. etc.

17. Nockurs * dijrs myndan/ sem er a Jordunne/ nockurs fidrads fugls myndan/ sem (kann) fliwga under Himnenum.

* Rom. 1. 23.

18. Nockurs orms myndan a Jordunne/ nockurs fiska myndan/ sem er i vatnenu under Jordunne.

19. Og ad þu ecke skillder upp lijta þijnum augum i moot Himnenum / og sia * soolena og tungled / og stiornurnar/ þann giorvallann Himensens her/ og leidast til ad tilbidia þau/ og þioona þeim/ hvorium Drottenn þeirra Gud hefur med deillt ollum þioodum / under þeim giorvalla Himne. * c. 17. 3.

20. Enn ydur took Drottenn (til sijn/) og utfærde ydur af þeim jarn-ofnenum af Egyptalande / ad vera * hanns arfs foolk / sem a þessum dege.

* 2. Mos. 19. 5. Ps. 33. 5/ 4.

21. Og Drottenn vard reidur * uppa mig fyrer ydar hondlunar saker / og soor / ad eg skillde ecke ganga yfer um Jordan / ei helldur koma inn i þad gooda land/ sem Drottenn þinn Gud giefur þier til arfs. * 4: Mos. 20. 12. etc.

22 Þvi eg dey * i þessu lande / eg geing ecke yfer Jordan/ enn þier munud ganga þangad yfer um/ og eignast þetta gooda land. * c. 34. 4/5.

23. Taked ydur vara/ ad þier ecke forgleymed Drottens ydar Guds sattmaala / sem hann hefur giort vid ydur/ og giored ydur utskored bijlæte/ epter nockurs lijking/ sem Drottenn þinn Gud hefur bijfalad þier.

24. Þvi Drottenn þinn * Gud/ hann er einn forterande elldur/ einn vandlætur Gud. * c. 9. 3. Ebr. 12. 29.

25. Nær þu aflar barna og barna barna / og þier leinge bwed i landenu/ og fordiarfed (ydur/) og giored * bijlæte/ edur nockurs lijking/ ad giora illa fyrer Drottens ydar Guds augum/ ad uppegna hann. * 2. Mos. 20/4.

26. Þa * kalla eg i dag Himenenn og Jordena til vitnesburdar yfer ydur/ ad * * þier skulud vissilega snart eydeleggiast af landenu / þangad sem þier fared yferum Jordan / til ad eignast þad / þier skulud ecke leinge vera þar i / þvi þier skulud verda aldeiles eidelagder. * c. 30. 19. c. 31. 28.
C. 32. 1. * * C. 8. 18. C. 11. 17.

27. Og Drottenn mun burt tvistra ydur a medal þioodanna/ so ad þier skulud verda einn lijtell hoopur aptur a

medal

medal heidingiaña/ þangad sem Drott
eñ mun reka ydur.

28. Og þar * munu þier þioona
gudum/ ** giørdum med mañeskiaña
hondum/ trie og steine/ sem hvørke ku-
ña siaa/ edur heyra/ edur eta/ edur luk-
ta. * c. 28. 36/ 64. ** Ps. 115. 4.

29. Og þu munt þadañ fra leita
Drottens þijns Guds/ og þu skallt *
fiña (hañ/) ef þu leitar epter hønum
i þijnu giørvøllu hiarta/ og i þiñe giør
vallre saal. * Spek. 1. 2. Os. 3. 5.

30. Nær þu fær angist/ og aller
þesser hluter koma a þig a þeim sein-
ustu døgum/ þa * muntu umvenda
þier til Drottens þijns Guds/ og hey-
ra a hañs raust. * 3. Mos. 26. 44.

31. Þvi Drotteñ þiñ Gud er eirn
myskunsamur Gud/ hañ * mun ecke
yfergiefa þig eda fordiarfa þig/ hañ
mun ecke helldur gleyma þeim satt-
maala vid þijna fedur/ sem hañ soor
þeim. * Jos. 1. 5. Ebr. 13. 5.

32. Þvi spurdu þig nu um̃ þa um̃-
lidnu daga/ sem fyrer þig hafa vered/
fra þeim dege/ þegar Gud skapade
mañeskiuna a Jørduñe/ og fra þeim
eina Himensens enda/ og allt til (þess
añars) Himensens enda/ ef þar er ski-
ed nockud/ sem þesser stooru hluter/ eda
ef þar er heyrt nockud/ sem þetta.

33. Hvart nockur þiood hefur hey-
rt * Guds raust talande midt af elld-
enum/ so sem þu hefur heyrt/ og nu
lifde (samt?) * 2. Mos. 19. 9.

34. Eda ef Gud hafe leitast vid/
ad koma/ ad taka sier eitt folk/ midt
af foolkenu/ fyrer * reinslur/ fyrer
teikn/ og fyrer undarlega giørninga/
og fyrer strijd/ og fyrer eina volldugа
hønd/ og fyrer wtrietkañ arm/ og fyr-
er stoorar ognaner/ epter øllu þvi sem
Drotteñ ydar Gud hefur giørt vid yd-
ur i Ægyptalande fyrer þijnum augũ?
* C. 7. 19.

35. Þetta hefur þu sied/ ad þu skul
er vita * ad Drotteñ hañ er Gud/ ia
eñ eingeñ fyrer utañ hñ. * c. 32. 39. etc

36. Hañ hefur læted þig heyra sij
na raust af Himnenum/ ad kieña þier/
og hañ hefur læted þig siaa siñ * þañ
stoora elld a Jørduñe/ og þu hefur
heyrt hañs ord midt af elldenum.
* 2. Mos. 19. 18.

37. Og af þvi/ ad hañ elskade þij-
na fedur/ þa wtvalde hañ hvers af-
kvæme epter hañ/ og hañ wtfærde þig
af Ægyptalande med sijnu auglite/ *
fyrer siñ stoora krapt. * 2. Mos. 13.
16. C. 14. 16.

38. Ad hañ villde burtreka fyrer
þier stoort foolk/ og sterkara/ eñ þu
ert/ til ad iñfæra þig/ ad giefa þier
þeirra land til arfs/ sem a þessũ dege.

39. So skalltu vita i dag/ og taka
þier til hiarta/ ad Drotteñ hañ er
Gud/ upp yfer i Himnenum/ og under
a Jørduñe/ eingeñ añar.

40. Og þu skallt vardveita hañs
skickaner og hañs bod/ sem eg bijfala
þier i dag/ Ad þad skule ganga þier
vel/ og þijnum børnum epter þig/ og ad
þu * meiger leinge lifa i þvi lande/
sem Drotteñ þiñ Gud giefur þier alla
daga. * c. 5. 33. c. 6. 2.

41. So skylde Mose þriu * stade
fraa/ hinumegeñ Jordanar/ a moote
soolareñar uppgaungu.
* 4. Mos. 35. 6. etc.

42. Ad eirn mañdrapare/ sem slær
siñ naunga i hel oforvarandes/ skillde
flyia þangad/ ef hañ var ecke hañs fia
ndmadur til forna/ þa matte hañ flyia
til eins af þessum sømu stodum/ og
hallda (sijnu) lijfe.

43. (Sem var) Bezer i eydemørk-
eñe a þeirre slettu mørk fyrer Rube-
nitunum/ ꝛ Ramot i Gilead fyrer Gad
ditunum/ og Golon i Basan fyrer
Manassitunum.

44. Og þesse eru løgeñ/ sem Mose
sette fyrer Israels børn.

45. Ja þetta eru vitnesburderner
og skickanernar/ og riettureñ/ sem Mo-
se sagde til Israels barna/ þegar þeir
voru

voru wtfarner af Ægyptalande.

46. Hinumeigeñ Jordanar/i þeim dal giegnt Peors hwse / i * Sihons þess Emorita konungs lande/sem bioo i Hesbon/ hvorn Mose og Israels børn sloou/þegar þeir voru wtfarner af Ægyptalande. * c. 1. 4.

47. Og eignudust hañs land / og konungsens * Ogs land af Basan / þeirra tveggia Emoritaña konunga/ sem voru hinumeigeñ Jordanar i moote soolareñar uppgaungu.
* 4. Mos. 21. 33. etc.

48. Fra Aroer/ sem liggur hia Arnons lækiar bøckum / og allt til Sihons fialls/ þad er Hermon.

49. Og alla þa mørk hinumeigeñ Jordanar i moot austre/og allt til hafsens i eidemørkeñe / fyrer nedañ hædareñar (vatns-)sprettu.

## V. Capitule.

### Þau Tiju Guds Bodord Itrekast.



g Mose kallade a allañ Israel/og sagde til þeirra: heyr Israel/ þær skickaner/ og þau riettende / sem eg tala fyrer ydar eyrum i dag / og læred þau/og vardveited þau/ad giøra þar epter.

2. Drotteñ vor Gud * giorde eirn sattmæla vid oss i Horeb.
* 2. Mos. 19. 5. 5. Mos. 29. 1.

3. Drotteñ hafde ecke giort þeña sattmæla vid vora fedur / helldur vid oss/ ja vid oss sialfa/sem hier erum aller lifande a þessum dege.

4. Drotteñ talade vid ydur * auglite fra auglite a fiallenu midt i elldenum. * 2. Mos. 19. 10. c. 20. 1/18.

5. Eg stood i millum Drotteñs og ydar a þeim sama tyma / ad giefa ydur Drotteñs ord til vitundar / þvi * þier ottudust fyrer elldenum/og geingud ecke uppa fialled / og hañ sagde:
* 2. Mos. 19. 16.

6. Eg * er Drotteñ þiñ Gud/sem wtfærde þig af Ægyptalande / af þræla hwsenu. * 2. Mos 20. 2. etc.

7. Þu skallt ecke hafa adra Gude fyrer miñe augsyn. * c. 6. 12.
2. Mos. 20. 3. 3. Mos. 26. 1.

8. Þu skallt * eckert bilæte giora þier epter nockre lyking/sem er i Himnenum hier upp yfer/eda sem er a Jørd uñe hier nidre / edur og sem er i vatnenu under Jørduñe. * c. 4. 16.
2. Mos. 20. 4.

9. Þu skallt * ecke tilbidia þau/eige helldur þioona þeim/þvi eg er Drotteñ þiñ Gud/ eirn vandlætur Gud / sem ** vitia fedraña vondsku yfer børnunum / og yfer þeim i þridia og yfer þeim i fioorda(lid/) søkum þeirra sem mig hata. * Matth. 4. 10.
** 2. Mos. 34. 7. etc.

10. Og sem giøre * myskunsemd i moot þusund/vid þa/ sem elska mig og hallda myn bod. * c. 7. 9.

11. Þu * skallt ecke taka Drotteñs þyns Guds nafn fanfeingelega / þvi Drotteñ vill ecke læta (hañ) vera saklausañ/sem tekur hañs nafn fanfeingelega. * 2. Mos. 20/ 7. etc.

12. Halld * sabbatsdageñ/ad helga hañ / so sem Drotteñ þiñ Gud hefur boded þier. * 2. Mos. 20/ 8/ 9. etc.

13. Sex daga skalltu erfida / og giora allt þitt verk.

14. Eñ sa siøunde dagur er þad sabbat fyrer Drotteñ þiñ Gud: þa skalltu eckert erfide giøra/ þu edur þiñ son/ edur þyn dotter / edur þiñ sveiñ/ edur þyn (þioonustu-) stulka/ eda þiñ uxe/ eda þiñ asne/eda nockur þiñ fienadur/ edur þiñ framande / sem er iñañ þiña porta / uppa þad þiñ sveirn og þyn stwlka/meige hvijlast eins sem þu.

15. Og þu skallt miñast/ ad þu varst eirn þræll i Ægyptalande/og Drotteñ þiñ Gud wtfærde þig þar fra * med eirne volldugre hende og med einum wtriettum arme / þar fyrer hefur Drotteñ þiñ Gud boded þier ad hallda sabbatsdageñ. * c. 4. 34.

16. Heidra

16. Heidra * þiñ fødur og þijna moodur/ so sem Drottenñ þiñ Gud hefur boded þier / uppa þad þijner dagar skule leingiast / og ad þad meige ganga þier vel i landenu / sem Drottenñ þiñ Gud giefur þier. *2. Mos. 20. 12. etc.

17. Þu skallt ecke i hel slaa.
Matth. 5. 21.

18. Og þu skallt ecke drya hoor.
Matth. 5. 27.

19. Og þu skallt ecke stela.
Eph. 4. 28.

20. Og þu * skallt ecke bera falskañ vitnisburd a moote þijnum naunga.
* Rom. 13. 9.

21. Og * ecke girnast þijns naunga hustru/ Og ei girnast þijns naunga hws / hañs akur/ eda hañs þienara / eda hañs stwlku/ hañs uxa/ edur hañs asna/ edur nockud / sem heyrer þijnum naunga til. * 2. Mos. 20. 17.
Rom. 7. 7. C. 13. 9.

22. Þesse ord talade Drottenñ til ydar giørvalls safnadar a fiallenu/ midt af elldenum/ skijenu og myrkrenu/ med stoorre raust / og lagde eckert til / og hañ skrifade þau a tvær * stein-tøblur/ og fieck mier þær. * 2. Mos. 31. 18.

23. Og þad skiede/ þa þier høfdud heyrt raustena midt af myrkrenu / og fiallenu/ sem brañ med ellde/ þa geing ud þier til mijn / aller hellstu a medal ydar kynkvijsla / og ydar elldstu.

24. Og søgdud: sia/ Drottenñ vor Gud hefur laated oss sia sijna dijrd / og sijna magt/ og vier høfum heyrt hañs raust midt af elldenum / vier saaum a þeim dege/ ad Gud (villde) tala vid mañeskiuna/ og hun hielldest vid lijfed.

25. Og hvar fyrer skulum vier nu * deya/ ad þesse stoore elldur skule fortæra oss ? heyrum vier framar hier epter Drottenñs vors Guds raust/ þa deyum vier. * 2. Mos. 20. 19.

26. Þvi hvad er nockur * mañeskia/ ad hun kuñe heyra þess lifanda Guds raust/ sem talar midt af elldenum/ sem vier/ og lifa ? * Es. 40. 6.

27. Gack þu fram / og heyr allt þad / sem Drottenñ vor Gud vill seigia/ og seig þu oss * allt þad/ sem Drottenñ vor Gud vill seigia til þijn/ og vier vilium heyra og giøra (þad.)
* 2. Mos. 19. 8. C. 24. 3/ 7.

28. Þegar Drottenñ heyrde ydar ords raust / þegar þier tøludud vid mig / þa sagde Drottenñ til mijn : eg hefe heyrt þessa foolks ords raust/ sem þeir hafa talad til þijn / þad er * allt gott/ sem þeir hafa talad. * C. 18. 17.

29. Æ hefde þeir soddañ eitt hiarta/ til ad ottast mig/ og til ad vardveita øll mijn bod alla daga/ ad þad mætte ganga þeim vel / og þeirra børnum æfeñlega !

30. Gack / seig til þeirra: ganged heim i ydar tiølld.

31. Og þu/ statt hier hiaa mier/ ad eg kuñe tala vid þig allt bodorded / og skickanernar og riettinden̄ / hvør þu skallt kieña þeim / ad þeir skule giøra (þar epter) i landenu/ sem eg gief þeim ad sitia.

32. So hallded þad/ til ad giøra epter/ so sem Drottenñ ydar Gud hefur boded ydur / þier skulud ecke * vijkia til hægre / eda vinstre sijdu.
* C. 28. 14. Jos. 1. 7.

33. * A øllum þeim veige/ sem Drottenñ ydar Gud hefur boded ydur/ skulud þier ganga / ad ** þier meiged lifa/ og þad kuñe ganga ydur vel / og þier kiñud leinge lifa i þvi lande / sem þier skulud eignast. * 1. Mos. 18. 19.
** 5. Mos. 6. 2.

## VI. Capitule.

### Þeirrar Fyrre Toblu Utskijring um Elskuna til Guds.



Og þetta er þad bod/ þær skickaner og þau riettinde / sem Drottenñ ydar Gud hefur boded / ad keña ydur/ * ad giøra i landenu/ þangad sem þier fared / ad sitia þad. * Jak. 1. 22.

2. Ad þu skallt ottast Drottenn þinn
Gud/ ad hallda * allar hans skickan-
er og hans bod / sem eg byd þier / og
þinn son/ og þinn sonar son/ alla þyna
lyfdaga/ og ad þu mætter leinge lifa.
* C. 4. 40. C. 5. 33.

3. Og þu Israel skallt heyra og
geima (þetta/) ad giøra (þar epter/) ad
þad meige ganga þier vel/ og þier meig
ed verda miøg margfallder/ sem Drott-
enn þinna fedra Gud hefur sagt þier/
(i) einu lande / sem flytur med miolk
og hunange.

4. Heyr * Israel : Drottenn vor
Gud / Drottenn ** er eirn.
* Matth. 22. 37. Marc. 12. 29. ** 5.
Mos. 4. 35. 1. Cor. 8. 4/6.

5. Og þu * skallt elska Drottenn
þinn Gud af þynu giørvøllu hiarta /
og af þinne giørvallre sæl/ og af øllum
þynum mætte. * Marc. 12/ 30.

6. Og þesse ord / sem eg byd þier i
dag / skulu vera a þynu hiarta.

7. Og þu skallt ytreka þau fyrer
þynum børnum/ og tala um þau/ nær
þu situr i þynu hwse/ og nær þu geing
ur a veigenum / og nær þu leggur þig/
eda nær þu uppstendur.

8. Og þu skallt binda þau til *
eins teikns/ a þyna hønd/ og þau sku-
lu vera þier til spænngar i millum þinna
augna. * C. 11. 18.

9. Og þu * skallt skrifa þau a
dyra trien a þynu hwse/ z a þyn port.
* C. 11. 20.

10. Og þad skal skie / nær Drottenn
þinn Gud færer þig i þad land/ sem hann
hefur svared þynum fedrum / Abra-
ham/ Isaak og Jakob / ad giefa þier
stade / stoora og fryda / sem þu hefur
ecke biggt.

11. Og hws full af øllu goodu /
sem þu hefur ecke uppfyllt / og wt-
høggna brunna / sem þu hefur ecke wt-
høggved / vyngarda og oliufiøll / sem
þu hefur ecke plantad / ad þu meiger
eta og verda mettur.

12. (So) tak þier vara / * ad þu
ecke forgleimer Drottne/ sem wtfærde
þig af Egyptalande / ** af þræla
hwsenu. * C. 4/9. C. 8/14. ** C. 5/6.

13. Þu * skallt ottast Drottenn
þinn Gud/ og þioona hønum/ og sver-
ia vid hans nafn. * C. 10/ 20.
1. Sam. 7. 3. Matth. 4. 10. Luc. 4. 8.

14. Þier skulud ecke ganga epter
ødrum gudum/ af þeim foolksens gud-
um/ sem eru allt um kryng ydur.

15. Þvi Drottenn þinn Gud er eirn
* vandlætur Gud a medal þyn/ Ad
Drottens þyns Guds reide skule ecke
verda grøm yfer þier/ og hann skule læ-
ta eideleggia þig af Jardrijke.
* 2. Mos. 20. 5. C. 34. 14.

16. Þier * skulud ecke freista Dro
ttens ydvars Guds / sem ** þier
freistudud hann i Massa. * Matth. 4/
7. Luc. 4. 12. ** 2. Mos. 17. 2/ 7.
4. Mos. 21. 5. 5. Mos. 33. 8.

17. (Enn) þier skulud kostgiæfelega
hallda Drottens ydar Guds bod / og
hans vitnesburd / og hans skickaner /
sem hann hefur boded þier.

18. Ad þu giører þad / sem er riett
og gott fyrer Drottens augum / uppa
þad ad þad skule ganga þier vel/ og þu
skuler innkoma / og inntaka þad gooda
land/ hvørt Drottenn hefur svared þyn
um fedrum.

19. Ad hann skule burtreka * alla
þyna fiandmenn fyrer þier / so sem
Drottenn hefur sagt. * 2. Mos. 23 /
27/ 28.

20. Nær þinn sonur spyr þig hier
epter/ og seiger: hvad er þad fyrer vit
nesburde / og þær skickaner / og þau
riettinde/ sem Drottenn vor Gud hefur
boded ydur ?

21. Þa skalltu seigia til þyns son-
ar: vier vorum * Pharaonis þrælar i
Egyptalande/ og Drottenn * * wtfærde
oss af Egyptalande med eirne volldug
re hende. * 2. Mos. 1/ 11/ 14.
** 2. Mos. 12. 37. C. 14. 8.

22. Og Drottenn giørde tákn og
stoora undarlega giørninga og olucku
i Egyptalande/ a Pharao / og a øllu
hans

hañs hwse / fyrer vorum augum.
23 Og hañ færde oss þar fra / uppa það að hañ villde iñfæra oss / að giefa oss það land / * sem hañ hafde svared vorum fedrum. * v. 18. c. 1. 8.
24 Og Drotteñ hefur boded oss að giøra allar þessar skickaner / a ðott ast Drotteñ vorn Gud / að það meige ganga oss vel alla daga / að hallda oss vid lijfed / sem a þessum dege.
25 Og það skal verda oss riettlæte / nær vier tøkum vara a / að hallda allt þetta bod fyrer Drotteñs vors Guds auglite / so sem hañ hefur boded oss.

## VII. Capitule.

Israels Born mattu ecke giøra Sattmala edur Mægder vid Canaans Iñbyggiara.



Nær Drotteñ þiñ Gud fær iñfært þig i landed / þangad sem þu skallt koma / að sitia það / og * burtreked margt foolk fyrer þier / þa ** Hethita / og Girgasita / og Emorita / og Cananita / og Pheresita / og Hevita / og Jebusita / sio þiooder / sem eru margfalldare og sterkare eñ þu. * C. 31. 3. ** 1. Mos. 15. 20/21. 2. Mos. 23. 23.
2 Og Drotteñ þiñ Gud hefur giefed þa fyrer þier / og þu hefur sleiged þa / þa skalltu aldeiles eideleggia þa / þu skallt * ecke giøra sattmaala vid þa / og ei audsyna þeim nad. * 2. Mos. 23. 32. etc.
3 Þu skallt * ecke giøra mægd vid þa / þu skallt ecke giefa hañs syne þijna dootture / og hañs dootur skalltu ecke taka til þijns sonar. * 2. Mos. 34/16. Dom. 3. 6.
4 Þvi hañ mun koma þijnum syne til að vijkia fra mier / og að þeir skule þioona ødrum gudum / So verdur Drotteñs reide grøm yfer ydur / og hañ mun snart eideleggia ydur.
5 Eñ so skulud þier giøra vid þa: þier skulud nidurbriota * þeirra ølturu / og slaa þeirra stoolpa sundur / og afhøggva þeirra lunda / og uppbreña þeirra (wtskoreñ) bijlæte / med elldenum. * c. 12/ 2.
6 Þvi þu ert * eitt heilagt foolk fyrer Drottne þijnum Gude / Drotteñ þiñ Gud hefur wtvaled þig / að vera honum til eigendooms foolks / fram yfer allar þiooder / sem eru a Jardarkringluñe. * c. 4/ 2. 1 Pet. 2/ 9 2. Mos. 19/ 9. C. 26/ 18.
7 Drotteñ hefur ecke haft lijst til ydar / og wtvaled ydur / af þvi þier værud margfalldare eñ allar þiooder / þvi þier erud sw minsta a medal allra þiooda.
8 Eñ af þvi Drotteñ hefur elskad ydur / og af þvi hañ villde hallda þañ eid / sem hañ hefur svared ydrum fedrum / hefur hañ wtfært ydur med eirnre volldugre hende / og hefur frelst þig af þrælaña hwse / af Pharaonis hende / konungsens af Egyptalande.
9 So skalltu vita / að Drotteñ þiñ Gud / hañ er sa Gud / eirn * trwfastur Gud / sem helldur sattmalañ og ** myskunsemena vid þa / sem hañ elska / og vid þa / sem hallda hañs bod / i þusund lidu. * c. 32/ 5. 1 Cor. 10/ 18 ** 2. Mos. 34/ 7. etc.
10 Og bijtalar þeim / sem hañ hata / openberlega / að læta þa farast / hañ mun ecke forsooma sig vid þa / sem hata hañ / hañ vissulega mun bijtala honum openberlega.
11 So * hallt það bod / og þær skickaner / og þau riettende / sem eg byd þier i dag / að giøra þar epter. * C. 5. 32. C. 6. 17.
12 Og það skal skie þar fyrer / að nær þier hafed heyrt þesse riettinde / og hallded þau / og giørt þar epter / þa mun Drotteñ þiñ Gud hallda vid þig þañ sattmala / og * þa myskunsemie / sem hañ hefur svared þijnum fedrum. * 2. Mos. 23. 22.
13 Og mun elska þig / og blessa þig / og

mÿnu vegne / þa skal eg / eg wtkrefia
þad af honum.
20 Eñ sa spæmadur / sem breyter
drambsamlega / i þvi hañ talar eitt
ord i mÿnu nafne / sem eg hefe ecke be-
falad honum ad tala / eda sæ / sem tal
ar i framande guda nafne / sæ spæ-
madur skal deya.
21 Og ef þu seiger i þÿnu hiarta:
hvørneñ kuñum vier þeckia þad ord /
sem Drotteñ ecke hefur talad ?
22 Nær spæmadureñ talar i Drott
eñs nafne/og þar verdur eckert af/ og
þad skier ecke/þad er þad ord sem Dro
tteñ ecke talade / (eñ) sa spæmadur
hefur þad talad af drambseme / þu
skallt ecke ottast fyrer honum.

## XIX. Capitule.

Undervijsan uñ þa þriæ Frij-Stade a
hina Sijdu Jordanar/ Uñ Straff
fyrer Fals-Vitne /

Nær Drotteñ þiñ Gud
hef: upprætt heiding
iana/hvørra land Dr
otteñ þiñ Gud giefur
þier/ ad þu iñtaker
þa/ og bÿr i þeirra
stødum og þeirra hwsum:
2 Þa skalltu fræskilia þier þriæ
* stade i þÿnu lande / hvørt Drotteñ
þiñ Gud giefur þier/ ad eignast þad.
* 2. Mos. 21/ 13. etc.
3 Þu skallt giøra þier veg(til þeir
ra/) og þu skallt deila i þriæ stade þÿ
ns lands landamerke/sem Drotteñ þiñ
Gud giefur þier til arfs / og þad skal
skie / ad hvør mañdræpare kuñe flÿa
þangad.
4 Og þesse skal vera þess mañdræ-
para søk / sem mæ flÿa þangad / og
halldast vid lÿfed: hañ sem * slær siñ
nauunga oforvarande / og hañ hafde
ecke hatur til hañs ædur. * c. 4. 42.
2. Mos. 21/ 13.
5 Og hañ/sem geingur med sÿnum
nauunga wt i skogeñ/ ad høggva trie/
og hañ riettir sÿna hond wt med ex-
ena/ ad høggva tried/ og iarned fellur
af skaptenu/ og hitter a hañs nauun-
ga/ ad hañ deyr/ hañ skal flÿa til eins
af þessum stødum/ ad hañ meige halld-
ast vid lÿfed.
6 Ad * blood-hefnareñ skule ecke
ellta mañdræparañ/ medañ hñs hiar-
ta er upptendrad / og grÿpa hañ/ nær
vegureñ er langt fræ/og slæ hañ i hel/
þo hañ være ecke skylldugur ad deya /
þvi hñ hafde ecke hatur til hñs firre.
* 4. Mos. 35/ 12.
7 Þar fyrer bÿd eg þier seigiande:
þu skallt * fræskilia þier þriæ stade.
* 2. Mos. 21/ 13. etc.
8 Og þar sem Drotteñ þiñ Gud
giører þitt landamerke vijdara/so sem
hañ hefur * svared þÿnum fedrum /
og giefur þier allt þad land / sem hañ
sagde / ad hañ villde giefa þÿnum fed-
rum. * c. 12. 20. etc.
9 Ef þu helldur * øll þesse bod /
ad giøra þar epter / so sem eg bÿfala
þier i dag/ad elska Drotteñ þiñ Gud/
og ad ganga a hañs veige alla daga /
Þa skalltu eñ * * leggia þriæ stade
til þessara þriggia. * c. 15. 5.
* * C. 4/ 41. Jos. 20/ 8.
10 Ad þar skule ecke wthellast sak
laust blood i þÿnu lande / sem Drotteñ
þiñ Gud giefur þier til arfs / ad þu
skuler verda bloods sekur.
11 Eñ * hafe nockur hatur til sÿ-
ns nauunga/ og situr uñ hañ/og yfer-
fellur hañ/ og * * slær hañ i hel/ ad
hañ deyr / og flÿr til eins af þessum
stødum. * 4. Mos. 35. 20. etc.
* * 1. Mos. 9/ 6.
12 Þa skulu þeir elldstu af hañs
stad senda þangad/ og læta hañ sækia
þar fra/ og afhenda hañ i blood-hegn-
arans hond / og hañ skal deya.
13 Þitt auga skal ecke þyrma hon-
um / og þu skallt burttaka þad saklau-
sa blood af Jsrael/ ad þad meige gan-
ga þier vel.
14 Þu skallt * ecke færa þÿns næ-
unga landamerke/sem þeir firre settu

 til

til marks i þijnum arfe / sem þu fær til arfs i þvi lande/ sem Drottenn þinn Gud giefur þier/ ad eiga þad.

* C. 27/17.

15 Þar skal * ecke eitt vitne (alleina) ganga fram i moote nockrum / fyrer nockurn misgiørning eda fyrer nockra synd / hvada hellst synd nockur hefur drygt / epter * * tveggia vitnesburda hlioodan / eda epter þriggia vitnesburda hlioodan/ skal ein søk stad festast. *4.Mos.35.30. **Joh 8.17

16 Ef nockurt fals-vitne geingur fram i moote nockrum/ ad seigia uppa hann fall.

17 Þa skulu þeir tveir menn / sem hafa þrætu / standa fyrer Drottens augsyn / * fyrer prestanna og doomarann a augsyn / sem munu vera a þeim somu døgum. * c. 17/9.

18 Og doomararner skulu kostgiæfelega rannsaka(þar um/)z sia/ sie þ vitne eitt falskt vitne / (sem) hefur sagt lijge uppa sinn broodur.

19 Þa *skulud þier giøra vid hann/ so sem hann hafde hugad / ad giøra i moot sijnum broodur/ ad þu skilier þad vonda fra þier. * Ordsk. 19/ 5. etc.

20 Ad þeir * adrer meige heyra þad/ og ottast/og ecke meir fara fram þar epter / til ad giøra þa vondu athøfn a medal ydar. *c.13/11. c.17/13.

21 Og þitt auga skal ecke þyrma (hønum/) *Lijf fyrer lijf/ auga fyrer auga/ tønn fyrer tønn/hønd fyrer hønd/ footur fyrer foot. *2. Mos.21/23.etc.

## XX. Capitule.
## Strijds Reglur.



Nær þu dregur wt til strijds i moote þijnum fiandmønnum / og sier hesta og vagna/ (ia) foolk fleira enn þu/þa skalltu ecke ottast fyrer þeim/ þvi Drottenn þinn Gud er med þier/sa sem uppfærde þig af Egypta lande.

2 Og þad skal skie/þegar þier komed nær til strijdsens / þa skal presturenn ganga fram/ og tala til foolksens/

3 Og seigia til þeirra: heyr Israel/ þier ganged fram i dag til strijds/ i moote ydar fiandmønnum/ ydar hiørtu skulu ecke mistreysta/ ottest eckert / og skielfest ecke/og kvijded eckert fyrer þm.

4 Þvi Drottenn ydar Gud er sa / sem geingur med ydur / ad strijda med ydur/ i moote ydar fiandmønnum/ til ad frelsa ydur.

5 Enn høfudsmennerner skulu tala til foolksens / og seigia : hvør er sa madur/sem hefur byggt eitt nytt hws/ og ecke * vijgt þad? sa gange burt / og snwe vid til sijns hwss/ ad hann skule ecke deya i strijdenu / og einn annar madur skule vijgia þad. *Ps. 30/1.

6 Og hvør sa madur / sem hefur plantad einn vijngard / og ecke * giørt hann almennelegann / sa gange burt / og snwe vid til sijns hwss / ad hann ecke skule deya i strijdenu/ og einn annar madur skule giøra hann almennelegann.

* C. 28/30.

7 Og hvør sa madur / sem hefur trwlofast eirne hustru/og * hefur ecke teked hana / sa gange burt / og snwe vid til sijns hwss / ad hann ecke skule deya i strijdenu / og einn annar skule taka hana. * c. 24/ 5.

8 Og fogetarner skulu enn framar tala til foolksens / og seigia: * hvør madur sem er hræddur og deyg-hiartadur/ sa gange i burt/ og snwe vid til sijns hwss/ad hann skule ecke giøra sinna brædra hiørtu hrædd/ sem hanns hiarta er. * Dom. 7/ 3. etc.

9 Og þad skal skie/nær fogetarner hafa fullkomnad ad tala til foolksens/ þa skulu þeir tilskicka þa yppurstu fyrer herenn fremst fyrer foolkenu.

10 Nær þu fer fram til eins stadar/ ad strijda i moote hønum/ þa skalltu * biooda hønum frid.

* 4 Mos. 21. 21/ 22.

11 Og þad skal skie/ ef hann svarar

þier

þier fridſamlega / og lükur upp fyrer
þier/ þa ſkal allt þad foolk/ ſem finſt
i hønum / vera þier ſkattſkylldugt og
þioona þier.
12 Eñ vilie hañ ecke giøra frid vid
þig / helldur ſtrijder i moote þier / þa
ſkalltu ſetiaſt um̃ hañ.
13 Og Drottenn þiñ Gud mun gie
fa hañ i þijna hønd / og þu ſkallt ſlaa
* allt kallkyn þar i med bitru ſverde.
* 4. Moſ. 31/ 7.
14 Alleina kviñunum/ og børnun-
um / og kvikfienadenum og øllu þvi /
ſem þar er i ſtadnum / (jaa) øllu her-
fange þar af/ſkalltu * bijhallda þier
til bytes/ og þu ſkallt eta þiña fiand-
maña herfang/ſem Drottenn þiñ Gud
hefur giefed þier. * 4. Moſ. 31/ 27.
15 So ſkalltu giøra vid alla ſtad-
ena/ ſem eru harla langt fra þier/ ſem
ecke eru af þeſſum heidingiaña ſtødum.
16 Alleinaſta af þeſſa foolks ſtød
um/ſem Drottenn þiñ Gud giefur þi-
er til arfs / ſkallt þu * eckert laata li-
fa/ (ſemdregur) anda. * Joſ. 10/ 40.
C. 11. 11/ 14.
17 Þvi þu ſkallt ølldunges eidelegg
ia þa/ ſem eru þeir Nethitar/ og þeir
Emoritar / þeir Cananitar og þeir
Pheresitar / þeir Hevitar og þeir Je-
buſitar/ ſo ſem Drottenn þiñ Gud hef
ur boded þier.
18 Uppa þad þeir ſkule ecke kieña
ydur ad giøra epter øllum þeirra vid-
urſtigdum / ſem þeir hafa giørt fyrer
þeirra gudum/ og þier ſkylldud ſyndga
i moote Drottne ydar Gude.
19 Nær þu hlijtur ad liggia leinge
fyrer einum ſtad/ad ſtrijda i moote høn
um/til ad iñtaka hañ/þa ſkalltu ecke
fordiarfa hañs trie/ ad upphøggva
þau med øxe / þvi þu ſkallt eta þar
af / og ecke upphøggva þau / þvi eitt
trie a mørkeñe er mañeſkiuñe (til)fæ-
du/ ad þau ſkule verda þier ad einu
hervyrke.
20 Eñ þad trie alleina / ſem þu
kant vita / ad þad er ecke trie til fæd-
ſlu/ þad ſkalltu fordiarfa og upphøgg
va/ad þu kuñer byggia hervyrke i moo
te ſtadnum / ſem ſtrijder i giegn þier /
þar til þu fær valld yfer hønum.

XXI. Capitule.

Løgeñ um̃ eirn ſem ƺundeñ er i Hel-
ſlegeñ / Eina fangada Kviñu/ Þeſſ
Frumborna Rieft / Eirn Ohlijdugañ
Son/ og þañ/ ſem heingeſt a Trienu.

Nær þar verdur fundeñ
eirn i hel ſlegeñ i land
enu/ſem Drottenn þiñ
Gud giefur þier / ad
eiga þad / ſem liggur
a mørkeñe/ (og)mad-
ur veit ecke hvør hañ hefur ſleiged.
2 Þa ſkulu þijner ellſtu og þijner
doomarar wtganga/ og mæla til þeir-
ra ſtada / ſem eru allt um̃ krijng þañ
ſlegna.
3 Og þad ſkal ſkie/ad þeir ellſtu af
þijnum ſtad/ſem eru næſt vid þañ ſleg
na/ ſkulu taka eina kvijgu / ſem madur
hefur ecke erfidad med / ſem ecke hefur
dreiged ok.
4 Og þeir elldſtu af þeim ſama
ſtad/ ſkulu leida kvijguna nidur til eins
hrioostugs dals / ſem ecke erfidaſt eda
ſaæſt i / og þar i dalnum ſkulu þeir
høggva hælſeñ af kvijguñe.
5 So ſkulu preſtarner / Levi ſyner
ganga til/ þvi Drottenn þiñ Gud hef-
ur wtvaled þa til ad þioona ſier/og til
ad bleſſa i Drottens nafne / og allt
mælefne og allur ſkade ſkal * vera ept-
er þeirra orde. * C. 17. 8/ 9.
6 Og aller þeir ellſtu af þeim ſa-
ma ſtad / þeir ſem eru næſt vid þañ i
hel ſlegna/ ſkulu þvo þeirra hendur yf
er kvijguñe / ſem hælſeñ er af høggveñ
i dalnum.
7 Og þeir ſkulu ſvara og ſeigia :
vorar hendur hafa ecke wthellt þeſſu
bloode/ og vor augu ecke ſied þad.
8 Vertu þijnu foolke Iſrael naad-
ugur/ ſem þu Drottenn hefur leyſt / og

legg ecke (þetta) saklausa blood a þitt foolk Israel / So verdur blooded forlykt fyrer þa.

9 Og þu skallt burttaka þad saklausa blood fra þier/ þvi þu skallt giora þad / sem riett er fyrer Drottens augum.

10 Nær þu utdregur i strijd i moote þijnum fiandmønnum/ og Drotten þinn Gud giefur þa i þijna hønd/ ad þu fær er þa fangna burt.

11 Og sier eina frijda kvinnu a medal fanganna/ og fær vilia til hennar/ ad taka þier (hana) til hustrur.

12 Þa skalltu færa hana inn i þitt hws / og hun skal laata raka sitt høfud/ og laata sijnar neglur vaxa/

13 Og leggia sitt fangelsis klæde af sier/ og hun skal vera i þijnu hwse/ og graata sinn fødur og sijna moodur eirn maanadar tijma / og sijdann maattu ganga til hennar/ og verda hennar madur/ og hun skal verda þijn hustru.

14 Enn þad skal skie / ef þu hefur ecke vilia til hennar / þa skalltu laata hana fara/ hvort hana gyrner/ og vijst ecke selia hana fyrer peninga/ edur leigia hana wt / þvi þu hefur leiged med henne.

15 Ef eirn madur hefur tvær hustrur/ eina * sem hann elskar/ og eina adra/ sem hann hatar/ og þær hafa fædt hønum børn/ (baadar/) su hann hefur kiæra / og su hann hatar/ og sa frumborne sonur er hennar/ sem hann hatar.
* 1. Mos. 29/30. etc.

16 Og sa tijme kiemur/ ad hann skal laata sijn børn erfa þad hann hefur/ þa kann hann ecke giora hennar son/ sem hann hefur kiæra/ til þess frumborna/ fyrer hennar frumborna sonar augsyn / sem hann hatar.

17 Enn hann skal þeckia hennar son/ sem hann hatar/ fyrer þann frumborna/ ad giefa hønum tvøfalldt af øllu þvi þar finst hia hønum/ þvi hann er hans * fyrste kraptur/ hønum heyrer frumburdar riettureñ til. * 1. Mos. 49/3.

18 Ef nockur madur a eirn einþyckann og ohlijdenn son/ þann sem ecke hlyder sijns fødurs raust / og sinnar moodur raust/ og þau refsa hønum/ og hann vill ecke hlyda þeim.

19 Þa skal hans fader og hans mooder taka hann / og utleida hann til þeirra elldstu i hans stad/ og til portsens i hans stad.

20 Og seigia til þeirra elldstu i hans stad: þesse ockar sonur er einþyckur og ohlijdenn / hann vill ecke hlyda ockar raust/ eirn svallare ɀ ofdryckiu madur.

21 So skal almugenn i hans stad/ * grijta hann med steinum/ og hann skal deya / og þu skallt ** burttaka þad vonda fra þier / ad allur Israel meige heyra þad/ og ottast. * c. 3/ 10.
** C. 19/19.

22 Og nær nockur madur hefur giort eina synd/ ad hann er skylldur ad deya og aflijfast / og þu heinger hann a einu træ.

23 Þa skal hans lijkame ecke vera * um noottena a trienu / enn þu skallt vijst grafa hann a þeim sama deige/ þvi hann ** er eirn Guds bølvan/ sem verdur heingdur/ Og þu skallt ecke saurga þad land/ sem Drottenn þinn Gud giefur þier til arfs. * Jos. 10/ 27.
** Gal. 3/ 13.

## XXII. Capitule.

### Adskilianleg Verallдleg Løg.

Þu skallt ecke sia þijns broodurs * uxa edur hans kvikþie fara villt/ og snwa þier þar fra / þu skallt vijst leida þau aptur til þijns broodurs.
* 2. Mos. 23/ 4.

2 Enn sie þinn brooder ecke nælægt hia þier/ og þu þecker hann ecke/ þa skallt þu taka þad inn i þitt hws / og þad skal vera hia þier / þar til þinn brooder spyr þar epter / og þu skallt faa hønum þad aptur.

3 Og so skalltu giora vid hans asna/ og so skalltu giora vid hans klæde/ og so skalltu

skalltu giora vid allt þad/ sem þiñ brooder hefur misst / þad sem er burtu fra honum/og þu finnur þad/ þu matt ecke draga þig i hlie

4 Þu skallt ecke sia þÿns broodurs * asna/ eda hañs uxa/ fallna a veige/ og ecke draga þig i hlie fra þeim / þu skallt oÿst hialpa þeim upp med honum.

* 2. Mos. 23/ 5.

5 Þar skal eingeñ kallmañs bwnadur / koma a eina kvinnu / og eirn madur skal ecke fæera sig i kveña klæde/ þvi hver sem giorer þad / er ein vidurstygd fyrer Drottne þÿnum Gude.

6 Nær þu finnur eitt fugla hreidur fyrer þier a veigenum/ añadhvort i nockru trie/ eda a Jorduñe / og þar eru ungar/ edur egg / og moodereñ /sem liggur a ungunum / edur a eggiunum / þa skalltu ecke taka moodurena med ungunum.

7 Eñ þu skallt oÿst * lata moodurena fara / og taka ungana til þÿn / ad þad meige ganga þier vel / og þu meiger leinge lifa. * 3. Mos. 22. 28.

8 Nær þu * bigger eitt nÿtt hws/þa skalltu giora eitt verk þar um a þÿnu þake/ad þu legger ecke bloodskulld a þitt hws / ef nockur dettur þar af.

* C. 20/ 5.

9 Þu skallt * ecke sa þiñ vÿngard/ med tveñslags (sæde/) ad þÿns sædes fylling / sem þu munt sa / og vÿngardsens iñtekt/ skule ecke vanhelgast.

* 3. Mos. 19. 19.

10 Þu skallt ecke plægia med einum uxa og med einum asna til samans.

11 Þu skallt ecke fæera þig i klæde / (giord) af ullu og lÿne til samans.

12 Þu skallt giora þier * snwrur a þau fiogur lof af þiñe kapu / sem þu skÿler þier med. * 4. Mos. 15/ 38. etc.

13 Nær eirn madur tekur eina hustru/ og geingur iñ til heñar / og fær hatur til heñar/

14 Og leggur heñe saka athafner til / og wtber eitt vondt rikte um hana / og seiger: þessa kvinnu took eg / og hiellt mig til heñar / og faññ ecke joomfrwrdoom hia heñe:

15 Þa skal stwlkuñar fader og heñar mooder taka og wtbera stwlkuñar joomfrwrlegt teikn fyrer þa elldstu i stadnum til portsens.

16 Og stwlkuñar fader skal seigia til þeirra elldstu: eg gaf þessum mañe mÿna doottur til hustrur / og hañ hefur feinged hatur til heñar:

17 Og sia / hañ leggur heñe saka athafner til/og seiger: eg hefe ecke funded þiñar doottur joomfrwr doom/Og þÿsse eru miñar doottur joomfrwrleg teikn / So skulu þau wtbreida þad klæde fyrer þa elldstu af stadnum.

18 Og þeir elldstu af þeim stad/skulu taka þañ mañ/ og refsa honum.

19 Og straffa hañ uppa hundrad * silfur peninga/ og giefa stwlkuñar fødur / þvi hañ hefur wtbored vont rikte um eina joomfrw i Israel/ So skal hañ hafa hana til hustrur/hañ ma ecke for lata hana alla sÿna daga. * v. 29.

20 Eñ sie þad satt / sem seigest/ ad stwlkañ ecke fañst joomfrw.

21 Þa skulu þeir leida stwlkuna wt til dyraña / af heñar fødurs hwse / og foolked af heñar stad skal grÿta hana med steinum / og hun skal deya/ af þvi hun giorde eirn daruskap i Israel / ad drygia hoor i heñar fødurs hwse / Og þu skallt burttaka þad vonda fra þier.

22 Ef eirn madur finst / ad hañ liggur med * eiñre kvinnu / sem er gypt mañe / þa skulu þau og so bæde deya / madureñ/ sem la med kvinnuñe/ og kvinnañ / og þu skallt ** burttaka þad vonda af Israel. * 3. Mos. 20 / 10.

** 5. Mos. 21/ 21.

23 Ef ein mey/ ein joomfrw/er trwlofud einum mañe / og eirn madur finnur hana i stadnum / og leggst med heñe.

24 Þa skulu þeir wtfæra þau bæde til stadar portsens / og grÿta þau med steinum/ og þau skulu deya/ stwlkañ fyrer þeirrar sakar skulld/ad hun ecke hroopade i stadnum/ og madureñ/fyrer þeirrar sakar skulld / ad hañ kreinkte sÿns næunga hustru/ Og þu skallt burttaka þad vonda fra þier.

25 Ef þiñe nockur madur eina trw⸗
lopada stwlku a morkeñe / og madureñ
grÿpur hana / og liggur med heñe / þa
skal madureñ / sem lꝏ med heñe / fyrer
sig alleina deya.

26 Eñ vid stwlkuna skallt þu eckert
giora / stwlkañ giorde ecke synd/ sem er
dauda verd/ Þvi lÿka sem nockur madur
villde uppsetia sig i moote sÿnum nꝏun⸗
ga/ og slꝏ hañ olldunges i hel/ so er og
þetta athæpe.

27 Þvi hañ þañ hana a morkeñe /
su trwlopada stwlka hroopade / og þar
var eingeñ / sem frelsade hana.

28 Nær nockur þiñur eina stwlku /
eina joomprw / sem ecke er trwlopud/ og
tekur hana/ og liggur med heñe/ og þau
fundust (þar med :)

29 Þa *skal sa madur/ sem lꝏ hiꝏ
heñe/ giepa stwlkuñar fødur þimtÿu silp
ur⸗peninga / og hapa hana til hustrur /
ap þvi hañ kreinkte hana/ Hañ mꝏ ecke
forlꝏta hana alla sÿna daga.

*2. Mos. 22/ 16.

30 Eingeñ madur * skal taka sÿns
fodurs hustru / og ecke uppletta sÿns
fødurs løpum. * 3. Mos. 18/ 8. etc.

## XXIII. Capitule.

Hvør/ og hvad þar mꝏtte ecke koma
iñ i Drottens Søpnud.



ingeñ biladur eda gielldt⸗
ur skal koma iñ i Drott⸗
eñs søpnud.

2 Eckert hooru⸗ba⸗
rn skal koma iñ i Drott⸗
eñs søpnud/ ecke allt i tÿ⸗
unda lid/ hañ skal ecke koma i Drottens
søpnud.

3 Ammonitar og * Moabitar skulu
ecke koma i Drottens søpnud / allt i þañ
tÿunda lid/ þeir skulu ecke koma i Drott⸗
eñs søpnud æpeñlega. * Nehem. 13. 1.

4 Ap þvi þeir villdu ecke mæta ydur
med braud og med vatn a veigenum/ þeg
ar þier foorud wt ap Ægyptalande / og
ap þvi þeir leigdu * Bileam Beors son/
ap Pethor i Mesopotamia / i moote þi⸗
er/ til ad bølva þier. * 4. Mos. 22. 5. etc.
Jos. 24/ 9.

5 Eñ Drotteñ þiñ Gud villde ecke
heyra Bileam/ og Drotteñ þiñ Gud snæ
re þier bølvaneñe uñ til blessunar / þvi
Drotteñ þiñ Gud hapde þig kiærañ.

6 Þu skallt ecke gyrnast þeirra lucku
eda þeirra goda alla þÿna daga æp⸗
eñlega.

7 Þu skallt ecke hapa vidurstigd til
eins Edomita / þvi hañ * er þiñ brood⸗
er/ Þu skallt ecke hapa vidurstigd til eins
Ægyptara/ þvi þu hepur vered ætlendur
i hañs lande. * 1. Mos. 25. 25/ 26.

8 Þau born / sem þeir ala i þañ
þridia lid/ skulu koma i Drotteñs søpnud.

9 Nær þu geingur wt ap herbødun⸗
um i moote þÿnum þiandmoñum/ þa tak
þier vara fyrer allre vondre athøpn.

10 Nær þar er nockur a medal yd⸗
ar/ sem ecke er hreirn/ vegna þess / sem
hañ kuñe henda uñ nooltena / hañ skal
ganga burt wt fyrer herbødernar / hañ
skal (ecke) koma iñ i herbødernar.

11 Og þad skal skie/ moote aptne skal
hañ þvo sig i vatne/ og nær sooleñ geing
ur nidur/ skal hañ ganga i herbødernar.

12 Þu skallt hapa eirn stad utañ fyr
er herbødunum/ og þu skallt ganga þang
ad wt/ (ad giora þÿn þarþinde.)

13 Og þu skallt hapa eirn spada fyr
er utañ þÿn vopn/ og þad skal skie/ nær
þu villt setia þig þar wte/ þa skalltu gra⸗
pa þar med / og snwa þier vid/ og hylia
þad / sem er geinged fra þier.

14 Þvi Drotteñ þiñ Gud * geingur
midt a medal þiña herbøda / ap þvi ad
frÿa þig / og giepa þÿna þiandmeñ fyrer
þier / og þÿnar herbøder skulu vera hei⸗
lagar / ad hañ skule ecke siꝏ nockud slæ⸗
mt hiꝏ þier og snwa sier fra þier.

* 3. Mos. 16/ 12.

15 Þu skallt ecke aphenda eirn þien⸗
ara sÿnum herra / sem þlwde fra sÿnum
herra til þÿn.

16 Hañ skal vera hiꝏ þier a þeim
stad/ sem hañ wtvelur sier til goods i ei⸗
nu ap þÿnum portum/ þu skallt * ecke gio
ra

ra honum oprýke. * 2. Mos. 22/ 21.

17 Þar skal eingen skiækia vera af Israels dætrum/ og eingen (skamadur) skal vera af Israels sonum.

18 Þu skallt ecke inn bera skiækiu laun edur hunda verd i Drottens þyns Guds hws / fyrer nockurt heit / þui þau eru Drottne þynum Gude og so bæde ein vidurstygd.

19 Þu skallt * ecke taka okur af þynum brooður / peninga okur / mat okur / hvad sem helst okur þar okrast kann.

* 2. Mos. 22/ 25. etc.

20 Af einum framande mætt þu taka okur / enn af þynum brooður mattu ecke taka okur/ ad Drotten þinn Gud skule blessa þig/ i ollu þui sem þu tekur þier fyrer i þui lande/ hvar til þu kiemur/ ad eiga þad.

21 Nær þu lofar Drottne þynum Gude * einu heite / þa skalltu ecke dvelia ad hallda þad/ þui Drotten þinn ** Gud vill vissulega þad wtkrefia af þier/ og þad skal verda þier til syndar.

*3. Mos. 27/2. 4. Mos. 30/3. ** Ps. 50/14.

22 Enn heiter þu aungvu/ þa ert þu utann syndar.

23 Þad sem er wtgeinged af þynum vorum / þad skalltu hallda/ og giora so/ sem þu hefur lofad Drottne þynum Gude sialfviliuglega med þynum munne/ sem þu hefur talad.

24 Nær þu geingur umm þyns nawnga vyngard/ þa mattu eta (vynu) þrwgur/ sem þig lister/ þar til þu ert mettur/ enn þu skallt eckert leggia i þitt Ker.

25 Nær þu geingur * umm þyns nawnga korn / þa mattu plocka ox af med þinne hende / enn þu skallt ecke upplifta sygd yfer þyns nawunga korne.

* Matth. 12/ 1.

## XXIV. Capitule.

Logmal/ sem helst vidvijkur Hwss Standenu.



f nockur tekur eina Kvinnu/ og verdur hennar madur / og þad skier/ ef hun ecke þocknast honum/ þui hann fann nockra skomm hia henne/ þa * skal hann skrifa henne eitt skilnadar bref / og fa henne i (syna) hond/ og lata hana fara af synu hwse. * Matth. 5/ 31.

2 Nær hun er wtgeingenn af hanns hwse / og geingur burt / og verdur eins annars manns (hustru.)

3 Og sa same annar madur fær (og) hatur til hennar / (og) skrifar henne eitt skilnadar bref / og fær henne i (syna) hond/ og lætur hana ganga af synu hwse/ edur ef sa annar madur deyr/ sem took sier hana til hustrur.

4 Þa kann ecke * hennar fyrre madur/ sem liet hana fara/ aptur taka hana til ad vera syna hustru / sydann hun er saurgud / þui hun er ein vidurstygd fyrer Drottne/ og þu skallt ecke giora þad land syndugt / sem Drotten þinn Gud giefur þier til arfs. * Jerem. 3/ 1.

5 Nær nockur hefur teked sier eina unga hustru/ hann * skal ecke fara i striid/ og mann skal ongvann þwnga leggia a hann / hann skal vera fri i synu hwse eitt aar/ og gledia syna hustru/ sem hann hefur teked. * c. 20/ 7.

6 Madur skal ecke taka (bæde) mylnusteinana/ ellegar (hann efra) mylnusteinenn til pants/ þui hann tekur (so) sæl ena til pants:

7 Ef nockur finst/ sem * stelur eirne persoonu fra synum brædrum af Israels bornum / og leiger hana wt/ eda selur hana/ þa skal sa same þioofur deya/ og þu skallt burttaka þad vonda fra þier.

* 2. Mos. 21/16. 1. Tim. 1/10.

8 Tak þier vara fyrer lykþrærs plagu/ ad þu taker kostgiæfelega vara/ ad giora epter ollu þui / sem * prestarner/ Levitarner munu kienna ydur / epter þui sem eg hefe boded þeim/ skulud þier hallda fram ad giora. * 3. Mos. 13/ 8.

C. 14/ 2. 2. Sam. 3/ 29.

9. Minstu hvad * Drotten þinn Gud

giorde:

giørde vid Maria a veigenum/ þegar þier foorud wt af Ægyptalande.

* 4. Mos. 12/ 10.

10 Þar sem þu fær þynum naunga nockud til læns / þa skalltu ecke ganga inn i hans hws/ad taka pant af honum:

11 Þu skallt standa wte fyrer/ og sa madur/ sem þu hefur lænad (nockud) skal bera panted wt til þyn wt fyrer.

12 Enn sie hann eirn fatækur madur/ þa skalltu ecke leggia þig med hns pant:

13 Enn þu * skallt fyrer vyst fa honum panted aptur/ nær sooled geingur nidur / ad hann kune sofa i synum klædum / og blessa þig / og þad skal vera þier eitt riettlæte fyrer Drottne þynum Gude.

* 2. Mos. 22/ 26.

14 Þu skallt * ecke opþryngia einum vesslum (dag-)launara/ eda einum fatæk um/ (sie) hann af þynum brædrum/ eda af þeim wtlendu/ sem eru i þynu lande/ innan þinna porta. * 3. Mos. 19/13. etc.

15 Enn þu skallt giefa honum syn laun hvorn dag/ og sooled skal ecke ganga nidur yfer þeim / þvi hann er vesæll/ og þar med vidhelldur hann synu lyfe/ad hann skule ecke hroopa yfer þier til Drottens / og þad skule verda þier til syndar.

16 Forelldrarner * skulu ecke deydast fyrer børnenn / og børnenn skulu ecke deydast fyrer forelldrana/ þau skulu deyd ast hvør fyrer syna synd. * 2. Kong. 14/ 6. 2. Kron. 25/ 4. Jerem. 31/ 30. Ezech. 18. 19/ 20

17 Þu skallt * ecke beigia riettenn fyrer þeim framanda/ þeim fødurlausa/og ei taka eirnrar eckiu klæde til pants.

* 2. Mos. 22/ 21. etc.

18 Og þu * skallt minnast / ad þu varst eirn þræll i Ægyptalande/og Drotten þinn Gud leyste þig þar fra/ þvi byd eg þier/ ad giora þetta verk.

* C. 5/ 15. C. 16/ 12.

19 Nær þu hefur uppskored þyna haustyrkiu a þynum akre / og * gleymt einu bindene a akrenum / þa skalltu ecke snwa vid ad taka þad / þad skal heyra þeim framanda / þeim fødurlausa/ og eckiune til / ad Drottenn þinn Gud skule blessa þig i ollum þinna handa verkum.

* 3. Mos. 19/ 9. etc.

20 Nær þu hefur hrist þitt oliu trie/ þa skalltu ecke lyta til baka til grein anna / þad skal heyra þeim framanda / þeim fødurlausa og eckiune til.

21 Nær þu hefur plockad þinn vyngard/ þa skalltu ecke plocka hann aptur/ þad skal heyra þeim framanda / þeim fødurlausa og eckiune til.

22 Og þu skallt * minnast / ad þu varst eirn þræll i Ægyptalande/ þar fyrer byd eg þier/ad giora þetta verk.

* v. 18. etc.

## XXV. Capitule.

### Løgmæl sem vidviek þeirre Judaisku Stioorn.

Na þar er þræta i millum manna/ og þeir koma fram fyrer doom/ þa skulu þeir dæma þa / og þeir skulu dæma * þann riettferduga ad vera riettferdugann / og læta þann ogudlega vera ogudlegann. * Ordsk. 17/ 15.

2 Og þad skal skie / ef sa ogudlege hefur forþienad hogg / þa skal doomarenn læta hnn falla nidur/og læta hann slæ fyrer sier epter þvi sem hans misgiøringur er mykell til.

3 Mann skal slæ hann * fiørutyu (slog/) mann skal ecke slæ fleire/ad mann skule ecke/ ef hann verdur sleigenn þar yfer/slæ hann ofmyked/og þinn brooder skule foracktast fyrer þynum augum.

* 2. Cor. 12/ 24.

4 Þu skallt ecke * binda muninn a einum uxa/ nær hann þresker.

* 1. Cor. 9/ 9. 1. Tim. 5/ 18. Jak. 5/ 1.

5 Nær brædur bwa til samans / og eirn deyr af þeim / og hann æ aungvann son / þa * skal þess dauda hustru ecke verda eins framanda wti fra mannsins/ Heldur ar manns brooder skal ganga inn til hennar/ og taka hana sier til hustrur / og egta hana (i syns broodurs stad.)

* Ruth. 4/ 5. Matth. 22/ 24. Marc. 12/ 19. Luc. 20/ 28.

6 Og þad skal skie / sa frumborne / sem hun mun fæda/ skal koma upp epter hans

hañs dauda broodurs nafne/og hñs na.
fn skal ecke verda afmad af Israel.
7 Eñ ef madureñ vill * ecke taka
sÿns broodurs hustru / þa skal hañs
broodurs hustru ganga upp til port-
sens til þeirra elldstu/og seigia: mÿns
mañs brooder veigrar sier ad uppvekia
sÿnum broodur eitt nafn i Israel/ vill
ecke egta mig ( i sÿns broodurs stad.)
* Ruth. 4/ 4. etc.
8 So skulu þeir elldstu af hañs
stad kalla hañ / og tala til hañs/Nær
hañ (þa) stendur og seiger: eg vil ecke
taka hana.
9 Þa skal hañs broodurs hustru
ganga til hañs fyrer þeirra elldstu aug
um / og draga hañs skoo af hañs fæ-
te / og hrækia i hañs andlit / og skal
svara og seigia: so skal þad skie þañ
mañ/ sem ecke vill uppbyggia sÿns bro
odurs hws.
10 Og hañs nafn skal kallast i Is
rael: þad hañs hws / sem skooreñ er
afdreigeñ.
11 Nær meñ þrætta til samans /
eirn vid þañ añañ/og þess eina hustru
kiemur þar til/ ad frÿa siñ mañ af ha
ñs hende/sem slær hañ/ og hun riettir
sÿna hønd wt/ z tekr um̃ hñs bligdan.
12 Þa skalltu afhøggva heñar hø-
nd/ þitt auga skal ecke þyrma (heñe.)
13 Þu skallt * ecke hafa tveñslags
vigter i þÿnum seck / eina stærre og
eina miñe. * 3. Mos. 19/ 36.
Ezech. 45/ 10.
14 Þu skallt ecke hafa tvo mæle-
aska i þÿnu hwse / eirn stooran og
eirn lÿteñ.
15 Þu * skallt hafa eina fullkom-
na og rietta vigt/ þu skallt hafa eirn
fullkomeñ og riettañ mæle-ask / uppa
þad þeir skule leingia þÿna daga i þÿ-
nu lande/ sem Drottiñ þiñ Gud gief-
ur þier. * 3. Mos. 19/ 35. etc.
16 Þvi hvor/ sem giører þad/er *
ein vidurstigd fyrer Drottne þÿnum
Gude/hver sem giører oriett.
* Ordsk. 11/ 1.

17 Minstu/ hvad * Amalek giørde
þier a veigenum/þegar þier foorud wt
af Ægyptalande. * 2. Mos. 17/8. etc.
18 Hvorneñ hañ kom i moote þier
a veigenum / og * sloo þÿna øpturstu/
alla þa þreyttu / (sem geingu) epter
þier/þegar þu varst þreittur og mædd
ur/og hañ ecke ottadest Gud.
* Jos. 10/ 19.
19 Og þad skal skie / nær Drottiñ
þiñ Gud hefur giefed þier hvÿld þ ølluñ
þÿnum fiandmøñum allt um̃ kryng i
landenu/ sem Drottiñ þiñ Gud giefur
þier til arfs/ ad eiga þad/ * þa skall
tu afmaa Amaleks miñing under Him
nenum / þu skallt ecke gleyma þvi.
* 1. Sam. 15. 2/ 3. 1. Kron. 5/ 43.

## XXVI. Capitule.

Log um̃ þañ fyrsta Grooda z Tijunder



g þad skal skie / nær þu
kiemur iñ i þad land /
sem Drottiñ þiñ Gud
giefur þier til arfs / og
þu æit þ og byr þar i.
2 Þa * skalltu taka
af allra handa fyrsta avexte i lande-
nu / sem þu skallt framfæra af þiñe
Jørd / sem Drottiñ þiñ Gud giefur
þier/ og leggia þad i eina korf/og gan-
ga til þess stadar / sem Drottiñ þiñ
Gud mun wtvelia / ad nidursetia sitt
nafn þar. * 2. Mos. 23/19. C. 34/ 26.
3. Mos. 2/ 14. C. 23/10. 5. Mos. 16/ 10.
3 Og þu skallt koma til prestsens/
sem verdur a þeim døgum / og seigia
til hañs: eg auglÿse i dag fyrer Dro-
ttne þÿnum Gude/ad eg er komeñ i þad
land/sem Drottiñ soor vorum fedrum/
ad giefa oss.
4 Og presturiñ skal taka korfena
af þiñe hende/ og setia hana nidur fyr
er Drottiñs þÿns Guds altares fram-
hluta.
5 Þa skallt þu svara og seigia fyr
er Drottne þÿnum Gude: miñ fader
var eirn aumur Syrlendskur/ z hñ &
foor ofañ til Ægyptalands/ z var þar

eirn wtlendingur med einu fáu foolke/
og hn vard þar ad eirnre stoorre/sterk
re og margfalldre þiood. *1. Mos. 46. 5
6 Eñ Egyptsker * fooru illa med
oss/og þvinguðu oss/z løgdu eirn hard
añ þrældoom a oss/ *2. Mos. 1. 13/14.
7 Þa *hroopudum vier til Drott-
ens vorra fedra Guds/og Drotteñ hey
rde vora raust/og sa vora eymd/og vo
ra mædu/ z vora neyd. *2. Mos. 2. 23/24
8 Og Drotteñ * wtfærde oss af
Egyptalande med eirne volldugre hen-
de/ og wtriettum arme / og med stoorre
skielfingu/og fyrer tækn/og fyrer und
arleg verk. * 2. Mos. 12/ 51. c. 13/3.
9 Og færde oss hyngad til þessa
stadar/ og hefur giefed oss þetta land/
* eitt land / sem flytur med mioolk og
hunange. *2. Mos. 3/8. c. 13/5. c. 33/3
10 Og nu/sia/ eg hefe bored hyng-
ad þad fyrsta af landsens aavexte/sem
þu Drottenñ hefur giefed mier/Og þu
skallt láta þad vera fyrer Drottenñs
þyns Guds augsyn / og tillbidia fyrer
Drottenñs þyns Guds auglite.
11 Og*giøra þig gladañ yfer øllu
þvi gooda/ sem Drotteñ þiñ Gud hef
ur giefed þier og þynu hwse/þu og Le-
vitenñ/og sa framande/sm er hia þier.
* C. 16. 11/ 14.
12 Nær þu hefur * fullendad ad
tiunda alla tiund af þiñe iñtekt / a
þvi þridia aare / (sem er) tiundareñar
aar/ þa skalltu giefa Levitanum/ þeim
framanda / þeim fødurlausa / og eck-
iuñe/ ad þau ete iñañ þiña porta / og
verde mett. * c. 14/ 28.
13 Og þu skallt seigia fyrer Drott
eñs þyns Guds augsyn: eg hefe bored
wt af hwsenu þad/ sem er helgad/ og
giefed og so Levitanum/og þeim fram
anda/ þeim fødurlausa og eckiuñe/ept
er øllum þynum bodum/sem * þu hef-
ur boded mier / eg hefe eckert yfertrod-
ed / eda gleymt af þynum bodum.
* C. 14/ 27. etc.
14 Eg hefe eckert eted þar af i mi
ñe sorg/og eckert teked þar af i (myn-
um) ohreinleika / eg hefe eckert giefed
til eins dauds þar af / Eg hefe vered
Drottenñs myns Guds raust hlydug-
ur / eg hefe giørt epter øllu þvi / sem
þu hefur boded mier.
15 Siaa * ofañ af þynu heilaglei-
kans heimile/af Himnenum/ og blessa
þitt foolk Israel/og þad land/sem þu
hefur giefed oss / eins sem þu hefur
svared vorum fedrum / eitt land / sem
flytur med mioolk og hunange.
* Es. 63/15.
16 Drotteñ þiñ Gud bydur þier a
þessum dege / * ad giøra þessar skick-
aner og riettinde/og þu skallt vardvei-
ta og giøra þaug / i þynu giørvøllu
hiarta/z i þiñe giørvallre saal. *C. 6/5.
17 Þu hefur giørt sattmaala i dag
vid Drottenñ / ad hañ skule vera þiñn
Gud / og ad þu vilier ganga a hañs
veige / og hallda hañs * skickaner og
hañs bod/ og hañs riettende/og ad hly
da hañs raust. * c. 5/ 31.
18 Og Drotteñ hefur tilsagt þier
i dag / ad * þu skuler vera hañs sier-
deiles foolk/so sem hañ hefur sagt þi-
er/ og ad þu skuler hallda øll hñs bod.
* C. 7/ 6. etc.
19 Og hañ mun upphefia þig yf-
er allar þiooder / sem hañ hefur giørt
til lofs/ og til nafns/ og til dyrdar/og
ad þu skuler vera Drottne þynum Gu
de eitt heilagt foolk/so sem hañ hefur
sagt.

XXVII. Capitule.

Steinar hinumeigeñ Jordanar i Cana
ans lande uppreisest/ Eirn Maate
ad bølva.



g Mose og þeir ellstu af
Israel budu foolkenu /
og søgdu: halld øll þesse
bod / sem eg byd ydur i
dag.
2 Og þad skal skie/a
þeim deige/nær þier skulud ganga*yf-
er Jordan/ til þess lands/ sem Drott
eñ þiñ Gud giefur þier / þa skalltu
uppreisa þier stoora steina/og yfersti-

wka þa med kalke. * Jos. 3/17.
3 Og skrifa a þa øll þsse løgmals
ord / nær þu kiemur yfer um / ad þu
skuler koma i landed/ sem Drottenn þinn
Gud giefur þier/ eitt land/ sem flytur
med miolk og hunange/ sem Drottenn
þinna fedra Gud hefur sagt þier.
4 Og þad skal skie/ nær þier gang-
ed yfer Jordan / þa skulud þier upp-
reisa þessa steina / sem eg befala ydur
i dag / a Ebals fialle/ og yferstriwka
þa med kalke.
5 Og * þu skallt byggia þar Dro
ttne þynum Gude eitt altare/ eitt alta-
re af steinum / þu skallt ecke upplypta
iarne yfer þa. * 2. Mos. 20/25. etc.
6 Þu skallt byggia sama Drott-
enns þyns Guds altare af heilum stein-
um / og offra Drottne þynum Gude
brennoffrum þar a.
7 Þu skallt og offra þackar-off-
rum/ og eta þar/ og * giøra þig glad-
ann fyrer Drottenns þyns Guds aug-
lite. * c. 12. 12/ 18.
8 Og þu skallt skrifa øll ordenn af
þessu løgmale / vel skyrlega a sonnu
steina.
9 Og Mose/ og prestarner/ Levit-
arner/ toludu til alls Israel og søgdu:
giæt og heyr Israel/ þu ert i dag ord-
enn * Drottenns þyns Guds foolk.
* C. 26. 18/ 19.
10 Ad þu skuler hlyda Drottenns
þyns Guds raust/ og giøra epter hanns
bodum og hanns skickunum / sem eg byd
þier i dag.
11 Og Mose baud foolkenu a þeim
sama dege/ og sagde:
12 Þesser skulu standa/ ad * blessa
foolked a Grisim fialle/ nær þier kom-
ed yfer Jordan / Simeon/ og Levi / og
Juda/ og Isaschar/ og Joseph/ og Ben
Jamin. * c. 11/ 29.
13 Og þesser skulu standa til bøl-
vanarennar a Ebals fialle / Ruben /
Gad/ og Asser / og Sebulon/ Dan og
Naphthali.
14 Og Levitarner skulu svara og
seigia til hvors manns af Israel med
hærre raust:
15 Bølvadur vere sa madur / sem
giører eirn wtskorenn (afgud/) eda eitt
steypt ( bylæte / ) sem er ein vidurstygd
fyrer Drottne / eins hagleiks manns
handaverk/ og setur þad i hilming/ og
allt foolked skal svara/ og seigia: amen.
16 Bølvadur * vere sa / sem for-
agtar sinn fødur eda syna modur / og
allt foolked skal seigia: amen.
* 2. Mos. 21/ 17. etc.
17 Bølvadur vere sa/ * sem færer
syns naunga landamerke/ og allt foolk
ed skal seigia: amen. * c. 19/ 14.
Ords. 22/ 28.
18 Bølvadur vere sa/ sem kiemur *
einum blindum til ad fara villt a veig-
enum/ og allt foolked skal seigia: amen.
* 3. Mos. 19/ 14.
19 Bølvadur vere sa / sem beiger
rietteñ * fyrer þeim framanda/ fødur-
lausa og eckiunne / og allt foolked skal
seigia: amen. * 2. Mos. 22/ 21. etc.
20 Bølvadur vere sa/ sem * liggur
hia syns fødurs hustru/ nær hann hef-
ur upplipt syns fødurs løfum/ og allt
foolked skal seigia: amen. * c. 22/ 20.
3. Mos. 18/ 8. C. 20/ 11.
21 Bølvadur vere sa/ sem * liggur
med nockru dyre / og allt foolked skal
seigia: amen. * 3. Mos. 18/ 23. etc.
22 Bølvadur vere sa/ sem * liggur
med sinne systur / sem er hanns fødurs
dootter / edur hanns moodur dootter/ og
allt foolked skal seigia: amen.
* 3. Mos. 18/ 9.
23 Bølvadur vere sa / sem liggur
med sinnar hustrwr moodur / og allt
foolked skal seigia : amen.
24 Bølvadur vere sa/ sem * slær
sinn naunga i leyne/ og allt foolked skal
seigia: amen. * 4. Mos. 35/ 20.
25 Bølvadur vere sa / sem tekur
giafur / ad sla eina persoonu / sem er
saklaust blood/ og allt foolked skal seig-
ia: amen.
26 Bølvadur * vere sa/ sem ecke
helldur (øll) ordenn i þessu løgmale/ ad

giøra þar epter / og allt foolked skal
seigia: amen. * Ps. 119/21. Jer. 1/3.
Gal. 3/ 10.

## XXVIII. Capitule.

### Mose lijser Blessan yþer þeim Hlijdugu/ Eñ Bølvan yþer þeim Ohlydugu.



Og þad skal skie / eþ * þu
ert vissulega Drottens þys
ns Guds raustu hlydug-
ur/ ad hallda og giøra øll
hañs bod/ sem eg byd þi-
er i dag/ þa mun Drottenn
þiñ Gud giøra þig ** hæañ yþer øllu
foolke a Jørduñe. * 3. Mos. 26/ 3.
** 5. Mos. 26/ 16.

2 Og allar þessar blessaner skulu ko-
ma yþer þig/ og hitta þig/ aþ þvi þu heþ
ur vered Drottens þyns Guds raust
hlydugur.

3 Blessadur * skalltu vera i stadn-
um/ og blessadur skalltu vera a akrenum.
* C. 30/ 9.

4 Blessadur skal þyns lijþs ævoxt-
ur vera/ og þyns lands ævoxtur/ og þyns
þienadar ævoxtur / þiña nauta aþkvæ-
me / og þiña sauda hiarda.

5 Blessud skal þyn korþ vera/ og þitt
aþgongur.

6 Blessadur skalltu vera / nær þu
geingur iñ/ og blessadur skalltu vera/ nær
þu geingur wt.

7 Drottenn mun * gieþa þyna þiand
meñ slegna fyrer þier / sem setia sig upp
i moote þier / um eirn veg munu þeir ko-
ma i moote þier / og um sio veige skulu
þeir þlyia fyrer þier. * 3. Mos. 26/ 7.

8 Drottenn mun bioda blessanene/ ad
vera hia þier i þynum matar hwsum /
og i øllu þvi/ sem þu tekur þier fyrer/ og
hañ mun blessa þig / i þvi lande / sem
Drottenn þiñ Gud gieþur þier.

9 Drottenn mun uppreisa þig/ sier *
til eins heilags foolks/ so sem hañ heþur
svared þier/ nær þu helldur Drottens þy
ns Guds bod/ og geingur a hañs vegum.
* 2. Mos. 19/ 5.

10 Og allar þiooder a Jørduñe sku-
lu siaa/ ad þu ert neþndur epter Drottens
naþne/ og þeir skulu ottast fyrer þier.

11 Og Drottenn mun gieþa þier yþer-
gnæþanlega gott i þyns lijþs ævexte /
og i þyns þienadar ævexte/ og i þyns
lands ævexte/ a þvi lande/ sem Drottenn
soor þynum fedrum / ad gieþa þier.

12 Drottenn mun uppliwka þier syne
um goodu þiæxsioodum / Himnenum/ ad
gieþa þynu lande regn a synum tyma /
og ad blessa øll þiña handa verk / Og
þu munt læna morgu foolke / og þu ska-
llt ecke taka til læns.

13 Og Drottenn mun giøra þig ad
hoþdenu / og ecke ad halanum/ þu skallt
alleinasta vera yþer/ og ecke vera under/
eþ þu ert Drottens þyns Guds bodum
hlydugur / hvor eg byd þier i dag / ad
hallda og giøra.

14 Eþ þu ecke vykur fra nockrum
aþ þessum ordum/ sem eg byd ydur i dag/
til hægre/ eda vinstre sydu/ ad ganga *
epter framande gudum/ ad þioona þeim.
* C. 5/ 22. Jos. 1/ 7.

15 Og þad skal skie / eþ * þu ecke
hlyder Drottens þyns Guds raust / ad
hallda og ad giøra øll hañs bod og ha-
ñs skickaner / sem eg byd þier i dag/ þa
skulu allar þessar bølvaner koma yþer
þig/ og hitta þig. * L. 30/ 17.
3. Mos. 26/ 14. H. Er. 2/ 17. Dan. 9/ 11.
Mal. 3/ 2. Baruch. 2. 28/ 29.

16 Bølvadur skalltu vera i stadnum/
og bølvadur skalltu vera a akrenum.

17 Bølvud skal þyn korþ vera/ og þitt
aþgangur.

18 Bølvadur skal þyns lijþs-ævoxt-
ur vera/ og þiñar Jardar ævoxtur/ þy-
ns sædes aþkvæme og þiña sauda hiarda.

19 Bølvadur skalltu vera nær þu
geingur iñ / og bølvadur skalltu vera nær
þu geingur wt.

20 Og Drottenn mun wtsenda a med
al þyn bølvan/ ræadleysé og skom/ i øllu
* þvi þu tekur þier fyrer hendur ad gi-
ra / þar til þu verdur eidelagdur/ og þar
til þu verdur þliootlega fordiarþadur/ fyr-
er þiña vondu giørninga saker/ med hvor
ium þu yþergaþst mig. * Dom. 2/ 15.

21 Drottenn mun læta * drepsott

hallda st

halldast vid þig/ þar til hañ eideleggur
þig af landenu/ hvar til þu fer ad eiga
þad. * 3. Mos. 26/16. Ezech. 14/21.
22 Drottiñ mun slaa þig med somd-
sott / og med kølldu sÿke / og med hita/
og bruna/ og * þurk og visnan/og gulu
sott / og þær skulu sækia a þig / þar til
þu eideleggst. * 1. Kong. 17/ 7.
23 Og þiñ * Himen / sem er yfer
þijnu høfde / skal verda sem kopar / og
Jordeñ/ sem er under þier / sem jarn.
* C. 11/ 17. 3. Mos. 26/ 19.
24 Drottiñ mun giora þijns lands
regn ad dufte og ösku / af Himnenum
mun hañ nidurstÿga yfer þig/ þar til þu
verdur eidelagdur.
25 Drottiñ mun láta * þig verda
sleigeñ fyrer þiña fiandmaña augsÿn /
uñ eirn veg muntu draga wt i moote hon
um / og uñ sio vegi skalltu flÿa fyrer
honum/ og þu skallt burtdreifast til all-
ra rÿkia a Jordunne. * 3. Mos. 26/17.
26 Og þiñ lÿkame skal verda öllum
fuglum under Himnenum / og dÿrum a
Jordunne/ til fædslu/ og þar skal eingeñ
vera / sem burt rekur þa.
27 Drottiñ mun slaa þig med * Æ-
gyptiskum kaunum/ og med blood-sÿke/og
med vose og med klada/ ad þu skallt ecke
kuña ad læknast. * 2. Mos. 9/ 9.
28 Drottiñ * mun slaa þig med gal-
eñskap/ og med blindleik/ og med hiart-
ans hrædslu. * Rom. 1/ 28.
29 Og þu skallt þreifa uñ middag-
eñ/ sem sa blinde þreifar i myrkrenu/ og
þu skallt ongva luckui hafa a þijnum vei
ge/og þu skallt lÿda ofrÿke og oriett alla
daga / og eingeñ skal frelsa þig.
30 Þu skallt trwlofast eirne hustru/
og eirn añar madur skal sofa hia heñe /
Þu skallt byggia eitt hws / eñ þu skallt
ecke bwa þar i/ Þu skallt * planta eirn
vijngard/ eñ þu skallt ecke giora hañ al-
meñelegañ. * Es. 65/ 22.
31 Þiñ uxe skal slatrast fyrer þijn-
um augum / og þu skallt eckert eta þar
af/ Þiñ asne skal takast fyrer þiñe aug-
syn med ofrÿke / og ecke koma aptur til
þijn/ Þijner sauder skulu gefast þijnum
fiandmoñum/ og eingeñ skal frelsa þig.
32 Þijner syner og þijnar dætur sku-
lu gefast til eins framande foolks/ og
þijn augu skulu sia ( þar a/) og vone-
megnast yfer þeim hvern dag / og þad
skal ecke vera i þiñar handar magt.
33 Þijns lands avøxt / og allt þitt
erfide / skal eitt foolk eta / sem þu ecke
þeckter / og þu skallt ad eins lÿda oriett/
og verda underþrÿcktur alla daga.
34 Og þu skallt verda galeñ / fyrer
þiña augna sioon/ sem þu munt sia.
35 Drottiñ mun slaa þig med einum
vondum kaunum a knen og a leggena /
ad þu skuler ecke kuña ad læknast/ fra
þiñe ÿl/og allt til þijns høfud-hvirfels.
36 Drottiñ mun reka þig/og þiñ ko-
ng / sem þu munt setta yfer þig/ burt til
eins foolks / sem hvorke þu/edur þijner
fedur þecktu / og * þar muntu þiona
framande gudum / stocke og steine.
* C. 4/ 28.
37 Og þar skalltu verda * ad eirnre
underþurdu/ til eins ordskvidar og til spo-
tts a medal allra þioda / hvert Drottiñ
mun reka þig. * 1. Kong. 9/7. Jer. 24/9.
38 Þu skallt færa * myked sæde wt
a mørkena/ eñ litlu safna iñ aptur/ þvi
grashoppañ skal uppeta þad.
* Mich. 6/ 15. Hagg. 1/ 6. C. 2/ 17.
39 Þu skallt planta og yrkia vijn-
garda/ eñ ecke drecka vijned/ z ecke saf-
na/ þvi ormureñ skal forlæra þvi.
40 Þu skallt hafa oliu-trie iñañ all-
ra þiña landamerkia/eñ ecke smyria þig
med oleo / þvi þitt * oliu-trie skal upp-
rickiast. * Joel 1/ 10.
41 Þu skallt afla sona og dætra / eñ
ecke hallda þeim/ þvi þau skulu burt fær-
ast i fængelsid.
42 Øllum þijnum triam og þijns la
nds avøxtum skal grashoppañ bÿhallda.
43 Utlendingureñ / sem er hia þier/
skal uppstÿga miøg hatt yfer þig/ eñ þu
skallt niðurstÿga miøg under.
44 Hañ skal * lana þier/og þu ska-
llt ecke lana honum/ hañ skal verda ad
høfde/og þu skallt verda ad hala. * v. 12

45 So skulu allar þessar bølvaner koma yffer þig/og eltia þig/ og hitta þig/allt til þess ad þu verdur eidelagdur/ aff þvi/ad þu hlyddder ecke Drottens þyns Guds rauſt / ad hallda hañs bod og hañs ſkickaner/ſem hañ heffur boded þier.

46 Þar fyrer ſkulu þær vera til teikns og til undarlegra hluta a þier / og a þynu affkvæme æffenlega.

47 Aff þvi/ad þu ecke þioonader Drottne þynum Gude i hiartans glede og goodſemd / aff þvi þu haffder alla hlute margffalldlega.

48 Og þu ſkallt þioona þynum fiand moñũ/ ſem Drotteñ mun ǽtſenda i mooте þier / med hungre og med þorſta / og med klædleyſe / og med allra handa armood / og hañ ſkal leggia eitt jarn-ok a þiñ hals/ þar til hañ leggur þig i eyde.

49 Drotteñ mun færa * eitt foolk yffer þig langt ad / fra Jardareñar enda/ ſem orneñ flygur/ eitt foolk/ ** hvørs tungumaal þu ecke ſkilur. * Jer. 5/ 15. C. 6/ 22. ** Eſ. 33/ 19.

50 Eitt * bligdunarlauſt foolk/ ſem ecke mun virda þeirra gømlu perſoonu / og ei þyrma þeim ungu. * Dan. 8/ 23.

51 Og þad ſkal forſæra þyns fienadar avexte/ og þyns lands avexte/þar til þu verdur eidelagdur / hvørt ed ſkal ecke leyffa handa þier korn/(nytt) vyn/ edur (nytt) oleum / þins fienadar affkvæme/ edur þyna ſauda-hiørd / þar til þad fordiarffar þig.

52 Og ſkal giøra þier angiſt iñañ allra þiña porta/þar til þyner hæffu og rambigdu mwrar falla/ſem þu treyſter þig uppa/i øllu þynu lande/og þad ſkal giøra þier angiſt iñañ allra þiña porta/i þynu giørvøllu lande / ſem Drotteñ þiñ Gud heffur gieffed þier.

53 Og þu ſkallt * eta þiñ lyffs avoxt/ kioted aff þynum ſonum / og þynum dætrum / ſem Drotteñ þiñ Gud heffur gieffed þier / i umſatrenu og þreingingufie/ hvar med þyner fiandmeñ ſkulu þreingia þier. * 2. Kong. 6. 28/ 29. 4. Gr. 2/ 20. C. 4/ 10.

54 Sa madur/ſem var ſælkiere hia þier/og miog kræſtur/ ſkal ecke uña ſynum broodur/ og ſiñe huſtru a ſynum arme / eda ſynum ſonum / ſem eru epter / þeſſ ſem hañ mun leiffa.

55 Ad gieffa nockrum aff þeim / aff hañs ſona kiøte/ſem þad kyñu ad eta/ aff þvi hañ heffur eckert (meira) leifft i þvi umſatre og þreingingu / hvar med þiñ fiandmadur ſkal þreingia þier iñañ allra þiña porta.

56 Su (kvina/) ſem þier heffur vered ſo ſællyff og kræſt hia ydur/ad hun heffur ecke reynt / ad ſetia ſiñ yleeg a Jørdena fyrer vellyſt og fyrer ſællyffe / hun ſkal ecke uña ſynum mañe a heñar arme/eda ſynum ſyne/eda ſiñe doottur.

57 Og ecke jaffnvel þeirrar barns fylgiu/ſem er utgeingeñ i millum heñar foota/og eige heñar barna/ſem hun mun fæda/ þvi hun mun eta þau/ vegna allra handa þurfftar i hilmingu/ i umſatriñ og i þreingingufie/ hvar med þiñ fiandmadur mun þreingia þier iñañ þinna porta.

58 Eff þu ecke helldur ad giøra øll ordeñ i þeſſu løgmaale/ ſem eru ſkriffud i þeſſare book/ ad ottaſt þetta dyrdlega og hrædelega naffn/ Drotteñ þiñ Gud.

59 Þa mun Drotteñ furdañlega haga ſier i moote þier/med plagum a þier/og plagum a þynu affkvæme / med ſtoorum og langvarande plagum/ og vondum og langvarande ſiukdoomum.

60 Og hañ mun ſnua øllum þeim * Egyptſku ſiukdoomum til þyn/ſem þu ottaſt fyrer / og þeir ſkulu halldaſt vid þig. * 2. Moſ. 9/ 9.

61 Ja allañ ſiukdoom/og allar plagur / ſem ecke eru ſkriffadar i þeſſare løgbook/ þær mun Drotteñ lata koma a þig/ þar til ad þu eideleggſt.

62 Og þier ſkulud verda med faufoolke epter / i þeſs ſtad / ad þier vorud ſem ſtiørnur a Himnenum i margffiølldа/ aff þvi þu ecke hlydder Drottens þyns Guds rauſt.

63 Og þad mun ſkie / ad eins ſem Drotteñ gladde ſig ffirrum yffer ydur/ ad giøra vel vid ydur / og fiølga ydur / ſo

so mun og Drottenn * gledia sig yfer yd-
ur/ ad fordiarfa ydur og afmæ ydur/ og
þier skulud uppræta st af landenu/ þang-
ad sem þu fer ad eignast þad.
* Ordsk. 1/ 26.

64 Og Drottenn mun burtdreifa þier
a medal allra þiooda/fra þeim eina Jard
arennar enda til þess añars/ og þar mun-
tu þioona framande gudum / sem hvorke
þu nie þÿner fedur þektu/ stocke og steine.

65 Og þu skallt aungva roo hafa a
medal þess sama foolks / og þiñ ylvegur
skal aungva hvijld hafa/og Drottenn mun
giefa þier þar eitt skialfande hiarta/ og
vanskign augu/og eina vanmættuga sæl.

66 Og þitt lijf skal hanga þar i mo-
ote fyrer þier/ og þu skallt ottast noott og
dag / og ecke vera ohultur um þitt lijf.

67 Ad morgne muntu seigia : Gud
giæfe þar være kvølld/og ad aptne mun-
tu seigia : Gud giæfe þar være morg-
un / fyrer þÿns hiarta skielfingu / sem
þu skallt skielfast med/og fyrer þa sioon/
sem þu skallt siaa fyrer þÿnum augum.

68 Og Drottenn mun fora þig inn i
Ægyptaland aptur a skipum/ a þañ veg/
sem eg sagde þier af : * þu skallt ecke
framar siaa hañ/ ꝛ þar skulud þier seliast
til ydar fiandmaña til þræla/og til þioon
ustu kvenna/ og þar skal eingenn vera/ sem
vilie kaupa. * c. 17/ 16.

## XXIX. Capitule.

### Mose Endurnijar Sattmalañ vid Israels Børn.

Desse eru þau * sattmaal-
ans ord/sem Drottenn bij-
falade Mose / ad giøra
vid Israels børn i Mo-
abs lande / fyrer utañ
þañ sattmaala/ sem hañ
giørde vid þau i Horeb. *c. 5. 2/ 3.

2 Og Mose kallade a allañ Israel/ꝛ
sagde til þeirra : þier * hafed sied allt
þad s Drottenn giørde fyrer ydar augū i
Ægyptalande/ vid Pharao og vid alla ha-
ns þienara/ og vid hañs giørvallt land.
* 2. Mos. 19/ 4.

3 Þær stooru reinslur/ sem þÿn augu
hafa sied / (þad var) * þau tækn og
þeir stooru undarlegu hluter. * c. 7/19.

4 Og Drottenn hefur ecke giefed yd-
ur * hiarta til ad skynia / edur augu til
ad siaa med / eda eyru til ad heyra med /
allt til þessa daga. * Es. 6 / 10.

5 Og * fiorutijgu ar hefe eg læted
ydur ganga i eydemørkenne/ydar klæde urd-
du ecke forn a ydur / og þÿner skoor voru
ecke slitner a þÿnum fæte. * c. 8. 2/ 4.

6 Þier hafed ecke eted braud / og ei
drucked vijn / eda sterkañ dryck / ad þier
skylldud vita/ad eg er Drottenn ydar Gud.

7 Og þa þier komud til þessa stad-
ar/ þa droo * Sihon kongurenn af Hes-
bon/ og ** Og konungurenn af Basan
ut i moote oss til strijds/og vier sloon þa.
* 4. Mos. 21/21. etc. * * 4. Mos. 21/33. etc.

8 Og tookum * þeirra land inn / og
gaafum Rubenitunum/og Gadditunum /
og þeirre halfu Manasse kynkvijsl þad
til arfs. * 4. Mos. 32/ 33. etc.

9 So halldeð þessa sattmaala ord/og
giøred þar epter/ad þier kunned skynia allt
þad / sem þier skulud giøra.

10 Þier standed i dag allersamann fyr-
er Drottens ydar Guds augsijn/ ydar for-
ingiar fyrer ydar kynkvijslum / ydar ell-
stu/ ꝛ ydar fogetar/hvør madur i Israel.

11 Ydar smæu / ydar hustrur/ og þiñ
framande / sem er i þÿnum herbudum /
bæde þiñ vid-høggvare/ og sæ/ sem sæker
þitt vatn.

12 Ad þu skuler ganga i Drottens þij-
ns Guds sattmaala / og i hañs eide/ sem
Drottenn þiñ Gud giører vid þig i dag.

13 Ad hañ meige * upprejsa þig i
dag sier til eins foolks / og hañ skule
vera þiñ Gud/ so s hañ hefr þier tilsagt/
og sem hañ hefur svared þÿnum fedrum
Abraham/ Isaak og Jakob . * c. 28/9.
1. Mos. 17/ 7.

14 Þvi eg giøre ecke þennañ * satt-
maala/ og þennañ eid alleinasta vid ydur.
* C. 5/3.

15 Helldur vid þañ/ sem hier er / og
stendur i dag med oss fyrer Drottens vo-
rs Guds augsyn / og vid þañ / sem hier
i dag ecke er med oss.

16 Þvi þier vited / ad vier biuggum i Ægyptalande / og ad vier foorum midt i giegnum heidenddoomeñ / sem þier foorud i giegnum.

17 Og þier saud þeirra vidurstygder / og þeirra skarns afgude / stock og stein / sylfur og gull / sem voru hia þeim.

18 Ad þar skule ecke vera a medal ydar madur eda kviña / eda ætt / eda kynkvÿsl / sem snwe sÿnu hiarta i dag fra Drottne vorum Gude / til ad ganga burt og þioona þessa foolks gudum / og hañ ecke skule verda * ein root i bland ydar / sem ber gall og malurt.

* P. G. 9. 8/ 23. Ebr. 12/ 15.

19 Og þad mun skie / nær hañ heyrer þesse bølvanareñar ord / þa blessar hañ sig i sÿnu hiarta / og seiger: þad * mun ganga mier vel / þo eg gange sem mÿnu hiarta þyker / (ad) mañ sæe tillagt hiñ druckna med hinum þyrsta.

* Jer. 44/ 17.

20 Þa vill Drotteñ ecke fyrergiefa hønum þad / þvi Drotteñs stoora reide og hañs vandlæting mun þa upptendrast yfer þeim sama mañe / so * øll su bølvan / sem er skrifud i þessare book / skule falla yfer hañ. * c. 28/15.

21 Og Drotteñ mun afmæ hañs nafn / under Himnenum. Og Drotteñ mun skilia hañ burt til ills / fra øllum Jsraels kynkvÿslum / epter øllum þess sattmæla bølvunum / sem skrifadar standa i þessare løg-book.

22 Þa mun su øñur ætt seigia / (jæ) ydar børn / sem munu uppkoma epter ydur / og sæ wtlende / sem mun koma længs vegar ad / og siæ þær plagur / sem koma yfer þetta land / og þa siwkdooma þar i / med hvørium Drotteñ giører þa siwka þar i.

23 Ad allt landed þar er brendt med breñesteine og sallte / ad þad kañ ecke verda sæd / ei helldur giefa grooda / og eingeñ iurt kañ uppvaxa þar i / eins sem * Sodoma og Gomorra / * * Adma og Zeboim eru kollkastadar / hvørium Drotteñ kollkastade i siñe reide og i siñe bræde. * 1. Mos. 19/ 24. etc.

** Os. 11/ 8.

24 Þa mun allt foolk seigia: * hvar fyrer hefur Drotteñ so giørt i mootte þessu lande? hvad er þetta (fyrer so) stoora eina hastarlega reide?

* 1. Kong. 9/ 8. etc.

25 Þa mun mañ seigia: af þvi / ad þeir hafa yfergiefed Drotteñs þeirra fedra Guds sattmæla / sem hañ giørde vid þa / þegar hañ wtfærde þa af Ægyptalande.

26 Og þeir geingu burt / og þioonudu ødrum gudum / og tilbædu þæ / (soddañ) gudum / sem þeir þecktu ad øngvu / og (af hvørium) ecke eirn hafde giefed þeim (nockud.)

27 Þar fyrer hefur Drotteñs reide kveikt sier uppa þetta land / ad hañ hefur læted alla þa bølvan koma yfer þad / sem skrifud er i þessare book.

28 Og Drotteñ hefur upprætt þa af þeirra lande / i reide og i grymd / og stoorre bræde / og burtkastad þeim til eins framande lands / sem a þessu deige.

29 Þeir leyndu hluter eru fyrer Drottne vorum Gude / eñ þeir openberudu * fyrer oss og fyrer vorum børnum æfenlega / ad giora øll þesse løgmæls ord. * Ps. 147. 19/ 20.

## XXX. Capitule.

Drotteñ Myskunar sig yfer þa / sem snwa sier til hañs.



g þad skal skie / nær aller þesser hluter munu koma yfer þig / blessaneñ og bølvaneñ / sem eg hefe þier fyrer lagt / og þu tekur þier (þau) til hiarta / a medal allra heidingiaña / þangad sem Drotteñ þiñ Gud hefur burtreked þig.

2 Og * snÿr þier til Drotteñs þÿns Guds / og þu hlÿder hañs raust / epter øllu þvi / sem eg bÿd þier i dag / þu og þÿn børn / i þÿnu giørvøllu hiarta / og i þiñe giørvallre sæl. * c. 4/30 3. Mos. 26/ 40.

3 Þa mun Drotteñ þiñ Gud * um̃
snwa þijnu fangelse/og ** myskuna
sig yfer þig/ og snwa vid og + samañ
safna þier fra øllum þeim þiodū/hvø
rt hellst burt Drotteñ þiñ Gud hafde
wtdreift þier. * Jer. 29/ 14.
** Ps. 106/45. + Jer. 32/ 37.
4 Þo nockur af þier yrde burtrekt-
ur * til Himensens enda / þa munde
(samt) Drotteñ þiñ Gud safna þier
þadañ fra/ og taka þig þar fra.
* Neh. 1/ 9.
5 Og Drotteñ þiñ Gud mun færa
þig i þad land/ sem þijner fedur ættu/
og þu skallt eignast þad/ og hañ mun
giøra vel vid þig / og fiølga þig meir
eñ þijna fedur.
6 Og Drotteñ þiñ Gud * mun
um̃skiera þitt hiarta og þijns afkvæ-
mes hiarta / ad elska Drotteñ þinn
Gud / i þijnu giørvøllu hiarta / og i
þiñe giørvallre sælu / ad þu meiger
lifa. * c. 10/ 16. Jer. 4/4. c. 32/39.
Ezech. 11/ 19. C. 36/26. Rom. 2/29. Phil.
3/ 3. Col. 2/ 11.
7 Og Drotteñ þiñ Gud mun legg
ia allar þessar bølvaner a þijna fiand-
meñ/ og a þa/ sem þig hata/sem þig
hafa ofsookt.
8 Eñ þu munt um̃vendast og hlij-
da Drotteñs raustu / ad þu giører øll
hañs bod/ sem eg bijd þier i dag.
9 Og Drotteñ þiñ Gud * mun gie
fa þier luckku i øllum þiña handa verk
um/ i þijns lijfs ævexte / og i þijns
fienadar ævexte / og i þiñar Jardar
ævexte / til gooda / þvi Drotteñ mun
snwa sier ad gledia sig yfer þier / til
gooda / eins sem hañ gladde sig yfer
þijnum fedrum. * c. 28. 3/ 11.
10 Ef þu hlijder a Drotteñs þijns
Guds raust / ad hallda hañs bod og
hañs skickaner/sem eru skrifadar i þess
are løg-book/ og snijr þier um̃ til Dro-
ttens þijns Guds i þijnu giørvøllu
hiarta/og i þiñe giørvallre sæl.
11 Þvi * þetta bod/sem eg bijd þi-
er i dag / þad er ecke huled fyrer þier/
þad er ei helldur (of-) langt i burtu.
* Es. 45/ 19. C. 48/ 16.
12 Þad er ecke * i Himnenum/ ad
þu meiger seigia: hvør vill fara fyrer
oss upp i Himeneñ/ og sækia oss þad/
og læta oss heyra þad/ ad vier kyñum
giøra þad? * Rom. 10/ 6.
13 Þad er ei helldur hinumeigeñ
hafsens / ad þu þurfer seigia : hvør
vill fara fyrer oss burt yfer um̃ hafed/
og sækia oss þad / og læta oss heyra
þad/ad vier meigum giøra þad ?
14 Þvi þad ord er ølldunges næ-
lægt hia þier/ i þijnum muñe/og i þij
nu hiarta/ ad þu skuler giøra þad.
15 Sia/ eg * hefe lagt þier fyrer
i dag/ lijfed og þad gooda / og Daudañ
og þad vonda. * c. 11/26. c. 28. 2/15.
16 Þvi eg bijd þier i dag / ad elska
Drotteñ þiñ Gud / ad ganga a hañs
veige/og ad vardveita hañs bod/ og ha
ñs skickaner/ og hañs riettende/ad þu
skuler lifa og margfalldast/ og Drott-
eñ þiñ Gud skule blessa þig i þvi lan-
de/ til hvørs þu fer/ad eignast þad.
17 Eñ frasnwe sier þitt hiarta/og
* þu hlijder ecke / eñ lætur þig villa /
ad þu tilbidier framande gude & þioon
er þeim. * c. 28/15. etc.
18 Þa auglijse eg ydur i dag / ad
þier skulud aldeiles tortijnast/þier sku
lud ecke leinge lifa i landenu til hvør s
þu fer yfer um̃ Jordan/ad fara þang-
ad til ad eignast þad.
19 Eg tek i dag * Himeneñ og Jørd
ena til vitnes yfer ydur / eg hefe lagt
ydur lijfed og daudañ fyrer/ blessanena
og bølvanena / ad þu meiger wtvelia
lijfed/ og þu meiger lifa/þu og þitt af
kvæmi. * c. 4/ 26. c. 32/ 1.
20 Ad elska Drotteñ þiñ Gud/ ad
hlijda hañs raust/ og ad æhanga hon
um / þvi hañ er * þitt lijf / og þiñ
langur alldur/ad þu meiger vera i land
enu/sem Drotteñ soor þijnum fedrum/
Abraham/ Isaak og Jakob / ad giefa
þeim. * c. 4/ 40. c. 5/ 33.

XXXI. Capitule.

Mose fyrer Alldurdooms Skulld kvedur Israels Børn / og nefner Josuam til sijns Epterkomara.



Og Mose gieck/ og kalade þsse ord til alls Israels:
2 Og sagde til þeirra : eg er i dag * hundrad og tuttugu ara gam all / eg kan ecke leingur ganga wt og in/og ** Drottenn sagde til mijn : þu skallt ecke ganga yfer um þessa Jordan. * c. 34/ 7.
** 4. Mos. 20/ 12. etc.
3 Drottenn þin Gud hann mun ganga yfer um fyrer þier/ hann mun sundurdreifa þessu foolke fyrer þier/ ad þu skuler eiga þau/ * Josua hann skal ganga yfer um fyrer þier/ so sem Drottenn hefur sagt. * c. 3/28. 4. Mos. 27/18
4 Og Drottenn mun giøra vid þa/ sem hann * giørde vid Sihon / og vid Og / þeirra Emorita konunga / og vid þeirra land/ hveria hann eidelagde.
* 4. Mos. 21. 21/ 25/ 33/ 35.
5 Nær Drottenn giefur þa fyrer ydur / þa skulud þier giøra vid þa * epter øllu þessu bode/ sem eg hefe byfal ad ydur. * c. 7/ 2.
6 Vered * hughraustter og med einum styrkvum huga/ ottest ecke og skielfest eckert fyrer þeim/ þvi Drottenn þin Gud hann mun ganga med þier / hann mun ecke ** sleppa þier adgiætslulausum/og ecke yfergiefa þig. * c. 7. 2/ 21.
** Ebr. 13/ 5.
7 Og Mose kallade a Josua / og sagde til hans/ i almenre Israels augsyn: * vertu hughraustur og med styrkvum huga / þvi þu skallt inganga med þessu foolke/ i þad land/ sem Drottenn soor þeirra fedrum/ ad giefa þeim/ og þu skallt skipta þvi til arfs i millum þeirra. * c. 3/28. c. 7/18. Jos. 1/6.
C. 8/ 1. Ebr. 13/ 5.
8 Og Drottenn / hann sem geingur fyrer þier/ hann mun vera med þier/ hann mun ecke sleppa þier adgiætslulausum/ og ecke yfergiefa þig/ ottastu ecke/ og hrædstu ecke.
9 Og Mose skrifade þesse løg/ og fieck prestunum Levi sonum þau/ * sem baru Drottens sattmæls ørk/ og øllum þeim ellstu af Israel.
* 4. Mos. 4/ 15.
10 Og Mose baud þeim/ og sagde: * nær sio ar eru wte/ a uppgiafar ars tijma (sens tilsettre tijd/) a tialldbwdarennar hatijd. * c. 15/ 1.
11 Nær allur Israel kiemur ad sinast fyrer Drottens þijns Guds augsyn / a þeim stad / sem hann mun wtvelia/ þa skalltu wthroopa þesse løg fyrer øllum Israel/ fyrer þeirra eyrum.
12 Lat safna foolkenu/ mønnunum og kvinnunum og børnunum/ og þijnum framande/ sem er innan þinna porta/ ad þeir meige heyra / og þeir meige læra/ og ottast Drottenn ydar Gud/ og hallda og giøra øll þau ord i þessu løgmale.
13 Og ad þeirra børn/ sem þad ecke vita / meige heyra og læra ad ottast Drottenn ydar Gud / a øllum þeim døgum/ sem þier lifed i þvi lande/ til hvørs þier fared yfer Jordan/ ad eignast þad.
14 Og Drottenn sagde til Mose : sia / * þijn tijd er hart nærre ad deyia/ kalla Josua/ og standed i samkundunnar tialldbwd/ad eg giefe hønum byfalning/ Og Mose gieck og Josua/og þeir stoodu i samkundunnar tialldbwd.
* Es. 38/ 1. 2. Pet. 1/ 14.
15 Og Drottenn vard siedur i tialldbwdenne/ i einum skystoolpa/ og skystoolpenn stood yfer tialldbwdarennar dyrum.
16 Og Drottenn sagde til Mose : sia/ þu liggur med þijnum fedrum/ og þetta foolk mun uppstanda/ og drygia hoor epter þess framanda lands gudum / þangad sem þad geingur inn i/ og yfergiefa mig / og lata minn sattmala fara/ sem eg hefe giørt vid þad.
17 Og mijn reide skal þa geysa a þad/ a þeim sama deige/ og eg skal yfergiefa þa/ og byrgia mitt andlit fyrer

er þeim/ so ad þeir skulu verda fortærd
er/ ꝛ mykel olucka og angist kiemur yf
er þad / þa mun þad seigia a þann sa=
ma dag: eru ecke þesser vondu (hluter)
kommer yfer mig / af þvi ad minn Gud
er ecke med mier?
18 Og eg *skal aldeiles byrgia mitt
andlit/ a þeim sama deige/ vegna alls
þess vonda / sem þad hefur giort/ þvi
þad hefur snwed sier til framande gu=
da. * c. 32/ 20.
19 So skrifed ydur nu þennan sau=
ng/ og kiennid Jsraels bornum hann/ legg
hann i þeirra munn / uppa þad ad þesse
saungur meige vera mier til eins vitn
es fyrer Jsraels bornum.
20 Þvi eg vil færa þad inn i land=
ed / * sem eg soor þess fedrum / hvørt
ed flytur med miolk og hunange / og
þad mun eta og mettast / og ala sig/ og
snwa sier til framande guda / og þeir
munu þioona þeim / og upperta mig /
og þad mun giøra minn sattmala til
einkis. *1. Mos. 50/ 24. 2. Mos. 33/ 1.
21 Og þad skal skie/ nær myked illt
og angister koma a þad/ þa skal þesse
saungur svara i giegn þvi til eins vitn
esburdar / þvi þad skal ecke gleymast
af þess afkvæmes munne / þvi eg veit
þess þanka/ sem þad allareidu umgei=
ngst med / adur enn eg fære þad i land=
ed/ sem eg hefe svared.
22 So skrifade Mose þennan sau=
ng a þeim sama deige/ og kiende Jsra=
els bornum hann.
23 Og baud *Josua Nuns syne/ og
sagde: vert hraustur og fullhuga/ þvi
þu skallt færa Jsraels born i þad la=
nd / sem eg hefe svared þeim/ og eg/ eg
vil vera med þier. * Jos. 1/ 6.
24 Og þad skiede/ þa Mose hafde
aldeiles skrifad þesse løgmals ord i
eina book/ til þess hann hafde endad þau.
25 Þa baud Mose Levitunum / *
sem bæru Drottens sattmals ørk/ og
sagde: * v. 9. Jos 3/ 6.
26 Taked þessa løg=book/ og legged
hana vid Drottens ydar Guds satt=
mals arkar sidu/ og hun skal vera þar
til eins vitnesburdar a moote þier.
27 Þvi eg þecke þijna ohlijdne og
þijna þverwd / Sia / medann eg enn life
hia ydr i dag/ erud þier ohlijduger i mo
te Drottne / og hvad miklu meir epter
minn dauda?
28 So safned til mijn øllum þeim
ellstu af ydar kynkvijslum / og ydar fo=
getum / ad eg meige tala þesse ord fyrer
ydar eyrum/ ad taka Himenenn og Jord
ena til vitnesburdar i moote þeim.
29 Þvi eg veit/ ad epter minn dauda
munud þier vijst fordiarfa þad / ꝛ vijk=
ia af þeim veige/ sem eg hefe boded yd=
ur/ so mun oluckann koma a ydur/ a þe=
im seinustu døgum/ nær þier hafed giø
rt þad vonda fyrer Drottens augum/
ad upperta hann med ydar handa verke.
30 So talade Mose þessa saungs
ord fyrer alls Jsraels safnadar eyr=
um/ þar til hann hafde endad þau.

## XXXII. Capitule.

## Mosis Saungur.

Heyred til * þier Himn=
ar / og eg vil tala / og
Jorden skal heyra mijns
munns tal. * c. 31/ 28.
Es. 1/ 2. Mich. 1/ 2.
2 Minn lærdoomur
skal driwpa sem regn/ mitt tal skal re=
nna sem døggenn/ sem steiperegn a gras/
og sem dropar a jurter.
3 Þvi eg vil akalla Drottens nafn/
giefed vorum Gude stoora (vegsemd.)
4 Hann er hellubiarged / hanns verk
er fullkomed/ þvi aller hanns veiger eru
riettar / Gud * er sannleikur / og ecke
oriettvijse / hann er riettferdugur og
froomur. * c. 7/ 9.
5 Þad hefr * fordiarfad sig/ (þad
voru) ecke hanns born / (hvørt ed
var) þeirra lyte/ þad er ein fraasnwenn
og illgiorn kynkvijsl. * Matth. 12/ 39.
Es. 1. 2/ 3/ 4.
6 Skulud þier endurgiallda Dro=
ttne þetta/ þu dærlega og gallda foo=

Ik? er hañ ecke * þiñ fader/ (ja) hañ
sem hefur keypt þig? hañ/ hañ giørde
þig og tilreidde þig. * Mal. 1/ 6.
7 Minstu a þa gømlu daga / merk
areñ fyrer ætt epter ætt / spyr þiñ
fødur/og hañ mun kuñgiøra þier þad/
og þÿna ellstu/og þeir skulu seigia þi-
er þad.
8 Þegar sa Allrahædste wtdeilde
arfe a medal foolksens/ þegar hañ ad-
skilde mañeskiuñar børn/ þa sette hañ
foolksens landamerke/ept' Israels bar
na tølu.
9 Þvi Drottens hlutskipte er hañs
foolk/ Jakob er hñs arfs mælesnwra.
10 Hañ mætte fiña hañ i eidemer
kureñar lande/ og a einum toomum
eide (stad/) þar sem þad veinade/ hañ
mætte flytia hañ um̃ / * undervÿsa
hønum/bevara hañ sem siñ auga-stein.
* 2. Mos. 10/ 1. &c.
11 Sem ein * ørn mun uppsetia
sitt hreidur / mun sveima yfer sÿnum
ungum / so mætte hañ wtbreida sÿna
vænge/ taka hañ/ ** bera hañ a sÿn-
um vængium. * 2. Mos. 19/ 4.
** 5. Mos. 1/ 31.
12 Drotteñ alleina mætte leida hñ/
og þar var eingeñ framande gud med
hønum.
13 Hañ liet hañ fara hætt upp a
Jørduñe/ og hañ at merkureñar groo
da / og hañ liet hañ siwga huñang af
einu biarge / og oleum af þeim harda
steine.
14 Smiør af kwm / og mioolk af
saudum/ med þvi feita af lømbunum/
og hrwta af Basan / og hafra / med
þvi allra besta hveite / og þu mætter
drecka sterkt (vÿn-)þrwgna blood.
15 Eñ þegar sa riette * vard feit
ur/ þa sloo hañ vid bakenu/ þu giørd-
est feitur / og vardst þyckur / vardst
holldugur: og hañ yfergaf Gud / sem
giørde hañ/ og lÿtels vyrdte sitt hiælp
rædes biarg. * c. 31/ 20.
16 Þeir hafa uppvaked hañ til
vandlætingar vid framande / uppert
hañ med vidurstigdum.
17 Þeir offrudu til (land-) diøfl-
añа/ (sem) ecke (eru) Gud/ Til guda/
sem þeir * ecke þecktu/ til þeirra nÿu/
sem voru komner skamt fra / sem ydar
fedur ecke ottudust fyrer. * Ps. 106/ 37
1. Cor. 10/ 20.
18 Þvi biarge/ sem ablade þÿn/ villd
er þu gleyma / og gleyma Gude / sem
fædde þig.
19 Og þegar Drotteñ þad sa/ wt
skwfade hañ þeim/ (ja) af bræde/ sÿn
um sonum og sÿnum dætrum.
20 Og hañ sagde: eg * vil byrgia
mitt andlit fyrer þeim: eg vil sia hvør
neñ þad skal ganga þeim med þad sÿd-
sta/ þvi þeir eru mootsnwed kyn/ børn/
sem ** ecke er trw i. * c. 31/ 18.
** Es. 1. 2/ 4.
21 Þeir hafa giørt mig vandlætañ
med þvi/ * sem ecke er Gud/ þeir upp-
ertu mig med þeirra hiegoomlegleikum/
** og eg vil giøra þeim vandlæte med
þvi / sem ecke er eitt foolk / med einu
dærlegu foolke vil eg ÿfa þa.
* Jer. 2/ 11. C. 5/ 7. ** Rom. 10/ 19.
22 Þvi * eitn elldur er upp tend-
radur i miñe reide / og hañ skal breña
til þess nedsta helvÿtes/ og hañ skal for
tæra landenu og groodanum þar af /
og setia elld a fiallaña grundvelle.
* Jer. 15/ 14. C. 17/ 4.
23 Eg vil safna ogiæfum yfer þa/
skioota mÿnum pÿlum i þa.
24 Þeir skulu vanmegnast af hwng
re/ og fortærast af hita- (sÿke/) z bræd
um dauda/ Eg vil wtsenda dÿrs teñur
a þa/ med høggorma eitre/ (sem eta)
dupt.
25 Sverded skal wte fordiarfa þa/
og iñe hrædsla/ bæde þienara og stwlk-
ur/ þad siwgande (barn) med þeim græ
hærda mañe.
26 Eg sagde: eg villde wtreka þa
af øllum attkvæmum / eg villde taka *
þeirra miñing burt a medal mañesk-
iaña. * Job. 18/ 17.
27 Þar sem eg ecke sæe þad i veg-
na þeirra fiandmaña reide/ so ad þeir-
ra

ra fiandmenn skylldu ecke hroka sier / og
ad þeir skylldu ecke seigia : vor magt er
hä / og Drottenn hefur ecke giort þetta
allt samann.
28 Þvi þeir eru eitt foolk / sem hafa
ecke rääd / og þar er ecke forstand i þeim.
29 * O ad þeir være vijser / ad (þeir
kynne) skynia þetta / og ** underst anda
hvad þeim hier epter mune uppa falla.
* Jer. 9/ 12. ** Luc. 19/ 42.
30 Hvorneñ skyllde * eirn ellta þus-
und / og tveir slä tiju þusund a flootta ?
ef ecke þeirra Biarg hefde selldt þa ? og
Drottenn yfergiefed þa ?
* 3. Mos. 26. 8/ 35. etc.
31 Þvi þeirra biarg er ecke sem vort Bia-
rg / og vorer oviner eru sialfer doomarar.
32 Þvi þeirra vijntrie eru af * So-
domæ vijnvide / og af Gommorræ vijnstock
um / ** þeirra þrugur eru galls þrug-
ur / þær hafa beisk ber. * Ezech. 16/ 49.
** 5. Mos. 29/ 18.
33 Þeirra vijn er drekaña eytur / og
grimt aspidis gall.
34 Er þad ecke hulid hiä mier ? (jä)
innsiglad i mijnum fiarsiood ?
35 * Hefningeñ heyrer mier til / og
endurgiallded / a siñe tijd skal þeirra foot-
ur skrida / þvi þeirra olucku dagur er
hartnær / og hañs tilkomu hradar.
* Rom. 12/ 19. etc.
36 Þvi Drottenn mun dæma sitt foolk /
og þad mun angra hañ * yfer sijnum
þioonum / þvi hañ mun sia (þar æ /) ad
(þeirra) magt er i burtu / og ad ** sa
vardveitte og epterlätne er eckert.
* 2. Mos. 7/ 6. ** 2. Kong. 14/ 10.
C. 21/ 21. 2. Kong. 14/ 26.
37 Og hañ mun seigia : hvar eru
þeirra guder ? þeirra biarg / sem þeir rei-
ddu sig uppa ?
38 Sem skylldu eta þad feita af þeir
ra offrum / sem skylldu drecka vijn af þeir-
ra dryckiar-offrum / * läted þa standa upp
og hiälpa ydur / (ad þad kuñe) verda
verndan yfer ydur. * Dom. 10/ 14.
1. Sam. 12/ 21.
39 Sied nu / ad * eg / eg er hañ /
og þar eru ecke adrer guder med mier / Eg /
eg ** skal slä i hel / og giefa lijf / her-
fe særd / og eg skal lækna / og þar kañ
eingeñ frelsa af miñe hende.
* C. 4/ 34. Es. 45/ 5. ** 1. Sam. 2/ 6. Job.
5/ 18. Spek. 16/ 13. Os. 6, 1/ 2.
40 Þvi * eg vil upplifta miñe hen-
de til Himensens / og seigia : eg life eilijf
lega. * 1. Mos. 44/ 22. Dan. 12/ 7.
Openb. 10. 5/ 6.
41 Nær eg hvesse mijns sverds elld-
ing / og mijn hønd grijpur til rietlætes /
þa vil eg hefna mijn aptur a mijnum fia
ndmoñum / og bijtala þeim / sem mig hata.
42 Eg skal giora mijnar pijlur druck
nar af bloode / og mitt sverd skal eta
kiøt / (jä) af þeirra slegnu og fangadra
bloode / af fiandmañsens beru hofde.
43 Lofed * þier heidingiar hañs foo
lk / þvi hañ mun hefna ** siña þien-
ara bloods / og hefna sijn a sijnum fiand
moñum / og vera myskunsamur yfer sijns
foolks lande. * Rom. 15/ 10.
** Openb. 19/ 2.
44 Og Mose kom / og talade øll ord
eñ af þessum saung fyrer foolksens eyr-
um / hañ og Osea Nuns son.
45 Og Mose utalade øll þesse ord
til alls Israels.
46 Og sagde til þeirra : legged øll
þau ord a ydar hiarta / sem eg vitna fyr-
er ydur i dag / ad * þier skulud bioda
ydar børnum þau / ad vardveita / ad giora
allt þad (hier) seigest i þessu løgmäle.
* 1. Mos. 18/ 19.
47 Þvi þad er ecke eitt forgiefens
ord til ydar / þvi þad er * ydar lijf / og
fyrer sama ord skulud þier leingia (yd-
ar) daga / i þvi lande / hvar til þier far
ed / yfer um Jordan / til ad eignast þad.
* Joh. 6/ 63. 2. Mos. 20/ 12.
48 Og Drottenn talade til Mose a
þeim sama deige / og sagde :
49 Gack uppa þetta * Abarims fi-
all / a Nebo fiall / sem er i Moabs lan-
de / sem er giegnt Jericho / og sia þad
land Canaan / hvert eg gief Israels bør n
um til eigendooms. * 4. Mos. 27/ 12.
C. 33/ 48.
50 Og þu skallt deyia a fiallenu /
nær þu ert þangad uppkomeñ / og safn-
ast til þijns foolks / eins sem * Aaron

þin broodur deyde a þvi pialle Hor / og er sapnader til syns foolks
* 4. Mos. 20. 25/28. etc.
51 Aþ þvi ad þier forgripud ydur i moote mier a medal Israels barna / hia * kyþs vatnenu i Kades/ i þeirre eidemørk Zin/ aþ þvi þier helgudud mig ecke a med al Israels barna. * 4. Mos. 20/13. etc.
52 Þvi þu skallt * sia landed/ þvert yþ' fra og ecke koma þangad i þad land / sem eg gieþ Israels børnum. * c. 34/4.

## XXXIII. Capitule.

Mose blessar Israels Børn / strax ædur enn hann deyr.



Og þesse er sæ blessan / med hvørre Mose Guds madur blessade * Israels børn/ (strax) ædur enn hann deyde.
* 1. Mos. 49/ 1.
2 Og sagde : Drottenn er komenn aþ Sinai/ og er uppgeingenn aþ Seir/ fyrer þeim / hann openberade sig dyrdlegann aþ Parans pialle / og kom * med margar þusunder heilagra/ til hans hægre hand" var eitt glooande løgmaal til þeirra.
* Jud. Pist. v. 14.
3 Ja hann * elskar þioodernar/ aller hans heilager * * eru i þinne hende / og þeir munu setia sig þlockum samann hia þynum fæte/ sierhvør mun læra aþ þyn um ordum. * Ordsk. 8/31. * * Spek. 3/1.
4 Mose baud oss * eitt løgmaal / Jakobs sapnadar arþe. * Ps. 103/ 7. Ps. 147/ 19.
5 Og hann var einn konungur i froom leika / i þvi ad foolksens yppurstu hielldeest til samans / Israels ættkvysler til samans.
6 Ruben mun liþa og ecke deyia/ og hans menn munu vera ein tala foolks.
7 Og þetta heyrer til Juda / og hann sagde : heyr/ Drottenn / Juda raust/ og þu munt insþæra hann til syns foolks/ lat hans hendur vera hønum noog/ og þu munt hiælpa ( hønum ) fra synum piandmonnum.
8 Og hann sagde til Levi : þyner thummim og þyner urim/ heyra þynum froomma manne til / hvørs þu freistader i * Massa / vid hvørn þu villder kyþa hia þrætu'vatnenu. * 2. Mos. 17/ 7. 4. Mos. 20/ 13.
9 (Þu ert þo) sa/ sem seiger til syns føðurs og til sinnar moodur : eg sæ hann ecke/ og þeckte ecke syna brædur/ og visse ecke syna syne/ Þvi þeir hielldu þitt ord/ og munu vardveita þinn sattmaala.
10 Þeir munu kienna Jakob þyn riett inde/ og Israel þyn løg/ Þeir munu setia reykelse fyrer þyn vit/ og heillt (brenneoffur) a þitt altare.
11 Drottenn/ blessa hans krapt / og lat hans handaverk þocknast þier/ Slæ þeirra lendar / sem setia sig upp i moote hønum/ og þeirra/ sem hann hata/ ad þeir ecke uppreise sig.
12 Hann sagde til BenJamin : Drottens elskulege mun bwa ugglaust hia hønum/ hann mun skyla yþer hønum þann allann dag/ og hann bioo i millum hans herda.
13 Og hann sagde til Joseph : * hans land er blessad aþ Drottne/ vegna þess edla ævaxtar aþ Himnenum / aþ døggenne / og aþ diwpenu / sem liggur (þar) under. * 1. Mos. 49/ 25.
14 Og aþ soolarennar edla ævexte/ og aþ tunglanna wtgaungu edla ævexte.
15 Og aþ þeim hæu þiollum i austur / og aþ þeim sþvarande hædanna edla ævexte.
16 Og aþ Jardarennar edla ævexte og hennar fyllingu / og hans næd / sem * bioo i runnenum/ hun mun koma a Josephs høþud/ og a Nazarei høþud, hvørþ el/ a medal hans brædra. * 2. Mos. 3/ 2. etc.
17 Hans vegsemd er sem hans frum borens uxa / og * hans horn sem eins einhyrnings horn / med þeim mun hann stanga þioodernar æsamt/ allt til Jardarennar enda / Og þessar eru tiju þusunder aþ Ephraim / og þessar þusunder aþ Manasse. * 4. Mos. 23/ 22.
18 Og hann sagde til Sebulon : gled þig Sebulon i þinne wtþør / og þu Isaschar i þynum tialldbwdum.
19 Þeir munu kalla þioodernar uppa

fialled / þar munu þeir offra * riettlæte
sins offrū/ þui þeir munu siwga hafsens
yfergnootanlegleika / og nidursockta gle
sioodu i sandeñ. * Ps. 51/ 21.
20 Og hañ sagde til Gad: blessadur
vere sa/ sem wtbreider Gad / hañ liggur
sem eitt leon/ og mun ræna armleggeñ /
sa (og) hvirfeleñ.
21 Og hañ sa sig uñ i fyrstuñe / ad
þar var læremeistarans partur / sem er
varðveittur/ og kom med foolksens hofd
ingium/hañ skickade Drottens riettlæte/
og hañs riettinde medal Israels.
22 Og hñ sagde til Dan: Dan eirn
lioons-hvolpr mun wtstockva af Basan.
23 Og til Naphthali sagde hañ:
Naphthali mun hafa noog / hvad hañ
gyrnest/ og vera fullur af Drottens bless
an/ vestred og sudred mattu eiga.
24 Og hañ sagde til Asser: Asser
mun blessast af sonunum/ hañ mun vera
sÿnum brædrum þocknanlegur / og þeim
sem drepur sÿnum fæte i oleum:
25 Þÿner skoor munu vera iarn og
kopar / og eins sem þÿner dagar (nu)
eru/ (so skal) þiñ alldurdooms (styrkur
vera.)
26 Þar er eingeñ sem Gud / (o þu)
froome! Sa sem fer a Himnenum / til
þinar hialpar / og med siñe dÿrd a sky-
unum.
27 Sa eilÿfe Gud er bwstadureñ /
og under þeim eilÿfu ormum / Og hañ
mun wtdrÿfa ovinunum fyrer þier /
og seigia: vertu eidelagdur.
28 Og Israel * skal alleina bwa
uggalaust/ Jakobs augu (skulu vera) til
eins lands / sem er korn og (nÿtt) vÿn /
þar til skal hañs Himen driwpa med
dogg. * Jer. 23/ 6. c. 33/ 16.
29 Sæll ertu / Israel / hvor er sem
þu? o foolk/ þu ert frelst i Drottne/ sem
er þinar hialpar skiolldur/ z sn er þinar
vegsemdar sverd / og * þÿner ovinmeñ
skulu underleggiast þier/og þu skallt stÿ-
ga upp a þeirra hæder. * Ps. 66/ 3.

## XXXIV. Capitule.

### Mose deyr.



g Mose gieck upp af Mo
abs mork/ a Nebo fiall/
a hadarefiar topp/ sem er
giegnt Jericho/Og Drott-
eñ * liet hañ sia allt
Gileads land iñ til Dan.
* C. 3/ 27.
2 Og allt Naphthali/ z Ephraims
land/ og Manasse/ og allt Juda land /
allt til þess ÿdsta hafs:
3 Og sudred/ og sliettlended/ þañ dal
giegnt Jericho/ * palma-stadeñ/ allt til
Zoar. * Dom. 1/ 16.
4 Og Drotteñ sagde til hañs: þetta
er þad land/ sem eg hefe svared * Abra-
ham / Isaak og Jakob / og sagt: þÿnu
afkvæme vil eg gefa þad/eg hefe lated
þig sia þad med þÿnum augum/ Eñ þu
skallt ecke ganga þangad yfer uñ.
* 1. Mos. 12. 7. etc.
5. Og Mose Drottens þienare deyde
þar i Moabs lande/epter Drottens orde.
6 Og eirn * groof hañ i dalnum i
Moabitaña lande / þvert i moot Peors
hwse / Og eingeñ hefur vitad af hañs
grof/allt til þessa dags. * Jud. Pist. v. 9
7 Og Mose var * hundrad og tutt-
ugu ara gamall/ þegar hañ deyde/ hañs
augu voru ecke diñ / og hañs kraptur
var ecke rienadur. * c. 31/ 2.
8 Og Israels born grietu Mose a
Moabitaña mork/ þriatÿu dago/og har
ms og grætsens dagar yfer Mose urdu
fullkomnader.
9 Og Josua Nunsson vard fylldtur
med vÿsdooms Anda/ þvi Mose hafde
lagt sÿnar hendur a hañ / Og Israels
born hlÿddu honum / og giordu / sem
Drotteñ hafde befalad Mose.
10 Og þar uppstood ecke eirn spa-
madur sÿdañ i Israel / sem Mose / hver
ed Drotteñ þeckte * auglite til auglites.
* 2. Mos. 33/ 11.
11 Epter oll þau tækn og undarleg
verk / sem Drotteñ sende hañ til ad giø-
ra i Egyptalande/a Pharao/og a ollum
hañs þienurum/og a ollu hañs lande:
12 Og til allrar þeirrar volldugrar
handar /

handar / og allrar þeirrar stooru hræd-
slu/ sem Mose giørde fyrer alls
Israels augum.

ENDER
a þeirre fimtu Mose Book.

# Josuæ Book.

## I. Capitule.

Josua styrkest i siñe Kallan.

Og þad skiede epter Mose
Drottenñs þienara dau-
da / þa sagde Drottenñ
til Josua Nunssonar
Mose þienara/seigiande:
2 Mose miñ þienare
* er daudur/ so statt þu nu upp/far yf-
er um̃ þessa Jordan/þu/og þetta giør
vallt foolk/ til þess lands / sem eg gief
þeim/ (þad er) Israels børnum.
* 5. Mos. 34/ 5.
3 Allt * þad plaats/sem ydar foot
ur mun stijga a/ þad hefe eg giefed yd-
ur/ so sem eg sagde til Mose.
* 5. Mos. 11/ 24.
4 Fra * eydemørkeñe til þessa Li-
banon / og allt til þess stoora vatns
falls/ þess vatnsfalls Phrat / sem er
þad giørvalla Nethitaña land/ og allt
til þess stoora hafs i moot vestre/skulu
vera ydar landamerke. *5. Mos.11/24.etc
5 Eingeñ skal standa i moote þier/
alla þijna lijfdaga/eins sem eg var med
Mose / vil eg vera med þier / eg vil *
ecke sleppa þier / og ei yfergiefa þig.
* 5. Mos. 31/ 18.
6 Vertu * hugdiarfur og sterkur/
þvi þu skallt skipta landenu til arfs a
medal þessa foolks/ hvørt eg soor þeir
ra fedrum / ad giefa þeim.
* 5. Mos. 31/ 7. etc. Ebr. 13/ 5.
7 Vertu * ad eins hugdiarfur og
myked sterkur/ ad hallda og giøra ept-
er øllu þessu løgmaale/ sem Mose miñ
þienare baud þier / vijk ecke þar fra
til hægre / eda vinstre sijdu / ** ad þu
kuñer fa forstand a øllũ þeim veige/
sem þu skallt ganga a. * v. 9.
** 1. Kong. 2/ 3. etc.
8 Þesse løgbook skal ecke koma fra
þijnum muñe / eñ þu skallt * grunda
þar i dag og noott / uppa þad / ad þu
kuñer hallda og giøra epter øllu þvi
sem skrifad er i heñe/ þvi þa skal þad
ganga þier vel a þijnum veige / og þa
skalltu fa forstand. * Ps. 1. 2/ 3.
9 Hefe eg ecke befalad þier: * vert
hugdiarfur og sterkur / ottast ecke / og
vertu ecke hræddur? þvi Drottenñ þiñ
Gud er med þier/ a øllum þijnum vei-
ge / sem þu skallt ganga a. * v. 7.
10 Þa baud Josua foolksens foget
um/ og sagde:
11 Ganged midt i giegnum herbwd
ernar / og biooded foolkenu / og seiged:
tilbwed ydur med neste/ þvi þier skulud
ganga yfer þessa Jordan iñañ þrigg-
ia daga / ad koma til ad eignast landed/
sem Drottenñ ydar Gud giefur ydur ad
eignast þad.
12 Og Josua sagde til þeirra Ru-
benita og Gaddita/ og til helmingsens
af Manasse kynkvijsl/ seigiande:
13 Miñest a þad ord/ sem * Mose
Drottenñs þienare baud ydur/ z sagde:
Drottenñ ydar Gud veiter ydur hvijld /
og giefur ydur þetta land.
* 4. Mos. 32/ 20. etc.
14 Laated ydar hustrur / ydar børn
og ydar kwsmala vera i landenu / sem
Mose hefur giefed ydur hier þessumeig
eñ Jordanar / eñ þier skulud fara yfer
um̃/fim̃ (meñ fylkter/)fyrer ydar bræd
rum / aller duganleger til stryds / og
hiaalped þeim.
15 So leinge allt til/ ad Drottenñ gef-
ur ydar brædrum hvijld / sem ydur / ad
þeir kuñe og so eignast landed/ sem Dro-
ttenñ ydar Gud mun giefa þeim/ So skul
ud þier þa snwa ydur vid aptur til ydar
erfda-lands / og eignast þad/ sem Mose
Drottenñs

Drotteñs þienare gaf ydur hier þessu
megeñ Jordanar moot austre.
16 Og þeir svørudu Josua / og søg-
du: vier vilium giøra allt þad / sem þu
hefur boded oss / og vier vilium ganga
burt/ hvørt helst þu sender oss.
17 Allt eins sem vier vorum Mose
hlÿduger/so vilium vier og vera þier hlÿd
uger/ vere ad eins Drottiñ þiñ Gud med
þier eins sem hañ var med Mose.
18 Hvør sa / sem er þinum munne
mootsnwen/og ecke hlÿder þÿnū ordum i
øllu þvi/ þu bÿdur hønum/ hñ skal deyia/
veitu ad eins hugdiarfur og sterkur.

## II. Capitule.

Nioosnarar dyliast hiæ Rahab.

Og Josua Nunsson hafde sendt
leynelega tvo meñ nioosnara af
Sittim / og sagde: * ganged
þangad/ skoded landed/ og Jeri-
cho/ Og þeir geingu burt/ og ** komu
iñ i eirnrar kvinnu / eirnrar skiækiu hws/
og heñar nafn var Rahab/og læu þar.
* C. 7/2. ** Ebr. 11/31. etc.
2 Þa var þad sagt til kongsens af
Jericho/ seigiande: siæ/ i nott eru kom-
ner meñ hÿngad af Israels børnum / til
ad nioosna um̃ landed.
3 Þa sende kongureñ af Jericho til
Rahab / seigiande: læt þa meñ koma
wt/ þæ sem komu til þÿn / sem komu til
þÿns hwss/ þvi þeir eru komner ad nioos-
na um̃ allt landed.
4 Eñ kvinnañ hafde teked þa tvo
meñ/ og faled þa / og sagde: iæ/ meñ-
erner komu til mÿn/ eñ eg visse ecke hvad-
añ þeir voru.
5 Og þad skiede / þegar þeir villdu
læsa portunum/ þegar þad var myrkt/ þa
geingu meñerner wt / eg veit ecke/ hvørt
þeir meñ geingu / * fared sem skiootast
epter þeim / þa munud þier næ þeim.
* 2. Mos. 15/ 9.
6 Eñ hun hafde læted þæ stÿga
uppa þaked/ og faled þa under hør-hæl-
me / sem hun hafde wtbreidt a þakenu.
7 Og Meñerner elltu þa a veigeñ til
Jordanar/ allt til feriustadañ/ ⁊ þegar
þeir voru wtfarner / þeir sem elltu þæ /
luktu meñ porteñ aftur.
8 Og fyrr eñ þeir høfdu lagt sig/ þa
gieck hun upp til þeirra a þaked.
9 Og sagde til mañañ: eg veit / ad
Drotteñ hefur giefed ydur landed / og
ad ydar otte er falleñ a oss / og ad aller
landsens iñbyggiarar eru kvÿdasamer
fyrer ydur.
10 Þvi vier høfum heyrt / ad Drott-
eñ * þurkade vatned f. ydur i þvi rauda
hafe/ þegar þier foorud wt af Ægyptia-
lande/ og hvad þier giørdud þeim tveim-
ur Emorita kongum/ sem eru þar hinu-
meigeñ Jordanar/ Sihon og Og/ hvør-
ia ** þier sloogud i hel. * 2. Mos. 14/21.
** 4. Mos. 21. 24/ 34. etc.
11 Og vier høfum heyrt þad/og vo-
rt hiarta er efasamt / og þar er eingeñ
hugur meir i nockrum / fyrer ydar aug-
syn/ Þvi Drotteñ ydar Gud/ hañ er eirn
Gud i Himnenum þar uppe/ og a Jørd-
uñe hier nidre.
12. So sverked mier nu vid Drotteñ /
ad med þvi eg giørde myskunseme vid yd
ur / ad þier og vilied giøra myskunseme
vid mÿns fødurs hws/ og giefa mier eitt
vÿst teikn.
13 Ad þier vilied læta miñ fødur /
og mÿna moodur / og mÿna brædur / og
mÿnar systur lifa/ og allt þad þau hafa/
og frelsa vorar sæler fra daudanum.
14 Og meñerner søgdu til heñar: vid
vilium setia ockar lÿf fyrer ydvart / ef
þier ecke seiged þessa vora atferd/ og þad
skal skie / nær Drotteñ giefur oss landed/
þa vilium vier giøra myskunsemd ⁊ trw-
feste vid þig.
15 So hleipte hun þeim nidur med
eirnre feste i giegnum vindaugad / þvi
heñar hws var a stadarens mwr/ og hun
bioo a mwrnum.
16 Og hun sagde til þeirra: ganged
uppa fialled/ ad þeir skule ecke mæta yd-
ur / sem leita epter ydur / og feled ydur
þar i þriæ daga/ þar til þeir koma aftur/
sem leita ydar/ og sÿdañ kuñed þier gan-
ga a ydar veg.
17 Og meñerner søgdu til heñar: vid

villium vera fry fyrer þessum eide/sem þu
komst ockur til ad sveria.

18 Sia/nær vier komū i landed/þa
skalltu binda þyssa raudu þrædar-snwru i
vindaugad/i giegnum hvort þu heþur
hleipt oss nidur/og þu skallt saþna til
þyn i hwsed/þynum fødur og þiñe mood
ur/og þynum brædrum/og þyns føburs
giervøllu hwse.

19 Og þad skal skie/hvor sa/sem
geingur aþ þyns hwss dyrum wt/hañs
blood skal vera a hañs høþde/og vid vil
ium vera saklauser/Eñ eþ þar verdur
løgd ein hond a nockurn aþ þeim/sem
eru med þier i hwsenu/hañs blood skal
vera a voru høþde.

20 Eñ eþ þu auglyss þessa ockar ær-
þeid/þa villium vid vera fryer fra þyn-
um eide/sem þu komst ockur til ad sveria.

21 Og hun sagde: þad skal so vera
epter yckar ordum/og hun liet þa fara/
og þeir geingu/og hun batt þa raudu snw
ru i vindaugad.

22 So geingu þeir burt/og komu a
þiallid/og voru þar i þriu daga/þar til
þeir komu aptur/þeir/sem leitudu epter
þeim/Þvi þeir leitar-meñ høþdu leitad
a øllum veigenum/og fundu þa ecke.

23 So sneru þeir tveir meñ aptur/og
geingu oþañ aþ þiallenu/og fooru yþer
um og komu til Josua Nunssonar/og kyn
tu honū alla hlute sem þa haþde skied:

24 Og søgdu til Josua: Drotteñ heþ
ur gieþed allt landed i vora hend/og aller
landsens iñbyggiarar eru hrædder fyr' oss.

## III. Capitule.

### Israels børn geingu þurrum Footum i giegnum Jordanar Vatnsþall.

Og Josua stood ærla um morg-
uneñ upp/og þeir fooru aþ *
Sittim/og komu til Jordanar/
hañ og øll Israels børn/og vo-
ru þar um nootteña/ædur eñ þeir fooru
yþer um. * 4. Mos. 25/1.

2 Og þad skiede þremur døgum þar
epter/þa geingu fogetarner midt i giegn
um herbwdernar:

3 Og budu foolkenu/og søgdu: nær
þier siaed Drottens ydars Guds satt-
mæls ørk/og prestana Levitana/sem
bera hana/so skulud þier fara wt fra yd-
ar stad/og ganga epter heñe.

4 Þo so/ad þar sie tveggia þusund
ælna rwm i millum ydar og i millum heñ
ar/þier skulud ecke ganga nær heñe/
uppa þad ad þier skulud vita a hvorium
veige þier skulud ganga/þvi þier haþed
ecke fyrre ferdast þar yfer a þeim veige.

5 Og Josua sagde til foolksens: *
helged ydur/þvíad Drotteñ mun giora
undarlega giørninga a morgun a medal
ydar. * c. 7/13.

6 Og Josua sagde til prestaña/seig
iande: bered sattmælans ørk/og genged
yþer um fyrer foolkenu/Og þeir bæru
sattmælans ørk/z geingu fyrer foolkenu.

7 Og Drotteñ sagde til Josua: i
dag vil eg byria/ad * giora þig stoor-
añ fyrer alls Israels augum/ad þeir
skule vita/ad ** eins sem eg var med
Mose/(so) vil eg vera med þier.
* C. 4. 14. ** C. 1. 5/17.

8 Biood þu prestunum/sem bera satt
mælans ørk/og seig: nær þier komed til
þess handasta aþ Jordanar vatne/þa
skulud þier standa i Jordan.

9 Og Josua sagde til Israels børn-
na: * komed nælægt hyngad/og heyred
Drottens ydar Guds ord. * 2. Mos. 32/26.

10 Og Josua sagde: þar aþ skulud
þier vita/ad sa liþande Gud er a medal
ydar/og mun vissulega wtreka fyrer ydur
þa Cananita og Hethita/og Hevita/
og Pheresita/og Gergasita/og Amori-
ta/og Jebusita.

11 Sia/alltar Jardareñar stioorn-
ara sattmæls ørk/sem geingur yþer um
fyrer ydur i Jordan.

12 So * taked nu ydur tooly meñ aþ
Israels kynkvyslum/ja eirn mañ aþ
hvorre kynkvysl. * c. 4/2.

13 Og þad skal skie/nær prestarner/
sem bera Drottens ørk/(sem er) alltar
Jardareñar stioornare/setia þeirra fæt
ur i Jordanar vatn/so mun Jordanar
vatn skiliast ad/þad vatn sem kiemur nid
ur ad oþañ/mun standa i einu saþne.

14.

14 Og þad skiede / * þegar foolked
foor af þeirra tialldbuodum / ad ganga
yfer Jordan / og prestarner / sem bæru
sattmaals ørkena fyrer foolkenu:
* p. G. 7/ 45.

15 Og þegar þeir/sem bæru ørkena/
komu til Jordanar/ og prestarner/ sem bæru
ørkena/ dræpu (þeirra) footum fremst i
vatned/ enn Jordan var full til allra sinna
backa/ allann kornskurdenn i giegnum/

16. Þa * stood þad vatn/sem kom
ofann ad/ þad stood i einu safne/
miøg langt fra þvi þorpe Adam / sem
liggur upp til Zarthans sijdu / enn þad
(vatn) sem hliop ofann til hafsens i
eydemørkena giegnt þvi sallta hafe /
þad minkade / þad hliop framm / so
gieck foolked yfer umm giegnt Jericho.
*2. Mos. 14/21. 2. Kong. 2. 8/14. Ps. 114/3.

17 Og prestarner/sem bæru Drott
ens sattmaals ørk/ stoodu a þvi þurra
midt i Jordan tilbuoner/og allur Isra-
el gieck yfer umm a þvi þurra / þar til
þad giørvallt foolk kom aldeiles yfer
Jordan.

## IV. Capitule.

### Tolf Steinar uppreisast.

Og þad skiede/þegar allt foolk
ed var ølldunges geinged i gie
gnum Jordan/þa sagde Dro
ttenn til Josua / seigiande:

2 Taked ydur tolf menn af foolk-
enu/ jafn eirn mann af hvørre kynkvijsl.

3. Og biooded þeim/ og seiged: tak-
ed ydur upp hiedann midt wr Jordan /
tolf steina / af þeim stad / sem prest-
arna/ sem eru tilbuoner/ (þeirra) fætur
standa a/ og bered þa yfer umm med yd-
ur/ og legged þa i þann stad / sem þier
skulud vera þessa noott i giegnum.

4 Þa kallade Josua a þa tolf
menn/ sem hann hafde tilsett af Israels
børnum/ jafn eirn mann af hvørre kynkvijsl.

5 Og Josua sagde til þeirra: gang
ed yfer umm fyrer Drottens ydars Gu-
ds ørk midt i Jordan / og taked hvør
af ydur eirn stein/ uppa sijna øxl/ept-
er Israels barna kynkvijsla tolu.

6 Ad þad skule vera eitt teikn a
medal ydar / nær * ydar børn spyria
hier epter/og seigia: hvad (þijda) ydur
þesser steinar? * 2. Mos. 13. 8/ 14.

7 Og þier skulud seigia til þeirra:
ad Jordanar vatn skyldest ad fyrer
Drottens sattmaals ørk / þann tijd /
hun gieck i giegnum Jordan / þa ad-
skyldest Jordanar vatn. Og þesser stein
ar skulu vera Israels børnum til minn-
ingar æfenlega.

8 Þa giørdu Israels børn sem Jo-
sua baud / og bæru tolf steina upp
midt wr Jordan / sem Drottenn hafde
sagt til Josua / epter Israels barna
kynkvijsla tolu/og bæru þa med sier yf
er til þess stadar / sem þeir voru umm
noottena/ og løgdu þa þar.

9 Og Josua uppreiste tolf steina
(aptur) midt i Jordan/ þar sem prest-
anna fætur stoodu/ sem bæru sattmal-
ans ørk/ og þeir eru þar inn til þessa dags.

10 Og prestarner / sem bæru ørk-
ena/stoodu midt i Jordan/þar til hvø
rt ord var fullkomnad sem Drottenn
hafde boded Josua ad seigia til foolk-
sens/ epter øllu þvi / sem Mose hafde
bijfalad Josua / og foolked flijtte sier
og gieck yfer umm.

11 Og þad skiede/ þegar þad giør-
valla foolk var aldeiles yfer umm geing-
ed/ þa kom Drottens ørk yfer umm/ og
prestarner fyrer foolkenu.

12 Og * Rubens børn / og Gads
børn / og helmingurenn af Manasse
kynkvijsl/gieck yfer umm/ fimm (menn fylk-
ter) fyrer Israels børnum/ sem Mose
hafde sagt til þeirra. *4. Mos. 32. 21/29.

13 Nier umm fiørutiju þusunder /
vopnadar til strijds/ geingu fyrer Dro-
ne til strijds a Jericho mørk.

14 A þeim * deige giørde Drottenn
Josua stoorann fyrer alls Israels aug-
um / og þeir ottudust hann / sem þeir
ottudust Mose/ alla hans lijfdaga.
* C. 3/ 7.

15 Og Drottenn sagde til Josua /
seigiande:

16 Biood prestunum/ sem bera vit-
nesburdarens ørk/ ad þeir uppstijge wr
Jordan.

17 So baud Josua prestunum / og
sagde : stijged upp wr Jordan.

18 Og þad skiede / þegar prestar-
ner / sem bæru Drottens sattmæls
ørk / komu upp yferum Jordan / þa
stigu prestarner a þad þurra med þeir-
ra foota ylium/ og Jordanar vøtn ko-
mu aptur i þeirra stad / og flutu sem
fyrr yfer alla sijna backa.

19 Og foolked gieck upp wr Jor-
dan/a þm tijunda(deige) i þeim fyrsta
mænade/og settu sijnar herbwder i Gil
gal vid endan/austan fyrer Jericho.

20 Og þa toolf steina/ sm þr tooku
wr Jordan/sette Josua upp i Gilgal.

21 Og sagde til Israels barna/seig
iande: nær ydar børn spyria þeirra fed
ur hier epter/og seigia: hvad skulu þess
er steinar?

22 Þa skulud þier kungiøra ydar
børnum þad/ og seigia: Israel*gieck
a þurru i giegnum þessa Jordan.
* C. 3/ 17.

23 Þvi Drotten ydar Gud þurkade
Jordanar vatn fyrer ydur/þar til þier
komud yfer um/eins sem Drotten ydar
Gud giørde * i þvi rauda hafe/hvørt
han þurkade fyrer oss/þar til vier kom
um i giegnum. *2. Mos. 14. 21/22 etc.

24 Ad allar þiooder a Jordenne sku
le * þeckia Drottens hønd/ad hun sie
sterk/ ad þier skuled ottast Drotten yd
ar Gud alla daga. * Es. 59/ 1.

V. Capitule.

Israels Børn umskierast og hallda
Pæska.

Og þad skiede/þegar all' Emo
ritana konungar/sem biuggu
hinumeigen Jordanar til vest
urs/og aller Cananitana kon
ungar/ sem voru hia hafenu/ heyrdu/
ad Drotten * hafde þurkad Jordan-
ar vatn fyrer Israels børnum / þar
til þau komu yfer um/ þa **smellt-
est þeirra hiarta/ og þar var ecke fram
ar hugur i þeim fyrer Israels børnum.
* C. 3/ 16. ** C. 2. 11/ 24.

2 A þeim sama tijma sagde Dro-
tten til Josua : giør þier stein- * kny-
fa/ og umskier Israels børn/ aptur an
ad sin. * 2. Mos. 4/ 25.

3 Þa giørde Josua sier stein-kny-
fa / og umskar Israels børn hia for-
hwdarennar hæd.

4 Og þesse er orsøken/ hvar fyrer
Josua umskar allt foolked af kallkyne/
sem voru wtfarner af Ægyptalande /
allt strijds-foolked var daudt i eydemør
kenne a veigenum/sijdan þeir geingu wt
af Ægyptalande.

5 Þvi allt foolked/ sem wtfoor/var
umskored/En allt foolked/sem var fæ-
dt i eydemørkenne/a veigenum/þegar þe
ir fooru af Ægyptalande / høfdu þeir
ecke umskored.

6 Þvi Israels børn geingu fiøru-
tiju ær i eydemørkenne/ þar til ad * allt
þad foolk/ strijds-foolked/ sem kom af
Ægyptalande/ var burtdæed / sem ecke
hlijdde Drottens raust / sem Drotten
soor þeim/ ad han skyllde ecke læta þa
siæ þad land/sem Drotten hafde svar-
ed þeirra fedrum/ad giefa oss/ ** eitt
land / sem flijtur med mioolk og hun-
ange. * 4. Mos. 14/ 23. ** 2. Mos. 3/ 8.

7 Og han liet þeirra børn koma
upp i þeirra stad/þau umskar Josua/
þvi þau høfdu forhwd/ med þvi þeir
høfdu ecke umskored þau a veigenum.

8 Og þad skiede/þa allt foolked var
ølldunges umskored / þa voru þeir a
þeirra stad i herbwdunum/þar til þeir
urdu heilbrigder.

9 Og Drotten sagde til Josua : J
dag hefe eg teked Ægyptalands skom
fra ydur/og han kallade þess sama stad
ar nafn Gilgal allt til a þennan dag.

10 Og Israels børn høfdu(þeirra)
herbwder i Gilgal / og hielldu pæska
þan fioortanda dag i mænadenum/um
aptanin a Jericho mørk.

11 Og þeir ætu af landsens groo-
da

da añañ pæska-dag/ sem var osyrt(bra
ud)z steikt(ox/)eins a þm̃ sama deige.
12 So liet madur af fra þeim ødrum
deige/þegar þeir ætu af landsens groo
da/ ad Israels børn høfdu ecke fram-
ar man/ eñ þeir ætu af Canaans
lands grooda a þvi sama are.
13 Og þad bar til / þegar Josua
var hia Jericho / ad hañ upplipte sÿn
um augum/og sa/og sia/ * eirn mad-
ur stood gagnvart hønum / og hafde
sitt dreged sverd i siñe hende / Og Jo-
sua gieck til hañs/ og sagde til hañs:
heyrer þu oss til / edur vorum fiand-
moñum? * 4. Mos. 22/ 23.
14 Og hañ sagde : ney / þvi eg er
eirn Høfdinge yfer Drottens her /nu
kom eg / Þa fiell Josua a sitt andlit
til Jardar / og beigde sig / og sagde til
hañs : hvad seiger miñ Herra til sÿns
þienara?
15 Og Høfdingeñ yfer Drottens
her sagde til Josua: *leys þiñ skoo af
þÿnum fæte / þvi sa stadur / sem þu
stendur a / sa er heilagur/ Og Josua
giørde so. * 2. Mos. 3/ 5.

## VI. Capitule.

### Sa Stadur Jericho yfervinst og Eydeleggst.

Og Jericho hafde lokad aptur
og var tillukt fyrer Israels
børnum/ þar kuñe eingeñ kom
ast wt/ei helldur iñ.
2 Og Drottenn sagde til Josua:
sia/ *eg hefe giefed Jericho og heñar
konung i þÿna hønd/ (sem eru)strÿds-
foolk * c. 8/ 1.
3 Og þier skulud ganga i krÿngum
stadeñ / aller strÿdsmeñerner / so þeir
um̃krÿnge stadeñ einu siñe/so skalltu giø
ra sex daga.
4 Og siø prestar skulu bera þær siø
*fagnadarens basunur fyrer ørkeñe/
og a þeim siøunda deige skulud þier gan
ga krÿngum stadeñ siø siñum/ og prest-
arner skulu blasa i basunurnar.
*3. Mos. 25/ 9.
5 Og þad skal skie / nær mañ blæs
oodum i fagnadarens horn / nær þier
heyred basunuñar hliood/ þa skal allt
foolked æpa med einu stooru oope / so
skal stadarens mwr falla a siñ stad/ og
foolked skal stÿga upp/hvør fyrer sig.
6 So kallade Josua Nunsson a
prestana / og sagde til þeirra : bered
sattmaalans ørk / og læted siø presta
bera siø fagnadar basunur/fyrer Dro
ttens ørk.
7 Og hañ sagde til foolksens: fared
afram̃/ og ganged krÿngum stadeñ/ og
hvør sem er vopnadur/ gange fram̃e
fyrer Drottens ørk.
8 Og þad skiede/ þegar Josua haf
de þetta sagt til foolksens / þa geingu
siø prestar fram̃ / sem baru þær siø
fagnadar basunur fyrer Drottens aug
lite/ og bliesu i basunurnar/og Drott
eñs sattmaals ørk fylgde a epter þeim.
9 Og hvør sm̃ var vopnadur/gieck
fyrer prestunum/sem bliesu i basunur-
nar / og sa ( almeñe ) hoopur fylgde
ørkeñe/ gieck og blies i basunurnar.
10 Og Josua baud foolkenu / og
sagde : þier skulud ecke giøra heroop /
og ei lata ydar raust heyra/ edur lata
eitt ord wtganga af ydar muñe / in til
þess dags eg seige til ydar: giøred eitt
heroop / þa skulud þier giøra eitt
heroop.
11 So gieck Drottens ørk einusiñe
allt um̃ krÿng stadeñ / og þeir komu i
herbwdrenar/ og voru um̃ nootkena i
herbwdunum.
12 Og Josua * stood snem̃a upp
um̃ morguneñ/z prestarner baru Dro
ttens ørk. * c. 3/ 1. c. 7/ 16.
13 Og þeir siø prestar / sem baru
þær siø fagnadar basunur fyrer Dro-
ttens ørk / geingu oodum / og bliesu i
basunurnar / og hvør vopnadur gieck
fyrer þeim/og sa almeñe(hoopur)gieck
ørk fram̃ epter Drottens ørk/og blie-
su i basunurnar.
14 Og þeir geingu i krÿngum stadeñ

a þeim ødrum dege einusiñe / og komu
i herbwdernar aptur / so giørdu þeir i
sex daga.
15 Og pad skiede a þeim siøunda dei-
ge/ stoodu þeir sneṁa upp i døgunena/og
geingu i kryngum staden siø siñum/ epter
þeim sama maata / alleinasta so ad þeir
komu þañ sama dag siø siñum kryngum
staden.
16 Og pad skiede/ pad siøunda siñ /
pa bliesu prestarner i bæsunurnar/ og Jo
sua sagde til foolksens: giøred eitt oop /
þui Drotten hefur giefed ydur staden.
17 Og stadurenñ/hañ og allt pad/sem
er i hønum/skal eideleggiast fyrer Drott
en / alleinasta sw skiækia Rahab skal *
vera vid lijfed / hun og aller þeir / sem
eru i hwsenu med heñe / þui hun falde
sendebodana/ sem vier wisendum.
* C. 2/14. Ebr. 11/31. etc.
18 Og alleinasta vared ydur * fyrer
þui bañfærda/ad þier ecke bañfæred yd-
ur / ef þier taked af þui bañfærda / og
komed Israels herbwdum i bañ/og koll-
kasted þeim. * 3. Mos. 27/ 28.
19 Eñ allt sylfur og gull/og kopar-
verk og jarn/ pad skal vera heilagt fyr-
er Drottne / pad skal koma i Drottens
fiærsiood.
20 Og foolked giørde eitt oop / og
þeir bliesu i bæsunurnar / og pad skiede/
þegar foolked heyrde bæsunuñar hliood/
pa giørde foolked eitt stoort oop/ og *
mwrenñ fiell a siñ stad/og foolked stie upp
i staden/ hvør fyrer sig / og þeir iñtooku
staden. * Ebr. 11/30.
21 Og þeir * eideløgdu allt pad i
stadnum var / bæde mañ og kuiñu / bæde
ungañ og gamlañ/ og uxa og saud / og
asna/ med hvøssu sverde. * 1. Sam. 15/3
22 Eñ Josua sagde til þeirra twegg-
ia maña / sem høfdu nioosn um landed:
ganged i þeirrar kuiñu / þeirrar skiækiu
hws/ og leided kuiñuna padañ fra wt /
og allt pad sem hun hefur / * sem þier
soorud heñe. * C. 2/12. etc.
23 Pa geingu þeir meñ nioosnararn-
er/ iñ/og leiddu * Rahab wt/ og heñar
fødur/og heñar moodur/og heñar bræd-
ur/ og allt pad hun hafde / og alla heñ-
ar ætt wtleiddu þeir/z lietu pau vera ut-
añ fyrer Israels herbwdum. * v. 17. etc.
24 Eñ staden brendu þeir med ellde/
og allt pad sem var i hønum/ fyrer utañ
sylfred og gulled/ og koparenñ og jarned/
pad løgdu þeir iñ til eins fiærsioodar i
Drottens hws.
25 Eñ Josua liet * Rahab pa skiæ-
kiu / og heñar fødur hws / og allt pad
sem heñe heyrde til / vera vid lijfed / og
hun bioo midt a medal Israel allt til
þessa dags/þui hun falde sendebodana /
sem Josua hafde wtsendt til ad nioosna
um Jericho. * Dom. 1/ 25.
26 Og a þeim sama tijma soor Jo-
sua/ og sagde: bølvadur verde sa madur
fyrer Drottens augsyn/ sem uppstendur /
og bygger þeñañ stad Jericho/ Nær hañ
* leggur hañs grundvøll / koste pad
(hañ) hañs frumboren/ og nær hañ set-
ur hañs port / pa koste pad (hañ) hañs
yngsta son. * 1. Kong. 16/ 34.
27 So var Drotten med Josua / og
hañs rikte var i þui øllu lande.

VII. Capitule.

Achans Þioofnadur og Strafz.

EN Israels børn forgripu sig illa
a þui bañfærda/ þui * Achan
Charmi son/Sabdi sonar/Se-
rah sonar af Juda ætt / (took)
** af þui bañfærda / pa vard Drott-
ens reide uppkendrud i moot Israels børn
um. * C. 22/ 20. 1. Kron. 2/ 7.
** 5. Mos. 13/ 17.
2 Og Josua wtsende meñ fra Je-
richo moot Ai / sem liggur hia Beth-
Aven / austañ fyrer BethEl / og sagde
til þeirra/ segiande: * ganged upp/ og
nioosned um landed/Og þeir meñ geingu
upp/ og nioosnudu um Ai. * C. 2/ 1.
3 Og komu aptur til Josua/og sogdu
til hañs: lat ecke pad giørvalla foolk
fara upp/(Helldur) hier um tvo þusund
mañs / edur hier um þriu þusund mañs /
suña ad fara upp og slaa Ai/ ad þu skul-
er ecke lata pad giørvalla foolk mæda
sig þangad/ þui þeir eru fær.

4 So poor aþ foolkenu upp hier um̃
þriær þusunder maña/ hvøtier flyđu fyr
er þeim moñum aþ Ai.
5 Og þeir meñ af Ai * slooꝺu hier
um̃ sex og þriatyu meñ af þeim / og
elltu þa fra portenu iñ til Sebarim /
og slooꝺu þa / þar sem vegureñ lꝛ of-
añ ept'/ þa vard foolksens hiarta ef-
ad/og vard sem vatn. * 5. Mos. 38/25.
6 Og Josua * reif syn klæde / og
fiell a syna æsioonu til Jardar / fyrer
Drottens ørk/ allt til kvollds/ hañ og
þeir ellstu af Jsrael/og køstuđu dupte
yfer þeirra høfud. * 1. Mos. 37/ 34.
4. Mos. 14/6.
7 Og Josua sagde: æ! Drotteñ /
Drotteñ/ þvi lietstu þetta foolk koma
so yf' Jordan/til ad giefa oss i Emori-
taña hønd/ ad læta fordiarfa oss? og o
ad vier hefdum læted oss nægia/og ver-
ed a hina syđu Jordanar.
8 Æ (miñ) Drotteñ ! hvad skal eg
seigia / af þvi ad Jsrael snyr bakenu
vid synum fiandmoñum?
9 Nær * Cananitarner og aller
landsens iñbyggiarar þad heyra / þa
um̃spena þeir oss/ og afmæ vort nafn
af Jørduñe / og hvad villtu giora vid
þitt stoora nafn ? * 2. Mos. 32/ 12.
4. Mos. 14/13.
10 Þa sagde Drotteñ til Josua :
statt upp/ þvi liggr þu a þynu andlite?
11 Jsrael syndgade / og þeir hafa
eñ yfertroded miñ sattmæla/ hvørn eg
baud þeim / þar ad auk tooku þeir af
þvi bañfærda/ og stælu þar ad auk/og
lugu og so/ og løgdu þad og so a med-
al þeirra farangurs.
12 Og Jsraels børn skulu ecke ku-
ña ad uppstanda i moot þeirra fiand-
moñum / þeir mættu snwa bakenu til
þeirra fiandmaña/ þvi þeir voru i ba-
ñe / Eg skal ecke meir vera med ydur /
ef þier ecke afmaæed þad bañ fra ydur.
13 Statt upp/ helga foolked/og se-
ig: * giøred ydur heilaga til morguns/
þvi so seiger Drotteñ Jsraels Gud:
þar er bañ a medal þyn Jsrael/ þu ka-
nt ecke ad standa i moote þynum fiand-
moñum / þar til þier burttaked þad
bañ fra ydur. * C. 3/ 5.
14 Og þier skulud koma ærla fram̃/
epter ydar ættum / og þad skal skie
hvøria ætt Drotteñ hitter a/hun skal
koma fram̃ / epter kynkvyslunum / og
sw kynkvysl / sem Drotteñ hitter a /
hun skal koma fram̃ / epter hwsunum/
og þad hws/sm̃ Drotteñ hitter a/þad
skal koma fram̃ epter hwsbændunum.
15 Og þad skal skie/ sa sem verdur
fundeñ * i bañe/ hañ skal breñast med
ellde / og allt þad hañ hefur / af þvi
hañ yfertrad Drottens sattmæla/og
af þvi hañ giørde eitt dæruskap i Js-
rael. * 5. Mos. 13/ 17.
16 Og * Josua stood sneñma upp
um̃ morguneñ / og leidde Jsrael fram̃
epter synum ættum̃/ og Juda ætt fanst.
* C. 3/ 1. C. 6/12. C. 8/10.
17 Og hañ leidde Juda kynkvysl
fram̃ / og * Sarchi kynkvysl fanst.
* 4. Mos. 26/ 20.
18 Og hañ leidde Sarchi kynkvysl
fram̃/mañ fyrer mañ/og Sabdi fanst.
Og hañ leidde hañs hws fram̃ mañ
fyrer mañ / og Achan Charmi son /
Sabdi sonar / Serah sonar af Juda
kynkvysl fanst.
19 Og Josua sagde til Achan: miñ
son / gief þo Drottne Jsraels Gude
dyrd/ og gief honum lof / og gief mier
nu til vitundar/ hvad þu hefur giørt/
dyl þad ecke fyrer mier.
20 Og Achan svarade Josua / og
sagde: sañlega/ eg / eg syndgade fyrer
Drottne Jsraels Gude / og þetta og
þetta giørde eg.
21 Þvi eg sæ eina kostulega Baby-
loniska kæpu a medal herfængsens /
og tvø hundrud sekla silfurs / og eina
gull-tungu / sem vo fim̃tyu sekla / og
fieck gyrnd til þeirra/ og took þau/ og
sia/ þau eru faleñ i Jørdu/ i miñe tialld
bwd/ og sylfred þar under.
22 Þa sende Josua sendemeñ þang
ad/ og þeir hlupu til tialldbwdareñar/

og siæ / þad var faled i hañs tialldbwd/
og sylfred þar under.
23 Og þeir tooku þau wr tialldbwd-
eñe / og færdu þau til Josua og til allra
Israels barna / og løgdu þau fyrer Dro-
ttens augsyn.
24 So took Josua/ og allur Israel
med honum/ Achan Serah son/ og sylf
red og kapuna/ og gull-tunguna/ og ha-
ñs syne og hañs dætur/ og hañs uxa og
hañs asna / og hañs saude / og hañs
tialldbwd / og allt þad hañ hafde / og
færde þau upp i Achors dal.
25 Og Josua sagde : þvi hefur þu
sturlad oss/ Drotteñ mun sturla þig a þess
um deige / Og allur Israel grytte hañ
med steinum/ og brende þau med ellde/ og
kastade steinum a þau.
26 Og þeir upphlodu eina stoora
stein-hrwgu yfer honum / allt til þessa
dags / Og Drotteñ snere sier fra siñar
grymdar bræde / þar fyrer kallade mann
þess sama stadar nafn Achors dal / allt
til þessa dags.

VIII. Capitule.

Josua viñur/ og eideleggur þañ Stad Ai/ og bygger eitt Altare a Ebal Fialle.

Og Drotteñ sagde til Josua : *
Ottast ecke/ og hrædstu ecke/ tak
med þier allt strijds foolked/ og
gior þig reidubweñ / far upp i
moot Ai. Siaa/ eg hefe gefed konung-
eñ af Ai og hañs foolk / og hañs stad /
og hañs land i þijna hønd.
* 5. Mos. 31/ 7. etc.
2 Og þu skallt giora vid Ai og heñ-
ar konung / so sem þu giørder * vid Je-
richo og heñar konung / Utañ af heñar
herfange / og heñar fienade skulud þier
taka ydur til bijtis / Set þier eitt launsæt
ur bak vid stadeñ. * c. 6/ 21.
3 Þa giørde Josua sig reidubweñ og
allt strijds foolked / ad fara upp til Ai/
z Josua wtvalde þriatiju þusunder volld
ugra strijds maña / og sende þa burt um
nootkena.
4 Og baud þeim/ og sagde : siaed til/
þier skulud vera i launsætre vid stadeñ bak
til/ halldid ydur ecke langt fra stadnum/
og vered aller til reidu.
5 Eñ eg / og allt þad foolk/ sem er
med mier / vier vilium fara nær til stad-
arens / og þad skal skie / nær þeir falla
wt i moote oss/ sem fyrrum/ þa vilium vier
flyja fyrer þeim.
6 Ad þeir gange wt epter oss / þar
til vier fæum lockad þa fra stadnum /
þvi þeir munu þeinkia : þeir flyja fyrer
oss * eins sem fyrr/ Og vier vilium flyja
fyrer þeim. * c. 7/ 5.
7 Þa skulud þier rijsa upp af laun-
sætrenu/ og iñtaka stadeñ / og Drotteñ
ydar Gud mun gefa hañ i ydar hendur.
8 Og þad skal skie / nær þier hafed
teked stadeñ iñ / þa skulud þier setia elld
i stadeñ / þier skulud giora epter Drott-
eñs orde/ Siaa/ eg hefe bijfalad ydur þad.
9 So sende Josua þa/ og þeir geingu
til launsætursens/ z stadnæmdust i millum
BethEl og Ai/ vestañ fyrer Ai/ Eñ Jo
sua var þa somu noott hia foolkenu.
10 Og Josua * stood ærla upp um
morguniñ / og skickade foolkenu / og foor
upp/ hañ og þeir ellstu af Israel / fyrer
foolkenu/ moot Ai. * c. 6. 12/ 15. c. 7/ 16.
11 Og allt strijds foolked / sem var hiaa
honum/ dreou upp og nalægdust / og ko-
mu i moots vid stadeñ/ og stoou herbwd-
um/ nordur fra Ai/ so (ad þar var alleina
asta) dalureñ i millum hañs og Ai.
12 Og hañ hafde teked hier um fim
þusund meñ/ og sett þa i launsætur i mill
um BethEl og Ai / til vesturs giegnt
stadnum.
13 Og þeir skickudu foolkenu af þeim
giørvøllum herbwdum / sem var nordur
fra stadnum / ad endeñ þar af nade til
vesturs moot stadnum / so gieck Josua
somu noott midt i daleñ.
14 Og þad skiede / þegar konungur-
eñ af Ai þad sa / þa flijttu þeir sier/ og
giørdu sig ærla reidubwna / og meñerner
af stadnum gafu sig wt i moot Israel
til strijds / hañ og hañs giørvallt foolk/
a þeim tilsetta tijma a mørkena/ eñ hañ
visse ecke / ad þar var eitt launsætur um
hañ

Hañ bak vid ſtadeñ.
15 Eñ Joſua og allur Jſrael (lie-
ku ſem þeir være) ſlegner af þeim / og
flÿdu a veigeñ i moot eidemørkeñe.
16 Þa var allt foolked ſamañkall
ad/ſem var i ſtadnum/til ad ellta þa/
og þeir elltu Joſua / og gæfu ſig wt
af ſtadnum.
17 So ad þar var ecke eirn madur
epter i Ai og BethEl/ ſem ei wtfære
ad ellta Jſrael/ og þeir yfergæfu ſtad
eñ opeñ / og elltu Jſrael.
18 Þa ſagde Drottiñ til Joſua :
uppliptu þiñe lenſu ſem þu hefur i
þiñe hende moot Ai / þvi eg vil giefa
hana i þÿna hønd/og þegar Joſua upp
lipte lenſuñe / ſem hañ hafde i ſinne
hende i moot ſtadnum.
19 Þa uppreiſte launſæted ſig
fliootlega wr ſÿnum ſtad / og hlupu/
þegar hañ wtrietti ſÿna hønd/og ko-
mu i ſtadeñ/ og iñtooku hañ/og flÿttu
ſier / og brendu ſtadeñ med ellde.
20 Og þeir meñ af Ai ſneru vid
epter þeim/ litu (til baka/) og ſiaa/reik
ureñ af ſtadnum gieck upp giegnt Him
neñu / og þeir kuñu ei neinſtadar flÿa/
hÿngad eda þangad/ Og þad foolk ſem
flÿde til eidemerkur/ſnere ſier vid moo-
te þeim / ſem elltu (þa.)
21 Þegar Joſua og allur Jſrael
ſau/ad launſætred hafde uñed ſtadeñ/
og reikureñ gieck upp af ſtadnum / þa
ſneru þr aptur/ z ſloou meñena af Ai.
22 Þa hiner komu wt af ſtadnum
moote þeim/ og þeir voru midt a mill-
um Jſrael/ (ſo) hiner voru a hina ſÿ-
du/ og þeſſer a þeſſa ſÿdu / og * þeir
ſloou þa/ þar til ** eingeñ var epter
af þm frelſadur/eda ſem undañ komſt.
* 5. Moſ. 7/ 2. ** 2. Moſ. 14/ 28.
23 Og þeir gripu kongeñ af Ai lif
ande / og leiddu hañ til Joſua.
24 Og þad ſkiede/þegar Jſrael haf
de aldeiles ſleged alla Ais iñbyggia-
ra i hel/ a mørkeñe i eidemørkeñe/ hvø
rt þeir elltu þa / og þeir voru fallner
aller fyrer hvøſſu ſverde / þar til þeir
voru ſorkÿnder / þa ſnere allur Jſrael
vid til Ai / og ſloou hana med hvøſſu
ſverde.
25 Og aller þeir/ſem fiellu a þeim
ſama deige/ bæde meñ og kviñur/voru
tolf þuſunder / allt foolk af Ai.
26 Og Joſua took ecke * ſÿna hønd
(til ſÿn/) hvar med hañ hiellt lenſuñe
upp/ firr eñ hñ hafde i hel ſleged alla
Ais iñbyggiara. *2. Moſ.17.11/12. etc
27 Alleinaſta fienadeñ og her-
fanged af ſama ſtad took Jſrael ſier
til bÿtis/epter Drottiñs orde/ſem hañ
baud Joſua.
28 Og Joſua brende Ai/ og giørde
eitt æverande eide-plaats þar af iñ til
þeſſa dags.
29 So liet hañ heingia konungeñ
af Ai uppa eitt trie allt til kvølld-tÿ-
ma/ Og þegar ſooleñ gieck nidur/ baud
Joſua/ad þeir ſkylldu ofañtaka*hañs
lÿkama af trienu/ og þeir koſtudu hon
um fyrer ſtadarens ports dyr/ og løg-
du eina ſtoora grioot hrúgu yfer hañ/
allt til þeſſa dags. * 5. Moſ.21/23.
30 Þa bygde Joſua Drottne Jſra-
els Gude eitt altare/ * a Ebal fialle.
* 5. Moſ. 27/ 4.
31 Sem * Moſe Drottiñs þien-
are baud Jſraels bornum / ſem þar er
ſkrifad i Moſe lagbook / eitt altare af
heilum ſteinum/ſem ecke voru hoggner
med iarne/ z þeir offrudu þar a breñe-
offre/ fyrer Drottne/ og offrudu þack-
ar-offrum. * 2. Moſ. 20/ 25. etc.
32 Og hañ ſkrifade þar a ſteinana
eina wtſkrift af Moſe løgmaale / ſem
hañ ſkrifade fyrer Jſraels bornum.
33 Og allur Jſrael og hañs ellſtu/
og høfudsmeñ og doomarar ſtoodu a
bædar ſÿdur hia ørkeñe/ yfer fra preſt
unum af Levitunum/ſem bæru Drott
iñs ſattmaals ørk/ſo vel ſa framande/
ſem ſa iñfædde/ helfteñ þar af giegnt
*Griſim fialle/og ſu helft þar af gie-
gnt Ebal fialle/ ſo ſem Moſe Drott-
iñs þienare hafde boded / ad bleſſa Jſ-
raels foolk fyrſta ſiñ. *5.Moſ.11/29.
C. 27/12.

34 Og sijdan liet hann wthroopa
øll løgmaalsins ord/ blessanena og bølv-
anena/ epter øllu þvi / sem er skrifad i
løgbookenne.

35 Þar var ecke eitt ord af øllu
þvi/ sem Mose hafde boded/ ad Josua
liete þad ei wthroopa fyrer øllum Js-
raels safnade / og kvinnunum og børn-
unum/ og þeim framanda/ sem gieck a
medal þeirra.

IX. Capitule.

Gibeonitanna brøgdott Raad.

Og þad skiede/ þegar aller kong-
arner þetta heyrdu/ sem voru
hierna meigenn Jordanar a
fiallenu/ og a sliettlendenu/ og
i øllum høfnum vid þad stoora haf /
gagnvart Libanon / (sem var) sa He-
thite/ og sa Emorite/ sa Cananite/ sa
Pheresite / sa Hevite/ og sa Jebusite.

2 * Søfnudu þeir sier til samans/
ad strijda i moote Josua og i moote Js
rael samþickelega. * Ps. 48/ 5.

3 Og þegar borgararner af Gibeon
heyrdu hvad Josua hafde giørt vid Je
richo og Ai.

4 Þa upphugsudu þeir eitt brøgd-
ott raad/ þeir geingu þangad/ og hielldu
sig fyrer (sende-)boda / og tooku gamla
secke a þeirra asna / og gamlar og rif-
nar og bættar vijn-fløskur.

5 Og gamla og bætta skoo a þeirra
fætur / og gømul klæde a sig / og allt
þad braud/ sem þeir tooku med sier til
nestis/ var hart og molad.

6 Og þeir geingu til Josua i her-
bwdernar hia Gilgal/ og søgdu til ha-
nns og til Jsraels manna: vier erum kom
ner af einu lande / langt ad / so giøred
nu sattmaala vid oss.

7 Þa søgdu Jsraels menn til Hevi-
tans: maa skie / þu bwer midt a medal
vor / og hvørnenn kunnum vier giøra *
sattmaala vid þig ? * 5. Mos. 7/ 2.

8 Og þeir søgdu til Josua : vier
erum þijner þienarar/ Og Josua sag-
de til þeirra : hvører erud þier / og
hvadann komud þier?

9 Og þeir søgdu til hanns : þijner
þienarar eru komner af einu lande har-
la langt ad/ fyrer Drottenns þijns Gu-
ds nafns skulld/ þvi vier heyrdum ha-
nns rikte/ og allt þad/ sem hann giørde
i Egyptalande.

10 Og allt þad/ sem hann giørde vid
þa tvo Emorita konga/ sem voru hinu
meigenn Jordanar / vid * Sihon/ kon-
ungenn i Hesbon/ og vid Og / konungenn
i Basan / sem (biuggu) i Astharoth.
* 4. Mos. 21. 21/ 24/ 33. etc.

11 Þar fyrer søgdu vorer ellstu af
øllum vorum lands innbyggiurum til
vor / seigiande : taked mat med ydur a
veigenn/ og ganged i moot þeim/ og seig
ed til þeirra : vier erum ydrer þienar-
ar/ so giør nu sattmaala vid oss.

12 Þetta er vort braud / þad took-
um vier volgt med oss a reisuna/ af vor
um hwsum/ þann dag vier foorum wt/
ad ferdast til ydar / enn sia/ nu er þad
hardt og molad.

13 Og þessar eru þær vijn-fløskur/
sem vier filltum/ (þegar þær voru) nij-
ar/ og sia/ þær eru sundur rifnar / og
þesse vor klæde/ og vorer skoor eru gam
ler / af þessare harla laungu reisu.

14 So tooku mennerner af þeirra
mat/ og spurdu ecke Drottenns munn ad.

15 Og Josua * giørde frid vid þa/
og uppreiste sattmaala vid þa / ad þeir
skylldu vera vid lijfed/ og þeir yppurstu
af safnadenum sooru þeim.
* 2. Sam. 21/ 2.

16 Enn þad skiede þremur døgum
þar epter / sijdann ad þeir høfdu giørt
sattmaala vid þa/ þa spurdu þeir/ ad
þeir biuggu hartnær hia þeim / og ad
þeir biuggu midt a medal þeirra.

17 Þvi þa Jsraels børn fooru af-
framm/ þa komu þau a þeim þridia de-
ge til þeirra stada/ og þeirra stader vo
ru Gibeon og Cephira/ og Beeroth/ og
KiriathJearim.

18 Og Jsraels børn sloou þa ecke/
þvi høfudsmennerner fyrer safnaden-
um

um hofdu svared þeim vid Drottenn
Israels Gud/ og allur almwgenn mogl-
ade i moote hofudsmonnunum.
19 Þa sogdu aller hofudsmennerner
til alls almwgans : vier soorum þeim
vid Drottenn Israels Gud / þar fyrer
kunnum vier ecke hræra vid þeim.
20 * (Enn) þad vilium vier giora
vid þa/ ad læta þa lifa / ad þar skule
ecke koma * ein reide yfer oss/ fyrer þess
eids saker/ sem vier hofum svared þm.
* 2. Sam. 21. 1/ 2.
21 Og hofudsmennerner sogdu til
þeirra: læted þa lifa / ad þeir hogg-
ve vid og bere vatn fyrer allann sofnud-
enn/ lijka sem þeir yppurstu hofdu sa-
gt þeim.
22 Þa kallade Josua a þa/ og kal-
ade vid þa/ og sagde : hvi svikud þier
oss/ og sogdud: vier (bwum) harla lan-
gt fra ydur/ og þier bwed (þo) midt a
medal vor?
23 Þar fyrer skulud þier vera bol-
vader/ ad þar skal ecke vanta þræla af
ydur/ hvorke sem skule hoggva vid edur
bera vatn til mijns Guds hwss.
24 Og þeir svorudu Josua/ og sog
du : þad var þijnum þienurum vijst til
vitundar giefed / ad Drottenn þinn Gud
baud Mose sijnum þienara/ ad hann vill
de giefa ydur allt landed/ og eideleggia
alla landsens innbyggiara fyrer ydur/ og
vier * ottudumst miog fyrer voru lijfe/
fyrer ydur/ og hofum giort þenna gior
ning. * c. 10/ 2.
25 Enn siaa nu / vier erum i þinne
hende / hvad þier þiker gott/ og hvad
þier þiker riett ad vera/ ad giora oss /
þad gior.
26 Og hann giorde so vid þa/ og frel
sade þa fra Israels barna hond / ad
þeir sloou þa ecke i hel.
27 So giorde Josua a þeim sama
dege þa til * vidarhoggvara / og vat-
nsberara fyrer sofnudenn / og (þad)
til Drottens altares / allt til þessa
dags/ þangad til þess stadar/ sem hann
munde utvelia. * 5. Mos. 29/ 11.

## X. Capitule.

### Josuæ undarleg Sigurvinning yfer þeim Amoritum.

Og þad skiede/ þegar Adoni Ze-
dech / konungurenn i Jerusa-
lem/ heyrde/ ad * Josua hafde
innteked Ai/ og eidelagt hana/
og giort so vid Ai / og hennar kong/
sem hann giorde vid Jericho og hennar
konung/ og ad innbyggiararner af Gibe
on hofdu giort frid vid Israel/ og vo-
ru a medal þeirra. * c. 8. 26/ 28/ 29.
2 Þa * ottudust þeir miog / þvi
Gibeon var einn stoor stadur / sem einn
af þeim konunglegu stodum/ og af þvi
hann var stærre enn Ai/ og aller borgar-
ar þar i voru vollduger menn. * c. 9/ 24.
3 Og AdoniZedech / konungurenn i
Jerusalem sende (bod) til Hoham/ kon-
ungsens i Hebron / og til Piream / kon-
ungsens i Jarmuth/ og til Japhia kon-
ungsens i Lachis / og til Debir/ konung-
sens i Eglon/ og liet segia:
4 Komed upp til mijn / og hiælped
mier/ ad vier kunnum slaa Gibeon/ þvi hun
hefur giort frid vid Josua / og vid Is-
raels born.
5 So sofnudust þeir/ og fooru upp/
þeir * fimm Amoritana konungar/ kon-
ungurenn af Jerusalem / konungurenn af
Hebron/ konungurenn af Jarmuth/ kon-
ungurenn af Lachis/ konungurenn af Eg-
lon / þeir og allur þeirra her / og settu
sijnar herbwder fyrer Gibeon/ og strijddu
i moot henne. * 1. Mos. 14/ 9.
6 Og þeir menn af Gibeon sendu til
Josua / til herbwdanna hia Gilgal / og
lietu segia : tak ecke þijna hond fra þijn
um þienurum/ kom snarlega upp til vor/
og frelsa oss og hiælpa oss / þvi aller A-
moritana konungar sem bwa a fiollunum/
hafa sofnad sier i moote oss.
7 Og Josua foor upp fra Gilgal /
hann og allt strijds foolked med honum /
og aller/ sem voru færer til strijds.
8 Og Drottenn sagde til Josua : ottast
eckert fyrer þeim/ þvi eg hefe giefed þa

i þijna Hønd/ þar skal ecke eirn madur af þeim kuña ad standa fyrer þier.

9 So kom Josua * ofurvarandes yfer þa/ (þvi) hañ reiste þa heilu noott upp fra Gilgal. * c. 11/ 7.

10 Og Drottiñ skielfde þa fyrer Israel/ ad þeir sloogu þa med einu þungu slage i Gibeon/ og elltu þa a veigeñ/ sem mañ fer upp til BethHoron / og sloou þa allt til Aseka og til Makeda.

11 Og þad skiede/ þa þeir flijdu fyrer Israel/ (a veigenum) ofañ til BethHoron / þa liet Drottiñ falla * stoora steina af Himnenum a þa allt til Aseka/ ad þeir doou/ Myklu fleire af þeim deydu af sømu hagl-steinum/ helldur eñ Israels børn sloou i hel med sverde.
* 2. Mos. 9. 21/ 23/ 24.

12 Þa talade Josua til Drottins þañ sama dag/ þa Drottiñ yfergaf þa Amorita fyrer Israels børnum/ og sagde i Israels nærveru: Sool/ stattu kyrr i Gibeon / og Tungl i Ajalons dal.

13 So * stoodu Sooleñ og Tungled/ til þess Foolked hafde hefndt sijn a þeirra fiandmøñum/ Er þad ecke skrifad i þess Rietta Book? so stood Sooleñ midt a Himnenum / og droo undañ/ ad ganga nidur/ hier um/ eirn heilañ dag. * Es. 28/21. C. 38/ 8.

14 Og þar var eingeñ dagur þessum lijkur/ (hvorke) fyrre edur sijdar/ ad Drottiñ hlijdde eins mañs raust / þvi Drottiñ strijdde fyrer Israel.

15 Og Josua foor til baka / og allur Israel med høñum til Herbudaña i Gilgal.

16 Eñ þeir fim̃ Kongar voru flwder og høfdu faled sig i þeim Heller hia Makeda.

17 Og þad vard Josua til vitundar giefed / ad mañ sagde: þeir fim̃ Kongar eru fundner falder i þeim Heller hia Makeda.

18 Og Josua sagde: velltet stoorum steinum fyrer muñañ a Hellernum/ og setied meñ fyrer hañ/ til ad vardveita hañ.

19 Og standed ecke kyrrer / helldur elltid ydar Fiandmeñ / og slaed þa bak til/ lated þa ecke komast til þeirra stada/ þvi Drottiñ ydar Gud hefur giefed þa i ydar hønd.

20 Og þad skiede / þegar Josua og Israels børn høfdu fullkomnad ad slaa med einu harla stooru slage / þar til þeir voru eidelagder/ þa voru þar eñ nockrer epter/ sem urdu epter af þeim/ og þeir komu iñ i þa føstu stade.

21 So kom allt Foolked i Herbuderñar aptur til Josua/ hia Makeda med fride/ þar þorde eingeñ hræra sijna tungu fyrer Israels børnum.

22 Og Josua sagde: lated muñañ upp a Hellernum/ og leided þessa fim̃ Konunga til mijn af Hellernum.

23 Og þeir giordu so / og wtleiddu þa fim̃ Konga til hañs af Hellernum/ Konungeñ af Jerusalem / Konungeñ af Hebron/ Konungeñ af Jarmuth / Konungeñ af Lachis / Konungeñ af Eglon.

24 Og þad skiede/ þegar þeir høfdu leidt þa Konunga wt til Josua/ þa kallade Josua a alla Israels meñ / og sagde til þeirra yppurstu fyrer strijds Foolkenu/ sem fooru med høñum: komed hijngad / setied ydar fætr a þessara Konunga hálsa. So komu þeir fram̃ / og settu þeirra fætur a þeirra hálsa.

25 Þa sagde Josua til þeirra: ottest ecke/ skielfest ecke / hafed eirn hraustañ huga/ og vered diarfer/ þvi Drottiñ mun so giora i moote øllum ydar fiandmøñum / sem þier strijded i moote.

26 So sloo Josua þa þar epter / og drap þa / og heingde þa a fim̃ trie / og þeir voru heingder a trien allt til aptans.

27 Og þad skiede um̃ þañ tijma / ad * Sooleñ gieck nidur / baud Josua / og þeir tooku þa ofañ af triānum/ og køstudu þeim i þañ Heller/ sem þeir voru falder i / og þeir logdu stoora steina fyrer muñañ a Hellernum / (þar eru þeir) allt til þessa dags. * c. 8/29. 5. Mos. 21/23.

28 Og Josua iñtook Makeda a þeim sama dege / og sloo hana med hvøssu sverde / lijka heñar Konung/ Hañ eidelagde þa/ og allar persoonur / sem voru i heñe / og liet ecke eirn epter vera / Hañ giorde

giorde og so vid konungeñ af Makeda / sem * hañ giorde vid konungeñ af Je-richo. * c. 6/ 21

29 Þa foor Josua og allur Israel med honum / fra Makeda til Libna/ og striþde i moot Libna.

30 Og Drotteñ gaf og so hana i Israels hønd/ og heñar konung/ og hañ sloo * hana med hvøssu sverde/ og allar persoonur/sem voru þar i/ hañ liet aung-vañ vera epter þar i/ og giorde vid heñ-ar konung/ sem hañ giorde vid konung-eñ af Jericho. * v. 28.

31 Sidañ foor Josua og allur Israel med honum/ fra Libna til Lachis/og sett-ist um̃ hana / og striþde i moote heñe.

32 Og Drotteñ gaf Lachis i Israels hønd / og þeir iñtooku hana a ødr-um dege/og sloou hana med hvøssu sver-de/ og allar persoonur sem þar voru i / a allañ hatt / sem hañ giorde vid Libna.

33 Sama tijma foor Horam/ konung-ureñ af Geser/ upp/ ad hialpa Lachis/ eñ Josua sloo hañ og hañs foolk/ * þar til ad hañ liet honum aungvañ verda epter. * c. 8/ 22. c. 11/ 8.

34 So foor Josua og allur Israel med honum ofrañ fra Lachis til Eg-lon/ og þeir settust um̃ hana / og striþdu i moot heñe.

35 Og þeir iñtooku hana a þeim sa-ma dege/ og sloou hana med hvøssu sver-de / og hañ eydelagde allar persoonur / sem þar voru i / þañ sama dag/ a allañ hatt/ sem hañ giorde vid Lachis.

36 Sidañ foor Josua og allur Is-rael med honum/fra Eglon til Hebron/ og þeir striþdu i moote heñe/.

37 Og þeir iñtooku hana / og sloou hana med hvøssu sverde / og heñar kon-ung / og alla heñar stade / og allar per-soonur / er þar i voru/ hañ liet aungvañ verda epter/ a allañ hatt/sem hañ gior-de vid Eglon/ og eydelagde hana/og all-ar persoonur sem þar voru i.

38 So snere Josua vid/ og allur Is-rael med honum/ til Debir/ og striþdu i moote heñe.

39 Og iñtooku hana/og heñar kon-ung / og oll heñar þorp / og þeir sloou þau med hvøssu sverde/ og eydelagdu all-ar persoonur / sem þar voru i / hañ liet aungvañ verda epter / Sem hañ giorde vid Hebron/ so giorde hañ vid Debir og heñar konung / og sem hañ giorde vid Libna og heñar konung.

40 So sloo Josua allt landed/a fiøll-unum / og moot sudre / a slettuñe / og hia vatns-sprettunum/ med øllum þeirra konungum/ hañ liet aungvañ verda epter/ og * eydelagde allt þad/ sem hafde anda / sem Drotteñ Israels Gud hafde bijfalad. * c. 11. 11/ 14. 5. Mos. 20/ 16.

41 Og Josua sloo þa fra Kades-Barnea/ og allt til Asa / og allt * Go-sen land/ og allt til Gibeon. * c. 15/ 51.

42 Og Josua iñtook alla þessa kon-unga med þeirra lande/ a einum tijma / þui * Drotteñ Israels Gud striþde fyr-er Israel. * 5. Mos. 3/ 22.

43 So foor Josua til baka aptur / og allur Israel med honum / til herbuda-ña hia Gilgal.

## XI Capitule.

Josua iñtekur Hofud Staden̄ Hazor.

Og þad skiede/ þegar Jabin/ kon-ungureñ af Hazor/ heyrde þad/ þa sende hañ til Jobab / kon-ungsens af Madon/og til kon-ungsens af Simron / og til konungsens af Achsaph:

2 Og til þeirra konunga / sem voru i nordur a fiøllunum/ og a markeñe/ fyr-er suñañ Cinneroth / og i dølunum/ og i Naphot Dor / wt med hafenu.

3 Til Cananitaña fra austre og fra vestre/ og Amoritaña og Hettitaña / og Pheresitaña / og Jebusitaña a fiøllun-um/ og Hevitaña nedañ fra upp til Her-mon i Mizpa lande.

4 Og þeir droou wt / þeir og allur þeirra her med þeim/ ein mykel tala fool-ks/ sem sandur þar er a sioar strøndu / i margfiolda/ og harla marget hestar og vagnar.

5 Og aller þeſſer Konungar ſafnud-
uſt / og komu / og ſettu ſijnar Herbuder
til ſamans hia þvi vatne Merom / ad
ſtrijda i moote Jſrael.
6 Og Drottenn ſagde til Joſua: *
ottaſt ecke fyrer þeim / þvi a morgun i
þetta mund vil eg giefa þa alla ſlegna
fyrer Jſraels augſyn / þu ſkallt giora
þeirra Heſta lamada / z brenna ** þeirra vag
na med ellde. * c. 10/8. ** Pſ. 46/10.
7 Og Joſua kom / og allt ſtrijds foolk
ed med honum / uppa þa oforvarandes
hia þvi vatne Merom / og þeir yfer-
fiellu þa.
8 Og Drottenn gaf þa i Jſraels hö-
nd / og þeir ſloou þa / og elltu þa / allt til
þeirrar ſtooru Zidon / og allt til þeirra *
brennande vatna / og til þeirrar Mitzpa mer
kur moot auſtre / Og þeir ſloou þa þar til
mann liet ecke eirn verda epter af þeim.
* C. 13/6.
9 Þa giorde Joſua vid þa / ſem Dro
ttenn bijfalade honum / Hann * giorde þeir
ra Heſta lamada / og brende þeirra vag-
na med ellde. * 2. Sam. 8/4.
10 Og Joſua ſnere vid a þeim ſa-
ma tijma / og inntook Hazor / og ſloo Henn-
ar Konung med ſverde / þvi Hazor var
fyrrum Hofud (ſtadurenn) fyrer øllum
þeſſum rijkium.
11 Og þeir ſloou allar perſoonur med
hvøſſu ſverde / ſem þar voru i / ſo þeir
eidelogdu þær / og þar vard eckert * ept-
er ſem hafde anda / og hann brende Ha-
zor med ellde. * c. 10/40. 5. Moſ. 20/16.
12 Og Joſua inntook allra þeſſara
Konunga ſtade / og allra þeirra Konunga /
og hann ſloo þa med hvøſſu ſverde / ſo
hann eidelagde þa / ſo ſem * Moſe Dro
ttens þienare hafde bijfalad.
* 4. Moſ. 33. 51/52.
13 Þo brende Jſrael ølldungis aung
vann ſtad / ſem ſtoodu a þeirra hædum / ut
ann Hazor alleina / ſem Joſua brende.
14 Og allt herfanged af þeſſum
ſtødum / og kvikfied tooku Jſraels børn /
ſier til bijtis. Alleinaſta þeir ſloou allar
manneſkiur med hvøſſu ſverde / þar til þeir
høfdu lagt þa i eide / þeir lietu * eckert
verda epter / ſem hafde anda. * v. 11.
15 Sem Drottenn baud Moſe ſijnum
þienara / ſo baud Moſe Joſua / z ſo giorde
Joſua / hann liet eckert bregdaſt af øllu
þvi / ſem Drottenn hafde bijfalad Moſe.
16 Og Joſua took allt þad land inn
a fiøllunum / og allt þad ſem liggur ſunn-
ann til / og * allt Goſen land / og ſlett-
lended / og mørkena / og Jſraels fiall med
ſijnu ſlettlende. * c. 10/41.
17 Fra þvi ſlietta fialle / ſem liggur
upp i moots vid Seir / og allt til Baal-
Gad a Libani mørk / nedann fyrer þvi fia
lle Hermon / og hann took alla þeirra Kon
unga / og ſloo þa / og liet drepa þa.
18 Joſua hafde leinge ſtrijd i moote
øllum þeſſum Konungum.
19 Þar var ecke eirn ſtadur / ſem gior
de frid vid Jſraels børn / utann þeir *
Hevithar / ſem biuggu i Gibeon / þeir unnu
þa alla med ſtrijde. * c. 9/15.
20 Þvi þad ſkiede af Drottne / ad
þeir forherdtu þeirra hiørtu / ad mæta
Jſrael med ſtrijde / ad hann ſkyllde fordiar-
fa þa / ad þeim ſkyllde ecke veitaſt nad /
þvi hann ſkyllde eideleggia þa / ſem Drott
enn baud Moſe.
21 Og a þeim ſama tijma kom Jo-
ſua / og * upprætte þa Enakita af fiøll-
enu / af Hebron / af Debir / af Anab /
og af øllum fiøllum i Juda / og af øll-
um Jſraels fiøllum / Joſua eidelogde þa
med þeirra ſtødum. * 4. Moſ. 13/23.
5. Moſ. 1/28.
22 Þar var eingenn epter af Enaki-
tunum i Jſraels barna lande / utann i Aſa /
i Gath og i Aſdod / þar voru þeir epter.
23 Og Joſua fieck allt landed / epter
øllu þvi / ſem Drottenn hafde talad til
Moſe / z Joſua gaf Jſrael þad til arfs /
epter þeirra hlutſkiptum / til þeirra ættkvijſ
la / z * landed liet af ad ſtrijda. * c. 14/15.

## XII. Capitule.

### Jſraels Barna Strijd og Sigur vinningar.


g þeſſer eru landſens Konung-
ar / ſem Jſraels børn ſloou / og
eignuduſt þeirra land / hinu-
megenn Jordanar moot ſolarenn
ar

ar uppgaungu / fra þeim læk * Arnon/
allt til þess fialls Hermon / og allt þad
slietta (land) moot austre. *4. Mos. 21/13.
2 * Sihon/ Emoritaña konungur /
sem bioo i Hesbon/ sem rykte fra Aroer/
sem liggur hia Arnons lækiar backum /
og midt i lækeñ/ og yfer helfteñe af Gi
lead / og allt til þess lækiar ** Jabok/
sem er Ammons barna landamerke.
*4. Mos. 21/ 24. ** 1. Mos. 32/ 22.
3 Og yfer þui slietta (lande) allt til
* Cinneroths hafs/austur þangad/ og
allt til þeirrar sliettu vid hafed/ þad sal-
ta haf i austur / a þeim veige til Beth-
Jesimoth/og fra sudre/ nedañ hia hædar
eñar (vatns-)hlaupe. *4. Mos. 34/11.
4 Þar med konungsens Ogs landa-
merke af Basan/ (sem var) epter ofeñ
af risunum / hañ sem bioo i Astaroth
og i Edrei.
5 Og sem ryktе yfer Hermons fialle/
og yfer Salcha / og yfer allre Basan /
allt til þeirra Gesurita og Maachatita
landamerkis/ og helfteñe af Gilead/ sem
var Sihons/ konungsens af Hesbon ha
ñs landamerke.
6 Mose Drottens þienare og Israels
børn sloou þa/ og Mose Drottens þien-
are gaf * þeim Rubenitum / og þeim
Gadditum / og helfteñe af Manase ætt-
kuysl/ þ til eigeñdooms. *4. Mos. 32/33.
7 Og þesser eru landsens konungar /
sem Josua og Israels børn / sloou hinu-
meigeñ Jordanar/moot vestre/fra Baal-
Gad a Libani mørk/og allt til þess slie-
tta fialls/ sem liggur upp giegnt Seir/
og Josua gaf Israels ættkuyslum þañ
eigeñdoom/ epter þeirra hlutskiptum.
8 A fiøllunum/ og a sliettuñe / og a
mørkeñe/ og hia (vatns-)sprettunum/og
i eidemørkeñe/ og moot sudre/ Þa * He-
tita/ Emorita og Cananita/ Pheresita/
Hevita/ og Jebusita. * c. 11/ 3.
9 Konungureñ * af Jericho / eirn/
konungureñ af ** Ai / sem liggur hia
sijduñe af Beth El/eirn. * c. 6/ 2.
** C. 8/ 29.
10 Konungureñ af * Jerusalem/eirn/
konungureñ af ** Hebron / eirn.
* C. 10/ 1. ** C. 10/3.
11 Konungureñ af * Jarmuth/eirn/
konungureñ af Lachis/ eirn. * c. 10/ 3.
12 Konungureñ af * Eglon / eirn /
konungureñ af ** Geser/ eirn.
* C. 10. 3/ 26. ** C. 10/ 33.
13 Konungureñ af * Debir / eirn /
konungureñ af Geder/eirn. * c. 10/39.
14 Konungureñ af Horma/eirn/ kon
ungureñ af Arad / eirn.
15 Konungureñ af * Libna / eirn /
konungureñ af Adullam/ eirn. * c. 10/30.
16 Konungureñ af * Makeda/eirn/
konungureñ af Beth El/ eirn. * c. 10/28
17 Konungureñ af Thapuah/ eirn/
konungureñ af Hepher/ eirn.
18 Konungureñ af Aphek/eirn/kon-
ungureñ af Lasaron / eirn.
19 Konungureñ af * Madon / eirn/
konungureñ af ** Hazor / eirn.
* C. 11/1. ** 11/10.
20 Konungureñ af * Simron Me
ron/eirn/konungureñ af Achsaph/ eirn.
* C. 11/ 1.
21 Konungureñ af Thaenah/ eirn/
konungureñ af Megiddo/ eirn.
22 Konungureñ af Kades/eirn/ kon-
ungureñ af Jokneam hia Charmel eirn.
23 Konungureñ af * Dor fyrer Na
phat Dor / eirn / heidingiaña konungur
af Gilgal / eirn. * c. 11/ 2.
24 Konungureñ af Tirza/ eirn/ All
er konungar eirn og þriatijger.

## XIII. Capitule.

Landed vtskiptest i millum þeirrar
halfrar tijundu Israels Kynkuysla.


Og Josua var gamall / hañ var
vel vid alldur /og Drotteñ sag-
de til hañs: þu ert gamall/ þu
ert vel vid alldur/og þar er har
la miked af landenu epter ad eignast.
2 Þetta er landed/sem er epter/øll Phi
listeaña landamerke/ og aller Gassuritar.
3 Fra Sihor/sem (reñur) framme fyr-
er Egyptalande / og allt til Ekrons
landamerkis / moot nordre/ sem reiknast
þeim Cananitum til/ þeir fim Philiste-
aña herrar /(sem eru/) sa Asite/ og sa
Asdodite/ sa Asklonite/sa Gethite/ og sa
Ekronite/

Ekronite / og þeir Avitar.
4 Fra sudre/ þad giørvalla Cana-
nitans land/og Meara/sem heyrde þeim
Zidoniū til/ allt til Aphek/allt til þeirra
Emoritana landamerkis.
5 Og þeirra Giblita land / og þad
giørvalla Libanon/ moot soolar uppgaun
gu/ fra Baalgad/ ad nedañ upp til Her
mons fialls / allt þar til mañ kiemur til
Hamath.
6 Aller sem bwa a fiøllunum / fra
Libanon/ allt til þeirra * brennande val-
na/aller Zidoniar/eg/eg vil burt reka þa
fyrer Israels børnum / Kasta ad eins
hlutum þar um̄/ Israel til eigendooms/
so sem eg befalade þier. * c. 11/ 8.
7 So skipt nu þessu lande / til arfs
a medal þeirra nyu kynkuijsla/og þeirrar
helftar af Manasse ættkuijsl.
8 Med hvørre * þeir Rubenitar og
Gadditar hafa feinged þeirra arf/ sem
Mose gaf þeim hinumeigeñ Jordanar
moot austre/ eins sem Mose/Drottens
þienare/gaf þeim. * 4. Mos. 32/33. etc
9 Fra * Aroer / sem (liggur) hia
Arnons lækiar bøckum / og fra þeim
stad/sem er midt i dalnū/og alla Med-
ba sliettu/ iñ til Dibon. * 5. Mos. 2/36.
10 Og alla Sihons Emoritana
konungs stade/ sem rijkte i Hesbon/allt
til Ammons barna landamerkis.
11 Og Gilead/ og þeirra Gesurita
og Maachatita landamerke / og allt
Hermons fiall / og alla Basan/ iñ til
Salcha.
12 Allt Ogs rijke i Basan sem rijk-
te i Astaroth/og i Edrei/ hañ var ept
er ordeñ af þeim hinum ødrum risum/
hvørn * Mose sloo og burtrak.
* 5. Mos. 3/ 11.
13 Eñ Israels børn * burtræku
ecke þa Gesurita og Maachatita / eñ
Gesur og Maachat biuggu a medal
Israel allt til þessa dags.
* C. 15/ 10. C. 17/ 13.
14 Alleinasta * Levi ættkuijsl gaf
hañ ecke arf/ Drottens Israels Guds
elld-(offur) þad er hañs arfur/so sem
hañ sagde til hañs. * c. 14/ 3.
15 Eñ Mose hafde giefed Rubens
barna kynkuijslū epter þeirra ættum.
16 Og þeirra landamerke var fra
Aroer / sem liggur hia Arnons lækiar
backa/ og þañ stad/sem er midt i daln-
um/ og alla þa sliettu hia Medba.
17 Hesbon og alla heñar stade/sem
liggia a þeirre sliettu Dibon / og Ba-
math Baal/og Beth Baal Meon.
18 Og Jahza og Jedemoth / og
Mephaath.
19 Og Kiriathaim/ og Sibma/og
Zereth Sahar/ a dalsens fialle.
20 Og Beth Peor / og Asdod hia
Pisga/ og Beth Jesimoth.
21 Og alla þa stade a þvi sliett-
lende / og allt Sihons þeirra Emori-
ta kongs rijke / sem rijkte i Hesbon / *
hvørn Mose sloo / og þa høfdingia af
Midian/ Evi/ og Rekem/ og Zur/ og
Hur/og Reba/Zions yppurstu (meñ/)
sem biuggu i landenu. * 4. Mos. 31/8.
22 Og Bileam Beors son / þañ
spamañ/ sloou Israels børn i hel med
sverde med þeim i hel slegnu af þeim.
23 Og Rubens barna landamerke /
var * Jordan / og landamerkeñ (þar
hia/) Þesse er Rubens barna arfur fyr
er þeirra ætter/ stader/og þeirra lands
þorp. * 4 Mos. 34/ 12.
24 Og Mose hafde giefed Gads
ættkuijsl/ (þad er) Gads børnum ept-
er þeirra ættum:
25 Ad Jaeser og aller staderner i
Gilead væru þeirra landamerke/og helf
teñ af * Ammons barna lande / allt
til Aroer/sem (liggur) moot Rabbah.
* 2. Sam. 11/ 1.
26 Og fra Hesbon allt til Ra-
math Mizpe / og Bethonim / og fra
Mahanaim allt til Debirs landamerkis
27 Og i dalnum Betharam / og
Beth Nimra/ og Suchoth / og Za-
phon / sem var epter af kong Sihons
rijke af Hesbon/Jordan og landamerk-
ed/ iñ til Cinnereth hafs enda / hinu-
meigeñ Jordanar moot austre.

28 Þesse er Gads barna arfur/ epter þeirra ættum / staderner og þeirra
lands-þorp.
29 Og Mose hafde giefed þeirre
hælfu Manasse ættkvijsl / og þad var
hia þeirre hælfu Manasse barna kyn
kvijsl epter þeirra ættum.
30 Ad þeirra landamerke væru fra
Mahanaim/ øll Basan / allt konungsens Ogs rijke af Basan/ og aller Ja-
irs (smæ) stader/ sem liggia i Basan/
(sem eru) sextiju stader.
31 Og helftena af Gilead/og Asta
roth / og Edrei / Ogs rijkes stade af
Basan (gaf hañ) Machirs Manasse
sonar børnũ/ þad er helfteñe af Ma-
chirs børnum/epter þeirra ættum.
32 Þetta er þad/sem Mose wtskip-
te a Moabs mørk / hinumeigeñ Jor-
danar/austur fra Jericho.
33 Eñ Mose hafde ecke giefed *
Levi ættkvijsl arf / Drotteñ Jsra-
els Gud / hañ er þeirra arfur/ so sem
hañ sagde til þeirra. * 4. Mos. 18/ 10.
5. Mos. 10/ 9.

## XIV. Capitule.

### Calebs Arfur.

Og þetta er þad / sem Jsraels
børn erfdu i Canaans lande/
sem * Eleasar prestur / og
Josua Nuns son og þeir ypp
urstu fedur a medal Jsraels barna kyn
kvijsla lietu þau taka i arf. * c. 21/ 1.
4. Mos. 34/ 17.
2 Fyrer * þeirra arfs hlutfall / so
sem Drotteñ bijfalade fyrer Mosen /
(ad gefa) þeim niju kynkvijslum/og þeir
re hælfu kynkvijsl. * 4. Mos. 33/54. etc.
3 Þvi Mose hafde giefed þeim tvei
mur kynkvijslum/ og þeirre hælfu kyn-
kvijsl arf hinumeigeñ Jordanar/ eñ hñ
gaf Levitunũ ecke arf a medal þrra:
4 Þvi Josephs børn voru tveir kyn
þætter / Manasse og Ephraim : og
þeir gæfu Levitunum aungvañ hluta
i landenu / utañ stade ad bwa i / og
þeirra forstade handa þeirra fienade /
og þeirra golse.
5 So sem Drotteñ baud * Mose/
so giørdu Jsraels børn/ z þau skiptu
landenu. * 4. Mos. 34. 13/ 16.
6 Og Juda børn geingu fram til
Josua i Gilgal / og Caleb Jephunne
þess Kenisita son sagde til hañs : þu
veist þad ord/ sem * Drotteñ talade
til Mose þess Guds mañs / miña og
þiña vegna i Kades Barnea.
* 4. Mos. 14/ 24.
7 Eg var fiørutiju æra gamall/*
þegar Mose Drotteñs þienare sende
mig af Kades Barnea til ad njoosna
um̃ landed/ og eg sagde honum svar
aptur/ eins sem eg meinte.
* 4. Mos. 13/ 7.
8 Eñ mijner brædur/sm̃ geingu upp
med mier/ efudu foolksens hiørtu/ eñ eg
fylgde Drottne mijnum Gude trwlega.
9 Þa soor Mose a þeim sama de-
ge/ og sagde: * þad land/sem þiñ foot
ur stie a/skal vera þier til arfs og þijn
um børnum æfeñlega / þvi þu epter-
fylgder Drottne mijnum Gude trw-
lega. * 5. Mos. 11/ 24. etc.
10 Og nu sia/ Drotteñ hefur læt
ed mig lifa / so sem hañ sagde / þesse
fiørutiju og fim̃ ær / sijdañ Drotteñ
talade þesse ord til Mose / a hvørium
Jsrael gieck i eidemørkeñe / og nu sia/
eg er i dag fim̃ z áttatiju æra gamall.
11 Eg er eñ nu * i dag sterkur/ so s
a þeim dege/ þegar Mose sende mig/ lij-
ka sm̃ miñ kraptur var þa/ so er z miñ
kraptur nu til strijds/og til ad fara wt/
og ganga iñ. * 5. Mos. 34/ 7.
12 So gief mier nu þetta fiall/ sem
Drotteñ talade um̃ a þeim sama dege/
þvi þu heyrder a þeim sama dege / ad
þeir Enakitar (biuggu) þar / og eru
stoorer og rambigder stader / ef Drott-
eñ vill vera med mier / ad eg kuñe wt-
reka þa / so sem Drotteñ hefur sagt.
13 So blessade Josua hañ / og gaf
* Caleb Jephunne syne Hebron til
arfs. * c. 15/ 13.
14 Þar fyrer * vard Hebron Ca-
leb

leb Jephunne Kenisika syne til arfs / allt til þessa dags / Þviad hañ epter fylgde Drottne Israels Gude trwlega.
* c. 21 / 11. etc.
15 Og * Hebron kalladest firrum Kiriath Arba/ hañ var ein stoor mañeskia a medal þeirra Enakita / Og ** landed liet af ad strijda.
* C. 15/ 13. ** C. 11/ 23.

## XV. Capitule.

### Juda Ættkwijslar Landamerke og Stader.

Og Juda barna kynkwijslar hlutfall i þeirra ættum/ var til * Edoms landamerkes / til þeirrar eidemerkur Zin/ suñañverdt vid endañ a þvi sidra(lande.)
* 4. Mos. 34/ 3.
2 Og þeirra landamerke i sudur var fra þess sallta hafs enda/ (þad er)fra þeim odda/ sem geingur til sudurs.
3 Og geingur wt til sudurs upp i moote Akrabbim / og geingur i giegnum Zin / og uppgeingur fra sudre aptur i moot Kades Barnea/ og geingur i giegnum Hezron / og geingur upp til Adar / og beigest um kring Karkaa.
4 Og geingur i giegnum Azmon / og kiemur wt til Ægypti lækiar/ z landamerked skal ganga wt til hafsens / Þetta skal vera ydar landamerke suñann til.
5 Og landamerked austañ til / er þ sallta haf/allt til Jordanar enda/Og landamerked moote þvi nyrdra horne fra hafsens odda fra Jordanar enda.
6 Og þad landamerke geingur upp til Bet Hogla / og geingur i giegn fra nordre til Beth Araba / og landamerked kiemur * upp til Bohen / Rubens sonar steins. * c. 18/ 17.
7 Og landamerked uppgeingur til Debir/fra Achors dal/og nordur þan gad/ sem snyr i moot Gilgal/sem(liggur) þvert yfer um / sem mañ fer upp til Adumim / sem er suñañ lækeñ / og landamerked geingur i giegnum til þess vatns En Semes / og þad geingur wt til Rogels bruñs.
8 Og landamerked geingur upp til Hinnom sonar dals / hia þeirra Jebusita sijdu fra sudre/þad er Jerusalem/ og landamerked geingur upp til toppsens af fiallenu/sem(liggur)þvert yfer um Hinnoms dal til vesturs / sem er ytst i Rephaita dal/ moot nordre.
9 Og landamerked kiemur fra fiallsens toppe / til Nephthoa vatns spretttu/ z geingur wt til Ephrons fialls stada / og landamerked beiger sig til * Baala/þad er Kiriath Jearim. * v. 60
10 Og landamerked geingur um kring fra Baala moot vestre/ til þess fialls Seir / og geingur i giegnum til Jearim fialls sijdu ad nordañ / þad er Chessalon / og kiemur nidur til Beth Semes/ og geingur i giegnu Thimna.
11 Og landamerked geingur wt hia Ekrons sijdu i moot nordre/ og landamerked beiger sig til Sichron/og geingur yfer Baala fiall/og geingur wt til Jabneel / ad landamerkesens endar eru vid hafed.
12 Og landamerked til vesturs er hia þvi stoora hafe / Og þetta landamerke er Juda barna landamerke um hverfes/ epter þeirra kynkwijslum.
13 Og * Caleb Jephunne syne / gaf hañ hlut a medal Juda barna/ept er Drottens orde til Josua/ (sem var) Kiriath Arba/ Enaks fødurs / þad er Hebron. * c. 14/ 13.
14 Og * Caleb burtrak þadañ fra/ þa þria Enaks syne/ Sesai / og Ahiman/og Talmai/fædda af Enak.
* Dom. 1. 10/ 20.
15 Og foor þar fra upp til þeirra/ sem biuggu i Debir / Og Debir hiet fyrrum Kiriath Sepher.
16 Og Caleb sagde: hvør sem kañ slaa Kiriath Sepher / og iñtaka hana/ hønum vil eg og giefa mijna doottur * Achsa til hustrur. * Dom. 1/ 12.
17 So * iñtook Othniel Kenas son/ (sem var)Calebs brooder/hana/og hañ

gaf

gaf hønum sijna dootktur Achsa til hust
rur. * Dom. 1/ 13. c. 3/ 9.
18 Og þad skiede/ þegar hun kom/
þa æsijste hun hann til ad beidast eins
akurs af sijnum fødur/ og stie flioot-
lega nidur af asnanum/og Caleb sag-
de til hennar: hvad skadar þig?
19 Og hun sagde: gief mier eina
blessan/ þvi þu gafst mier eitt land til
sudurs/ gief mier og vatns-sprettur/
So gaf hann henne (vatns-)sprettur ad
ofan/og(vatns-)sprettur ad nedan.
20 Þesse er Juda barna kynkvijslar
arfur epter þeirra ættum.
21 Og þesser voru Juda barna kyn
kvijsl^r. stader/fra endanum/til Edoms
landamerkes til sudurs/ Kaphzeel/ og
Eder/ og Jagur.
22 Og Kina/z Dimona/z Adada/
23 Og Kedes/og Hazor/z Jithnan/
24 Siph/ og Telem/ og Bealoth/
25 Og Hazor Hadatta/ og Kirioth
Hezron/ þad er/ Hazor.
26 Amam/og Sema/ og Molada/
27 Og Hazar/Gadda/ og Hesmon/
og Beth Palet.
28 Og Hazar Sual/ og Beer Se-
ba/ og Bizioth Ja/
29 Baela/ og Jim/og Azem.
30 Og Eltolad/z Chesil/z Horma/
31 Og Ziklag/ og Madmanna og
Sansanna/
32 Og Lebaoth/og Silhim/z Ain/
og Rimon/ Aller stader niju og tutt-
ugu/ og þeirra lands-þorp.
33 A sliettlendenu(var)* Esthaol/
og Zora/ og Asna/ * Dom. 13/ 25.
34 Og Sanoah/ og Enganim/
Thapuah og Enam/
35 Jarmuth/og Adullam/ Socho/
og Aseka/
36 Og Saeraim/og Adithaim/ og
Gedera/og Giderothaim/Fioortan stad
er og þeirra lands þorp.
37 Zenan/z Hadasa/z Migdal Gad/
38 Og Dileam/z Mizpe/z Joktheel/
39 Lachis/og Bazekath/og Eglon/
40 Og Chabon og Lachmis/ og
Chithlis/
41 Og Gederoth/Beth-Dagon/ og
Naema/ og Makkeda/ Sextan stader
og þeirra lands-þorp.
42 Libna/og Ether/ og Asan/
43 Og Jiphtah/z Asna/z Nezib/
44 Og Kegila/og * Achsib/og Ma-
resa/Niju stader z þeirra lands-þorp.
* C. 19/ 29.
45 * Ekron og hennar tilheyrande
(stader/) og hennar lands-þorp.
* 1. Sam. 5/ 10.
46 Fra Ekron og til hafsens/ aller
þeir sem eru hia Asdod sijdu/og þeirra
lands-þorp.
47 Asdod/ hennar tilheyrande(stad-
er) og hennar lands-þorp/ Asa/ hennar
tilheyrande (stader) og hennar lands-
þorp/ inn til Egypti lækiar/og * landa
merkesens hafs/ og landamerke.
* 4. Mos. 34/ 6.
48 Enn a fiallenu var Samir/ og
Jathir/ og Socho.
49 Og Danna/ og Kiriath Sanna/
þad er Debir/
50 Og Anab/z Esthemo/z Anim/
51 Og Gosen/ og Holon/ og Gilo/
Ellefu stader og þeirra lands-þorp.
52 Arab/ og Duma/ og Esean.
53 Og Janum/ og Beth Thapua
og Apheka.
54 Og Humta/ og Kiriath Arba/
þad er Hebron/ og Zior/ Niju stader
og þeirra lands-þorp.
55 Maon/Charmel/z Siph z Juta/
56 Og Jesreel/ og Jokdeam/ og
Sanoah.
57 Kain/ Gibea og Thimna/ Tiju
stader og þeirra lands-þorp.
58 Halhul/ Bethzur og Gedor.
59 Og Maarath/ og Beth Anoth/
og Elthekon/ Sex stader og þeirra
lands-þorp.
60 Kiriath Baal/ þad er Kiriath-
Jearim/z Rabba/Tveir stader og þeir
ra lands-þorp.
61 J eidemorkenne v^r Beth Araba/
Middin/ og Sechacha.
62 Og Nibsan/ og sallt-stadurenn/

og Engeddi / Sex ſtader og þeirra lands-þorp.

63 Og Jebuſitana / ſem biuggu i Jeruſalem/ kuñu Juda børn ecke burtreka/ *ſo biuggu Jebuſitarner med Juda børnum i Jeruſalem iñ til þeſſa dags. * 2. Sam. 5/ 6.

## XVI. Capitule.
### Ephraims Ættkvijſlar Landamerke og Stader.

Og Joſephs barna hlutur fiell fra Jordan i moot Jericho / hia þvi vatnsfalle vid Jericho moot auſtre/ Su eidemørk / ſem geingur upp fra Jericho til BethEl fialls.

2 Og geingur wt fra BethEl til Lus / og geingur i giegnum til Archi Atharoth landamerkes.

3 Og geingur ofañ i veſtur/ til Japhleti landamerkis / allt til BethNoron nedre landamerkes/ og allt til Gaſer/ z endereñ þar a er i moote hafenu.

4 Og (þetta) tooku Jſephs børn/ Manaſſe og Ephraim til arfs.

5 Og Ephraims barna landamerke/ var epter þeirra ættum/ ja þeirra arfs landamerke var i moot auſtre/ Atharoth Addar / allt til BethNoron efre.

6 Og landamerked geingur wt til hafſens til Michmethath/ fra nordre/ og landamerked ſnijr ſier vid i auſtur til ThaenathSilo / og geingur þar i giegnum fra auſtre til Janoha.

7 Og kiemur nidur fra Janoha til Ataroth og Naarath/ og geingur upp moot Jericho / og geingur wt til Jordanar.

8 Og landamerked geing: fra Thapua i veſtur til þeſſ lækiar Kana / og þeſſ endar eru hia hafenu / Þetta er Ephraims barna ættkvijſlr arfur fyrer þeirra ætter.

9 Og Ephraims barna ſtader voru ſtriælader midt a medal Manaſſe barna arfs / ( ja ) aller ſtaderner / og þeirra lands-þorp.

10 Og þeir wtrœku ecke þa Cananita / ſem biuggu i Gaſer / So voru Cananitarner medal Ephraim/ allt til þeſſa dags / og voru ſkattgyllder.

## XVII. Capitule.
### Manaſſe hálfbrar Ættkvijſlar landamerke og ſtader.

Og hlutureñ fiell fyrr Manaſſe ættkvijſl / þvi hañ er Joſephs frumboreñ/ fyrer Machir * Manaſſe frumboreñ/ Gileads fødur/ þvi hañ var eirn ſtrijds madur / þar fyrer fieck hañ Gilead og Baſan. * 4. Moſ. 26/ 29.

2 Og þetta fiell þeim ødrum Manaſſe børnum til a medal þeirra ætta/ ſem (voru) * Abieſers børn/ og Heleks børn / og Aſriels børn / og Sechems børn / og Hephers børn / og Semidas børn/ Þeſſe eru Manaſſe Joſephs ſonar børn/ karlkyniñ a medal þrra ætta. * Dom. 6/ 34. C. 8/ 2.

3 Eñ * Zelaphad Hephers ſon/ Gileads ſonar/ Machirs ſonar/ Manaſſe ſonar/ hañ ætte ecke ſyne/ helldur dætur / og þeſſe eru hañs dætra nøfn: Mahala og Noa / Hogla/ Milcha og Thirza. * 4. Moſ. 27/ 1. etc.

4 Og þær geingu fram fyrer Eleaſar preſteñ og fyrer Joſua Nuns ſon/ og fyrer þa yppurſtu/ og ſøgdu: Drottiñ * baud Moſe/ ad hañ ſkyllde giefa oſſ arf a medal vorra brædra/ Og mañ gaf þeim arf epter Drottiñs bijfalning/ midt a medal þrra fødurs brædra. * 4. Moſ. 27/ 7.

5 Og þr hlotnuduſt tiju partr Manaſſe/ fyrer utañ Gileads land og Baſan/ (ſm liggi) hinumeigeñ Jordanar.

6 Þvi Manaſſe dætur feingu arf a medal hañs ſona/ og þau oñur Manaſſe børn feingu þad land Gilead.

7 Og Manaſſe landamerke var fra Aſſer til Michmethath / ſ (liggur) fyrer Sechem/ og landamerked geingur wt a hægre ſijdu til þeirra / ſem bua i EnThapuah.

8.

8 Manasse fieck Thapuah land /
og Tapuah hia Manasse landamerke
(heyrde) Ephraims bornum til.
9 Og landamerked geingur ofañ til
þess lækiar Kana i sudur til lækiar-
ens / þesser stader heyra Ephraim til/
* a medal Manasse stada/ eñ Manas
se landamerke fra nordre er hia lækn-
um/ og endarner þar a eru hia hafenu.
* C. 16/ 9.
10 Ephraims (eigendoomur) er suñ
añ til/ og Manasse nordañ til/ og haf
ed er hañs landamerke / og þeir nædu
samañ i Asser fra nordre / og i Isasch
ar fra austre.
11 So atte * Manasse a medal
Isaschars / og a medal Assers / Beth-
Sean/ og heñar tilheyrande( stade / )
og Jebleam / og heñar tilheyrande(sta
de/ ) og þa sem bigguu i * * Dor og
heñar tilheyrande (stade/ ) og þa sem
bigguu i EnDor og heñar tilheyrande
(stade/) og þa sem bigguu i Taanach/
og heñar tilheyrande( stade / ) og þa
sem bigguu i Megiddo og heñar tilheyr
ande(stade/) sem eru þær þriar eigner.
* Dom. 1/ 27. ** 1. Sam. 28/ 7.
12 Og Manasse born kuñu * ecke
iñtaka þessa stade/ eñ þeir Cananitar
tooku ad bwa i þvi sama lande.
* C. 15/ 63.
13 Og þad skiede/ þegar * Israels
born urdu meglug/ þa giordu þau Ca
nanitana skattgylda / eñ wtrræku þa
ecke aldeiles. * Dom 1/ 28.
14 Þa toludu Josephs born vid Jo
sua/ og sogdu: hvar fyrer gafstu mi-
er (ad eins) eirn hluta / og eirn part
til arfs ? eg er og eitt * stoort foolk/
med þvi Drottin hefur eirneñ blessad
mig. * 4. Mos. 26/ 54.
15 Og Josua sagde til þeirra : med
þvi þu ert eitt stoort foolk / þa gack
þangad upp fyrer þig i skoogeñ / og
hogg þier þar (eirn part) i Pheresi-
tana og risaña lande/ af þvi Ephra-
ims fiall er þier (of) þraungt.
16 Þa sogdu Josephs born : vier
faaum ecke þad fiall/ þvi aller Cana-
nit^er/ sẽ bwa i dal-lendenu/ hafa * iarn-
vagna / (bæde) þeir sem bwa i Beth-
Sean og heñar tilheyrande (stodum/ )
og þeir i Jesreels dal. * Dom. 1/ 19.
17 Og Josua sagde til Josephs
hwss / til Ephraim og til Manasse
seigiande: þu ert eitt stoort foolk / og
hefur mykeñ styrk/ þu skallt ecke hafa
eirn hluta:
18 Þvi fialled skal heyra þier til /
þvi þad er eirn skoogur/ Og þu skallt
hoggva hañ nidur / og þad vista þar
af skal heyra þier til / þvi þu skallt
burtreka Cananitañ / eñ þo hañ hafe
iarn-vagna / og eñ þo hañ sie sterkur.

## XVIII. Capitule.

BenJamins Kynkvijslar Landamerke
og Stader.

Og oll Israels barna samkunda
safnadest i Silo/ og uppreistu
þar samkunduñar tialldbwd/
og landed var þim undergiefed.
2 Og þar voru (eñ þa) afgangs af
Israels bornum/ sem ecke hofdu skipt
þeirra arfe/ sio kynkvijsler.
3 Og Josua sagde til Israels bar-
na: hvad leinge erud þi^er (so) later/ ad
ganga i burt ad eignast landed/ sem Dro
tteñ ydar fedra Gud gaf ydur?
4 Taked ydur þria meñ fyrer æck-
kvijsl/ ad eg kuñe senda þa burt/ ad þe-
ir kuñe giora sig reidubwna/ og ganga
i giegnum landed/ og uppskrifa þad ept
er þeirra arfs henlugleika / og koma
til mijn (aptur.)
5 Og þeir skulu skipta sier þvi i sio
hlute/ Juda skal vera i synu landamer-
ke a þa sidre sydu / og Josephs hws /
þeir skulu vera i þeirra landamerke
moot nordre.
6 Eñ þier skulud skrifa landed i sio
hlute/ ꝛ færed þad hingad til mijn/ so
vil eg þi^er varpa hlutkieste fyr^er yd:/ fyr
er Drottens vors Guds augsyn.
7 Þvi * þeir Levitar hafa aungva
hlutdeild a medal ydar / eñ Drottens

prest-dæme er þeirra arfur / Og Gad ꝛ Ruben/ ꝛ ** su halfa Manasse kyn kvijsl/ hafa tekeð þeirra arf hinumeigen Jordanar moot austre / sem Mose Drottens þienare gaf þeim.

* 4. Mos. 18/ 20. ** 4. Mos. 32 33.

8 Þa giørdu mennerner sig reidubwna/ og fooru af stad/ og Josua byfalade þeim/ sem geingu burt/ ad uppskrifa landed/ og søgdu: * gangeð og fareð um̃ i landenu/ og uppskrifeð þad/ og komeð til myn aptur / ad eg kunne hier varpa ydar hlutkiesle fyrer Drottens augsyn i Silo * c. 2/ 1.

9 So geingu mennerner burt og fooru i giegnum landed / og uppskrifudu þad epter stødunum i sio hlute / a eitt bref / og komu til Josua i herbwdernar i Silo.

10 So kastade Josua þeim hlut i Silo fyrer Drottens augsyn / og Josua skipte þar landenu fyrer Israels børn epter þeirra hlutskiptum.

11 Og þar uppkom BenJamins barna kynkvijslar hlutur fyrer þeirra ætter / og landamerked a þeirra hlut gieck wt i millum Juda barna og Josephs barna.

12 Og þeirra landamerke var vid horned moot nordre fra Jordan / og landamerked geingur fra nordre upp til Jericho sijdu / og geingur upp til fiallsens i vestur/ og wtgangurenn þar a er til * Bethaven i eidemørkena. * c. 7/ 2.

13 Og landamerked geingur yfer um̃ þar fra til Lus / til sijdunnar a Lus moot sudre / þad er BethEl/ og landamerked geingur ofan̄ til Atharoth-Addar yfer fialled / sem (liggur) sudur upp til Beth Horon þeirrar nedre.

14 Sijdan̄ beiger landamerked sig og snyr vid til hornsins i vestur sudur fra fiallenu / sem (liggur) þvert yfer Beth Horon moot sudre / og wtgangurenn þar a er til * KiriathBaal / þad er Kiriath Jearim/ Juda barna stadur/ þetta er þad vestur horn. * c 15. 9/ 60.

15 En̄ þad horn moot sudre er fra þvi ytsta i Kiriath Jearim / og landamerked geingur i vestur/ og geingur wt til Nephthoah vatns-sprettu.

16 Og landamerked geingur nidur til endans af fiallenu / sem (liggur) þvert yfer fra * Hinnom sonar dal / sem er i þeim Rephaitha dal moot nordre / og geingur nidur til Hinnoms dals/ hia þeirra Jebusita sijdu moot sudre / og geingur ** nidur til Rogels uppsprettu.

* c. 15/ 8. ** c 15/ 7.

17 Og dregur sig fra nordre/ og kiemur wt til EnSemes / og geingur wt til Geliloth/ sem (liggur) þangad upp þvert (yfer / sem madur fer) upp til Adummim/ og geingur nidur til Bohens Rubens sonar steins.

18 Og geingur yfer sijduna i moot þeirre (sliettu) mørk i nordur / og geingur nidur til Araba.

19 Og landamerked geingur fyrer ofan̄ til sijdu a Beth Hogla / til nordurs / og landamerkesens ende er hia oddanum a þvi salta hafe/ i nordur hia Jordanar enda/ til sudurs. Þetta er þad sydra landamerke.

20 En̄ Jordan giører adskilnad þar a vid þad eystra horn / þetta er BenJamins barna arfur i þeirra landamerkium um̃hverfis fyrer þeirra ætter.

21 Og þesser eru BenJamins barna ættkvijslar stader / fyrer þeirra ætter: Jericho/ og Beth Hogla/ og Keziz dalur.

22 Og Betharaba og Zemaraim/ og BethEl.

23 Og Avim/ og Para/ og Ophra/

24 Og Caphar/ Amonai/ og Ophni/ ꝛ Gaba/ Tolf stader ꝛ þeirra lands-þorp.

25 Gibeon/ og Rama/ og Beeroth/

26 Og Mizpe/ ꝛ Cephira/ ꝛ Moza/

27 Og Rekem/ ꝛ Jerpeel/ ꝛ Tharala/

28 Og Zela/ Eleph og Jebusi/ þad er Jerusalem/ Gibeath/ Kiriath/ Fiorton stader ꝛ þeirra lands-þorp / þesse er BenJamins barna arfur fyrer þeirra ætter.

## XIX. Capitule.

### Þeirra an̄ara Sex Kynkvijsla og Josuæ Arfur.

Og

Og sa añar hlutur vt kom til Si-
meon / fyrer Simeons barna
ætt/ fyrer þeirra ætter/og þeir
ra arfur var a medal Juda
barna arfs.
2 Og þeir feingu til þeirra arfs *
BeerSeba / og Seba/og Melada.
* 1. Kron. 5/ 28.
3 Og JazarSual/ z Bala/z Azem/
4 Og ElTholad/og Bethul / og
Horma /
5 Og Ziklag/og BethMarcaboth /
og HazarSussa.
6 Og BethLebaoth/ og Saruhen/
Þrettan stade og þeirra lands-þorp.
7 Ain/Rimon/og Ether/og Asan/
Fioora stade z þeirra lands-þorp.
8 Og øll þau lands-þorp/ sem(ligg-
ia) kryngum þessa stade / allt til Baa-
lath-Beer Ramath/ moot sudre/ þesse
er Simeons barna ættar arfur / fyrer
þeirra ætter.
9 (Þvi)Simeons barna arfur er af
Juda barna parte / af þvi Juda barna
hlutdeild var þeim ofstoor/ þar fyrer erf
du Simeons børn a medal þeirra arfs.
10 Og sa þridie hlutur kom upp fyr-
er Sebulons børn til þeirra ætta/ og lan
damerked a þeirra arfe / var allt til
Sarid.
11 Og þeirra landamerke geingur
upp til hafsens/ og Marala / og stefn-
er isi a Dabbaseth / og stefner til þess
lækiar/sem (rennur) til Jochneams frem
re hluta.
12 Og snyr vid fra Sarib moot aust-
re/vid soolarennar uppgaungu / hia Chi-
slothThabors landamerke/z geingur vt
til Dobrath/ og geingur upp til Japhia/
13 Og geingur þadan fra i austur
i moote austan fyrer Githa/ Nepher/
Itha/ Kozin / og kiemur vt moote Ri-
monMithoars/ (þad er) Nea.
14 Og landamerked geingur þar um
kryng fra nordre til Nathon / og þess vt
gaungur eru i JephthahEls dal.
15 Og Kattath/ og * Nahalal / og
Simron / og Jiddala/ og BethLehem/
Toolf stader og þeirra lands-þorp.
* Dom. 1/ 30.

16 Þesse er Sebulons barna arfur
fyrer þeirra ætter / þesser stader og þeir-
ra lands-þorp.
17 Sa fioorde hlutur kom fram fyr-
er Isaschar/ (ja) fyrer Isaschars børn
til þeirra ætta.
18 Og þeirra landamerke var Jesre-
ela / og Chesulloth/ og * Sunem.
* 2. Kong. 4/ 8.
19 Og Hapharaim/ og Sion/ og Ana
harath/
20 Og Rabbith /og Kiscon/og Abez/
21 Og Remeth / og Engannem / og
Enhadda / og BethPazzes.
22 Og landamerked skytur sier til
Thabor/ og Sahazima/og BethSem-
es/Og þeirra landamerkis endar eru hia
Jordan / Sextan stader og þeirra lan-
ds-þorp.
23 Þesse er Isaschars barna ættkogsl
ar arfur/fyrer þeirra ætter/ staderner og
þeirra lands-þorp.
24 Og sa fimte hlutur kom fyrer
Assers barna ættkogsl/ fyrer þera ætter.
25 Og þeirra landamerke var Hel-
kath / og Hali/og Beten/ og Achsaph.
26 Og AlaMelech / og Amad / og
Misal / og nær vt til Carmel hia haf-
enu/og til SihorLibnath.
27 Og snyr sier moot soolar uppgaun
gu/giegnt BethDagon/ og nær til Sebu
lon/og til JephthahEls dals moot nord
re/ BethEmek / og Negiel/ og geingur
vt til Chabul a þa vinstre sydu:
28 Og Ebron/ og Rehob/z Hamon/
og Kana/allt til þeirrar stooru Zidon.
29 Og landamerked snyr vid moot
Rama/ og allt til þess fasta stadar Zor/
og landamerked snyr vid til Hossa/og end
ast vid hafed / epter mælesnwrunne til *
Achsib. * Ios. 15/ 44. Dom. 1/31.
30 Og Uma/ og Aphek/ og Rehob/
tveir z tuttugu stader/z þera lands-þorp.
31 Þesse er Assers barna kynkogsl ar
arfur fyrer þeirra ætter/ þesser stader og
þeirra lands-þorp.
32 Sa siøtte hlutur kom fram fyrer
Naphthali børn/(ja) fyrer Naphthali
børn til þeirra ætta.

33 Og þeirra landamerke var fra
Heleph/fra Elon/i gegnū Zaenannim/
z AdamiNebek / z JabneEl / allt til
Lakkum/og endeñ þar a var hia Jordan.
34 Og landamerked snyr sier / moot
vestre til AsnothThabor / og wtgeingur
þar fra til Hukok / og nær til Sebulon/
fra sudre / og nær til Asser fra vestre /
og til Juda hia Jordan/moot soolar upp-
gaungu.
35 Og þar eru faster stader/ Ziddim-
Zer/z Hamath/Rakath/z Chinnareth.
36 Og Adama/og Rama/ og Hazor/
37 Og Kedes/z Edrei z En Hazor/
38 Og Jiron/ og MigdalEl/og Ho-
rem/ og BethAnat/ og BethSames /
nytian stader/ og þeirra lands-þorp.
39 Þesse er Naphthali barna kyn-
kvijslar arfur fyrer þeirra ætter/ stader-
ner z þeirra lands-þorp.
40 Til Dans barna kynkvijslar fyr-
er þeirra ætter/wt kom sa siounde hlutur.
41 Og þeirra arfs landamerke var/
Zorah/og Esthaol/ og Jrsames/
42 Og Saalabbin/z Ajalon/z Jitlah
43 Og Elon z Thimnata/z Ekron/
44 Og Eltheke / og Gibethon / og
Baalath.
45 Og Jehud / og BneBerak / og
GathRimmon /
46 Og MeJarkon/ og Rakon/ med
þvi landamerke moot*Japho.*Jon.1/3.
47 Og Dans barna landamerke var
þeim oflijted (wtbreidt/)þar fyrer droou
Dans born upp og strijddu moot Lesem
og inntooku hana/ og sloou hana med hvos
sju sverde/ og eignudust hana/og biuggu
i heñe/og kolludu(hana)Lesem *Dan/
epter Dan þeirra fodurs nafne.
* Dom. 18. 27/ 29.
48 Þesse er Dans barna kynkvijslar
arfur fyrer þeirra ætter/ þesser stader og
þeirra lands-þorp.
49 Og þa þeir hofdu aldeiles skipt
landenu med sijnum landamerkium / þa
gafu Jsraels born Josua Nuns syne
arf a medal þeirra:
50 Epter Drottens orde gafu þeir
honum þañ stad / sem hañ beiddest / *
ThimnathSerah a Ephraims fialle/
Og hañ bygde stadeñ og bioo i honum.
* C. 24. 30.
51 Þesser eru þeir erfda- ( hluter / )
sem * Eleasar prestur/ og Josua Nuns
son/ og þeir ypperstu fedur fyrer Jsraels
barna kynkvijslum/ skiptu epter hlutfalle
i Silo/ fyrer Drottne/ hia samkunduñar
tialldbwdar dyrum / og þeir fullendudu
ad skipta landenu. * c. 17/ 4.

## XX. Capitule.

### Þeirra sex Frij-Stada Uppskripter.

Og Drotteñ talade til Josua / og
sagde:
2 Tala til Jsraels barna /
seigiande: giøred ydur frij-sta-
de / um hvøria eg talade til ydar * fyrer
Mosen. * 4. Mos. 35/ 6. etc.
3 Ad eirn mañdrapare kuñe flya þan
gad/ sem slær nockurn oforvarandes/ o-
vitande / ad þeir kuñe vera ydur til frel-
ses fyrer blood-hefnaranum:
4 Og hañ meige flya til eins af þess
um stødum/ og standa utañ fyrer stadar-
ens ports dyrum/ og giefa sijn mælefne
þar til vitundar fyrer þeirra ellstu eyrum
af stadnum/ So skulu þeir taka hañ(iñ)
i stadeñ til sijn / og giefa honum rwm /
ad hañ kuñe bwa hia þeim.
5 Og nær blood-hefnareñ sæker epter
honum/ þa skulu þeir ecke afhenda mañ
dræparañ i hañs hønd/med þvi hañ sloo
siñ naunga ovitande / og var ecke hañs
fiandmadur fyrrum.
6 So skal hañ bwa i þeim sama
stad/þar til hañ stendur * fyrer safnad
arens augsijn i rettenum / þangad til sa
ypparste prestur deyr/sem var a þeim dog
um/ þa ma mañdrapareñ snwa til baka
aptur/og koma til sijns stadar/og til sij-
ns hwss/til stadarens sem hañ flwde fra.
* 4. Mos. 35. 12/ 25.
7 So helgudu þeir * Kedes i Gali-
læa a Naphthali fialle / og Sechem a
Ephraims fialle / og ** KiriathAr-
ba / þad er Hebron a Juda fialle.
* C. 21/ 32. ** C. 15/ 13. C. 21/ 11.
8 Og hinumeigeñ Jordanar hia Je-
richo

richo moot austre * gafu þeir Bezer i
eidemørkenne a slettlunne af Rubens kyn-
kosl / og Ramoth i Gilead af Gads
kynkosl/ og Golan i Basan af Manas
se kynkosl. * 5. Mos. 4/ 43.
9 Þesser voru þeir stader / sem voru
skickader fyrer oll Israels born/ og fyrer
þann framanda / sem umgieckst a medal
þeirra/ ad þar mætte flÿa þangad/ sier-
hvor sa / sem sloo nockurn oforvarandes
ad hann skillde ecke deyia fyrer blodhefn-
arans hende / firr enn hann hefde staded
fyrer samkundunar augsyn.

## XXI. Capitule

### Levitanna Bygsemder og Friiheit.

Þa geingu þeir yppurstu fedur af
Levitunum fram / til * Eleasar
prestz / og til Josua Nuns son-
ar/ z til þeirra yppurstu fedra a
medal Israels barna kynkosla. *c.17/4
2 Og toludu til þeirra i Silo i Cana
ans lande/ og sogdu : * Drottenn baud fyr
er Mosen/ ad madur skyllde gefa oss sta-
de ad bwa i / og þeirra forstade handa
vorum fienade. * 4. Mos. 35/ 2.
3 Þa gafu Israels born Levitunum
af þeirra arfe epter Drottens befalning/
þessa stade/ og þeirra forstade.
4 Og hluturenn kom fram fyrer þær
Kahatita ætter / og Aarons prestz born
af Levitunum / feingu af Juda kyn-
kosl / og af Simeons kynkosl / og af
BenJamins ættkosl/ fyrer hlutkiested/
þrettan stade.
5 Enn þau odrur Kahats born (fein-
gu) af Ephraims kynkosslar ættum/ og
af Dans kynkosslum/ og af þeirre halfu
Manasse kynkosl fyrer hlutkiested /
tiju stade.
6 Og Gersons born (feingu) af Isa
schar kynkosslar ættum / og af Assers
kynkosl/ og af Naphthali kynkosl/ og
af þeirre halfu Manasse kynkosl i Ba
san/ fyrer hlutkieste/ þrettan stade.
7 Merari born epter þeirra ættum (fein-
gu) af Rubens ættkosl/ af Gads ættko-
sl/ z af Sebulons ættkosl toolf stade.
8 So gafu Israels born Levitunum
þessa stade og þeirra forstade / so sem
Drottenn hafde boded fyrer Mosen/ epter
hlutkiestenu.
9 Og þeir gafu (þeim) af Juda bar
na kynkosl/ og af Simeons barna kyn-
kosl þessa stade/ sem mann nefnde a nafn.
10 Og * Aarons born af þeirra Kah
athita ættum/ af Levi bornum (feingu)
þetta/ þui þad fyrsta hlutkieste var þeirra.
* 1. Kron. 7/ 54.
11 So gafu þeir þeim * Kiriath Ar
ba / sem hefde Anoks fodur til/ þad er
** Hebron a Juda fialle/ og hennar for
stade allt um kring hana. * c. 20/ 7.
** C. 14/ 14. C. 15/ 13. 1. Kron. 7/ 55.
12 Og stadarens mork/ og hans lands
þorp gafu þeir * Caleb Jephunne syn-
ne til hans eigendooms *C.14/14. C.15/13.
13 Og þeir gafu Aarons prestz born
um þann manndrapparans friistad Hebron/
og hennar forstade/ og Libna / og hennar
forstade/.
14 Og Jathir/ og hennar forstade/ og
Esthmoa/ og hennar forstade/
15 Og Holon / og hennar forstade /
og Debir / og hennar forstade.
16 Og Ain / og hennar forstade / og
Juta/ og hennar forstade/ og * BethSe-
mes/ og hennar forstade / Niju stade af
þessum tveimur ættkosslum.
* 1. Sam. 6. 11/ 15. 2. Kong. 14/ 11.
17 Enn af BenJamins kynkosl/ Gi
beon og hennar forstade/ Geba og hennar
forstade/
18 * Anathoth og hennar forstade/ og
Almon og hennar forstade / fioora stade.
* Jer. 1/ 1.
19 Allra prestanna/ (sem voru) Aarons
barna stader / voru þrettan stader / og
þeirra forstader.
20 Enn * Kahaths barna ætter af
Levitunum / þeim odrum af Kahaths
bornum/ og þeirra hlutfalls stader/ voru
af Ephraims kynkosl. * 1. Kron. 7/ 61.
21 Og þeir gafu þeim manndrapar-
ans friistad * Sechem / og hennar for-
stade a Ephraims fialle / og Geser/ og
hennar forstade. *c.20/7. 1. Kron. 7/ 67.

22 Og Kibzaim / og heñar forstade / og BethHoron / og heñar forstade / fioora stade.

23 Og af Dans ættkvijsl Eltheke og heñar forstade / Gibbeton og hennar forstade/

24 Ajalon/ og heñar forstade/Gath Rimmon/ z heñar forstade/fioora stade.

25 Og af þeirre halfu Manasse ætt kvijsl/ Thaenach/og heñar forstade/ og GathRimmon og heñar forstade / tvo stade.

26 Aller staderner(voru)tiju/z þeirra forstader / fyrer þær adrar Kahaths barna ætter.

27 Og (þeir gæfu) * Gersons born um af Levitaña ættum/af þeirre hælfu Manasse kynkvijsl / hañ mañdrapara frijstad Golan i Basan / og heñar forstade / og Besthera og heñar forstade / tvo stade. * 1. Kron. 7/ 62.

28 Og af Isaschars kynkvijsl Kision og heñar forstade/Dabrath og heñar forstade/

29 Jarmuth og heñar forstade/En Gannim/og heñar forstade/fioora stade.

30 Og af * Assers kynkvijsl Miseal og heñar forstade/ Abdon og heñar forstade/ * 1. Kron. 7/ 74.

31 Helkath / og heñar forstade / og Rehob/ og heñar forstade/ fioora stade.

32 Og af Naphthali kynkvijsl/ hañ mañdræpara frijstad * Kedes / i Galilæa/og heñar forstade/ og HamothDor/ og heñar forstade / og Karthan/og heñar forstade/ þriu stade. * c. 20/ 7.

33 (So ad)aller þr Gersonita stader fyrer þeirra ætter/ (voru) þrettan stader og þeirra forstader.

34 Eñ til hiña añara*Merari barna ætta af Levitunum / (gæfu þeir) af Sebulons kynkvijsl / Jokneam og heñar forstade/Kartha og heñar forstade.
* 1. Kron. 7/ 63.

35 Dimna og heñar forstade/Nahalal og heñar forstade/ fioora stade.

36 Og af Rubens ættkvijsl / Bezer og heñar forstade/og Jahaza og heñar forstade.

37 Kedemoth og heñar forstade/ og Mephaath og heñar forstade / fioora stade.

38 Og af Gads ættkvijsl hañ mañdræpara frijstad/ * Ramoth i Gilead / og heñar forstade/ og Mahanaim og heñar forstade. * c. 20/ 8.

39 Hesbon z heñar forstade/Jaeser z heñar forstade(voru)aller fioorer stader.

40 Þesser voru aller Merari barna stader fyrer þeirra ætter / sem voru yfer af Levitaña ættum/ og þeirra hlut fall voru tolf stader.

41 Aller * Levitaña stader a medal Israels barna eigendooms(voru)atta og fiorutiju stader/og þeirra forstader.
* 4. Mos. 35/ 7.

42 Þesser stader voru(so setter) hvør fyrer sig / ad sierhvørs forstader (voru) allt um kring hañ/ so (var þvi hættad) um alla þessa stade.

43 Og Drotteñ gaf Israel allt þad land / sem hañ hafde * svared ad giefa þeirra fedrum/og þeir eignudust þad og biuggu þar i. * 1. Mos. 12/ 7. etc.

44 Og Drotteñ gaf þeim hvijld allt um kring epter øllu þvi / sem hañ hafde svared þeirra fedrum / og þar * stoodst eingeñ vid þeim af øllum þeirra fiandmeñum / Drotteñ gaf alla þeirra fiandmeñ i þeirra hønd. * 5. Mos. 11/25

45 Þar * brast eckert ord af øllu þvi gooda orde/ sem Drotteñ hafde talad til Israels hwss / þad skiede alltsamañ.
* C. 23/ 14.

## XXII. Capitule.

Su hælf þridia Attkvijsl af Israel snyr aptur til þeirra Arfs/og bygger hia Takmorkunum vid Jordan eitt Altare.

Na kallade Josua þa Rubenita/ og þa Gaddita / og þa hælfu Manasse kynkvijsl /

2 Og sagde til þeirra: Þier hafed hallded allt þad/ sem Mose Drottens þienare * baud ydur/ og hlijdt miñe raust i øllu þvi/ sem eg hefe boded ydur.
* 4. Mos. 32/ 20 5. Mos. 3/ 18.

3 Þier hafed ecke yfergiefed ydar bræ dur

krædur nu i længa tijma/ inn til þessa da-
gs/ helldur kostgiæfelega, hallded Drott-
ens ydar Guds bod.
4 Og med þvi nu Drottenn ydar Gud/
hefur giefed ydar brædrum hvijld/ so sem
hann hafde sagt þeim / þa snwed nu vid/
og ganged til ydar heimkynna / til ydar
eigendooms lands/ sem * Mose Drott-
ens þienare gaf ydur hinumeigenn Jor-
danar. * 4. Mos. 33/ 33. etc.
5 Allenasta hallded þad med kost-
giæfne / ad þier giored þad bod og log-
mal / sem * Mose Drottens þienare
baud ydur/ ad elska Drottenn ydar Gud/ og
ad ganga a ollum hans vegum / og ad
hallda hans bod / og ad æhanga han-
um / og ad þiona honum i ydar gior-
vollu hiarta/ og i ydar giervallre sæl.
* 5. Mos. 8/ 6. C. 13/ 4.
6 So blessade Josua þa / og liet þa
fara/ og þeir geingu til sinna heimkynna.
7 Og Mose hafde giefed þeirre *
hælfre Manasse ættkvijsl i Basan / og
helftenne þar af/ gaf Josua þeirra bræd-
rum þessumeigenn Jordanar moot vestre/
Og þegar Josua liet þa fara til þeirra
heimkynna og hafde blessad þa:
*4 Mos. 32/ 33. etc.
8 Þa sagde hann til þeirra/ seigiande:
þier komed aptur til ydar heimkynna med
mikid gots / og med harla miked fie/ med
silfur og med gull/ og med kopar/ og med
jarn / og med yfred morg klæde/ (so) *
skipted ydar fiandmanna herfange med
ydar brædrum. * 4. Mos. 31. 26/ 27.
9 So sneru Rubens born / og Gads
born / og su hælfa Manasse kynkvijsl
til baka/ og geingu fra Israels bornum
af Silo/ sem er i Canaans lande/ til ad
fara inn i Gileads land/ til þeirra arfleifd-
ar lands/ hvort þeir hofdu odlast/ epter
Drottens bijfalning fyrer Mosen.
10 Þegar þeir komu til þeirra landa
merkia hia Jordan / sem (liggur) i Ca-
naans lande/ þa bygdu Rubens born og
Gads born/ og sw hælfa Manasse kyn-
kvijsl / þar eitt altare hia Jordan / eitt
stoort altare tilsijndar.
11 Þegar Israels born heyrdu sagt:
sia/ Rubens born/ og Gads born/ og sw
hælfa Manasse ættkvijsl / hafa byggt
eitt altare giegnt Canaans lande / hia
landamerkiunum vid Jordan a þeim stad/
sem Israels born geingu i giegnum.
12 Þegar Israels born þad heyrdu /
þa sofnudu þeir sier af Israels barna
samkundu i Silo/ til ad draga upp i moo-
te þeim til striids.
13 Þa sendu Israels born til Rubens
barna / og til Gads barna / og til þeirrar
hælfu Manasse ættkvijslar til Gileads
lands/ Phinees / Eleasar prests son/
14 Og tiju hofdingia med honum /
eirn hofdingia fyrer (hvoriu) fodurs hw-
se / fyrer ollum Israels kynkvijslum / og
hvor af þeim var ypparstur i þerra fed-
ra hwse/ fyrer Israels þusundum.
15 Og þa þeir komu til Rubens bar-
na/ z til Gads barna/ z til þerrar hælfu
Manasse kynkvijslar til Gileads lan-
ds/ þa toludu þeir vid þa / og sogdu:
16 So seiger allur Drottens sofn-
udur: hvad er þetta fyrer eina moot-
þrooanlega synd/ sem þier hafed moot-
þrooanlega syndgad moote Israels
Gude? ad snwa ydur i dag fra Drott-
ne/ (þar med/) ad byggia ydur eitt al-
tare / ad þier skylldud i dag vera þver-
brotner i moot Drottne.
17 Er * Peors misgiorningur oss
(of-)lijtell/ af hvorium vier erum ecke
hreinsader inn til þessa dags / enn þo
plagann være a medal Drottens safn-
adar. * 4. Mos. 25/ 8. etc.
18 Og þier snerust i dag fra Drott-
ne / og þad skier / (ef) þier erud i dag
þverbrotner i moot Drottne / ad hann
hier epter verdur reidur uppa Israels
sofnud.
19 Og sannlega/ þyke ydur/ ad ydar
eigendooms land sie ohreint / þa komed
yfer um til Drottens eigendooms lan-
ds/ þar sem Drottens tialldbwd byr /
og taked hlutdeild a medal vor/ og ver-
ed ecke þverbrotner i moot Drottne/ og
vered ecke þverbrotner i moote oss / ad
þier bygged ydur eitt altare/ fyrer ut-

an̄ Drottens vors Guds altare.
20 Syndgade ei * Achan Serachs
son mootþrooanlega a þvi ban̄færda /
og þar var ** reide yfer ollum Jsra
els søfnude/ og han̄ foorst ecke alleina
fyrer sin̄ misgiørning. * c. 7/ 1. etc.
** C. 7. 5/ 11/ 12.
21 Þa svørudu Rubens børn / og
Gads børn / og sw hælfa Manasse
ættkvijsl/ og søgdu til þeirra yppurstu
fyrer Jsraels þusundum:
22 Drotten̄ gudan̄a Gud/ Drotten̄
gudan̄a Gud/ han̄ veit þad / og Jsra-
el han̄ skal vita þad/ef vier erum þver
brotner/ og ef vier syndgum mootþroo
anlega moote Drottne / so hiælp oss
ecke a þessum deige.
23 Ad byggia oss eitt altare/ ad sn-
wa fra Drottne/og ef (þad er skied) til
ad offra bren̄e offre þar a/ellegar mat-
offre / og ef (þad er skied) til ad giøra
þackar-offrana foorner þar a/ þa wt
krefie Drotten̄ sialfur þess.
24 Og ef vier ecke giørdum þetta
( myklu framar ) af um̄sorgun fyrer
(þessarar) ordsakar skulld/ seigiande:
ydar børn mætte seigia til vorra barna
hier epter/ seigiande: hvad hafed þier
(ad giøra) med Drotten̄ Jsraels Gud?
25 Drotten̄ hefur vissulega sett
Jordan til landamerkes i millum vor
og i millum ydar / þier Rubens børn
og Gads børn/ þier hafed aungva hlut
deild i Drottne/ so mættu ydar børn
koma vorum børnum til ad læta af/ad
þau skylldu ecke ottast Drotten̄.
26 Þar fyrer søgdum vier: lætum
oss nu giøra oss þad / ad byggia (eitt)
altare / ecke til bren̄e-offurs / og ei til
(an̄ars) offurs.
27 Helldur til(ad vera) * eirn vitn
esburdur i millum vor og i millum yd-
ar/ og i millum vorra epterkomara ept
er oss / ad (vier mættum samt) giøra
Drottens þioonustu fyrer hønum/med
vorum bren̄e-offrum/og med vorum(ød
rum) offrum / og med vorum þackar-
offrum/ og ydar børn skylldu ecke hier
epter seigia til vorra barna: þier haf-
ed aungva hlutdeild i Drottne.
* C. 24/ 27.
28 Þar fyrer søgdum vier: nær þad
skier/ad þau seigia til vor/ eda til vor-
ra epterkomara hier epter / þa kun̄um
vier seigia / siaed Drottens altares
lijking/ sem vorer fedur giørdu/ecke til
bren̄e-offurs/ og ei til (an̄ars) offurs/
helldur ad þad sie eirn vitnesburdur/ i
millum vor og i millum ydar.
29 Þad skal vera langt fra oss / ad
vera þverbrotner i moote Drottne/og
ad snwa oss i dag fra Drottne / til ad
byggia eitt altare/ til bren̄e-offurs/ til
mat-offurs/ og til (an̄ara) offrana /
fyrer utan̄ Drottens vors Guds alta-
re/ sem er fyrer han̄s tialldbuud.
30 Þa Phinees prestur/og þeir ypp
urstu fyrer søfnudenum / og høfdinge
iarner yfer Jsraels þusundum / sem
voru med hønum/heyrdu þesse ord/sem
Rubens børn/ꝛ Gads børn/ ꝛ Manas
se børn søgdu/ þa þocknadest þ þeim.
31 Og Phinees Eleasars prests son/
sagde til Rubens barna og til Gads
barna / og til Manasse barna: i dag
þeckium vier / ad Drotten̄ er a medal
vor / ad þier hafed ecke þan̄en̄ moot-
þrooanlega syndgad i giegn Drottne/
So hafed þier frelsad Jsraels børn
af Drottens hende.
32 Þa foor Phinees Eleasars pre-
sts son/og þeir yppurstu fra Rubens børn
um/ og fra Gads børnum/ fra Gileads
lande til Canaans lands aptur til Jsra-
els barna/ og søgdu þeim þad ord aptur.
33 Þa þocknadest Jsraels børnum
þad ord/og Jsraels børn lofudu Gud og
søgdu: ecke (framar) ad fara upp uppa
þa til stryds/til ad fordiarfa þad land /
sem Rubens børn og Gads børn biuggu i.
34 Og Rubens børn og Gads børn/
gæfu altarenu nafn/ ad þad er eirn vit-
nesburdur i millum vor / ad Drotten̄ sie
sa (sane) Gud.

XXIII. Capitule.

Josua am̄in̄er øll Jsraels Børn til
ad

ad hallda sier stadpastlega vid Drottenn
þeirra Gud.

Og þad skiede laungum tijma /
epter þ Drottenn hapde feinged
Jsrael * hvijld pyrer øllum þeir
ra piandmønnum allt umm kring/
og Josua var gamall/ var komenn til alld
urs. * c. 21/ 44.
2 Þa * kallade Josua allann Jsrael /
þa elldstu þar ap/ og høpudsmennena þar
ap/ og Doomarana þar ap/ og fogetana
þar ap/ og sagde til þeirra: eg er gamall/
eg er komenn til alldurs. * c. 24/ 1.
3 Og þier haped sied allt hvad Dro
ttenn ydar Gud hepur giort vid allar þess
ar þiooder fyrer ydur / þvi Drottenn ydar
Gud/ hann er sa / * sem hefur stridt fyr
er ydur. * 5. Mos. 1/ 30. c. 3/ 22.
4 Sied / eg hepe læted ydur hlotn
ast (fyrer hlutkieste/) þessar þiooder/ sem
epter ordnar eru i ydar ættkvijslum til ar
ps fra Jordan/ og allar þiooderna/ sem
eg hepe upprætt/ og (til) þess stoora ha
ps hia soolar nidurgange.
5 Og Drottenn ydar Gud / hann mun
wtreka þær pyrer ydur/ og hann hepur bu
rt reked þær fyrer ydur / og þier haped inn
teked (þeirra land til eigendooms) so sem
Drottenn ydar Gud hefur sagt ydur.
6 So haped eirn miog styrkvann hu
ga/ til ad hallda og ad giøra allt þad/ sem
er skripad i Mose løgbook/ ad ecke * vijk
ia þar fra til hægre eda vinstre sijdu.
* C. 1/7. 5. Mos. 28/14. 2. Kong. 22/2.
7 Ad þier ecke komed a medal þessara
þiooda / sem eru apgangs hia ydur / og
þier * ecke hured / eda sveried vid þeirra
guda napn/ og ecke þiooned þeim/ eda til
bidied fyrer þeim. * 2. Mos. 23. 13/24
8 Helldur vered stadpastlega hia Dro
ttne ydar Gude / so sem þier hafed giørt
allt til þessa dags.
9 Þvi * Drottenn hefur burt reked
stoorar og sterkar þiooder fyrer ydur / og
hvad ydur er viduijkiande / hefur eingenn
stadest i moote ydur allt til þessa dags.
* 3. Mos. 26/ 7. 5. Mos. 28/ 7.
10 * Eirn madur ap ydur skal ellta
þusund/ þvi Drottenn ydar Gud / hann er
sa / sem stridder fyrer ydur / so sem hann
hefur sagt ydur. * 3. Mos. 26/ 8.
11 Þar pyrer taked kostgiæpelega vara
a ydar sælu/ ad elska Drottenn ydar Gud.
12 Þvi ep þier vissulega snwed vid /
og hallded ydur til þessara eptervordenna
heidingia/ ja þessara/ sem eru epter hia
ydur/ og giøred mægd vid þa / og þier kom
ed a medal þeirra / og þeir a medal ydar.
13 Þa vited vissulega/ ad Drottenn yd
ar Gud mun ecke pramar wtreka þessar
þiooder fyrer ydur / enn þeir skulu verda yd
ur ad eirnre snøru / og ad einu vielpæte/
og ad svipum a ydar sijdum/ og ad þyrn
um i ydar augum / þar til hann eidelegg
ur ydur ap þessu enu gooda lande / sem
Drottenn ydar Gud hepur giefed ydur.
14 Og sia / eg geing i dag * allrar
veralldarennar gang / og þier skulud vita i
ydar giørvøllu hiarta/ z i ydar giørvall
re sal / ad þar hepur ecke eitt ord brugd
est/ af øllum þeim goodu ordum sem Dro
ttenn ydar Gud hepur talad fyrer ydur /
ad þau vissulega eru øll framkomenn vid
ydur / þar brast ecke eitt ord ap þeim.
* 1. Kong. 2/ 1.
15 Og þad skal skie / ad so sem allt
þad gooda ord er framkomed vid ydur /
sem Drottenn ydar Gud hefur talad til
ydar / so mun Drottenn læta allt þad
vonda ord koma yfer ydur/ þar til hann
eideleggur ydur af þessu gooda lande /
sem Drottenn ydar Gud gaf ydur.
16 Ef * þier yfertroded Drottens
ydar Guds sattmaala / sem hann baud
ydur / og ganged og þiooned framande
gudum/ og tilbidied fyrer þeim/ þa mun
Drottens reide verda grøm yfer ydur/
og þier munud fyrerfarast hastarlega
af þvi gooda lande / sem hann hefur
giefed ydur. * 1. Kong. 9. 6/ 7.

## XXIV. Capitule.

Josua safnar øllum Jsraels Ætt
kvijslum til Sichem/ og deyr. Josephs
Bein grafast i Sichem. Eleasar deyr/
og verdur grafenn.

Og Josua saman safnade øllū
Israels ættkvijslum i Sich-
em/ og * kallade a þa ellstu
af Israel/og a hañs høfuds-
meñ / og a hañs doomara / og a hañs
fogeta / og þeir stadnæmdust fyrer
Guds augsyn. * c. 23/ 2.
2 Þa sagde Josua til alls foolksens:
so seiger Drottеñ Israels Gud / ydar
fedur biuggu fordum þar hinumeigeñ
vatnsfallsens/ * Thera / Abrahams
fader / og Nahors fader/og þioonudu
ødrum gudum. * 1. Mos. 11/ 26.
3 Og eg * took ydar fødur Abra-
ham/ fra hiñe siidu vatnsfallsens / og
liet hañ ganga i øllu Canaans lande /
og jook hañs afkvæme/ og gaf hønum
Isaak. * 1. Mos. 11/ 31. etc.
4 Og Isaak gaf eg Jakob og E-
sau / og eg gaf Esau Seirs fiall / til
ad eiga þad/ eñ *Jakob og hañs børn
fooru ofañ i Ægyptaland.
* 1. Mos. 45/ 1. etc.
5 Þa * sende eg Mose og Aaron /
og sloo i Ægyptalande / eins sem eg
giørde þar i / og siidañ færde eg ydur
wt. * 2. Mos. 3/ 10.
6 Og * wtfærde ydar fedur af Æ-
gyptalande / og þier komud til haf-
sens / og þeir Ægyptsku sooktu epter
ydar fedrum med vøgnum og med reid-
møñum til þess rauda hafs.
* 2. Mos. 12/ 33.
7 Þa * hroopudu þeir til Drott-
eñs/og hañ sette eitt myrkur i millum
ydar og i millum Ægyptskra / og liet
hafed koma yfer þa / og hulde þa/ og
ydar augu hafa sied þad/ sem eg giørde
i Ægyptalande/ og þier biuggud i eide-
mørkeñe langañ tijma.
* 4. Mos. 14/ 15. etc.
8 Og eg færde ydur i þeirra * E-
morita land / sem biuggu hinumeigeñ
Jordanar / og þeir striiddu i moote yd-
ur/ og eg gaf þa i ydar hønd / ad þier
iñtækiud þeirra land til eigeñdooms /
og eg eidelagde þa fyrer ydar augsyn.
* 1. Mos. 48/ 22. 4. Mos. 21. 24/ 31.
9 Þa took Balak Zipors son/ Mo
abs konungur/ sig upp/ og striidde moo
te Israel/ og sende og * kallade a Bi-
leam Beors son/ ad bølva ydur.
* 4. Mos. 22/ 5. etc.
10 Eñ eg villde ecke heyra Bileam/
og * hañ blessade ydur vollduglega/og
eg frelsade ydur af hañs hende.
* 4. Mos. 23. 11/ 20.
11 Og þegar * þier geingud yfer
Jordan/ og komud til Jericho/ þa strij
ddu borgararner af Jericho/i moote yd
ur/ þeir Emoritar/ og Pheresitar/ og
Cananitar / og Hethitar / og Girga-
sitar/ Hevitar og Jebusitar/ eñ eg gaf
þa i ydar hønd. * c. 3/ 14. c. 6/ 1.
12 Og eg * sende geit-hame fyrer
ydur/ sem wtráku þa fyrer ydur/ þa
tvo Emorita konga / ecke med þijnu
sverde / og ei helldur med þijnum boga.
* 2. Mos. 23/ 28. etc.
13 Og eg gaf ydur eitt land / uppa
hvort þier hafed ecke erfidad / og sta-
de/ sem þier ecke hafed byggt / og þier
biuggud i þeim/ af vijn-fiøllum/og af
oliu-fiøllum/sem þier hafed ecke plant
ad/ eted þier.
14 So *ottest nu Drottеñ/og þioo
ned hønum i fullkomlegleika og i sañ-
leika/ og skilied ydur vid þa gude/ sem
ydar fedur þioonudu hinumeigeñ vatns
fallsens / og i Ægyptalande/ og þioon
ed Drottne. * Pred. 12/ 13.
15 Og ef þad þocknast ydur ecke /
ad þioona Drottne / so wtvelied ydur i
dag/ hvørium þier vilied þioona/ añad
hvørt þeim gudum / sem ydar fedur
þioonudu/ sem voru hinumeigeñ vatns
fallsens / edur þeirra Emorita gud-
um/i hvørra lande þier bwed/ Eñ eg*
og mitt hws/ vier vilium þioona Dro
ttne. * 1. Mos. 18/ 19.
16 Þa svarade foolked/og sagde: Þ
skal vera langt fra oss / ad yfergiefa
Drottеñ/til ad þioona ødrum gudum.
17 Þvi * Drottеñ vor Gud / hañ
er sa/ sem uppfærde oss og vora fedur
af Ægyptalande/ af þrælaña hwse/og
sem giørde þesse stooru takn fyrer vor
um

um augum/ og vardveitte oss a øllum
þeim veige / hvar a vier geingum/ og a
medal allra þeirra þiooda/hvar i gieg
num vier høfum geinged
* 2. Mos. 12. 33/ 51. C. 13/ 3.
18 Og Drottenn hefur wtreked all-
ar þioodernar/ (eirnenn) og so Emori-
tann / sem biuggu i landenu fyrer oss /
Vier vilium og so þioona Drottne /
þvi hann er vor Gud.
19 Og Josua sagde til foolksens:
þier kunned ecke þioona Drottne/ þvi
hann er eirn heilagur Gud / hann er eirn
vandlætur Gud/ hann mun ecke þyrma
ydar yfertrodslu / og ydar syndum.
20 (Enn) nær þier yfergiefed Dro-
ttenn/ og þiooned framande gudum/ þa
mun * hann snwa vid/og plaga ydur/
og eideleggia ydur epter þad hann hefur
giørt ydur gott. * C. 23. 15/ 16.
21 Og foolked sagde til Josua: øng
vannveigenn / þvi vier vilium þioona
Drottne.
22 Þa sagde Josua til foolksens :
þier erud vitne yfer ydur/ ad þier haf
ed wtvaled ydur Drottenn/ til ad þioona
hønum. Og þeir søgdu: (ja vier er-
um) vitne.
23 So * kasted nu burt þeim fram-
ande gudum / sem eru a medal ydar/ og
** hneiged ydar hiortu til Drottenns
Israels Guds. * 1. Mos. 35/ 2.
1. Sam. 7/3. ** Ordsk. 23/ 26.
24 Og foolked sagde til Josua: vi-
er vilium þioona Drottne vorum Gu-
de/ og hlyda hanns raust.
25 So giørde Josua a þann sama
dag eitt sattmaal vid foolked / og lagde
þeim skickan og riett fyrer/ i Sichem.
26 Og Josua skrifade þesse ord i
Guds løgbook / og took eirn stoorann
stein/ og liet reisa hann þar sama stad-
ar upp * under eikenne/sem var hia Dro
ttens helgedoome. * 1. Mos. 35/ 4.
Dom. 9/ 6.
27 Og Josua sagde til alls foolks-
ens : sia / þesse steirn skal vera til *
vitnesburdar a medal vor þvi hann heyr
de øll Drottenns ord/sem hann hefur tal
ad vid oss/ og hann skal vera til vitnes-
burdar yfer ydur / ad þier skuled ecke
afneita ydar Gude. * C. 21/ 27.
1. Mos. 31/ 48.
28 So * liet Josua foolked fara /
hvørn til sijns arfs. * Dom. 2/ 6.
29 Og þad bar vid þa þetta var
skied / ad Josua Nuns son Drottenns
þienare/ deyde / * hundrad og tiju æra
gamall. * 1. Mos. 50/ 26.
30 Og þeir groofu hann i sijns arfs
landamerke i * Thimnath Serah/ sem
liggur a Ephraims fialle/ nordur fra
Gaas fialle. * C. 19 / 50.
31 Og Israel * þioonade Drottne/
so leinge Josua lifde/og so leinge þeir
ellstu lifdu / sem lifdu leinge epter Jo-
sua/ og sem vissu allann Drottenns giør
ning/ sem hann hafde giørt vid Israel.
* Dom. 2/ 7.
32 Og Josephs bein / sem Israels
børn høfdu * uppført af Egyptalan-
de/groofu þeir i Sichem/a þeim akur-
hluta/ sem Jakob hafde ** keypt af
Hemors/Sichems fodurs bornu/fyrer
hundrad peninga/og urdu Josephs bør
num til arfs. * 1. Mos. 50/ 25. etc.
** 1. Mos. 33/19.
33 Og Eleasar Aarons son deyde/
og þeir groofu hann i Gibea/ sem heyr-
de hanns syne Phineas til/sem høn
um var giefenn a Ephra
ims fialle.

ENDER.

a Josuæ Book.



Doomaranna

# Doomarañа Book.

## I. Capitule

Juda Kynkvijſl helldur Strijd epter
Joſuæ dauda.



Og þad ſkiede epter Joſuæ
dauda/ þa adſpurdu Iſ-
raels børn Drottenñ / og
ſøgdu : hver * ſkal fara
upp fyrer oſſ til Cana-
nitans/til ad ſtrijda firſt
i moote hønum? * c. 20/18.
2 Og Drottenñ ſagde : Juda ſkal
fara upp/ ſiaa/ eg hefe giefed landed i
hans hønd.
3 Þa ſagde Juda til Simeon ſijns
broodurs: far upp med mier til mijns
hlutfalls / og vier vilium ſtrijda moot
Cananitanum / og eg vil og ſo reiſa
med þier til þijns hlutfalls. So reiſte
Simeon med hønum.
4. Og Juda reiſte upp/ og Drott-
enñ gaf Cananitañ og Phereſitañ i
þeirra hønd / og þeir ſloou þa i Be-
ſek tiju þuſund menñ.
5 Og þeir fundu AdoniBeſek i
Beſek/ og ſtrijddu i moote hønum og
ſloou Cananitañ ꝛ Phereſitañ.
6 Enñ AdoniBeſek flyde / og
þeir ſookttu epter hønum og gripu hñ/
og afhiuggu hañs þumalfijngur og
hañs þumaltær.
7 Þa ſagde AdoniBeſek : ſiøtiju
kongar med þeirra afhøggnum þumal-
fingrum og þeirra þumaltaam / voru
uppſafnande under mijnu borde/ * So
ſem eg hefe giørt/ſo hefur Gud betal-
ad mier. Og þeir færdu hañ til Jeru-
ſalem/ og þar deyde hañ. * 2. Moſ.
21/ 24. Luc. 6/38.
8 Þvi Juda børn høfdu ſtrijdt i moot
Jeruſalem/ ꝛ uñed hana/ ꝛ ſleiged hana
med hvøſſu ſverde/ ꝛ ſett elld i ſtadenñ.
9 Þar epter voru Juda børn ofañ-
reiſt ad ſtrijda i moot Cananitanum /
ſm bioo a fiallenu/ ꝛ moot ſudre/ upp-
a ſliettuñe.
10 Og Juda var reiſtur burt / i
moot Cananitanū/ ſem bioo i Hebron/
og Hebron kalladeſt fordum Kiriath-
Arba/ og hafde * ſleiged Seſai og A-
himan og Thalmai. * Joſ. 15/ 14.
11 Og hañ var geingenñ þar fra i
moote * Debirs iñbyggiurū/og Debir
kalladeſt fordum KiriathSepher.
* Joſ. 12/ 13.
12 Og Caleb ſagde : hvør ed þar
ſlær KiriathSepher / og iñtekur ha-
na / hønum vil eg giefa Achſa mijna
doottur til huſtrur.
13 Þa * vañ Othniel Kena ſon Ca
lebs brooder / yngre eñ hañ/ hana / og
hañ gaf hønum Achſa ſijna doottur
til huſtrur. * Joſ. 15/ 17. etc.
14 Og * þad ſkiede nær hun kom /
hvatte hun hañ til/ ad ( hun mætte )
beidaſt af ſijnum fødur eins akurs / og
hun ſtie fliootlega af aſnanum/þa ſag
de Caleb til heñar: hvad vantar þig?
* Joſ. 15/ 18.
15 Hun ſagde til hañs : gief mier
eina bleſſan / þvi þu hefur giefed mier
eitt land til ſudurs/ og gief mier (vat-
ns-) uppſprettur / þa gaf Caleb heñe
(vatns-)uppſprettur ad ofañ/ og (vat
ns-)uppſprettur ad nedañ.
16 Og þeſſ * Kenitha Moſe maa
gs børn / droou upp fra paalma ſtadn-
um/ med Juda børnum / til Juda eide-
merkur / ſem er ſuñañ fyrer Arath /
þvi hañ var reiſtur ( med) og bioo hia
foolkenu. * c. 4/ 11. 4. Moſ. 10/ 29.
17 Og Juda reiſte med ſijnum brood
ur Simeon / og þeir ſloou Cananit-
añ/ſem bioo i Zephat og eidelogdu hñ/
og madur kallade ſtadarens nafn *
Horma. * 4. Moſ. 14/ 45.
18 Og Juda iñtook Aſſa og heñar
landamerke/ og Aſkalon og heñar landa
merke/og Ekron og heñar landamerke.

19.

19 Og Drottenn var med Juda / og
hann eignadest fialled/Enn hann kunne ecke
wtreka þa innbyggiara i dalnum/af þvi
þeir hofdu iarn=vagna.
20 Og þeir *gafu Caleb Hebron/
so sem Mose hafde sagt/ og hann burt
rak þar af þa þria Enaks syne.
* Jos. 14/ 13.
21 Og BenJamins syner * burt=
raku ecke Jebusitann / sem bioo i Jeru=
salem/enn Jebusitenn bioo hia BenJami
ns bornum i Jerusalem inn til þessa dags.
* Jos. 15/ 63. C. 18/28.
22 Og Josephs hws reiste z so upp
til BethEl/og Drottenn var med þeim.
23 Og Josephs hws nioosnade umm
BethEl/ og stadurenn hiet fordum Lus.
24 Og vaktararner saau eirn mann
ganga wt af stadnum/ z sogdu til ha=
ns: vysa oss nu / hvar vier kunnum ko=
mast inn i stadenn / þa vilium vier aud=
syna þier myskunseme.
25 Og þegar hann hafde vysad þe=
im/hvar þeir skylldu koma i stadenn/þa
sloou þeir stadenn med hvossu sverde /
Enn þann mann og alla hanns ætt lietu
þeir fara.
26 Þa reiste sa madur til þeirra
Hethita lands / og bigde eirn stad / og
kallade hanns nafn Lus/ so kallast hann
allt til þessa dags.
27 Og Manasse burtrak ecke *
BethSean og hennar tilheyrande (sta=
de/) eda Thaenach og hennar tilheyr=
ande (stade/) eda þa innbyggiara i Dor
og hennar tilheyrande (stødum/) eda þa
innbyggiara i Jebleam og hennar tilheyr
ande (stødum / ) eda þa innbyggiara i
Megiddo og hennar tilheyrande (stød=
um / ) Og Cananitenn hoof ad bwa i
þvi sama lande. * Jos. 17/ 11.
28 Og þad skiede/þegar Jsrael va=
rd megtugur / * giørde hann Canani=
tann skattgylldann/ og burtrak hann ecke
aldeiles. * Jos. 17/ 13.
29 Og Ephraim burtrak ecke Ca=
nanitann/ sem bioo i * Gaser/ enn Ca=
nanitenn bioo a medal þeirra i Gaser.
* Jos. 16/ 10.

30 Sebulon burtrak ecke þa innbygg
iara i Kitron / edur þa innbyggiara i
Nahalol/ Enn Cananitenn bioo a med=
al þeirra / og var skattgylldur.
31 Asser burtrak ecke þa innbyggia=
ra i Ako/edur þa innbyggiara i Zidon/
og Ahelab/ og * Achsib/og Helba/ og
Aphik / og Rehob. * Jos. 15/ 44.
C. 19/ 29.
32 Og Asseritenn bioo a medal Ca=
nanitans/sem bioo i landenu/ þvi hann
burtrak hann ecke.
33 Naphthali burtrak ecke þa inn=
byggiara i BethSemes / edur þa inn=
byggiara i BethAnath/ helldur bioo a
medal Cananitanna/sem biuggu i land=
enu/ enn þeir innbyggiarar i BethSemes
z BethAnath/urdu þeim skattgyllder.
34 Og Amoritarner þvingudu Dans
børn a fiallenu / og leifdu ecke ad þau
kæme ofann i dalenn.
35 Og Amoritarner tooku ad bwa a
Heres fialle i * Ajalon /og i Saalbim/
Þo var Josephs hwss hond þeim þung/
og þeir urdu skattgyllder. * Jos. 19/42.
36 Og Amoritana-landamerke var /
sem madur geingur upp til Akrabbim /
fra klettenum og þar upp epter.

II. Capitule.

Jsraels Barna Grækur / Fraþall / Straff og Frelse.



Og Drottens Engell kom upp
fra Gilgal til Bochim/og sag=
de: eg hefe fært ydur upp * af
Egyptalande / og fært ydur i
þad land / sem eg soor ydar fedrum / og
sagde: eg vilide ecke rioka minum sattmaa
la vid ydur til eilijfdar. * 2. Mos. 12/33.
2 Ad * þier skylldud ecke giora satt=
maal vid þessa lands innbyggiara / þier
skylldud ** sundurbrioota þeirra ollu=
ru / Enn þier hlyddud ecke minne raust /
þvi haped þier þetta giort?
* 3. Mos. 23/ 32. etc. ** 4. Mos. 33/ 52.
5. Mos. 7/ 5.
3 Þa sagde eg og so: eg vil ecke burt
reka þa fyrer ydur/enn þeir skulu vera yd
ur til hlida / og þeirra guder skulu vera
ydur

ydur ad eitnre snøru.
4 Og þad skiede/ þa Drottens Eing
ell haꝼde talad þesse ord til allra Jsra-
els barna / þa upphooꝼ foolked þeirra
raust/ og grietu.
5 Og þeir kølludu þess sama stadar
naꝼn Bochim/og oꝼꝼrudu Drottne þar.
6 Og þegar * Josua haꝼde læted
ꝼoolked ꝼara/og Jsraels børn voru geing
eñ hvør til sijns arꝼs / ad eignast land-
ed. * Jos. 24 / 28.
7 Þa * þioonade foolked Drottne /
so leinge Josua liꝼde / og so leinge þeir
ellstu liꝼdu / sem liꝼdu leinge epter Jo-
sua/hvorter haꝼdu sied øll Drottens stoor
verk / sem hañ haꝼde giørt Jsrael.
* Jos. 24/ 31.
8 Eñ þegar Josua Nuns son Drott-
ens þienare var daudur/ hundrad og tiju
æra gamall.
9 Og þeir høꝼdu * graꝼed hañ i sij-
ns arꝼs landamerke / i Timnath Heres
a Ephraims ꝼialle/ nordur fra þvi ꝼia-
lle Gaas. * Jos. 24/ 29. 30.
10 Og þegar øll su sama ætt var og so
søꝼnud til siña ꝼedra / þa kom ein øñur
ætt epter þa / sem ecke þeckti Drotteñ/
ei helldur hañ giørning /sem hañ haꝼde
giørt vid Jsrael.
11 Þa giørdu Jsraels børn þ vonda
ꝼ Drottens augū/ og þioonudu Baalim.
12 Og yꝼergaꝼu Drotteñ þeirra ꝼed-
ra Gud / sem haꝼde utꝼært þa aꝼ E-
gyptalande / og epterfylgdu ødrum gud-
um / aꝼ þeirra þiooda gudum / sem voru
allt um̄ kring þa/og tilbadu fyrer þeim/
og styggdu Drotteñ.
13 Þeir yꝼergaꝼu Drotteñ/og þioon
udu Baal og Astharoth.
14. So upptendradest Drottens reide
yfer Jsrael/ og hañ gaꝼ þa i þeirra hø
nd/ sem ræntu þa / ad þeir ræntu þa/ og
hañ sellde þa i þeirra ꝼiandmaña hend-
ur/ allt um̄ kring/og þeir kuñu ecke fra
mar moostanda þeirra ꝼiandmøñum.
15 Hvørt hellst sem þeir villdu ꝼara/
* var Drottens hønd i moote þeim til
ogiæꝼu / so sem Drotteñ haꝼde sagt / og
so sem Drotteñ hafde svared þeim/og þr
urdu mieg þreingder. * 3. Mos. 26/17.
16 Nær Drotteñ * uppvakte doom-
ara / sem frijudu þa aꝼ þeirra ræningia
hende/ * c. 3. 9/ 10/ 15.
17 Þa voru þeir ecke helldur þeirra
doomurum hlijduger/ helldur drijgdu hoor
med ødrum gudum/og tilbædu fyrer þm̄/
þeir viku snarlega aꝼ þeim veige / sem
þeirra ꝼedur høꝼdu geinged a / ad hlijda
Drottens bode/ þeir giørdu ecke so.
18 Eñ nær Drotteñ uppvakte þeim
doomara/ þa var Drotteñ med doomaran
um/ og hiælpade þeim aꝼ þeirra ꝼiand-
maña hende/so leinge sa doomare liꝼde/
þvi * Drotteñ aumkadest yꝼer þeirra
kløgun yfer þeim / sem þvijngudu þa og
underþryncktu þa. * c. 10/ 16.
19 Eñ þad skiede/nær sa doomare dey
de/ þa sneru þeir til baka/og fordiørꝼudu
þad meir eñ þeirra ꝼedur / ad þeir fylgdu
ødrum gudum/ad þioona þeim/og ad til-
bidia fyrer þeim/ þeir lietu ecke aꝼ þeir-
ra ætlninge/ecke helldur aꝼ þrra hard-
snwnum veige.
20 Og Drottens reide upptendradest
yꝼer Jsrael/og hañ sagde: med þvi þetta
foolk heꝼur yꝼertroded miñ sattmæla /
sem eg heꝼe boded þeirra ꝼedrum/og þeir
hlijddu ecke miñe raust.
21 Þa vil eg z hier epter ecke burtreka
nockurn aꝼ heidingiunum fyrer þeim/sem
Josua liet epter/ þa hañ deyde:
22 Til ad reina * Jsrael med þeim/
hvørt þeir villdu taka vara a Drottens
veige / ad ganga i þeim hlutum / so sem
þeirra ꝼedur tooku vara a / edur ei.
* C. 3. 1/ 4.
23 So liet Drotteñ blijꝼa þessa heid-
ingia/ad hñ burtrak þa ecke snogglega/
sem hñ haꝼde ecke gieꝼed i Josua hønd.

III. Capitule.

Jsraels Doomarar/ Othniel/ Ehud
og Samgar.


g þesser eru þeir heidingiar/ *
sem Drotteñ liet blijꝼa/ ad rey-
na Jsrael med þeim / alla sem
vissu eckert aꝼ øllum Cana-
ans

ans sirkdum. * 5. Mos. 7/ 22.
2 Allemasta ad Israels borna ætter
skylldu vita / ad hañ skyllde kieña þeim
ad stryda/ad minsta koste þeim/sem kuñu
þad ecke fyrre.
3 * Fiñ Philistæa høfdingiar / og
aller Cananitar/ og Zidoniar / og Nevi-
tar/sem biuggu hia Libanons fialle/**
fra þvi fialle Baal Hermon/þar til mad
ur kiemur til Hamath. * c. 13/ 5.
** 5. Mos. 3/ 8. Jos. 11/ 3.
4 Þeir voru so/ad * Israel skyllde reyn
ast med þeim/ ad (mañ kyñe) vita/hvørt
þeir villde hlyda Drottens bode/sem hañ
hafde boded þeirra fedrum fyrer Mose.
* 5. Mos. 8/ 2. Dom. 2/ 22.
5 Og Israels børn biuggu a medal
þeirra Cananita/ Hethita og Emorita/
og Pheresita/ og Hevita og Jebusita.
6 Og þeir tooku sier * þeirra dætur
til hustrua/og gafu þeirra sonum þeirra
dætur / og þioonudu þeirra gudum.
* 2. Mos. 34/ 16.
7 Og Israels børn giørdu illt fyrer
Drottens augum / og gleymdu Drottne
þeirra Gude/og * þioonudu Baalim/og
lundunum. * c. 2/ 11.
8 Þa * upptendradest Drottens reide
yfer Israel / og hañ ** selldе þa i Cu-
sanRisathaims hønd / konungsens af
Mesopotamia / og Israels børn þioon-
udu CusanRisathaim ætta ar.
* c. 2/ 14/ 20. ** c. 4/ 2.
9 Þa * hroopudu Israels børn til
Drottens / og Drotteñ uppvakte Israels
børnum eirn frelsara / sem frelsade þau/
** Othniel Kenas son Calebs broodur/
sem var yngre eñ hañ. * c. 6/ 6.
** Jos. 15/ 17.
10 Og Drottens Ande var yfer hon
um / og hañ dæmde Israel / og reiste wt
til stryds / og Drotteñ gaf Cusan Risa-
thaim/konungeñ af Syria i hañs hønd/
og hañs hønd var vølldug yfer Cusan
Risathaim.
11 Þa var landed rolegt fiørutyu ar/
og Othniel Kenas son deyde.
12 Eñ Israels børn hielldu fram
ad giøra illt fyrer Drottens augum/þa styrk-
te Drotteñ Eglon þeirra Moabita kon-
ung i moote Israel/ af þvi ad þeir giør-
du illt fyrer Drottens augum.
13 Og hañ safnade til sijn Ammons
børnum/ og Amalek og foor og sloo Is-
rael/ og þeir iñtooku * palma-stadeñ.
* c. 1/ 16. 5. Mos. 34/ 3.
14 Og Israels børn þioonudu Eglon
Moabitaña konunge atiaan ar.
15 Þa hroopudu Israels børn til
Drottens/og Drotteñ uppvakte þeim
eirn frelsara/ Ehud Gera son/ Jemi-
ni sonar/ eirn mañ/ sem var * lamad-
ur a siñe hægre hende/Og þegar Isra-
els børn sendu Eglon/ þeirra Moabita
konunge/ skeink med honum/ * c. 20/ 16
16 Þa giørde Ehud sier eitt tvij-
eggiad sverd / eirnar alnar langt / og
batt þad under sijn klæde a siñe hægre
miødm.
17 Og færde Eglon Moabitaña
konunge skeinkeñ / og Eglon var eirn
harla feitur madur.
18 Og þad skiede/þa hañ hafdeølld
unges afhent skeinkeñ / þa liet hañ
foolked fara/ sem hafde bored skeinkeñ.
19 Eñ hañ snere til baka/ fra þe-
im (wthøggnu) bijlætum / sem voru i
Gilgal / og liet seigia: eg hefe/ o kon-
ungur nockud heimuglegt (ad seigia)
þier/þa sagde hañ: vertu kirr/og þeir
geingu aller wt fra honum/ sem stoodu
i kringum hañ.
20 Og Ehud kom iñ (til hañs/)
sem hañ sat i sumar-salnum / er hañ
hafde fyrer sig alleina / og Ehud sag-
de: eg hefe Guds ord til þijn/ þa stood
* hañ upp af stoolnum. * 4. Mos. 23/ 18.
21 Og Ehud wtriette sijna vinstre
hønd / og took sverded fra siñe hægre
miødm/ og rak þad i hañs kvid.
22 Ad skapted giek og so iñ epter
bladenu/og ystrañ iñebyrgde bladed/þvi
hañ droo ecke sverded wr hañs kvide/ &
saureñ rañ wt.
23 Þa giek Ehud wt i giegnum for
gardeñ / og tillukte sals-dyrnar yfer
honum/ og læste þeim i laas.

 24. Þa

24 Þa hañ var wtgeingeñ / þa ko-
mu hañs (konungsens) þienarar iñ /
og sau/ og sia/ sals-dyrnar voru apt-
urluktar / og søgdu: hañ hilur vissu-
lega sijnar fætur i hwsenu hia sum-
ar-salnum.
25 Og þeir bidu þar til þeir skom-
udust sijn/og sia/ hañ uppliet ecke sals
dyrnar/ þa tooku þeir lyklana og luku
upp/ og sia/ þa læ þeirra herra daud-
ur a Jørduñe.
26 Eñ Ehud komst undañ þa stu-
nd þeir bidu / og hañ gieck fram̃ yfer
þau (wthøggnu) bylæte/og komst und
añ til Seirath.
27 Og þad skiede / þegar hañ kom
(þangad/) blies hañ i bæsunur a E-
phraims fialle / Og Jsraels børn foo-
ru ofañ med hønum af fiallenu/og hañ
fyrer þeim.
28 Og sagde til þeirra: fylged epter
mier / þvi Drottiñ hefur giefed ydar
frandmeñ / Moabitana i ydar hønd /
Og þeir fooru ofañ epter hønum / og
iñtooku Jordanar vød/sem eru til Mo
ab / og lietu aungvañ ganga yfer um̃.
29 Og þeir sloou Moabitana a þe-
im tijma/hier um̃ tiju þusund meñ/alla
þa bestu og alla þa hraustustu meñ/og
* ecke eirn madur komst undañ.
* C. 4/16. 4. Mos. 21/35.
30 So urdu Moabitarner under-
þryckter a þeim sama tijma/under Js-
raels hønd/og landed vard roolegt ætta
tiju ær.
31 Og epter hañ * var Samgar
Anaths son/og hñ sloo Philisteana sex
hundrud mañs med einum ploogstaf/og
hañ frelsade og so Jsrael. * C.5/6.

IV. Capitule.

Spækona Debora/ Baraks Strijd/
og Jaels Lofsverde Giorningur.

Og * Jsraels børn hielldu fram̃
ad giøra illt fyrer Drottiñs
augum/ þegar Ehud var dæ-
eñ. * C.3/12. C.6/1.
2 Og Drottiñ * sellde þa i Jabins
Canaans konungs hønd / sem rijkte i
Hazor/og Sissera var hañs strijds-hof
udsmadur / og hañ bioo i heidingiañа
Harosceth. * C.3/8. 1. Sam.12/9.
3 Og Jsraels børn * hroopudu til
Drottiñs/Þvi hañ hafde niju hundrud
iærn-vagna / og hañ hafde þvijngad
Jsraels børn med ofrijke tuttugu ær.
C. 3.9/15. C. 6/6.
4 Og Debora ein kviña / ein spæ-
kona/Lapidoths hustru / dæmde Jsra-
el a þeim sama tijma.
5 Og hun bioo under Debora pæl-
ma-trie/ i millum Rama og BethEl/
a Ephraims fialle / og Jsraels børn
komu upp i riettargang fyrer hana.
6 Og hun sendeburt og liet kalla
Barak AbiNoams son/af * Kades/
Naphthali / og sagde til hañs: hefur
ecke Drottiñ Jsraels Gud boded (þier
þad:) gack/og far burt uppa Thabors
fiall / og tak tiju þusund meñ med þi-
er/ af Naphthali børnum/ og af Se-
bulons børnum: * Jos. 19/37.
7 Og eg vil draga Sissera/Jabins
strijds-høfudsmañ til þijn / til þess læk-
iar Kison/og hañs vagna/ og hñs hoop/
og giefa hañ i þijna hønd.
8 Og Barak sagde til heñar: ef þu
villt reisa med mier/ þa vil eg fara/eñ ef
þu villt ecke reisa med mier / þa vil eg
ecke fara.
9 Og hun sagde: eg vil vissulega fa-
ra med þier / (eñ) þo skallt þu ecke fær
prijs a þeim veige/ sem þu ferdast a/ þvi
Drottiñ mun giefa Sissera i eirnrar kvi-
ñu hønd/ So gierde Debora sig reidubw-
na/ og reiste med Barak til Kedes.
10 Þa kallade Barak Sebulon og
Naphthali samañ til Kedes/ og reistu a
fæte hier um̃ tiju þusund meñ/og Debora
reiste med hønum.
11 Og Heber sa Kenite hafde skiled
sig fra * þeim Kenitum / af Hobabs
Mose mægs børnum / og reist sitt tiald
allt til þeirrar eikar Zaannaim / sem er
hia Kedes. * C.1/16.
12 Þa gæfu þeir Sissera til vitund-
ar/ad

ar/ad Barak Abinoams son være reistur
upp a þad fiall Thabor.
13 Og Sissera saman safnade ollum
sijnum vognum/ niju hundrud jarn-vog-
num/ og ollu foolkenu/sem var med hon-
um / fra heidingiana Haroseth/ til þess
lækiar Kison.
14 Og Debora sagde til Barak :
upp/ þvi þesse er sa dagur/ sem Drottenn
hefur gefed Sissera i þijna hond / er
Drottenn ecke wtfarenn fyrer þier? so reiste
Barak ofann af þvi fialle Thabor / og
þeir tiju þusund menn epter honum.
15 Þa umturnade * Drottenn Sissera
og ollum (hans) vognum/og ollum her-
num med beittu sverde/ fyrer Barak / ad
Sissera stie af vagnenum / og flijde a
fæte. * Ps. 83. 9/ 10.
16 Enn Barak sookte epter vognun-
um/ og epter hernum/allt til heidingiana
Haroseth/og allur Sissera her fiell fyr-
er hvossu sverde / þar vard * ecke japn-
vel einn epter. * c. 3/ 29. Jos. 8/ 22.
17 Enn Sissera flijde a fæte til Ja-
els tiallds/ (sem var) Hebers þess Keni-
tha hustru / þvi þar var fridur i millum
Jabin/konungsens af Hazor/og i millum
Heber þess Kenita hws.
18 Þa gieck Jael wt moote Sissera/
og sagde til hans : vijk/ minn herra/ vijk
til mijn/ ottast ecker/ og hann veik(inn)til
hennar i tiallded/ og hun hulde hann med
einne abreidu.
19 Og hann sagde til hennar: kiæra /
gief mier lijted * vatn ad drecka/þvi mig
þyrster. Þa upplauk hun einu miolkur-
kiere/ og liet hann drecka/ og hulde hann.
* C. 5/ 25.
20 Og hann sagde til hennar/Stattu i
tiallds-dyrunum/og verde þad/ ad þar ko-
me nockur/ og spyrie þig og seige : er hier
nockur? þa seigdu : nei.
21 Þa took Jael/Hebers hustru/(einn
af) tialldsens hælum/ og took einn ham-
ar i sijna hond/ og gieck inn til hans/stille
lega/ og sloo hælenn i gegnum hans þunn
vanga/so ad hann gieck ofann i jord/þvi
hann svaf fast/og var þreyttur/og hann deyde.
22 Og sia / þegar Barak sookte ept-
er Sissera/ þa gieck Jael wt moote hon-
um/ og sagde til hans : gack hijngad/ og
eg vil sijna þier þann mann / sem þu leitar
epter/ og hann kom inn til hennar / og sia/
Sissera lœ daudur / og hælenn (stood) i
hans þunnvanga.
23 So niðurþryckte Gud a þeirre tijd
Jabin Canaans konunge fyrer Israelsbornum.
24. Og Israels barna hond fieck
framgang og vard hord moote Jabin Ca
naniska konunge / þar til þeir uppræltu
Jabin Canaans konung.

## V. Capitule.

### Deboræ og Baraks Saungur.

Þa saung Debora og Barak Abi-
noams son a þeim tijma/og sogdu :
2 Lofid Drottenn / ad þar er
hardlega halldenn hefnd i Isra-
el/(og) ad foolked hafid sig velviliuglega
(þar til.)
3 Heyred þier kongar/ giæted ad þier
hofdingiar / eg/ eg vil syngia Drottne /
(ja/ )Drottne Israels Gude vil eg syngia
4 Drottenn/ þa þu wtfoorst af Seir/
þa þu gieckst fra Edoms merk / þa *
bifadest Jordenn / Himnarner drupu og
so/og skyenn drupu vatne. * Ps. 68/ 9.
5 Fiollenn runnu fyrer Drottens aug-
lite/ ja/ Sinai fiallfit / fyrer Drottens
Israels Guds auglite.
6 J * Samgars Anaths sonar tijd/
i Jaels tijd/logdust af stigerner/ og þe-
ir sem skyldu ganga a beinum stigum /
geingu a krookottum stigum. * c. 3/ 31.
7 Þar logdust af lands þorp i Israel/
þau logdust af þar til eg Debora kom upp/
þar til eg kom upp/ ein moder i Israel.
8. Eitt hann wtvelia nyja gude/þa var
strijd i portunum / þar var * ecke siedur
skiolldur eda spioot a medal fiorutiju þu-
sunda i Israel. * 1. Sam. 13/ 22.
9 Mitt hiarta (hefur lystina)til Is-
raels stioornara/ þier sem erud velviliug
er a medal foolksens / lofed Drottenn.
10 Þier sem rijded a * hvijtum osn-
um/þier sem sitied i doome/og þier sem
gonged

ganged a veigenum/ taled (grandgiæfe
lega um̃ þetta.) * c. 10/4. c. 12/14.
11 Fyrer ſkotmañaña hlioode a med-
al (ſtadaña/ ſm̃ vatn) ſœkeſt/ þar ſkulu
þeir ſeigia af Drottens riettlæte/ af
hñs landsbygda riettlæte i Iſrael/ þa
reiſte Drottens foolk ofañ til portaña.
12 Vakna upp/ vakna upp Debora/
vakna upp/ vakna upp / kved eina vÿ-
ſu/ tak þig upp Barak / og leid þÿna
fanga burt/ þu Abi-Noams ſon.
13 Þa ſkal ſa epter ordne ſtioorna
yfer þeim veglegu a medal foolkſens /
Drotteñ mun ſtioorna fyr° mig a med
al þeirra volldugu.
14 Af * Ephraim þeirra root var
i Amalek/ epter þig BenJamin i þÿnu
foolke / Af Machir eru nidur ſtigner
ſtioornararner/ og af Sebulon þeir/ ſem
addraga med * * ſkrif-fiødreñe.
* 2. Moſ. 17/ 13. * * 1. Kron/ 2/ 55.
15 Og mÿner høfdingiar af Iſa-
ſchar voru med Debora / og Iſaſchar
var ſem Barak / i daleñ var hañ wt-
ſendur med ſÿnum footgøngurum / þa
Ruben ſkilde ſig fra (þeir hielldu ſig)
miøg klooka i hiarta.
16 Hvi ſatſtu i millum þeirra (kve
ggia) ſauda-hwſa/ ad heyra hiardareñ
ar jarm? i þvi Ruben ſkilde ſig fra /
var þar ſtoor þriootſka i hiarta.
17 Gilead var hinumeigeñ Iordan
ar/ og hvi ſkal Dan bwa a medal ſkip-
aña? Aſſer ſat i ſiafar høfn/ og ſkal
bwa i ſÿnum ſkwtum.
18 Sebulons foolk * ſette þeirra ſal
i Daudañ/ og Naphthali a þeirre hæd
i morkeñe. * c. 9/ 17.
19 Kongarner komu/ þeir ſtrÿddu/ þa
ſtrÿddu Canaans konungar i Thaa-
nach hia Megiddo vatne / þeir feingu
ecke þad ſilfur/ ſm̃ þeir leituduſt epter.
20 Af * Himnenum ſtrÿddu þeir (i
moote þeim / ) ſtiørnurnar af þeirra
hædum ſtrÿddu med Siſſera.
* 2. Moſ. 14/ 25. Ioſ. 10. 14/ 42.
21 Sa lækur Kiſon um̃vellte þeim/
ſa lækur Kedumim / ſa lækur Kiſon /
Mÿn ſal ſkal ſtÿga yfer þa ſtirkvu.
22 Þa urdu heſta-hoofarner brotn-
er af þeirra ſterku yduglegre ras þar af.
23 Bølved (þeim ſtad) Meros/ * ſag
de Drottens Eingell/ bølved hræptuglega
hañs borgurum / af þvi þeir komu ecke
Drottne til hiælpar / (ja) Drottne til
hiælpar a medal þeirra vollougu.
24 Bleſſud * ſie Iael / Hebers þeſſ
Kenita huſtru / framar kvinnunum/ bleſſ-
ud ſie hun i tialldbwdeñe / framar kvin-
unum. * Luc. 1/ 42.
25 Hañ bad um̃ vatn / hun * gaf
miool/ hun bar ſmior fram̃ i þeim ypp-
arlegu ſkalum. * c. 4/ 19.
26 Heñar hond * riette ſig wt epter
hælnum / og heñar hægre hond epter
ſmids-hamrenum / og hun ſloo Siſſera /
nidurlagde hañs høfud / og i giegnum
ſloo og i giegnum ſtack hañs þuñvanga.
* C. 4/ 21.
27 Millum heñar foota beigde hañ
ſig/ fiell/ lagde ſig / millum heñar foota
beigde hañ ſig/ fiell þar ſem hañ beigde
ſig/ þar fiell hañ fordiarfadur.
28 Siſſera mooder leit wt af vindaug
anu/ og hroopade i giegnum grindurnar:
hvi dvelur hañs vagn ad koma? hvi eru
hañs vagn-hiool ſo ſein?
29 Þær vÿſu a medal heñar høfd-
ings kveña ſvørudu / ja hun took upp
aptur ſÿn ord.
30 Skyllde þeir ecke fiña / (ja) wt-
deila herfangenu / hverium mañe eina
ſtwlku eda tvær / Siſſera ſkipte klædum
til bÿtes/ ſkipte (og) ſtickade klædum til
bÿtes? ſkipte klædum / ſem eru ſtickud (a
badar ſÿdur) um̃ halſeñ/ til bÿtes.
31 So munu / Drotteñ / aller þÿner
fiandmeñ fyrerfaraſt / eñ þeir ſem el-
ſka hañ/ (munu vera) eins ſo ſem ſooleñ
uppgeingur i ſiñe magt. Og landed var
kyrt * i fiørutÿu ar. * c. 3/ 11.

VI. Capitule.

Sa Doomare Gedeon.

Og Iſraels børn * gierdu illa fyr
er Drottens augum/ og Drotteñ
gaf þa i Midianitaña hond i
ſio ar. * c. 3/ 12. c. 4/ 1. c. 8/ 33.

2 Og nær Midianitaña hønd vard hø
rd yþer Israel/ þa giørdu Israels børn
sier fylsne/sem voru i þiøllunū/og hellra
og þestingar þyrer Midianitunum.

3 Og þad skiede/ nær Israel sæde/þa
komu Midianitarner/og Amalekitarner/
og þeir aþ austre / upp / og þeir komu
upp/ yfer þa.

4 Og þeir settu sijnar herbwder i moo
te þeim / og fordiørþudu landsens groo-
da/allt til þess / madur kiemur til Azza/
og lietu aungva næring verda epter i Is-
rael/ hvørke saude eda naut / eda asna.

5 Iaa þeir komu upp med þeirra þie-
nad / og þeirra tialldbwder / og komu *
sem eirn þlockur grashoppa / so ad þeir
og þeirra ulþalldar voru oteliandleger / og
komu i landed / ad þordiarþa þad.
* C. 7/ 12.

6 So vard Israel harla miøg beigd-
ur fyrer Midianitunum/ og * Israels
børn hroopudu til Drottens. * C. 3. 9/ 15.

7 Og þad skiede / þa Israels børn
hroopudu til Drottens / fyrer Midiani-
taña skulld:

8 Þa sende Drotteñ eirn mañ / eirn
spaamañ til Israels barna/ og hañ sagde
til þeirra: so seiger Drotteñ Israels Gud:
eg færde ydur upp aþ Ægyptalande/og
wtleidde ydur aþ þræla hwsenu.

9 Og frelsade ydur aþ Ægyptskra
hende / og aþ allra þeirra hende / sem
þreingdu ydur/ og eg wtrak þa fyrer yd-
ar augsyn/ og gaþ ydur þeirra land.

10 Og eg sagde til ydar: eg er Drott-
eñ ydar Gud/ * otteſt ecke þeirra Emori-
ta gude / i hvørra lande þier bwed / eñ
þier haþed ecke vered miñe raust hlijd-
uger. * Jos. 23/ 7. c. 24/ 14.

11 Og Drottens Eingell kom/ og sette
sig under eina eyk/ sem er i Ophra/ sem
heyrde Joas þess Esrita fodur til / og
hañs son Gedeon þreskte hveite hia eirn
vynþressu/ so ad (hañ kuñe) þliootlega fæ
ra þad i burtu fyrer þeim Midianitum.

12 Þa openberadeſt Drottens Eing
ell fyrer honum / og sagde til hañs:
Drotteñ sie med þier/ þu stríjds hetia.

13 Eñ Gedeon sagde til hañs: æ
miñ herra / sie Drotteñ med oss / hvi
hefur þa allt þetta hitt oss? og hvar
eru aller hañs undarlegu hluter / sem
vorer fedur kuñgiørdu oss / og søgdu:
færde Drotteñ oss ecke upp af Ægypta
lande? eñ nu hefur Drotteñ yfergiefed
oss i Midianitaña hønd.

14 Þa snere Drotteñ sier til hañs
og sagde: * gack (burt) i þessum þijn-
um styrk / og þu skallt frelsa Israel /
af Midianitaña hende / hefe eg ecke
sendt þig? * 1. Sam. 12/ 11.

15 Og hañ sagde til hañs: æ Dro-
tteñ/ hvar med skal eg frelsa Israel?
sia / mijn ætt er su audvirdelegaſta i
Manasse/ og er sa yngſte i mijns fød-
urs hwse.

16 Og Drotteñ sagde til hañs: sañ-
lega/ * eg vil vera med þier/ og þu ska-
lt slaa Midianitana * * sem eirn mañ.
* 2. Mos. 3/ 12. * * 4. Mos. 14/ 15

17 Þa sagde hañ til hañs: kiære /
hafe eg funded naad fyrer þijnum aug-
um / þa giør mier eitt teikn/ ad þu sie-
rt sa/ sem talar vid mig.

18 Kiære/ * gack ecke burt hier fra/
þar til eg kiem til þijn / og ber mijna
gaafu fraṁ/og set hana fyrer þig/ Og
hañ sagde: eg vil vera/þar til þu kie-
mur aptur. * c. 13/ 15.

19 Og Gedeon gieck/og tilreidde eitt
hafur-kid / og eina epha osyrt miøl /
hañ lagde kiøted i korfena/ og liet sod-
ed i pottenn / og bar til hañs wt under
eykena/ og sette fyrer (hañ.)

20 Þa sagde sa Guds Eingell til
hañs: tak kiøted/og þær osyrdu (kok-
ur/) og set þad a þeñañ klett/ og wt-
hell sodenu / og hañ giørde so.

21 Þa wtrietta Drottens Eingell
þad ytsta af þeim staf/ sem hañ hafde
i siñe hende / og hrærde vid kiøtenu/ og
vid þeim osyrdu (kokum/) og þar kom
* elldur af klettenum/ og forfærde kiø-
tenu/og þeim osyrdu kokum: og Dro-
ttens Eingell foor fra hañs augum.
* 3. Mos. 9/ 24.

22. Þegar

22 Þegar Gedeon sa/ ad þad var Drottenñs Eingell/ þa sagde Gedeon: æ Drotteñ Drotteñ! þvi þar fyrer hefe eg sied Drottenñs Eingel fra auglite til auglites.

23 Og Drotteñ sagde til hans: * Fridur sie med þier/ ottast ecke/ þu skallt ecke deyia. * Dan. 10/19. Luc. 24/36 Joh. 20. 19/ 21/ 26.

24 Þa bygde Gedeon Drottne eitt altare þar / og kallade þad / Drotteñ (giefe frid/) þad (stendur) allt til þessa dags/ þad er eñ nu i Ophra/ sem heyrde þeirra Esrita fødur til.

25 Og þad skiede þa sømu noott / ad Drotteñ sagde til hans: tak eirn ungañ uxa-kalf/ sem er þijns fødurs/ og þañ añañ uxa siø ara gamlañ/ og þu skallt nidurbriota * Baals altare/ sem er þijns fødurs/ og upphøggva lundeñ/ sem þar stendur hia:
* 2. Kong. 11/ 18. C. 23. 12/ 15.

26 Og byggia Drottne þijnum Gude eitt altare efst a þessum sterka (klett) med (sijnum) tilbwninge / og taka þañ añañ uxa/ og offra einu breñe-offre med vidnum af lundenum / sem þu skallt upphøggva.

27 Þa took Gedeon tiju meñ af sijnum sveinum/ og giørde so sem Drotteñ hafde sagt til hans/ Og þad skiede/ af þvi ad hañ ottadest fyrer sijns fødurs hwse/ og moñunum i stadnum/ ad giøra þad um dageñ / þa giorde hañ þad um noottena.

28 Og meñerner i stadnum stoodu arla upp um morguneñ / og sia / þa var Baals altare nidurbroted/ og lundureñ/ sem var þar hia/ var upphøggveñ/ og þeim ødrum uxanum offrad a þvi bygda altare.

29 Þa sagde eirn til añars: * hvør hefur giørt þeñañ hlut? og þa þeir leitudust og spurdust epter / var þar sagt: Gedeon Joas son hefur giørt þeñañ hlut. * c. 15/ 6.

30 Þa søgdu meñerner i stadnum til Joas: leid þiñ son wt/ þvi hañ skal deyia/ fyrer þad hañ hefur nidurbroted þad Baals altared / og fyrer þad hañ hefur afhøggved lundeñ / sem var þar hia.

31 Þa sagde Joas til allra þeirra / sem stoodu hia honū: vilied þier þrætta fyrer Baal? vilied þier frelsa hañ? hvør sem þrættar fyrer hañ / hañ skal deydast i snañ morguns/ * Sie hañ Gud/ þa hefne hañ sijn sialfur / ad hañ nidurbraut hans altare. * 1. Kong. 18. 21/ 27.

32 Og a þeim deige kallade hañ hañ Jerub Baal/ þvi hañ sagde: Baal hefne sijn a honum / ad hañ hefur nidurbroted hans altare.

33 Og aller Midianitar og Amalekitar / og þeir af austre voru safnader til samans / og droou i giegnum / og settu herbwder i Israels dal.

34 Þa jklæddest * Drottenñs Ande Gedeon/ og hañ liet blasa i basunuña/ z ** AbiEser var kalladur / ad fylgia honum. * c. 11/ 29. 1. Kron. 13/ 18. ** Jos. 17/ 2.

35 Og hañ sende bod til Manasse / og hañ var og so kalladur/ ad fylgia honum epter/ Hañ sende og bod til Asser/ og til Sebulon / og til Naphthali / og þeir komu upp i moote þeim.

36 Og Gedeon sagde til Guds: villtu frelsa Israel fyrer mijna hønd sem þu hefur sagt?

37 Sia / þa legg eg eitt ullar-reife i gardeñ/ verde þar alleina * døgg a ullene / og þurt a allre Jørdeñe / þa vil eg merkia / ad þu villt frelsa Israel fyrer mijna hønd/ sem þu hefur sagt.
* Ps. 72/ 6.

38 Og þad skiede so/ þvi þegar hañ stood añañ dageñ arla upp/ þa vatt hañ ullena / og kreiste døgg af ullene / eina skal fulla vatns.

39 Og Gedeon sagde til Guds: þijn * reide uppteñdrest ecke i moote mier/ ef eg tala eñ einusiñe / kiære / eg vil ad eins reina þ eñ einusiñe a ullene: lat nu vera þurt a ullene alleina / og lat døgg vera a allre Jordune. * 1. Mos. 18/ 30. 40.

40 Og Gud giørde þad so a þeirre
sømu noott/ ad þar var þurt a ullenne all-
eina / og þar var døgg a allre Jørdunne.

## VII. Capitule.

### Gedeon fær Sigur yfer Midianitun um.

Þa took * Jerub Baal / þad er
Gedeon / sig æla upp / og allt
foolked sem var med hønum /
og þeir settu sijnar herbwder
hia þeirre uppsprettu Harod/og hann hafþ
de Midianitana her til nordurs fra sier /
fra More hæd i dalnum. * c. 6/ 32.
2 Og Drottenn sagde til Gedeon: Þu
hefur meira foolk / sem er med þier / enn
ad eg skyllde gefa Midian i þeirra hend
ur/ad Israel skyllde ecke(mæ skie)hroosa
sier i giegn mier / og seigia: mijn hønd
hefur frelst mig.
3 So lat þu nu wthroopa fyrer foolk
sens eyrum./ og seigia: * hvør ad er
hræddur og efasamur/ hann snwe aptur/
og flyte sier ærla fra Gileads fialle/Þa
sneru sier aptur af foolkenu twær og tutt
ugu þusunder/og tiju þusunder voru epter.
* 5. Mos. 20/ 8.
4 Og Drottenn sagde til Gedeon:
foolked er enn nu margt / leid þa nidur til
vatnsens / þar vil eg reina þier þad / og
þad skal skie/ umm hvørn eg seige til þijn:
þesse skal fara med þier / hann skal fara
med þier / Enn hvør sa/ sem eg seige umm
til þijn: þesse skal ecke fara med þier /
hann skal ecke fara.
5 Og hann færde foolked nidur til vatn
sens/ og Drottenn sagde til Gedeon: hvør
sem lepur med sinne tungu af vatnenu /
sem hundurenn lepur / þeim skalltu skipa
sier i lage / og hvør sem beiger sig a sijn
knie ad drecka.
6 Þa var þeirra tala / sem høfdu
laped af þeirra hønd til þeirra munns /
þriu hundrud menn / Og þad annad foolk
allt samann beigde sig a þeirra knie / ad
drecka vatned.
7 Og Drottenn sagde til Gedeon: med
þeim * þrem hundrudum manna / þeir
sem hafa laped / vil eg frelsa ydur / og
gefa Midianitana i þijna hønd/ enn allt
þad (annad) foolk / mæ ganga hvør til
sijns stadar. * 1. Sam. 14/ 6.
2. Kron. 14/ 11.
8 Og foolked took vister med sier /
og þeirra læsunur / enn (þa adra) Is-
raelita liet hann alla fara/ hvørn til
sinna tiallda / og hann hijhiellt þeim þr-
em hundrud mønnum/ Og Midianitana
her la nidur fra hønum i dalnum.
9 Og þad skiede a þeirre sømu noo
tt/ad Drottenn sagde til hans: stattu
upp/gack ofann i herbwdernar / þvi eg
hefe giefed þær i þijna hønd.
10 Enn efer þu þig ad fara (einn)
ofann / þa gack þu ofann og Þura þinn
þienare / til herbwdanna.
11 Ad þu kunner heyra / hvad þeir
munu seigia / og þar epter skulu þijn-
ar hendur verda styrktar/ og þu skallt
draga nidur til herbwdanna / Og hann
gieck ofann / hann og Þura hans þien-
are til þess ytsta af stridsmønnunum/
sem voru i herbwdunum.
12 Og Midianitarner og Amaleki
tarner / og allt foolked af austre/haf-
de lagt sig nidur i dalnum/ * sem gras
hoppur i margfiølda / og þeirra wlf-
valldar voru oteliannleger / sem sandur
þar er a siafar-strondu i margfiølda.
* C. 6/ 5.
13 Og Gedeon kom/og sia/þa kunn
giørde einn þeim ødrum einn draum /
og søgdu: sia / mig dreymde einn dra-
um / og sia / ad eitt øskubakad bygg-
braud velltest i Midianitana herbwd-
er / og þa þad kom til tialldsens / þa
sloo þad (þar uppa/)ad þad fiell/ og
þad kastade þvi umm a endunum / og
tialldeð fiell.
14 Þa svarade sa annar og sagde:
þad er ecke annad/ enn Gedeons þess Is-
raelitiska manns Joas sonar sverd:
Gud hefur giefed Midianitana * i han-
ns hønd/ og þær giorvøllu herbwder.
* Es. 9/ 4.
15 Og þad skiede/þa Gedeon heyrde
draumenn kunngiørast/ og hans wtlegg-

ing/ þa tilbad hañ / og kom aptur til
Israels herbwda / og sagde : standed
upp/ þvi Drottteñ hefur giefed Midi-
anitaña herbwder i ydar hønd.
16 Og hañ skipte þeim þrem hund-
rud møñum i þriaa hoopa/ og fieck þe-
im bæsunur i hvørs þeirra hønd / og
toomar krwser/ z blis midt i krwsunū.
17 Og sagde til þeirra : þier skulud
sia epter mier / og so giøra / og siaa /
nær eg kiem til þess ytsta i herbwdun-
um / þa skal þad skie / ad eins sem eg
vil giøra/ so skulud * þier giøra.
* C. 9/ 48.
18 Og nær eg blæs i bæsununa / eg
og hvør sem er med mier/ þa skulud þi-
er og so blæsa i bæsunurnar i kryng-
um þær giørvøllu herbwder / og seig-
iæ: Drottteñs ( sverd) og Gedeons.
19 So kom Gedeon og þeir hund-
rad meñ sem voru med hønum til þess
ytsta i herbwdunum / i þeirrar mid-
vaktareñar byriun / þeir høfdu aller
nylega upp sett vakternar / og bliesu i
bæsunurnar/ og sloou krwsunum sam-
añ / sem voru i þeirra høndum.
20 So bliesu þeir þryr hoopar i bæ
sunurnar/ og sloou krwsernar sundur/
eñ þeir hielldu blisunum i þeirra vinst
re hende / og bæsunum i þeirra hægre
hende / til ad blæsa i / og hroopudu :
Drottteñs sverd og Gedeons.
21 Og þeir stoodu hvør a synu
plætse i kryngum herbwdernar / þa
hlupu þær giørvøllu herbwder og þær
æptu og flydu.
22 Og þau þriu hundrud bliesu i
bæsunurnar/ og Drottteñ sette þess *
eina sverd / i moote hinum ødrum / og
þad i þeim giørvøllu herbwdum / og
herbwdernar flydu til Beth-Sitta til
Zeredat / allt til AbelMehola backa
hia Tabath. * 1 Sam. 14/ 20.
23 Og Israels meñ af Naphthali/
og af Asser / og af giørvøllum Ma-
nasse / voru samañkallader / og elltu
Midianitana/
24 Og Gedeon sende bod uppa þad
giørvalla Ephraims fiall/ og liet seig
ia : komed ofañ i moote Midianitun
um/ og iñtaked vatned fyrer þeim/ allt
til BethBara og Jordanar / þa voru
þar samañkallader hvør madur i E-
phraim / og þeir iñtooku vatned allt
til BethBara og Jordanar.
25 Og þeir gripu tvo af Midiani-
taña furstum/ * Oreb og Seb/ og dræ
pu Oreb a þeim klett Oreb / og Seb
dræpu þeir i þeirre pressu Seb/ og þeir
elltu Midianitana/ og færdu Orebs og
Sebs høfud til Gedeon yfer um Jor-
dan. * Ps. 83/ 12. Es. 10/ 26.

VIII. Capitule.

Gedeons Beidne/ Børn og Daude.

Og þeir meñ af * Ephraim
søgdu til hñs: þvi giørder þu
oss þeñañ hlut / ad þu ecke
kallader oss / þa þu reister ad
stryda i moot Midianitunum ? og þeir
þrætkudu hardlega vid hañ. * c. 12/ 1.
2 Og hañ sagde til þeirra : hvad
hefe eg nu giort / sem þier ? eru ecke
Ephraims (vyn-) kvister betre / eñ *
AbiEsers (vyn-) yrkia? * c. 6/ 34.
3 Gud hefur giefed Midianitaña
fursta Oreb og Seb i ydar hønd / og
hvad kuñe eg giøra/ sem þier? þa hañ
hafde sagdt þad ord / þa stilltest þeir-
ra høstugt gied vid hañ.
4 Þegar Gedeon kom til Jordan-
ar / gieck hañ yfer um / og þeir þriu
hundrud meñ / sem voru hia hønum /
sem voru þreitter / og ræku flootkañ.
5 Og hañ sagde til þeirra maña i
* Suchoth: kiæru / giefed þessu foolke
sem eg hefe med mier / nockud braud /
þvi þeir eru þreitter/ ad eg kuñe ellta
Sebah og Zalmuna Midianitaña kon
unga. * 1. Mos. 33/17.
6 Eñ hvør af þm yppurstu i Su-
chot sagde: eru þa Seba og Zalmuna
hønd nu i þiñe hende/ * ad vier skulū
giefa þynū her braud? * 1. Sam. 25/ 11
7 Og Gedeon sagde : nu vel / nær
Drottteñ giefur Seba og Zalmuna / i
myna

mijna hønd/ þa vil eg þreſkia ydar ho-
lld med þyrnum af eydemørkeñe / og
med þyſtlum.
8 Og hañ reiſte þadañ fra til * Pn
uel/og talade til þeirra lijka ſo/og þeir
meñ i Pnuel ſvørudu hønũ/ ſē þr meñ
i Suchoth ſvørudu. * 1. Kong. 12/25
9 Og hañ ſagde og ſo til þeirra
maña i Pnuel / ſeigiande: nær eg kiem
aptur med fride / þa vil eg nidurbrioo-
ta þeñañ turn.
10 Og Sebah og Zalmuna voru i
Karkor/ og þeirra herbuder med þeim/
um fimtan þuſunder/ þeir ſem voru
aller epter orðner af þeim giørvollum
herbudum af þvi foolke i auſtur/ þvi
þeir voru hundrad og tuttugu þuſund
meñ fallner/ ſē kuñu ad draga wt ſverd.
11 Og Gedeon reiſte upp a þeim
veige ſem þeir bwa i tialldbudunum
auſtur fra Nobah/ og Iogbea/og ſloo
þær herbuder / þvi herbudernar voru
ugglauſar.
12 Og Sebah og Zalmuna flijdu/
eñ hañ ellte þa/ og greip þa tvo Mi-
dianiſka konunga Sebah & Zalmuna/og
ſkielfde þær giørvollu herbuder.
13 Þa Gedeon Ioasſon kom fra ſtrij
denu aptur/ adur eñ ſooleñ gieck upp.
14 Þa greip hañ eirn ſvein af þvi
foolke i Suchoth/ & adſpurde hañ/ og
hañ ſkrifade hønum upp þa yppurſtu
i Suchoth/ og þa ellſtu þar af / ſio-
tijger og ſio meñ.
15 Og hañ kom til þeirra maña i
Suchoth & ſagde: ſiaa/hier er Sebah
og Zalmuna/ med hvørium þier ſpott
udud mig/og ſøgdud: er þa Sebah og
Zalmuna hønd nu i þiñe hende/ad vier
ſkulum giefa þijnu foolke / ſem eru
þreitter / brauð?
16 Og hañ took þa ellſtu i ſtadn-
um / og þyrna af eydemørkeñe og þy-
ſtla/ & liet þad foolk i Suchoth faa keñ
ing af þeim.
17 Og þañ turn i Pnuel nidurbra-
ut hañ/og i hel ſloo foolked i ſtadnum.
18 Og hañ ſagde til Sebah & til
Zalmuna: hvijlijker voru þeir meñ/ er
þier ſlooud i hel i Thabor? og þeir ſøg
du: ſem þu/ ſo voru þeir/ hvør epter
eins kongs ſonar hæfe.
19 Hañ ſagde: þeir voru mijner
brædur / miñar moodur ſyner / ſo vijſt
(ſem) Drotteñ lifer / ef þier hefdud
laated þa lifa/ þa villde eg ecke ſlaa yd-
ur i hel.
20 Og hañ ſagde til ſijns frumbor-
na Iether: ſtattu upp/ ſlaa þa i hel /
Eñ ſveirneñ droo ecke ſitt ſverd wt /
þvi hañ ottadeſt/ med þvi hañ var eñ
þa eirn pilltungur.
21 Eñ Sebah og Zalmuna ſagde:
ſtatt þu upp og ſlaa oſſ / þvi ſo ſem
madureñ er / ſo er og hañs magt. So
ſtood Gedeon upp/ og * ſloo Sebah og
Zalmuna i hel/ og took þær ſpeingur/
ſem voru a þeirra ulfallda haalſum.
* Pſ. 83/12.
22 Þa ſagde hvør madur i Iſrael
til Gedeon: drottna yfer oſſ/bæde þu/
og ſo þiñ ſonur/ ſo og þijns ſonar ſon
ur / med þvi þu hefur frelſad oſſ af
þeirra Midianiſka hende.
23 Og Gedeon ſagde til þeirra: eg
vil ecke drottna yfer ydur/ og miñ ſon-
ur ſkal ecke drottna yfer ydur / Eñ
Drotteñ mun drottna yfer ydur.
24 Og Gedeon ſagde til þeirra: ei-
ns hlut" vil eg bidia af ydur: ſierhvør
giefe mier eina ſpaung / af hañs her-
fange/ Þvi þeir høfdu gull-ſpeingur/
med þvi þeir voru Iſmaelitar.
25 Og þeir ſøgdu: vier vilium giar
nañ giefa (þier þær/) og þeir breiddu
eitt klæde wt / og hvør kaſtade þar a
ſpaung af ſijnu herfange.
26 Og þær gull-ſpeingur/ſem hañ
beiddeſt / voru epter vigt / þuſund og
ſio hundrud gyllene/ þ utañ þær ſpeing
ur / og þær kediur / og þau ſkarlats-
klæde/ ſem þeir Midianiſka kongar bꝛ
ru/ og fyrer utañ þær kediur/ſem voru
a þeirra ulfallda haalſum.
27 Og Gedeon giørde þad til * ei-
ns lijf-kirtels/og heingde hañ i ſiñ ſtada

i Ophra / og allur Jsrael drygde hoor
þar / epter þad / og þad vard Gedeon og
hañs hwse ** til eirnrar snoru.
* C. 17/ 5. ** 2. Mos. 23/ 33.
28 So urdu Midianitarner audmiukt
er fyrer Jsraels bornum / og þeir upp-
liptu ecke framar þeirra høfde/og land-
ed var kyrrt* fiorutíu ár/ so leinge Ge-
deon lifde. * c. 5/ 31.
29 Og JerubBaal/ Joads son giecł
burt og bioo i sijnu hwse.
30 Og Gedeon ætte * siøtíger so-
nu/ sem komner voru af hañs lend/ þvi
hañ ætte margar hustrur.
* 2. Kong. 10/ 1.
31 Og hañs hiaa-kona / sem var i
Sichem / hun fædde hønum og svo eirn
son/ og hañ gaf hønum nafn * Abime-
lech. * c. 9/ 1.
32 Og Gedeon Joas son deyde i eirn
re goodre elle/ og var grafeñ i sijns fød-
urs Joas grøf i Ophra / sem heyrde
þeirra * Esriita fødur til. * c. 6/ 11.
33 Og þad skiede/ þegar Gedeon var
daudur / þa sneru Jsraels børn sier/
og drygdu hoor epter Baalim/ og giørdu
sier * BaalBerith til eins guds.
* C. 9/ 4.
34 Og Jsraels børn miñtust ecke
Drottens þeirra Guds/ sem hafde frel-
sad þa af allra þeirra fiandmaña hende
allt um kriñg.
35 Og þeir giørdu ecke myskunsemd
vid JerubBaals / þad er Gedeons hws/
epter allt þad gooda sem hañ hafde giø-
rt vid Jsrael.

IX. Capitule.

Abimelech giørde illa og boorst.

Og * Abimelech JerubBaals son
foor til Sichem / til siña mood-
ur brædra/ og talade til þeirra/
og til allrar siñar moodur fød-
urs hwss ættar / og sagde: * c. 8/ 31.
2 Kiæru/ taled fyrer allra borgaraña
eyrum i Sichem : hvort ( helldur mun
þad vera) ydur betra/ad siøtíu meñ/ øll
JerubBaals børn / drottne yfer ydur /
ellegar ad eirn madur drottne yfer ydur ?
miñest og ad eg er ydar bein og ydar hold.
3 Þa toludu hañs moodur brædur /
øll þesse ord um hañ fyrer allra borgar-
aña eyrum i Sichem / og þeirra hiarta
drooſt til Abimelech/ þvi þeir søgdu: hañ
er vor brooder.
4 Og þeir gáfu hønum siøtíger silf
ur peninga af BaalBeriths hwse / og
Abimelech leigde þar med lausingia og
umhleipings meñ/og þeir fylgdu hønum
5 Og hañ kom i sijns fødurs hws /
i Ophra / og i hel sloo sijna brædur /
JerubBaals syne/ * siøtíu meñ a ein-
um steine/Eñ Jotham JerubBaals sa
litle son / var epter / þvi hañ var fal-
eñ. * 2. Kong. 10. 7/ 14.
6 Og aller borgarar af Sichem/og
þad giørvalla Millo hws/ søfnudust/og
geingu burt / og giørdu Abimelech ad
konge/hia Eyre eyk/sem stendur i Sichem.
7 Og þeir gáfu Jotham þad til vit
undar/ og hañ giecł burt / og stie hædst
uppa þad fiall Grisim / og upplipte siñe
raust/ og hrospade / og sagde til þeirra :
heyred mier / þier borgarar i Sichem /
Gud skal og heyra ydur.
8 Trien geingu hastarlega burt til ad
smyria eirn kong yfer sig/ og þau søgdu
til oliu-triesins : vertu kongur yfer oss.
9 Og oliu-tried sagde til þeirra: skal
eg yfergiefa miñ feitleik / fyrer hvørn
madur heidrar gude og mañeskiur i mier/
og ganga burt/ ad sveima yfer triænum?
10 Þa søgdu trien til fykiu-triesens :
kom þu/stioorna yfer oss.
11 Eñ fikiu-tried sagde til þeirra :
skal eg yfergiefa miñ sætleika / og miñ
þañ gooda ávøxt/og ganga burt/ ad svei-
ma yfer triænum?
12 Þa søgdu trien til viin-vidarens :
kom þu / vertu konungur yfer oss.
13 Og viin-vidureñ sagde til þeirra :
skal eg yfergiefa mijna must/ sem gled-
ur gude og mañeskiur/og ganga burt /
ad sveima yfer triænum?
14 Þa søgdu øll trien til þyrne-
buskesens : kom þu / stioorna yfer oss.
15 Og þyrne-buskureñ sagde til tri-
æña: sie þad vijst/ ad þier vilied smyr
ia

ia mig til kongs yfer ydur/ þa komed /
leited ydur trauſts under mijnum ſku-
gga / og vilie þier ecke/ þa kome elldur
af þyrne-Buſkenum / og forkære þeim
Cedrus-triæm af Libanon.
16 Og hafed þier nu giørt riett z
froomlega/ og giørt Abimelech ad kon
ge / og hafed þier giørt vel vid Jerub-
Baal/ og vid hans hws/og hafed þier
giørt vid han ſem han hefur forþient.
17 Ad minn fader hefur hææd ſtrijd
fyrer ydar ſkulld / og ſett * ſig i lijfs-
hættu/og frelſad ydur af þeirra Midi
anita hende. * c. 5/ 18. c. 12/3.
18 Og þier hafed ſtaded upp i moo
te mijns fødurs hwſe i dag / og i hel
ſleiged hans ſyne/ ſiøtijger men a ein-
um ſteine / og giørt Abimelech hans
ambættar ſon ad konge yfer borgarana
i Sichem/af þvi han er ydar brooder.
19 Og hafed þier høndlad riett og
froomlega vid JerubBaal/ og vid ha-
ns hws a þeſſum deige/þa vered glad-
er yfer Abimelech / og han gledie ſig /
han og ſo yfer ydur:
20 Og hafed þier ecke / þa wtkome
elldur af Abimelech/og forkære borgur-
unum i Sichem og Millo hwſe / þar
wtkome og elldur af borgurunum i Si
chem og af Millo hwſe / og forkære
Abimelech.
21 Og Jotham flijde og veik burt /
og gieck til Beer/ og bioo þar fra ſijn-
um broodur Abimelech.
22 Og Abimelech ſtioornade þriu ær
yfer Jſrael.
23 Og Gud ſende eirn illan-vilia
i millum Abimelech og i millum borg
arana i Sichem/þvi borgararner i Si-
chem ſettu ſig upp i moot Abimelech.
24 Ad ſa oriettur/(ſem han hafde
brwkad) i moot þeim ſiøtijger Jerub-
Baals ſonum/ſkyllde koma/ og þeirra
*blood legdeſt a Abimelech þeirra brood
ur/ſem hafde i hel ſleiged þa/og a borg
arana i Sichem/ſem høfdu ſtyrkt ha-
ns hønd/ad hn i hel ſloo ſijna brædur.
* Matth. 23/ 35. C. 27/ 25.
25 Og þeir borgarar i Sichem lietu
ſetia eitt * launſætur epſt a þiallenu/ ſem
rændu hvørn þar ferdadeſt a veigenum
hia þeim. Og þad vard Abimelech til
vitundar gieped. * Joſ. 8 / 2. etc.
26 En Gaal Ebeds ſon kom/og ha
ns brædur/ og þeir geingu yfer til Sich-
em / og þeir men i Sichem treiddu ſig
uppa han.
27 Og geingu wt a morkena /
og yrktu þeirra vijn-garda / og preſſ-
udu / og giørdu ſig liſtuga / og komu
i þeirra guda hws/ og ætu og drucku/ og
bolvudu Abimelech.
28 Og Gaal Ebeds ſon ſagde: hvør
er Abimelech? og hvad er Sichem/ ad
vier ſkylldum þioona honum? er han ecke
JerubBaals ſon / og Sebul hans bijfal
ings madur? þiooned * Hemors Sich-
ems fødurs foolke/ Og hvi ſkylldum vær
þiona honum? * 1. Moſ. 34/ 2.
29 Og eg vilde þetta foolk være und-
er minne hende/ þa villde eg afſetia Abime-
lech / og han ſagde til Abimelech: auk
þinn her og drag wt.
30 Þegar Sebul/ſa ypparſte i ſtadn-
um heyrde Gaals Ebeds ſonar ord / þa
upptendradeſt hans reide.
31 Og ſende bod til Abimelech med
ſvikum/ og liet ſegia: ſiaa/ Gaal Ebeds
ſon og hans brædur/eru komner i Sich-
em/ og ſia / þeir med ſtadnum / hønd-
la haturlega i giegn þier.
32 So ſtilltu þig nu um nooktena /
þu og foolked / ſem er hia þier / og giør
eitt launſætur i morkene.
33 Og þad ſkal ſkie ad morgne / nær
ſoolen geingur upp / þa giør þig ætla
reidubwen og yferfall ſtaden / og ſia /
han og þad foolk / ſem er hia honum ſ
draga wt til þijn / og þu mætt giora vid
han/ ſo ſem þijn hønd finnur uppa.
34 Og Abimelech ſtood upp um nootk
ena/ og allt þad foolk/ ſem var hia hon-
um/ og þeir ſætu um Sichem med fioor-
um flockum.
35 Og Gaal Ebeds ſon droo wt/ og
ſtood fyrer dyrunum a ſtadar portenu. En
Abimelech

Abimelech stood upp / og þad foolk/ sem
var med honum/ aß launsatrenu.
36 Þegar Gaal sa foolked / sagde
hañ til Sebul: sia / þar kiemur eitt foolk
oßst nidur aß fiollunum / Þa sagde Se-
bul til hañs: þu alijtur skuggañ aß fioll
unum sem foolk.
37 Og Gaal talade eñ framar / og
sagde: sia / þar kiemur foolk oßañ mitt
aß landenu/ og eirn flockur kiemur a veig
enum til Ꜳßtanaßañ eykar.
38 Þa sagde Sebul til hañs: hvar
er nu þiñ muñur/ * þu sem sagder: hver
er Abimelech/ ad vier skulum þioona hon
um? er ecke þetta þad foolk / þad sem
þu forakttader? kiære / reistu nu wt / og
berst i moote þvi. * 1. Sam. 11/ 12.
39 Og Gaal droo wt fyrer borgarana
i Sichem / og bardest i moot Abimelech.
40 Eñ Abimelech ellte hañ / so ad
hañ flijde fyrer honum / og þar fiellu
marger slegner allt til portsens dyra.
41 Og Abimelech var i Aruma.
Eñ Sebul wtrak Gaal og hañs bræd-
ur/so ad þeir mattu ecke vera i Sichem.
42 Og þad skiedea/ø drum deige gieck
foolked wt a mørkena / og gæfu Abime-
lech þad til vitundar.
43 Þa tock hañ foolked/og skipte þvi
i þria hoopa/ og giørde eitt * launsat-
ur i mørkeñe/ og sa/ og sia/foolked wt-
gieck aß stadnum / og hañ uppreiste sig i
moot þeim/ og sloo þa. * c. 20/ 29.
44 Og Abimelech og þeir flockar /
sem voru hia honum / yßerfiellu þa/og
stigu iñ fyrer stadar portsens dyr / og
tveir flockar yßerfiellu alla þa/sem voru
a mørkeñe/ og sloou þa.
45 Þa strydde Abimelech i moot stad
num/ þañ sama giørvallañ dag/ og iñ-
took stadeñ / og i hel sloo foolked / sem
þar var i / og nidurbraut stadeñ/ og sade
hañ med sallte.
46 Þegar aller borgararner i þeim
turne i Sichem heyrdu þad / geingu þeir
iñ i festinguna BethElBerith.
47 Og þad kuñgiørdest Abimelech /
ad aller borgarar aß turnenum i Sichem
heßdu samañ saßnad sier.
48 Þa gieck Abimelech upp a þad
fiall Zalmon / hañ og allt foolked/ sem
var hia honum / og Abimelech took exe i
sÿna hond / og hioo eina grein aß triam-
um/ og lypte heñe upp / og lagde hana a
sÿna oxl/ og sagde til foolksens sem var
med honum: * hvad þier sæud eg giørde/
flijted ydur/ giøred so sem eg. * c. 7/ 17.
49 Þa hioo og so allt foolked hver
sÿna grein / og geingu epter Abimelech/
og løgdu þær upp til festingareñar/ og
settu elld a festinguna med þeim / ad og
so aller meñ aß þeim turne i Sichem dey
du/ hier um̃ þusund meñ og kviñur.
50 So foor Abimelech til Thebez /
og settest um̃ Thebez og iñtook hana.
51 Og þar var eirn fastur turn midt
i stadnum/uppa hvern aller meñ og kviñ-
ur / z aller borgarar i stadnum flæddu/ og
lokudu epter sier / og stigu uppa þaked
a turnenum.
52 Þa kom Abimelech til turnsens /
og stridde þar a / og gaß sig til dyrañа
a turnenum/ad hañ villde uppbreña hañ
med ellde.
53 Eñ ein kviña kastade * einu brote
aß einum milnusteine a Abimelechs hoß
ud / og molade hañs hoßud-skiel.
* 2. Sam. 11/ 21.
54 Þa hrcopade hañ hastarlega til
þess sveins/ sem bar hañs vopn/og sag-
de til hañs: drag þitt sverd wt / og sla
mig i hel / ad þeir skule ecke segia um̃
mig: ein kviña sloo hañ i hel / og hañs
sveirn stack hañ i giegn/og hañ deyde.
55 Þegar Israeliterner sau/ ad Abi
melech var daudur / þa gieck hver til
sÿns stadar.
56 So * bitalade Gud Abimelech
þad vonda / sem hañ hafde giørt i moot
sÿnum fødur / þegar hañ i hel sloo sÿna
siotÿu brædur. * c. 1/ 7. Jer. 50/ 29.
57 Og allt þad vonda sem Sichems
meñ (heßdu giørt/)ltet Gud aptur koma
a þeirra hoßud/ og * Jothams Jerub-
Baals sonar bølvan kom yßer þa.
C. 9/ 20.

X. Capitule.

Israels

Israels Doomarar Thola og Jair. Israels Børn plaagast vegna þeirra Afgudadyrkunar af Philisteunum.

Og epter Abimelech uppkom
Thola / Pua son Dodo son-
ar/eirn madur af Isaschar/
ad frelsa Israel/og hañ bioo i
Samir/ a Ephraims fialle.
2 Og dæmde Israel þriu og tutt-
ugu aar/⁊ deyde/⁊ var grafeñ i Samir.
3 Og epter hañ uppstood * Jair
sa Gileadite / og dæmde Israel tvø og
tuttugu aar. *4. Mos.32/41.
4 Og hañ aatte þriaatiju sonu/ sem
ridu a þriatiju * (asna-) folum / og
aatte þriaatiju stade / þa kølludu þeir
Jairs þorp/ allt til þessa dags / sem
(liggia) i Gileads lande. * c. 12/ 14.
5 Og Jair deyde og var grafeñ i
Kamon.
6 Og Israels børn hielldu * fram
ad giøra illt fyrer Drottens augsyn /
og þioonudu ** Baalim og Astha-
roth/og þeim gudum i Syria/og þeim
gudum i Zidon/ og Moabs gudum/ og
Ammons barna gudum/og Philesteaña
gudum/og yfergaafu Drotteñ/og þioo
nudu hønum ecke. * c. 3/ 12. c .4/ 1.
** C. 2/ 13.
7 Þa * uppkendradest Drottens
reide yfer Israel / og hañ sellde þa i
þeirra Philestea hond / og Ammons
barna hønd. *c.2/14. c.3 /8.
8 Og þeir plaagudu og þvingudu
Israels børn a þvi sama aare / aatiaan
aar (plaagudu þeir) øll Israels børn /
sem voru hinumegeñ Jordanar i A-
moritaña lande sem er i Gilead.
9 Og Ammons børn fooru yfer um
Jordan/ ad striida og so i moote Juda/
og i moot BenJamin/ og a moote E-
phraims huse/so ad Israel var þvng
lega þreingdur.
10 Þa * hroopudu Israels børn til
Drottens/og søgdu: vier høfum synd
gad i moote þier/af þvi ad vier høfum
yfergiefed vorn Gud/og þioonad Baa-
lim. * c.3.9/15.c.4/3.
11 Og Drotteñ sagde til Israels bar-
na: hiaalpdu ecke (nockrer) ad Egyptisk-
um/ og ad þeim Amoritum ad Ammons
børnum/ og ad Philisteum/
12 Og Zidonium/og Amalech og Ma
on underþryckt ydur? og þier hroopudud
til miin/⁊ eg frelsade ydur af þeirra hende.
13 Og * þier yfergaafud mig / og
þioonudud ødrum gudum/þar fyrer vil eg ecke
framar frelsa ydur. * 5. Mos. 32/ 16.
14 Ganged burt/og hrooped til þeirra
guda / sem þier hafed utvaled / þeir *
meiga frelsa ydur i ydar þreingingar tiid.
* 5. Mos. 32. 37/38. Jer. 2/ 28.
15 Þa søgdu Israels børn til Drott-
ens : vier høfum syndgad / giør þu vid
oss alldunges / epter þvi sem þad þier er
þocknanlegt/ frelsa oss ad eins nu a þess-
are tiid.
16 Og þeir * køstudu þeim framan-
de gudum burt fra sier/og þioonudu Dro
ttne/og hañ aumkadest vid/ad Israel var
(so) plaagadur. * 1. Mos. 35/ 2.
17 Og Ammons børn urdu samañ-
kølllud/ og settu sijnar herbuder i Gilead/
eñ Israels børn søfnudust/ og settu sijn-
ar herbuder i Mizpa.
18 Og foolked/þeir yppurstu i Gilead
søgdu/sa eine til hins añars: hvor hellst
madur sem byriar ad striida i moot Am-
mons børnum/ skal vera * høfud yfer
øllum þeim / sem bua i Gilead.
* C. 11. 6/ 8/ 9.

## XI. Capitule.

### Sa Doomare Jephthah.

Og Jephthah sa Gileadite var
ein striids-hetia / og hañ var
eirnrar hoorkonu son/ og Gile-
ad hafde aulad Jephthah.
2 Og Gileads husfru fædde hønum
børn/og þeirrar kviñu børn urdu stoor /
og þau utrraku Jephthah / og søgdu til
hañs: þu * skallt ecke erfa i vors fød-
urs huse/ þvi þu ert eirnrar añarar kvi-
ñu son. * 1. Mos. 21/ 10.
3 Þa flyde Jephthah fra sijnum
brædrum / og bioo i þvi lande Tob / og
þar

þar safnade sier til Jephthah lauſt foo-
lk/ og droou vt med honum.
4 Og pad ſkiede nockrum tijma þar
epter / þa ſtrijddu Ammons børn i moote
Jſrael.
5 Og pad ſkiede / þa Ammons børn
ſtrijddu i moote Jſrael/þa geingu þeir ell
ſtu af Gilead burt/ad ſækia Jephthah/
af þvi lande Tob.
6 Og ſøgdu til Jephthah: kom/ og
þu ſkallt vera vor høfudsmadur/ og vier
viljum ſtrijda i moot Ammons børnum.
7 Og Jephthah ſagde til þeirra ell-
ſtu af Gilead: erud þier þeir/ ſem * hat-
udud mig/ og hafed vtreked mig af mij-
ns fødurs hwſe / og hvi kome þier nu til
mijn af þvi þier hafed þreinging ?
* 1. Moſ. 26/ 27.
8 Og þeir ellſtu af Gilead ſøgdu til
Jephthah: þar fyrer ſnwum vier nu til
þijn aptur/ad þu ſkuler fara med oſſ / og
ſtrijda i moot Ammnos børnum/ og vera
vort * høfud/ jœ allra þeirra/ ſem bwa
i Gilead. * C. 10/ 18.
9 Og Jephthah ſagde til þeirra ell-
ſtu af Gilead : þar ſem þier ſooktud mig
aptur / ad ſtrijda i moot Ammons børn-
um / og Drotteñ gefur þau under mig /
ſkal eg / eg (þa) vera ydar høfud?
10 Þeir ellſtu af Gilead ſøgdu til
Jephthah: Drotteñ ſie tilheyrare i mill
um vor/ef vier ecke ſkulum giøra ſo ſem
þu hefur ſagt.
11 So gieck Jephthah med þeim ell-
ſtu af Gilead/ og foolked ſette hañ yfer
ſig til eins høfuds/og til eins høfdingia/
Og Jephthah talade øll ſijn ord fyrer
Drotteñs augſyn i Mizpa.
12 Þa ſende Jephthah bod til Am̃ons
barna konungs/ z liet ſeigia: * hvad he-
fe eg med þig (ad giøra / ) ad þu kiem-
ur til mijn/ad ſtrijda i moot mijnu lande?
* 2. Sam. 16/ 10. C. 19/ 22.
13 Ammons barna kongur ſvarade
Jephthahs bodum: af þvi Jſrael hefur
teked mitt land / þa hañ uppfoor af Æ-
gyptalande fra * Arnon/og allt til Ja-
bok/ og allt til Jordanar/ ſo gef (mier)
þau nu aptur med fride. * 4. Moſ. 21/24
14 Eñ Jephthah ſende eñ framar
bod til Ammons barna konungs.
15 Og ſagde til hañs : ſo ſeiger Je-
phthah : Jſrael hefur ecke teked Moabs
land/ edur Ammons barna land.
16 Þvi þegar þeir fooru upp af Æ-
gyptalande / þa ferdadeſt Jſrael i eydeæ
mørkeñe allt til þeſſ rauda hafs/og kom
til Kades.
17 Og Jſrael ſende * bod til Edo-
mitaña kongs / og ſagde : kiære / lꝏt
mig fara i giegnum þitt land/ eñ Edo-
mitaña kongur ( villde ) ecke heyra
(þad/) Hañ ſende og ſo til Moabi-
taña kongs/ hañ villde og ecke/ ſo var
Jſrael i Kades. * 4. Moſ. 20/14. etc.
18 Þar epter ferdadeſt hañ i eyde-
mørkeñe / og foor um̃ kring Edomi-
taña land og Moabitaña land z kom
fra ſoolareñar uppgange til Moabi-
taña lands/ z þeir ſettu ſijnar herbwd
er yfer fra Arnon/og komu ecke i Moa
bitaña landamerke/þvi Arnon er Moa
bitaña landamerke.
19 Og Jſrael * ſende bod til Si-
hon Emoritaña kongs/kongſens i Hes
bon/ og Jſrael liet hønum ſeigia: kiæ-
re / lꝏt oſſ fara i giegnum þitt land /
allt til mijns ſtadar. * 4. Moſ. 21/21.
5. Moſ. 2/ 26.
20 Eñ Sihon trwde Jſrael ecke ad
fara i giegnum hañs landamerke / eñ
Sihon ſafnade øllu ſijnu foolke/og þe
ir ſettu ſijnar herbwder i Jahzah / og
hañ ſtrijdde i moote Jſrael.
21 Þa gaf Drotteñ Jſraels Gud
Sihon og allt hañs foolk i Jſraels hø
nd/ og þeir ſloou þa/ So iñtook Jſra-
el til eigeñdooms allt Emoritaña la-
nd/ſem biuggu i þvi ſama lande.
22 Og þeir iñtooku øll Emori-
taña landamerke til eigendooms/ fra
Arnon / og allt til Jabok/ og fra eyde-
mørkeñe/ og allt til Jordanar.
23 So hefur nu Drotteñ / Jſraels
Gud/ burtreked Emoritañ fyrer ſijnu
foolke Jſrael / og þu/ þu villt eignaſt
hañ?

24 Eskylldir þu ecke eiga þad/ sem
þinn gud * Camos hefur læted þier til
eigendooms / og allt þad / sem Drott-
enn vor Gud hefur læted til eigendooms
fyrer oss / þad vilium vier eiga.
* 4. Mos. 21/29. 1. Kong. 11/7.
2. Kong. 23/13.
25 Og nu / kiære goode / ertu betre
enn * Balak Ziphors son/ Moabitanna
kongur ? hefur hann nockurn tijma ætt
þrætu vid Israel / eda fært strijd nock-
urn tijma a moote þeim ?
* 4. Mos. 22/2.
26 Jafnvel þo ad Israel hafe (nu)
bwed i Hesbon / og hennar tilheyrande
(stødum/) og i Aroer og i hennar tilheyr
ande (stødum/) og i øllum stødunum/
sem liggia hia Arnons eignum þriu
hundrud ar / Og hvi frelsudud þier ecke
(þa) a þeim sama tijma ?
27 Og eg / eg hefe eckert syndgad i
moote þier / og þu giører illa vid mig/
ad þu stryder i moote mier: Drottenn
mun dæma/ hann er sem eirn Doomare
i dag i millum Israels barna og i mill
um Ammons barna.
28 Enn Ammons barna kongur heyr
de ecke Jephthahs ordum/ s hann sende
til hanns.
29 Þa kom * Drottens Ande yf-
er Jephthah/ og hann reiste i giegnum
Gilead og Manasse / og reiste i giegn-
um Mizpe / sem liggur i Gilead / og
reiste fra Mizpe / sem liggur i Gile
ad/ i moote Ammons børnum.
* C. 6/34.
30 Og Jephthah hiet Drottne ei-
nu heite/ og sagde: giefer þu Ammons
børn vissulega i mijna hønd/
31 Þa skal þad skie / ad hvad sem
geingur wt af dyrunum a mijnu hwse
mier i moote / nær eg kiem aptur med
fride fra Ammons børnum / þad skal
heyra Drottne til/ og eg vil offra þvi
til eins brenne-offurs.
32 So droo Jephthah framm moo-
te Ammons børnum/ z strijdde i moote
þeim/ og Drottenn gaf þa i hanns hønd.
33 Og hann sloo þa fra Aroer / og
allt til þess madur kiemur til Minnith
tuttugu stade / og allt til vijn-fiallanna
vallar / med einu harla stooru slage /
So urdu Ammons børn audmiukt fyr-
er Israels børnum.
34 Og Jephthah kom til Mizpa/
til sijns hwss / og sia / hanns dootter
gieck wt i moote hønum med trumbum
og med danse/ og hun var su einka/ hann
ætte (annars) af sier hvørke son edur
doottur.
35 Og þad skiede/ þegar hann sa ha
na/ þa reif hann sijn klæde/ og sagde: æ
mijn dootter/ þu hefur miøg nidurbeigt
mig / og þu ert af þeim sem hryggia
mig / þvi eg / eg uppliet minn munn til
Drottens/ * og kann ecke kalla þad apt
ur. * 3. Mos. 27/29.
36 Og hun sagde til hanns: minn fad
er/ hafer þu upplæted þinn munn fyrer
Drottne/ þa giør mier/ so sem þad er
wtgeinged af þijnum munne / med þvi
Drottenn hefur hefndt þijn a þijnum
fiandmønnum/ a Ammons børnum.
37 Og hun sagde til sijns fødurs:
þesse hlutur verde mier (til vilia/) læt
bijda umm mig tvo mænude/ ad eg meige
ganga og fara ofann uppa fiøllenn / og
græta yfer mijnum joomfrwdoome/ eg
og þær sem eru vanar med mier.
38 Og hann sagde: gack burt / og
hann liet hana fara tvo mænude / þa
gieck hun burt / hun og þær/ sem voru
vanar med henne / og griet yfer sijnum
joomfrwdoome a fiøllunum.
39 Og þad skiede/ þegar tveir mænn
uder voru wte/ kom hun aptur til sijns
fødurs/ og hann giørde vid hana epter
sijnu heite / sem hann hafde heited / og
hun kiende ecke mann / Og þad vard ein
venia i Israel:
40 Israels dætur skylldu fara ár-
lega/ til ad ræda vegna Jephthahs þess
Gileadita doottr/ fioora daga umm ared.

## XII. Capitule.

Ephraim verdur sleigenn. Israels
Doomarar Ibzan/ Elon og Abdon.

Og hvor madur af * Ephraim var samankalladur / og gieck fram moot nordre / og þeir sögdu til Jephthah : hvi hefur þu fared fram ad strijda i moote Ammons börnum / og ecke kallad oss ad fara med þier ? vier viljum brena þitt hws yfer þier med ellde.
* C. 8/ 1.
2 Og Jephthah sagde til þeirra : eg og mitt foolk/ ætte eina stoora þræ ku vid Ammons börn/ og eg kallade yd ur / en þier frelstud mig ecke af þeirra hende.
3 Þegar eg sæ / ad þu ecke villder hiælpa/ þa * vogade eg mijnu lijfe/og droo fram i moote Ammons börnum / og Drottenn gaf þau i mijna hönd/Og hvi komed þier upp til mijn a þessum deige/ ad strijda i moote mier?
* C. 5/ 18. C. 9/ 17.
4 Og Jephthah safnade öllum mönnum i Gilead / og strijdde i moote Ephraim/ og þeir menn i Gilead slogu Ephraim / af þvi þeir Gileaditar / sem biuggu i millum Ephraim og i millum Manasse / höfdu sagt: þier erud þeir flootkamenn af Ephraim.
5 Og Gileaditarner inntooku Jordan ar vöd fyrer Ephraim/ og þad skiede/ nær þeir flootkamenn af Ephraim sög du: eg vil fara yfer umm/þa sögdu þe ir menn af Gilead til hanns : ertu eirn Ephraite ? og hann sagde: ney.
6 Þa sögdu þeir til hanns: (so) seig/ kiære/Schiboleth/og hann sagde: Siboo leth / og kunne ecke wttala þad rett / so gripu þeir hann / og slogu hann i hel hia Jordanar vödum / og þar fiellu a þeim sama tijma af Ephraim tvær og fiöru tijger þusunder.
7 Og Jephthah dæmde Israel sex ær/ z Jephthah sa Gileadite deyde/ z var grafenn i(einu af)þeim stödum i Gilead.
8 Og epter hann dæmde Ibzan af Bethlehem Israel.
9 Og hann ætte þriatijgu syne/og þria tijgu dætur gaf hann wt / og took þriatijgu dætur til sinna sona utann ad / Og dæmde Israel sio ær.
10 Og Ibzan deyde / og var grafenn i Bethlehem.
11 Og epter hann dæmde Elon sa Sebu lonite/ Israel/Og dæmde Israel tiju ær.
12 Og Elon sa Sebulonite deyde/ og var grafenn i Ajalon i Sebulons lande.
13 Og epter hann dæmde Abdon Hil lels son/sa Pireathonite / Israel.
14 Og hann ætte fiörutiju * syne / og þriatiju sona syne / sem ridu a siötijger(asna)folum/ Og dæmde Isra el ætta ær. * C. 10/ 4.
15 Og Abdon Hillels son/sa Pireatho nite deyde/ og var grafenn i Pireathon i Ephraims lande/a Amalekitanna fialle.

## XIII. Capitule.

Samsons Gietnadur og Fæding.

Og Israels born * hielldu fram ad giora illt fyrer Drottens augum / og Drottenn gaf þa i Philisteanna hönd fiörutiju ær. * C. 3/ 12. C. 8/ 33. C. 10/ 6.
2 Og þar var eirn madur af Zora / af þeirra Danita ætt/ og hanns nafn var Manoah / og hanns hustru var ofriooft som/ og fædde ecke.
3 Og Drottens Eingell openberadest fyrer kvinnunne / og sagde til hennar : siá / kiæra/ þu ert ofriooftsom: og fæder ecke/ enn þu skallt verda friooftsom / og fæda eirn son.
4 So/kiæra/vara þig nu/ad þu ecke drecker * vijn/ ei helldur sterkann ( dryck/) og ad þu ecke * * eter nockud ohreint.
* 4. Mos. 6/ 3. * * 3. Mos. 11/43/ etc.
5 Þvi siá / þu skallt verda * friooft som / og fæda eirn son / a hvors höfud skal ecke uppkoma * * rak=knijfur/ þvi barned skal vera Guds Nazaræus af (moodur)lijfe/og hann skal byria ad frel sa Israel af Philisteanna hende.
* 1. Mos. 16/ 11. * * 4. Mos. 6/ 5. 1. Sam. 1/ 11.
6 Þa kom kvinnan / og sagde sijnum manne / seigiande : þar kom eirn Guds madur til mijn / og hanns ásijnd var til ad siá/sem eins Guds eingels/mioog hræde leg/

leg / og eg ſpurde han̄ ecke/hvadan̄ han̄ (kom/) og han̄ kun̄giørde mier ecke ſitt nafn.

7 Eñ han̄ ſagde til myn: ſiaa / þu ert frioofſom / og ſkallt fæda eirn ſon / ſo ſkallt þu nu ecke drecka vyn/edur ſterkan̄ (dryck/) og ecke eta nockud ohreint / þvi barned ſkal vera Guds Nazaræus af(moodur)lyfe/in̄ til ſyns dauda dags.

8 Þa bad Manoah til Drottens / og ſagde: æ Drotten̄ / kiære / læt þan̄ Guds man̄ koma eñ nu til ockar/ſem þu wſendir / ad han̄ kuñe kieña ockur hvad vid ſkulum giøra vid barned / ſem ſkal fædaſt.

9 Og Gud heyrde Manoahs rauſt / z Guds Eingell kom aftur til kvin̄un̄ar/ og hun ſat a mørkeñe / eñ heñar madur Manoah var ecke hia heñe.

10 Þa flytte ſier kvin̄an̄/z hlioop/og gaf ſynum mañe þad til vitundar/og ſagde til hans: ſiaa/ ſaa madur openberadeſt fyrer mier/ er kom til myn hiñ dageñ.

11 Þa ſtood Manoah upp / og gieck epter ſiñe huſtru/ og kom til mañſens/og ſagde til hans: ertu ſa madur / ſem talader vid kviñuna? z hū ſagde: (eg er ſa.)

12 Og Manoah ſagde: nær þad kiemur nu/ ſem þu hefur ſagt/hvad a barnſens vyſa og hans verk ad vera?

13 Og Drottens Eingell ſagde til Manoah: fyrer øllu þvi/ ſ eg hefe ſagt til kvin̄un̄ar/ ſkal hun taka ſier vara.

14 Hun ſkal ecke eta af nockru ſem kiemur * af vynſens vynvid / og ecke drecka vyn/edur ſterkan̄(dryck/) og eckert ohreint eta/ allt þad / ſem eg hefe boded heñe/ ſkal hun hallda. * 4. Moſ. 6/3.

15 Og Manoah ſagde til Drottens Eingels: kiære/ * læt oſſ behallda þier/z vier villium tilreida fyrer þig eitt hafur-kid. * c. 6/ 18.

16 Eñ Drottens Eingell ſagde til Manoah: þo ad þu (eñ) hiellder mier/ æte eg (þo) ecke af þynum mat / eñ ef þu villt giøra breñe-offur/þa mattu offra Drottne þvi/Þvi Manoah viſſe ecke/ ad þad var Drottens Eingell.

17 Og Manoah ſagde til Drottens Eingels: * hvad er þitt nafn/ad vid kun̄um pryſa þig nær þad ſkiedur / ſem þu hefur ſagt. * 1. Moſ. 32/ 29.

18 Og Drottens Eingell ſagde til hans: hvi ſpyr þu um̄ mitt nafn? þvi þad er * undarlegt. * Eſa. 9/ 6.

19 Þa took Manoah eitt hafur-kid / og mat-offred / og offrade þvi fyrer Drottne a klettenum/og han̄ giørde þad undarlega / Eñ Manoah og hans huſtru ſaau til.

20 Og þad ſkiede / þegar logeñ foor upp af altarenu til Himinſens / þa for Drottens Eingell upp i logan̄ū af altarenu. þegar Manoah og hans huſtru ſaau þad / þa fiellu þau a þeirra aſioonu til Jardar.

21 Og Drottens Eingell openberadeſt ecke meir fyrer Manoah / og ꝑ hans huſtru/ Þa underſtood Manoah/ad þad var Drottens Eingell.

22 Og Manoah ſagde til ſiñar huſtrur: vid * deyium viſſulega/ þvi vid ſaaum Gud. * c. 6. 22/23. 2. Moſ. 19/21.

23 Eñ hans huſtru ſvarade honum: hefde Drotten̄ haft liſt til ad i hel ſlaa ockur / þa hefde han̄ ecke teked breñe-offred og mat-offred af ockar hende / ei helldur ſynt ockur allt þetta/og ei a þeſſū tyma læted ockur heyra (ſoddan̄) hlute.

24 Og kvin̄an̄ fædde eirn ſon/og kallade hans nafn Samſon/og ſveineñ vox/ og Drotten̄ bleſſade han̄.

25 Og * Drottens Ande hoof ad fram̄knya han̄ i Dans herbudum i millum Zora og i millum Eſthaol.

* Matth. 4/ 1. Luc. 4. 1.

## XIV. Capitule.

### Samſons Hreiſte og Raadgaata.

Og Samſon gieck ofan til Thimnat/og ſaa eina kvin̄u i Thimnata/af Philiſteaña dætrum.

2 Og þegar han̄ kom upp/ gaf han̄ ſynum fødur og ſiñe moodur til vitundar/ og ſagde: eg hefe ſied eina kviñu i Thimnata af Philiſteaña dætrum/ ſo * taked mier nu þa ſømu til huſtrur.

* 1. Moſ. 34/ 4.

## IV. Capitule.

Boas fær Ruth til Eigeñ Kviñu / og blessast med einum Syne.

Og Boas gieck upp til port-
sens/ og sat þar/ og siaa/ þeg-
ar lausnar-madureñ gieck
fram um̃ / kalade Boas til
hañs/ og sagde: kom hijngad / set þig
hier/ lands madur/ og hañ kom þang-
ad/ og sette sig.
2 Og hañ took tiju meñ af þeim
ellstu i stadnum/ og sagde: setied ydur
hier / og þeir settu sig.
3 Þa sagde hañ til lausnar-mañ-
sens: þañ hluta merkureñar/ sem heyr
de vorum broodur EliMelech til / hef-
ur Naomi boded falañ/ sem er aptur-
komeñ af Moabitaña lande.
4 Og eg / eg sagde: eg vil lata þig
vita þad / seigiande: kaup hañ fyrer
borgurunum / og fyrer þeim ellstu af
mijnu foolke/ ef þu villt leysa hañ/ leys
hañ/ Eñ vilier þu ecke leysa hañ/ þa
gief mier þad til vitundar / ad eg kuñe
vita þad / þvi þar er eingeñ utañ þu
til ad leysa hañ / og eg epter þig / og
hañ sagde: eg/ eg vil leysa hañ.
5 Og Boas sagde: a hvørium dei-
ge þu kauper þad land af Naomi hen-
de/ þa skalltu og taka þa Moabitisku
Ruth þess dauda hustru/ ad uppvekia
* þess dauda nafn a hañs arfe.
* 5. Mos. 25. 5. 6.
6 Þa sagde lausnar-madureñ: eg
kañ ecke leysa þad til mijn / ad eg ecke
skule fordiarfa miñ arf / leys þu til
þijn þad eg skyllde leysa / þvi eg kañ
ecke leysa þad.
7 Og * þetta var af gamallre tijd
(sidvane) i Israel um̃ lausn og um̃ skip
te/ ad stadfesta alla høndlan / þa ley-
ste eirn siñ skoo af/ og gaf sijnum nau-
unga / og þad var eirn vitnesburdur i
Israel. * 5. Mos. 25/ 9.
8 Og lausnar-madureñ sagde til
Boas: kaup þier þad/ og hañ droo siñ
skoo af.
9 Þa sagde Boas til þeirra ellstu/
og til alls foolksens: þier erud vitne i
dag/ ad eg hefe keypt allt þad/ sem̃ heyr
de EliMelech til / og allt þad / sem
heyrde ChilJon og Mahlon til / af
Naomi hende.
10 Og þar til feinged Ruth þa
Moabitisku / Mahlons hustru / mier
til eirnrar hustrur / til ad uppvekia
þess dauda nafn a hañs arfe / og ad
þess dauda nafn / skule ecke verda af-
mad fra hañs brædrum / og af hañs
stadar porte/ (þar til erud) þier vitne
i dag.
11 Og allt foolked/ þeir sem voru i
portenu/ og þeir ellstu/ sogdu: (vier
erum) vitne/ Drotteñ giefe sw kviña/
sw / þar kiemur i þitt hws / (meige
verda/) * sem Rachel og sem Lea/ hvør
iar bædar bygdu Israels hws/ og ver-
tu megtugur i Ephrata/ og nafnkuñ-
ugur i Bethlehem. * 1. Mos 29/ 32.
12 Og þitt hws vere eins sem Pe-
rez hws/ hvørn * Thamar fædde Ju-
da / af þvi sæde / sem Drotteñ mun
giefa þier / af þessare (ungu) kviñu.
* 1. Mos. 38/ 29.
13 So took Boas Ruth / og hun
vard honum til hustrur / og hañ gieck
iñ til heñar/ og Drotteñ * gaf heñe/
þad hun vard olett / og fædde eirn
son. * Ps. 127/ 3.
14 Þa sogdu kviñurnar til Na-
omi: blessadur sie Drotteñ / sem ecke
villde lata þig vanta eirn lausnar-
mañ i dag/ og hañs nafn verde prijsad
i Israel.
15 Og hañ mun vera til ad endur-
lijfga þijna sal / og ad vidhallda þiñe
elle / þvi þijn sonar kviña / sem þig
elskade / hefur fædt hañ / hun / sem er
þier betre eñ sio syner.
16 Og Naomi took barned / og
lagde þad i sitt skaut / og foostrade
þad upp.

17 Og grannkonurnar gafu honum eitt nafn / og søgdu : Naomi er føddur eirn sonur / og þær kølludu hans nafn Obed / han er Isai fader / sem er Davids fader.

18 Og þesser eru * Perez afkomendur: Perez ablade Nezron.

* 1. Mos. 46/ 12. etc. Matth. 1/ 3.

19 Og Nezron ablade Rams / og Ram ablade Amminadabs.

20 Og Amminadab ablade Naheson/z Naheson ablade Salma.

21 Og Salma ablade Boas / og Boas ablade Obeds.

22 Og Obed ablade Isai / og Isai * ablade Davids.

* 1. Sam. 16/ 20.

ENDER

a Ruths Book.

